# TRÚ OG ÞEKKING

## GÖMUL OG NÝ GUÐFRÆÐI

DEILAN UM BIBLÍUNA
OG
MÁLAFERLIN, SEM ÚT AF HENNI RISU
MEÐ VESTUR-ÍSLENDINGUM

EFTIR
FRIÐRIK J. BERGMANN



REYKJAVÍK
PRENTSMIÐJAN RÚN
1916

Tilgangurinn með bók þessa er sá einn að gera sem ljósasta grein helztu atriðanna, sem trúmálaumræðurnar með þjóð vorri hafa snúist um þau fimtán ár, sem af eru tuttugustu öldinni, og umbrotunum, sem þeim hafa orðið samferða. Víða er komið inn á sama svæðið og í bók *Jóns Helgasonar* prófessors: *Grundvöllurinn er Kristur,* enda er umtalsefnið hið sama í raun og veru. Í fyrstu hafði eg hugsað að nefna bókina: „Gömul og ný guðfræði", en breytti til þess, sem nú er, eftir að hún var mest öll færð í letur. Hugsanahreyfingin, sem bókin lýsir, er í öllum löndum í því fólgin að sameina þetta tvent: *trú og þekking,* og samþýða skilningi nútíðarbarnanna, og með það fyrir augum hefir heiti þetta verið valið, án þess að hin heimspekilega útlistan þessara hugtaka komi nokkuð til greina.

Þýðingu framburðar prestanna fyrir rétti hefi eg gert eftir hinni prentuðu réttarskýrslu, sem af lögmönnum er stytt og færð í beinan frásagnarstíl samkvæmt lögum Norður-Dakota-ríkis. Það handrit var all-lengi í höndum lögmanna sakaraðilja, er báru það saman við réttarskýrslu hraðritarans og leiðréttu alt eftir því sem þeim þótti ástæða til og dómarinn áleit réttast. Með því er fylsta trygging fengin fyrir, að alt sé rétt. Á stöku stað þar sem eitthvað var miður ljóst og skiljanlegt, bætti eg inn í úr skýrslu hraðritarans til skilningsauka. Hún er til óhögguð og vandlega geymd, svo hverjum er unt að bera saman, er sýnist.

Séra Jón Helgason hefir sýnt mér þá velvild að sjá um prófarkalestur. Þakka eg honum alla alúð, sem eg veit hann leggur við það verk og allar umbætur og leiðréttingar, sem hann kann að gera.

Winnipeg, í nóvember 1915.

*F. J. BERGMANN.*

# EFNI

# I

# GÖMUL GUÐFRÆÐI

---

1. **Rétt-trúnaðarhugtakið.** Í sögu kristinnar kirkju er rétt-trúnaðarhugtakið gamalt. Það er í rauninni eldra en kristin kirkja og upphaflega alls ekki við hana bundið. Þær trúarsetningar, sem mest fylgi hafa eignast, gengið hafa að erfðum og mesta hefðar-helgi unnið í hugum manna, hafa smám saman orðið að heilögu kenningarkerfi. Arfgengar trúsetningar (dogmur) hafa smátt og smátt öðlast viðurkenningu og álit fyrir að vera hin eina heilnæma kenning, hin eina sanna og hreina kenning. Að trúa henni samkvæmt er rétt-trúnaður (orthodoksi). Almenningsálitið verður þá: Rétt-trúaður maður verður hólpinn; honum er í andlegum efnum borgið. Því rétt-trúnaðurinn er hjálpræðisvegurinn, — leiðin til sáluhjálpar. En gjörist einstaklingurinn svo djarfur að víkja frá hinni hreinu kenningu í einu eða öðru, er honum voðinn vís; hann stofnar með því sálu sinni í voða. Sáluhólpinn getur enginn orðið nema sá, sem rétt-trúaður er. Í katólskri kirkju hefir þessi kenning fengið varanlegan búning í setningunni: Utan kirkjunnar engin sáluhjálp,*) sem verið hefir marg-endurtekin af kirkjuþingum og páfabréfum, þó naumast sé hún jafn-gömul og ætlað hefir verið.**) Og í áherslunni, sem mótmælendur hafa lagt á hreina kenningu, hefir ávalt sama hugsunin verið fólgin.

---

*) Extra ecclesiam nulla salus. **) Menn hafa eignað Cyprianusi kirkjuföður þessa setningu, en hjá honum mun hún hvergi koma fyrir. Frá kirkjuþingi í Flórens 1441 var sú samþykt látin út ganga af Evgeniusi páfa IV, sem á þýzku hljóðar svo: „Die hochheilige römische Kirche glaubt fest, bekent und predigt, dass keiner von denen welche sich nicht innerhalb der katholischen Kirche befinden, des ewigen Lebens

Hver frávikning frá kenningum játningarritanna hefir verið álitin sálarháski.*) — Í þessu sambandi er þá líka ósjaldan talað um barnatrú og hverjum manni gert að heilagri skyldu að halda sér dauðahaldi við hana. Barnatrúin er þær trúarhugmyndir, sem komast inn í hugann á barnsaldri, meðan maðurinn er þroskalaust barn, er við öllu tekur án þess að hugsa. Þótt fullþroska manni finnist, að flestar eða allar hugmyndir barnsáranna hafi verið næsta fáránlegar og fjarri sanni í öðrum efnum, er honum gert að skyldu að álíta þær trúarhugmyndir einar réttar, er inn komust hjá honum áður en hann öðlaðist nokkurn þroska og rígbinda sig við þær til dauðadags. Í öllum veraldlegum efnum á maðurinn að hugsa og læra, vaxa og þroskast og verða eins ólíkur barni og eikin er akarninu. En í trúarefnum má hann ekki hugsa; þar er honum ávalt ætlað að verða akarn, aldrei eik. — Rétt-trúnaðarhugtakið stendur því ávalt gegnt hugtökunum rangtrú og trúvilla. Rangtrú (heterodoksi), — eða réttara annarleg trú**) — er frávikning frá hinni viðurkendu kenningu einhvers kirkjufélags. Frá sjónarmiði þess rétt-trúaða kirkjufélags, hvort stórt er eða lítið, er öll slík frávikning rang-trú. En í hinu útlenda heiti felst enginn slíkur dómur. Það gefur miklu fremur í skyn, að við hlið hinnar kirkjulegu kenningar, sem almenna viðurkenningu hefir fengið, geti önnur átt rétt á sér og haft eins mikið sannleiksgildi. „Það svarar til þess skilnings í þessum efnum, sem smám saman hefir rutt sér til rúms í mótmælenda heiminum.“***) Trúvilla (hæresi)†) er eiginlega frá-

---

teilhaftig werden könne.“ Og Pius VIII. sagði í páfabrjefi frá 25. marz 1830: „Jede katholische Frau, welche einen Nichtkatholiken heiraten will, ist daran zu erinnern, dass Niemand ausserhalb der katholischen Kirche selig werden könne. Í allocutio frá 9. des. 1854 komst Pius IX. svo að orði: „Es ist im Glauben festzuhalten, dass ausserhalb der apostolisch römischen Kirche Niemand selig werden kann.“ Þó bindur rómverska kirkjan ekki þetta utan algerlega við takmörk sýnilegrar katólskrar kirkju.

*) Sbr. danska orðtækið: Sjælefordærvende Lære. **) Heterodoksi er myndað af *αἵτερος*, annar, og *δοξα*, skoðan og merkir þá að eins annarleg skoðan eða trú, án þess að fela í sér nokkurn dóm. Í enskum heimi hefir sú skilgreining orðið fræg, sem gerir grein mismunarins á þessa leið: Ortodoxí en mín doxí, en heterodoxí annara manna doxí. ***) Religion in Geschichte und Gegenwart, III, 3. †) Hæresi af gríska orðinu *αἱρεῖν*, að velja, *αἱρετικός*, sá, sem valið hefir. Sbr. § 123.

fall frá sjálfum kjarna trúarinnar, — að neita þeim hlutum, sem trúnni er eðlilegt að játa. Frá kristilegu sjónarmiði merkir trúvilla fráfall frá sjálfum kjarna fagnaðarerindisins, þótt það sé oft notað fyrir miklu minni sök sem eins konar ógnunartæki. Rétt-trúnaðurinn skoðar kenningakerfi sitt varanlega stærð, sem verið hefir frá upphafi og er ætlað að verða til daganna enda. Í almenningsálitinu að minsta kosti er rétt-trúnaðurinn oft sama sem sannleikurinn sjálfur. Menn ímynda sér þá, að mannkynið hafi eignast hann allan í einu, fengið hann eins og í einum forsigluðum bögli einhvern tíma í fornöld, og við hann sé ekkert annað að gera, en að gæta hans svo vel, að ekki glatist. Samkvæmt skilningi rétt-trúnaðarins er sannleikurinn í trúarefnum öldungis kyrrstæður (static) og trúmenskan við sannleikann í því fólgin, að sjá um að skoðanir aldrei þokist úr skorðum.

2. **Sannleikurinn ekki kyrrstæður.** En er menn virða fyrir sér og rekja sögu trúarhugmyndanna með þjóðunum, verður þess fljótt vart að þær standa aldrei algerlega í stað. Sannleikurinn í trúarefnum er ekki fremur kyrrstæður en sannleikurinn í nokkurum hlut öðrum. Hann er ekki eitthvað, sem birzt hefir eins og elding af himni eða gefinn hefir verið allur í einu sem guðleg fúlga, er mennirnir eiga að vaka yfir og geyma. Það sem vér nefnum sannleik, í trúarefnum eigi síður en í öllum öðrum efnum, er það sem vér vitum sannast og réttast á hverri stundu, fullkomnasta þekkingin, sem vér höfum eignast í bili. En þá þekkingu erum vér stöðugt að auka og leiðrétta. Vér tölum um opinberan, guðlega opinberan. Í hugtakinu opinberan felst það, að trúaðir menn álíta, að mannsandinn sé ekki aleinn að verki, sízt af öllu, þegar hann er að fjalla um hin æðstu efni, heldur sé andi hinnar æðstu veru, sem öll þessi furðulega tilvera er runnin frá, mannsandanum samstarfandi, örfandi, leiðbeinandi, gefandi. Um þessa opinberan hugsa menn ýmislega. Sumir hugsa sér hana kyrrstæða, gefna eitt skifti fyrir öll. „Það er sú skýring,*) að yfirnáttúrleg opinberan hafi verið gefin mannkyninu einhvern tíma á liðinni tíð, og haldi hún áfram einungis með áhrifum sínum. Dagsetningu þess, þegar

*) William Ralph Inge, professor í Cambridge: Faith and its Psychologi, 1910, bls. 96.

þessi fullvalda og óskeikula opinberun hófst, og þegar hún hætti, má fastsetja hve nær í tímanum sem mönnum sýnist, takmörkin eru algerlega af handahófi." Hin einstöku atriði trúarinnar hafa verið nefnd dogmur — trúarsetningar. Samkvæmt þessum skilningi eru dogmurnar, trúarsetningarnar, óbifanlegar og óbreytilegar.*) Þetta er yfirleitt skilningur gamallar guðfræði. En menn hafa á öllum öldum fundið sárt til þess, hve örðugt það er hér í þessum breytinganna heimi, að varðveita nokkurn hlut, án þess hann haggist. Fyrir því hefir líka verið leitast við að binda trúarsetningarnar í stuttum og einföldum trúarjátningum, er gilda hafa átt um aldur og æfi. En svo skilja menn játningarnar á ýmsa vegu og verða ósáttir um. „Eftir kirkjuþingið í Níkea 325 áttu margar kynslóðir í baráttu út af merkingu Níkeu-játningarinnar. Eftir dauða Lúters börðust lúterskir guðfræðingar í marga tugi ára út af þeim skilningi, er leggja ætti í Ágsborgarjátningu. Engin undur þó að vér, hundruðum og þúsundum ára síðar, getum verið í óvissu um, hvaða merkingu hinir ýmsu liðir játningarinnar höfðu."**) Vér verðum líka þess fyrirbrigðis hvarvetna varir, að hin hreina kenning er ekki ávalt eins, heldur tekur nokkurum stakkaskiftum eins og alt annað mannlegt. Allar játningar hafa samt það sameiginlega markmið, að leggja alla áherzlu á hreina trú. Þær verða til, henni til varðveizlu. Hugmyndin er ávalt sú, að binda trúarsannindin orðum, er jafnsönn megi reynast á öllum öldum.

3. **Gríska kirkjan katólska.** Ein kristin kirkjudeild einkennir sig rétt-trúnaðarheitinu; hún fléttar þá einkunn beint inn í nafn sitt. Það er gríska kirkjan katólska. Hún nefnir sig: Hin rétt-trúaða, austurlenzka kirkja. Síðan árið 842 heldur hún rétt-trúnaðarhátíð ár hvert fyrsta sunnudag í föstu til endurminningar um myndadýrkunar-deiluna, sem þá var til lykta leidd. Rétt-trúnaðar-hugmynd sína bindur hún við Níkeu-játninguna*** svo nefndu, sem hún gerir sér í hugarlund, að samin hafi verið og samþykt á kirkjuþingi í Níkea 325. Í raun og veru hefir sú játning til orðið á löngum tíma.

*) Dogma is unchangeable — immobilis et irreformabilis, s. st. 94.
**) Andreas Brandrud, professor í Kristianíu: Aandens Tjenere, ikke Bogstavens, 1907, bls. 14. ***) Sbr. Jón Helgason, prófessor: Almenn kristnisaga, 1912, I, 211 nn.

Fyrst á miðri 5. öld náði hún almennri viðurkenningu í austurlenzku kirkjunni. Á miðri 6. öld komst fyrst sá siður á, að hún væri lesin upp við hverja altarisgöngu (565). Gríska kirkjan katólska leggur alla áherzluna á þessa játningu um fram allar aðrar, leitast við að halda henni óbreyttri með öllu, og koma í veg fyrir, að trúarhugmyndirnar færist úr þeim skorðum, sem hún setur. Sú kirkjudeild virðist líka vera beint áframhald kirkjunnar eins og hún var á 8. öld. Hún hefir staðið í stað meira en nokkur deild kristinnar kirkju önnur. Í samanburði við hana er rómverska kirkjan katólska mikil framfara og breytinga kirkja. Hvergi hefir önnur eins áherzla verið lögð á rétt-trúnaðinn og þar. Hvergi reynt með öðrum eins heljartökum að láta gamla guðfræði halda áfram að vera gamla guðfræði um aldur og æfi. Og hvergi hefir mannsandinn verið jafn-kyrrstæður innan kristninnar og þar, bæði í trúarefnum og öðrum framfaramálum mannkynsins. Samt hefir hún engan veginn haldist óbreytt með öllu. Því það er mannsandanum ofurefli. Hugsanir nýrrar aldar knýja einnig þar fast að dyrum. Hver skyldi efast um það, sem lesið hefir Tolstoj og skáldin rússnesku yfirleitt?

4. **Rómverska kirkjan.** Rómverska kirkjan katólska leggur ekki nærri því jafn-sterka áherzlu á rétt-trúnaðinn og þessi austurlenzka systir hennar. Jafnvel á miðöldunum, þegar blómi hennar var hvað mestur og vald hennar óskorað, rígbatt hún aldrei skoðanir einstaklinganna eins við eina fjöl og austurlenzka kirkjan. Þrátt fyrir trúvillu-ofsóknirnar allar, gaf hún þó trúargrufli skólaspekinga og dultrúarmanna býsna lausan tauminn, þó það alls eigi gengi ávalt alt í sömu átt. Jafnvel með kenningunni um óskeikulleik páfans, sem henni er svo oft til foráttu fundin, hefir hún myndað sér nýjar dyr út úr játningakvínni. Öllum ætti að skiljast, að mannsandanum er þó ofurlítið meira svigrúm gefið, með því að skipa manni, sem fæddur er á sömu tíð og vér, á páfastól, og láta hann skera úr og segja til um, hvað sé sannleikur í hinum æðstu efnum, heldur en að fara eftir dauðum bókstaf, er fram hefir komið á löngu liðnum öldum. Óskeikull páfi er óskeikulli játningu mörgum sinnum fremri og heppilegri.

Samt sem áður er rómverska kirkjan katólska feikilega fast-

bundin við rétt-trúnaðinn. Andspænis kirkjunni hefir einstaklingurinn engan skoðanarétt í trúarefnum, ekkert hugsana eða samvizkufrelsi, nema af mjög skornum skamti eftir hugmyndum mótmælenda. Sú hefir raun á orðið, að páfinn einnig á vorum dögum, beitir valdi sínu í blindni til að styðja rétt-trúnaðinn en hnekkja öllu, er brýtur bág við hann. Þetta hefir eigi sízt orðið augljóst síðan Módernista-hreyfingin svo nefnda kom til sögu. Páfa-bréfið*) frá 8. sept. 1907 tekur af öll tvímæli. Í þriðja parti þessi er aðferðin fyrirskipuð, er fylgja skuli, til þess að koma í veg fyrir, að hinar nýju og frjálslyndu skoðanir fái frekari útbreiðslu. Hlífðarlaust skulu allir forstöðumenn og kennarar prestaskólanna settir af embætti, sem Módernistum hrósa eða afsaka, eru skólaspekinni andvígir, eða ganga sína eigin vegu í mannkynssögu, fornleifafræði, eða biblíufræðum. Bækur Módernista með öllu bannaðar. Prestafundum reistir allskonar erfiðleikar. Umsjónarmenn skipaðir í hverju umdæmi til að elta uppi og sprengja hverja Módernista-bólu, sem upp kann að koma.**)

Fórn skynseminnar (sacrificium intellectus) er ávalt hin mikla krafa katólskrar kirkju. Hún gerir kröfu til að vera álitin hin eina rétt-trúaða, katólska kirkja ekki síður en grísk-katólska kirkjan, en hvor um sig lokar þó hina úti frá öllu tilkalli til rétt-trúnaðarheitisins. Síðan á dögum gnóstíkanna og annara trúvillinga, sem kveðnir voru niður af katólskri kirkju, hefir einkunnin katólsk einnig falið í sér merkinguna rétt-trúuð.***) Hún gerir tilkall til beggja jöfnum höndum, og kannast eigi við neina kirkju aðra, sem eigi þau heiti skilið.

**5. Siðbótarkirkjan.** Þegar mótmælenda kirkjurnar komu til sögu, varð í raun og veru sama eftirsóknin eftir rétt-trúnaðarhnossinu uppi á tening með þeim. Þær tóku sér nýtt heiti og

---

*) Pascendi Dominici Gregis. Sbr. Paul Sabatier: Modernism, London 1908, þar sem bréfið er alt á ensku, bls. 230—346. **) Die Religion in Geschichte u. Gegenwart. Reformkatholicismus (Schnitzer) IV, 2124. ***) Sbr. Adolf Harnack: Lehrbuch der Dogmengeschichte, I, 407—408. „Die Betonung der Allgemeinheit der Kirche diente schon vor Irenaeus und Tertullian einen apologetischen Zweck; sofern die Allgemeinheit ein Beweis der Wahrheit ist, wird allgemein = rechtglaubig." Orðið katólskur merkir almennur, og á við um útbreiðslu kirkjunnar.

nefndust evangelískar, til aðgreiningar frá katólskri kirkju. Með því var við það átt, að þær einar ætti fagnaðarerindi Jesú í hreinni og ófalsaðri mynd, og að í því hefðu þær einar hina hreinu kenningu til sáluhjálpar. Katólska kirkjan reis því öndverð upp gegn þessu heiti, þar sem henni fanst það ónýta og gera að engu rétt-trúnaðarkröfu sína. Lúterska kirkjan tók þegar snemma að gera tilkall til þess, að vera hin eina rétt-trúaða kirkja í heimi. Eftir að hún hafði komið fram með játningu sína, einkum Ágsborgar-játningu, og gert þar grein trúar sinnar, gagnvart páfatrúarmönnum, fylgismönnum Kalvíns og vingltrúarflokkum þeirra tíma svo kölluðum, tók hún að heimta af öllum þeim, er þessa játningu tóku og tileinkuðu sér, sömu hlýðnina og páfakirkjan. Hún kom fram með sömu kröfuna um, að í trúarefnum ættu allir áhangendur hennar að fylgja í öllu nákvæmlega sömu skoðunum. Þetta var talið svo sjálfsagt og áríðandi, að beita varð til þess hinum sterkustu valdatækjum. Urðu það þá einkum lagaleg kenningarhöft og trúvillu-ofsóknir. En nákvæmlega þessum sömu valdatækjum hafði katólsk kirkja beitt frá fyrstu tímum til að brjóta niður alla mótspyrnu gegn rétt-trúnaði hennar. Eigi er hægt að segja, að sú alda sé eiginlega frá Lúter sjálfum runnin, þótt hann í þeim efnum eins og mörgum öðrum væri öðrum þræði barn sinnar tíðar. Hann var t. d. alt annað en ánægður með Ágsborgar-játninguna og það, að Melanchton hafði þar reynt að gera muninn milli Rómaborgar og Wittenberg eins lítinn og hann gat. „Satan lifir enn þá,“ sagði hann við Melanchton, „og hefir orðið þess var, að þessi trúvörn þín fer of varlega og hefir þagað um kenningarnar um hreinsunareldinn, dýrkun helgra manna og einkum um páfann sem antikrist.“*) Það eru miklar líkur til að meiningamunurinn milli þeirra Lúters og Melanchtons hafi verið öllu meiri en menn hafa gert sér í hugarlund. En valdi hefir Lúter þar aldrei reynt að beita né ofbeldi. Hann hafði eigin reynslu í fersku minni.

**6. Rétt-trúnaðaröldin.** Á siðbótartímanum sjálfum varð því kúgunartækjanna í trúarefnum ekki eins mikið vart og á því tímabili, sem þá fór í hönd, er trúarjátningarnar voru allar

---

*) De Wette, Luthers Briefe, IV, 110. Sbr. § 117 neðanmáls.

fram komnar. Það tímabil hefst þegar á 16. öld ofanverðri og nær yfir 17. öldina. Þetta tímabil er rétt-nefnt rétt-trúnaðartímabil. Hin hreina kenning var þá hugtak, sem gnæfði langt upp yfir öll önnur í trúarheimi mótmælenda. Játningarnar voru hafðar í álíka hávegum og páfinn í katólskri kirkju, og allir þeir, er svo djarfir gerðust, að koma fram með skoðanir, er brutu bág við ákvæði játninganna, urðu fyrir vægðarlausum áfellisdómum. Á svæði trúarbragðanna var álitið, að síðasta orð hefði verið talað. Um nokkurar umbætur eða framþróan gat þar ekki verið að ræða. Í trúarefnum var sjálfsagt að ganga í helgan stein. Ætlunarverkið hafði alt verið unnið af siðbótarmönnum. Játningunum var gert jafn-hátt undir höfði og biblíunni og „orð Lúters álitin guðlega innblásin“,*) en dómurinn ávalt feldur eftir aðal-játningum lútersku kirkjunnar. Hið sama átti sér stað í reformeruðu eða endurbættu kirkjunum. Þar bar nafn Kalvíns ægishjálm yfir öllum nöfnum öðrum og sama einhliða áherzla var þar lögð á játningarnar, sem þar voru fleiri, en að efni til líkar hver annari. Þessi öfuga rétt-trúnaðar-hugsjón seytjándu aldar er eitt af hinum allra-ömurlegustu fyrirbrigðum, er saga mannsandans kann að nefna. Lá mjög nærri með, að hún gerði að engu og gereyddi hinu frjálsmannlega starfi siðbótarinnar, að afokan mannsandans.

7. **Heittrú og upplýsing.** Rétt-trúnaðaralda þessi rann yfir löndin eins og einhver myrkviðris-bylgja, er öllum huldi sýn, og menn sáu ekki í neinu handa sinna skil fyrir, meðan hún grúfði yfir. En á sínum tíma komu nýjar breytingar fram, sem nokkuð takmörkuðu vald rétt-trúnaðarins yfir hugum manna. Voru það einkum hreyfingin, sem pietistarnir, eða heittrúarmennirnir, vöktu á 18. öld og upplýsingaröldin. Frá þeim tíma hefir rétt-trúnaðurinn aldrei verið einvaldur, en heldur aldrei slept tökum á hugum manna fram á þenna síðasta mannsaldur. Hann hefir orðið að láta sér lynda, að heittrúin og skynsemi-trúin hafa kepst um völdin með honum. Fram á vora daga hefir hann í raun og veru verið lang-sterkasta stefnan innan kirkjunnar. Þegar skynsemi-trúin hélt inn-

---

*) Religion in Geschichte u. Gegenwart, IV, 1054.

reið sína til vor, hjálpuðu valdatækin ekkert, þó mikill grúi væri þá til af þeim. Aftur voru þessi ytri valdatæki ekki fyrir hendi, þegar menn ráku skynsemi-trúna aftur af höndum sér. Eg spyr sjálfan mig: Skyldi ekki öll þessi ytri valdatæki hafa bætt einni ástæðu við fyrir því að skynsemi-trúin fékk fótfestu? Skyldi eigi skorturinn á ytri valdatækjum hafa stutt að því, að skynsemi-trúin var buguð? Því hin ytri valdatæki lama andlega heilbrigði og mátt trúarinnar. Aftur má oft og tíðum nota þau til þess með góðum árangri, „að halda því við sem er, jafnvel þó að það sé öldungis ósatt.“ *)

Hið trúarlega hugsanakerfi, sem vér Íslendingar erum fæddir inn í og höfum tekið að erfðum frá forfeðrum vorum, er kenningakerfi rétt-trúnaðarins. Vér eignuðumst það á þeirri öld, er trúin náði yfirleitt traustustum tökum á huga þjóðar vorrar. Hallgrímur Pétursson söng það inn í huga hennar með hinum ágætu sálmum sínum, þar sem rétt-trúnaður og trúarhiti fallast í faðma. Jón meistari Vídalín flutti þenna rétttrúnað með frábærri mælsku og furðulegri biblíuþekkingu. Svo má að orði komast, að öll vor andlegu ljóð, sálmar og guðsorðabækur vefji sig utan um rétt-trúnaðarkerfi kirkjunnar, eins og prýðilegur vafningsviður. Það er engin furða, þó oss sé þetta rétt-trúnaðarkerfi kært og vér berum mikla lotningu fyrir hugsanaheimi þess.

**8. Trú og trúfræði sitt hvað.** Hafa verður ávalt hugfast, að t r ú og t r ú f r æ ð i er sitt hvað. Það er ætlunarverk vorrar aldar að skilja þetta tvent að í hugum manna, sem hingað til hefir fléttast saman og valdið ruglingi svo undur-miklum. Trúin er varanleg stærð eftir eðli sínu. En trúfræðin eða guðfræðin hefir tekið sífeldum stakkaskiftum frá því í fyrstu kristni og fram á þenna dag. Trúin, eða traustið, í mannshjartanu til ósýnilegrar og almáttugrar veru, hefir ávalt eftir eðli sínu verið hið sama. Það var herfilegur misskilningur rétttrúnaðarmanna 17. aldar, að þeir ætluðu sér þá dul, að finna hugmyndum trúarinnar svo fullkominn búning, að hann fullnægði öllum öldum. Og það er herfilegur misskilningur af hálfu rétt-trúnaðarins nú á dögum að álíta, að seytjándu-aldar

---

*) S. Michelet, prófessor: Aandens tjenere, bls. 129—130.

guðfræðin sé það lífsakkeri kristindómsins, sem honum sé ætlað að vera hlekkjuðum við um aldur og æfi. Sú guðfræði er nú orðin ellihrum og hugsunarhætti nútíðarmanna svo ógeðfeld, að svo má að orði komast, að allur megin þorri mentaðra manna um kristinn heim hafi algerlega snúið við henni bakinu. „Sú guðfræði, sem er ákveðin í að binda kristna trú við þann búning, er hún var leidd fram fyrir heiminn í á sérstökum tímabilum, er guðfræði, sem skuldbindur sig til að halda við lýði heimsmyndunarhugmyndum og heimspeki frá fornöld heimsins og miðöldum. Það er nóg að nefna slíkt ætlunarverk á nafn til þess að sýna, hve ómögulegt það er. Vér getum ekki horfið aftur til umbúðanna, sem fornöld og miðaldir heimsins sniðu hugmyndum sínum um náttúruna og veruleikann. Það sem vér verðum að gera, ef vér viljum þjóna kirkju vorra tíma, er að afklæða hin eilífu sannindi trúarinnar, sem liðni tíminn hefir afhent oss, þeim tímabundnu umbúðum, sem þau eru vafin í.“*)

9. **Gömul guðfræði með Íslendingum.** Með þjóð vorri er nú gamalli guðfræði í þessum skilningi haldið fram á Íslandi af erindrekum heimatrúboðsins danska í málgagni þess Bjarma, og af nokkurum prestum þjóðkirkjunnar. Vestan hafs er þessari guðfræði haldið fram af miklu kappi af kirkjufélaginu vestur-íslenzka, eins og líf lægi við. Þeir, sem því vilja kynnast, hvað gömul guðfræði ber í skauti sínu, gera vel í að kynna sér framburð guðfræðinganna, sem báru fyrir rétti sem vitni af hálfu kirkjufélagsins í málaferlum þeim, er risu út af deilunni um biblíuna vestan hafs. Hann er prentaður í bók þessari til fróðleiks og leiðbeiningar. Skoðanirnar hafa komið þar skýrt og greinilega fram, eins og hlaut að verða fyrir rétti, svo betra er að átta sig á þeim en ella. Auk kirkjufélagsprestanna bera þar vitni norskir prestar og einn þýzkur. Alt ber að sama brunni. Maður er skyldugur til að trúa hverju orði ritningarinnar bókstaflega, — skyldugur til að trúa því, að heimurinn sé skapaður á sex sólarhringum, 24 klukkustunda löngum. „Það er líka nauðsynlegt að trúa sögunni um Nóa og örkina og gera sér grein tungumála-blendingsins í heiminum

---

*) Paul Lobstein, prófessor í Strassburg: Die Lehre von der uebernat. Geburt Christi, e. útg. 1903, bls. 14—15.

á þann hátt sem gert er í sögunni um Babel-turn, og sögu 1. Mósesbókar um sköpun jarðarinnar á sex dögum, og að trúa sögunni um hvalinn, sem svalg Jónas.“ .... „Samkvæmt kenningunni um plenary-innblástur hefir einstaklingurinn engan rétt til að hafna neinu af þessu. Hver ritningarstaður er þar samkvæmt vilja hans (guðs) og tilgangi .... Dómgreind einstaklingsins er ekkert svigrúm gefið til að velja og hafna í biblíunni, og það er ekkert svigrúm gefið dómgreind einstaklingsins við að ákveða, hverju skuli trúa eða ekki trúa.“*) Öllum ber þeim saman um, að játningarnar séu lagabönd. Það er gömul guðfræði í algleymingi, — 17. aldar guðfræði í eins fullkomnu ásigkomulagi og hægt er að vernda nokkurn forngrip um svo langan aldur. Það er fjarska mikils um það vert að fá fullkominn og glöggan skilning á því, sem haldið er að þjóðinni í trúarefnum. Og eftir þetta er eigi unt um það að þrefa, hverju gömul guðfræði heldur fram. Hún sagði það sjálf, að unnum eiði, frammi fyrir dómstólum einnar stærstu mentaþjóðar heimsins. Ef til vill skilja almennir lesendur bezt við hvað er átt, er talað er um gamla guðfræði, þegar sagt er: Það er sú tegund guðfræði, sem flutt er af trúboðinu danska á Íslandi og kirkjufélaginu vestur-íslenzka í málgögnum þeirra Bjarma og Sameiningunni.

Sterkasta vígi gamallar guðfræði hefir ávalt verið kenningin um bókstafsinnblástur bibliunnar. Það er sú kenning, að hvert orð beri að skoða sem talað af himnum ofan og að hver véfenging þess sé uppreist gegn guði og sannleikanum. Biblían sé óskeikul og henni verði hver maður skilyrðislaust að lúta.

---

*) Orð Kristins K. Ólafssonar (sbr. „Framburður prestanna fyrir rétti“ síðar í þessu riti).

## II

# NÚTÍMA-GUÐFRÆÐIN

**10. Ný guðfræði á öllum öldum.** Það er vanþekking á býsna háu stigi, að halda því fram, að aldrei hafi verið talað um nýja guðfræði fyr en á vorum dögum. Á dögum nýja testamentisins var guðfræði Fariseanna gömul guðfræði og guðfræði Páls postula ný guðfræði. Þegar á ofanverðum dögum skólaspekinnar var alment talað um nýja guðfræði. Á 14. öld hefst, eins og kunnugt er, hin svonefnda fornmenta-stefna (humanisme), er hrindir af stað einhverri hinni merkustu hreyfingu í sögu mannsandans, endurfæðingar- (renaissance-) hreyfingunni svonefndu, sem mótar alla 15. öldina. Það vakningar-tímabil í listum og vísindum undirbýr á marga vegu hina voldugu siðabótarhreyfingu, sem orðið hefir heimsmenningunni svo auðug og varanleg uppspretta allskonar framfara. Um það leyti sem efasemdir um gildi skólaspekinnar tóku að hreyfa sér og nóminalistarnir*) svo nefndu hófu andmæli sín gegn valdi páfadómsins, og allri rétt-trúnaðarguðfræði miðaldanna, þegar á 14. öld, var kenning þeirra nefnd nýja guðfræðin (via moderna), en þeir sjálfir ný-guðfræðingar (moderni). Átti það ekki sízt við um Englendinginn William Occam (d. 1349), sem gerði greinarmun furðu-glöggan milli trúar og vísinda og lagði í því efni grundvöll að skoðunum nútímans. Þá var guðfræði Ágústínuss kirkjuföður um leið orðin gömul guðfræði (via antiqua) og nefnd svo hvað eftir annað til aðgreiningar frá hinni nýrri. Áttu hugmyndir

*) Sbr. Adolf Harnack: Lehrbuch der Dogmengeschichte, 4. III, 477 n. og víða.

Occams töluverðan þátt í að opna augu Lúters. Hver guðfræði, sem hefir eitthvað nýtt til brunns að bera, getur kallast ný guðfræði. Í þeim skilningi var guðfræði siðbótarmannanna ný guðfræði, gagnvart rétt-trúnaðar guðfræði katólskrar kirkju. Og guðfræðistefna heittrúarmanna (pietista) á 18. öld ný guðfræði gagnvart hinni lútersku og reformeruðu rétt-trúnaðar-guðfræði 17. aldar.

11. **Nafnið hvorki lof né last.** Það er nú heil öld liðin síðan farið var að tákna þá hreyfingu á svæði guðfræðinnar, sem nú er ráðandi í mentalöndum mótmælenda heimsins með útlenda orðinu moderne — nútíma-guðfræði. Á voru máli merkir orðið moderne (e. modern) nýr, það sem tilheyrir þeim tímum, sem vér lifum á, til aðgreiningar því, sem ber með sér einkenni fyrri tíma, er framkomið fyrir andlega starfsemi, sem þá átti sér stað, og vér höfum þess vegna eins og tekið að erfðum. Vér getum talað um nýja guðfræði vorrar aldar, eða guðfræði nútímans, og eigum þá við þann skilning í guðfræðilegum efnum, er fram hefir komið á þeim tímum, sem vér erum uppi á. Í einkunnarorðinu nýr liggur í rauninni hvorki lof né last. Hið nýja getur verið gott og það getur líka verið ilt, eða eitthvað sem lítið varanlegt gildi hefir. Sagan kveður ávalt upp úrslitadóm um það. Ósjaldan hefir verið reynt að nota heitið ný-guðfræði sem lastyrði af þeim, sem andvígir eru öllu nýju á því svæði, og gefa í skyn eða segja blátt áfram, að það sé sama sem nýtízkuguðfræði. Þeir sem henni fylgi, geri það að eins af hégómahvötum, til að elta uppi tízkuna. Alvaran og dugnaðurinn, en um fram alt sannleiksástin, sem einkent hefir og einkennir þann dag í dag alla ágætustu guðfræðinga hinnar nýju stefnu, ætti að vera nægileg vörn gegn slíkum áburði og getsökum. Kærleikurinn til sannleikans hefir aldrei einkent neina stefnu, sem fram hefir komið í guðfræðinni, betur en þessa. Svo mikið er óhætt að segja. Í því eru yfirburðir hennar fólgnir.

12. **Við hvað nafnið er látið eiga.** Fyrst kom ef til vill nafnið upp á Hollandi í sambandi við kenningar guðfræðingsins Scholten (1811—1885), sem telja má frumherja þeirrar guðfræðilegu starfsemi, sem uppi hefir verið á tening

með Hollendingum. Hann var þá einn hinn helzti í hóp þeirra, sem beittu sögulegri gagnrýni í sambandi við biblíuna, og lét sér vera það áhugamál, að knýja fram nýja og kristilegri lífsskoðun. Á Þýzkalandi hefir þetta heiti verið notað síðan á hans dögum, til að tákna hina nýju stefnu, til aðgreiningar frá rétt-trúnaðarstefnunni, er alt vill binda og hnitmiða við guðfræði játningarritanna. Síðan á fyrstu áratugum 19. aldar hefir þar verið stór hópur guðfræðinga, er stranglega hafa gagnrýnt biblíuna og kenningarkerfi kirkjunnar. Aldan er runnin frá hinum fræga guðfræðing Þýzkalands Schleiermacher (1768—1834) öllum fremur. En í þessari hundrað ára hreyfingu er vitaskuld ekki alt felt við eina fjöl. Þegar talað er um nýja guðfræði eða guðfræði nútímans, kunna sumir að eiga við þá guðfræði, er lituð var hugsjáspeki heimspekinganna þýzku, á fyrri hluta 19. aldar, þeirra Hegels, Schellings og Fichte (spekulativ guðfræði). Eða menn kunna að eiga við þá guðfræði, sem kend er við guðfræðinginn Baur og Tübingen-skólann svo nefnda, einkum þeir, sem benda vilja á syndir nýrrar guðfræði. Oftast eiga menn þó við guðfræði Albrechts Ritschl (d. 1889) og fylgismanna hans. Um hann segir R. Seeberg, prófessor í Berlín, að sá tími sé ekki fjarlægur, að til hans verði vitnað af andstæðingum jafnvel, í einstökum atriðum, sem sannleiksvottarins.*) Eða menn kunna að eiga við Adolf Harnack og hans guðfræði. Hann er af flestum talinn öndvegishöldur stefnunnar á Þýzkalandi eins og stendur. En eiginlega á nafnið ekki við neinn einstakan mann, heldur við alla þá stefnu vísindalegrar guðfræði nútímans, þar sem rannsókn biblíunnar hefir verið lögð til grundvallar, — rannsókn, sem er öldungis óháð trúfræði-setningum liðinna alda.

13. **Í enskum heimi.** Á Englandi og í Ameríku hefir stefnan rutt sér til rúms í öllum heldri kirkjudeildum ensku-mælandi manna. Það má svo að orði komast, að alt, sem út kemur af vísindalegri guðfræði í Norðurálfunni og Ameríku nú um langan tíma heyri þessari stefnu til. Lundúnapresturinn Reginald John Campbell (f. 1867) gaf út bók, er hann

---

*) Religion in Geschichte u. Gegenwart IV, 421.

nefndi New Theology síðast á árinu 1906, þar sem hann leggur fram aðaldrættina í hinni nýju guðfræðistefnu og mælir fastlega fram með. Þeim, sem aldrei höfðu áður heyrt um nýja guðfræði getið, hættir oft við að bendla alla nýja guðfræði við nafn Campbells, og álíta að hún sé frá þessum eina manni runnin og þessari bók hans, sem vitaskuld er hin mesta fjarstæða. Bókin er að mörgu leyti ágæt og höfundinum hepnast oft mæta vel að gera málstað sinn ljósan og tilgreina góð og gild rök fyrir honum. Hann gerir það oft á mjög einkennilegan hátt, svo ekki gleymist þeim létt, er les. En hann fer oft nokkuð hörðum höndum um eldri skoðanir og talar stundum í stuttu máli um stór efni, svo orð hans hafa þess vegna oft og einatt verið misskilin. Samt hefir það helzt verið af þeim mönnum, sem verið hafa skoðunum hans andvígir, og hafa af þeim ástæðum haft meiri tilhneigingu til að misskilja en skilja. Oft og einatt hefir verið til þess reynt að gera nýja guðfræði tortryggilega í augum Íslendinga með innvitnunum í bók Campbells. En til þess er engin ástæða, því bæði er vanalega hægt að finna orðum hans góðan stað, og svo eru þau líka að eins orð einstaks manns og ekkert annað, sem hreyfingin sjálf ber enga ábyrgð á. Enda er Campbell trúmaður svo heitur og innilegur sem bezt má verða og hefir unnið kristninni stórmikið gagn sem rithöfundur og prédikari. Er óhætt að telja hann einn hinn ágætasta prédikara, sem nú er uppi í kristninni.

14. **Skilgreining nýrrar guðfræði.** Á Þýzkalandi hefir hver guðfræðingurinn á fætur öðrum leitast við að ákveða sem nákvæmast, hvað það er, sem þetta heiti er látið tákna. Theodor Kaftan tekur skýrt fram, að hlutverkið sé fólgið í setningunni: Ný guðfræði hinnar gömlu trúar.*) Eða með öðrum orðum: Það sé í því fólgið að sníða hinum gömlu trúarhugmyndum kristindómsins hæfilegan nútímabúning, er sé í samræmi við þekkingu og hugsanalíf vorrar aldar. Annar þýzkur guðfræðingur, prófessor Seeberg, vill einkenna stefnuna með tveim lýsingarorðum og talar um nýja og jákvæða guðfræði.**) Yfirleitt ætti það að vera einkenni kristinna manna, að skoða það ávalt heilaga

---

*) Neue Theologi des alten Glaubens. **) Modern-posetiv Theologi.

skyldu, að loka huga sínum aldrei fyrir neinni nýrri þekkingu og gleðjast yfir hverju framfaraspori, sem stigið er. Hitt er engum kristnum manni eða sannleikselskum samboðið, að fylgja hinu nýja, vegna þess það er nýtt, gagnrýnilaust og í blindni. Hugurinn verður fyrst að hafa sannfærst um ágæti þess og yfirburði. Enda mun fáum í raun og veru til hugar koma að fylgja tízkunni í þeim efnum. Það ámæli er að eins notað sem hentugt vopn og tortryggingar-tæki. En hugsanalífi vorrar aldar er hverjum manni sjálfsagt að lifa, og engum hneisulaust að þekkja það ekki og einangra sig með vitund og vilja frá því. Tertúllian kirkjufaðir gaf í þessu efni eins og svo mörgum öðrum góða bendingu: „Kristur sagði um sjálfan sig: Eg er sannleikurinn, en ekki: Eg er venjan eða erfikenningin.“

Ný guðfræði ætlar sér ekki þá dul að sníða trúarhugmyndunum þann búning, er vara megi um aldur og æfi, heldur þann, er bezt geti verið nútíðarbörnunum og þekkingu þeirra við hæfi, svo ekki þurfi þau að lítilsvirða sannleikann, eða snúa við honum baki, eins og gömlum Jóns-bókar-lestri, vegna gamaldags og fáránlegra fata, er hann sé færður í. Seeberg sá, er áður var nefndur, heimtar „að gömul sannindi sé kend með nýjum hætti.“*) Er hann þó talinn í hóp íhaldsamra nýguðfræðinga. Þeim Kaftan og Beth kemur saman um, að hér sé áherzluatriðið það, að koma til leiðar „samþýðing Kriststrúar allra alda og andlegs lífs vorra tíma.“**) Bendir hinn síðarnefndi á tvær aðalstefnur í andlegu lífi nútímans: Annars vegar það, að sjálfsforræði einstaklingsins (autonomi) sé viðurkend, hins vegar að staðreyndum (fakta) sé gaumur gefinn. Enskur guðfræðingur, prófessor Sanday, kemst svo að orði: „Vér viljum varðveita trú vora; en vér viljum líka sjá hlutina eins og þeir eru í raun og veru.“***) Öllum kemur saman um, að fyrsta skilyrði fyrir því, að guðfræðin finni nokkurt bergmál í almenningsvitundinni nú á dögum sé það, að hætt sé við að lesa biblíuna sem ósjálfrátt innblásna bók og

---

*) „Neue Weise alte Wahrheit zu lehren,“ dass eine „moderne positive Theologie“ eine der dringendsten Bedürfnisse der Kirche sei. **) „Vermaelung des ungebrochenen Christusglaubens mit dem Geistesleben unserer Zeit.“ ***) W. Sanday: The Criticism of the fourth Gospel, Oxford 1915, bls. 47 n.

meta gildi hennar eftir því. Guðfræðin má til með að vera trúuð guðfræði, vegna þess að hún skoðar kristin trúarbrögð samkvæmt sögulegri opinberan þeirra eins og óraskanlega stærð, þar sem kristindómurinn er trúarbrögð, sem fram eru komin við hina undursamlegu opinberan guðs í Jesú Kristi. Trúarsannindin eru þar öll framboðin. Þau bera í sér frumdrætti réttrar heimsskoðunar. Þau mynda með öðum orðum kjarna þeirrar lífsskoðunar, sem er sannleikanum samkvæm, og aldrei leiðir afvega.

Að öðru leyti vil eg benda á þá skilgreining á stefnu nýrrar guðfræði, sem Jón prófessor Helgason gaf í hinum ágætu trúmálahugleiðingum sínum, sem nú eru út komnar í bókarformi. Þar er farið yfir sama efnið og hér er gert og því svarað, hvað ný guðfræði sé á þessa leið: „Nýja guðfræðin er vísindaleg hugstefna á sviði trúmálanna um allan hinn kristna heim, er

„1. heimtar fullkomið hugsanafrelsi, að því er trúmál snertir, og rannsóknarfrelsi, ótakmarkað af sérhverju tilliti til rannsóknar úrslita eldri tíma,

„2. fylgir í öllu viðurkendum hugsanareglum vorra tíma vísinda án þess hins vegar að loka augunum fyrir takmörkunum mannsandans og ófullkomleik mannlegrar þekkingar á þeim efnum, sem liggja fyrir utan skynheim mannsins, og er

„3. ávalt boðin og búin til að viðurkenna staðreyndir, sem í ljós koma, og taka tillit til þeirra, hve mjög sem þær kunna að ríða í bág við það, sem áður hefir verið álitið satt og rétt.“*)

**15. Biblían í ljósi nýrrar guðfræði.** Þegar vér förum að gera oss grein þess, hvað nýtt svo nefnd ný guðfræði hafi til brunns að bera gagnvart rétt-trúnaðar guðfræðinni gömlu, verður skoðan nútímans á biblíunni ávalt fyrsta atriðið. Samkvæmt hinni eldri skoðan, var biblían spjaldanna á milli guðlegt orð, talað af himnum ofan á yfirnáttúrlegan hátt. Guðlegt gildi biblíu-orðsins var svo mikið, að þegar finna mátti einhverri staðhæfingu ofurlitla átyllu í ummælum biblíunnar, var sjálfsagt að beygja sig fyrir þeim, hvort sem þau ummæli voru frá elztu tímum gamla testamentisins, eða þau stóðu í nýja testamentinu. Þrenningarlærdómurinn var meðal annars sannaður

*) Jón Helgason: Grundvöllurinn er Kristur. Trúmálahugleiðingar frá ný-guðfræðilegu sjónarmiði. Rvk 1915, bls. 34.

með þeim stöðum gamla testamentisins, þar sem guðdómurinn er látinn tala um sjálfan sig í fleirtölu, eins og t. d.: Vér viljum gera manninn eftir vorri mynd (1. Mós. 1,26). — Sjá, maðurinn er orðinn sem einn af oss (3,22). — Gott og vel, stígum niður og ruglum tungumál þeirra (11,7.). — Eða orðin hjá Jesaja: Heilagur, heilagur, heilagur er drottinn hersveitanna (Jes. 6,3.), — Hvern skal eg senda, hver vill vera erindreki vor (6,8). — Jafnvel í fyrsta versi fyrstu Mósebókar þóttust guðfræðingarnir finna dýpstu leyndardóma kristinnar trúar, eins og þrenningarlærdóminn og hluttöku sonarins í sköpunarathöfninni.*) Og alt eftir þessu. Alt biblíuorðið var álitið nokkurn veginn jafn-heilagt. Guðsþekking g. t. nokkurn veginn jafn-gild þeirri guðsþekkingu, sem n. t. hefir meðferðis.

Gagnvart þessari skoðan heldur guðfræði nútímans því fram að unt sé að rekja þroskaferil trúarinnar í biblíunni. Guðsþekking mannanna hafi verið sama þroskalögmáli háð eins og alt annað. Fleirtalan í sambandi við guðdóminn í g. t. bendi alls ekki á þrenningarlærdóminn, sem fráleitt sé að ætla að nokkur á þeim tímum hafi haft hugmynd um, eigi sízt þar sem eigi er unt að sýna, að nýja testamentið sjálft hafi nokkura slíka kenningu meðferðis. Miklu fremur bendi hún einmitt á frumlegar fleirgyðishugmyndir, sem eingyðistrúin óx smám saman upp úr og varp af sér. Með öðrum orðum: biblíuna verði að lesa í ljósi sögunnar. Orð hennar sé alls eigi hafin upp yfir sögulega gagnrýni fremur en hvert sem helzt annað orð. Hið sögulega sjónarmið sé ávalt lykillinn að réttum skilningi hennar. Ritninguna beri að lesa og skoða eins og hverjar aðrar forn-bókmentir. Einungis þegar það sé gert, komist menn að gildi hennar og ágæti. Með tilliti til efnisins í biblíunni og að hve miklu leyti hún er nútíðarmanninum orð guðs, gildir það sem vel hefir verið tekið fram af einum hinum allra-helzta ný-guðfræðingi með Norðmönnum: „Guðs orð er það af biblíunni, sem hljómar eins og „guðs ræða“ í vorum innra manni. Það er frelsissannindin, sáluhjálparvegurinn í biblíunni, — Kristur í verki sínu.“**)

---

*) *Εν αρχη* (= ἐν τῷ υἱῷ) *εποιησεν*. **) Johannes Ording, professor: For og imod kirken, Aandens tjenere, bls. 97.

**16. Trúarlærdómarnir í ljósi nýrrar guðfræði.** Í sambandi við friðþægingarlærdóminn vísar guðfræði nútímans hugmyndinni um reiðan guð, sem blíðka varð með dauða sonarins, algerlega á bug. „Ímyndunarkreddan um reiðan guð er lang-hræðilegustu leifarnar meðal vor frá fyrstu heiðni.“*) Hún sýnir fram á, að allur sá skilningur á æfistarfi Jesú, sem heldur því fram, að krossdauðinn hafi komið til leiðar nokkurri hugarfarsbreytingu hjá guðdóminum, hljóti að vera langt frá hinu sanna og varpi skugga á guðshugmyndina sjálfa. Hún hafnar kenningunni um hin tvö eðli Krists og sýnir fram á, að hún hafi fram komið fyrir áhrif grískrar heimspeki. Sömuleiðis álítur hún, að þrenningarlærdómurinn í þeirri mynd, sem rétttrúnaðar guðfræðin hélt honum fram, sé árangur af starfi heimspekilegrar hugsunar, sem eigi beri að leggja nærri því eins mikla áherzlu á og gert hefir verið. En sannleikskjarnanum beri að halda föstum og hann sé þessi: „Guð í Kristi og fyrir anda Krists í oss.“**) Þessi sannleikskjarni verður þeim mun dýrmætari, sem hann er öllum margfalt skiljanlegri en gamla umsögnin þríeinn, er skýra átti hið óskiljanlega eðli guðs, þegar vér hugsum um hann og gerum oss grein fyrir honum.

**17. Kraftaverka-trúin og ný guðfræði.** Í huga kristinna nútíðarmanna hefir kraftaverka-trúin einnig ummyndast. Gamla guðfræðin hugsaði sér guðdóminn fyrir utan heiminn og ofan (transcendent). Ný guðfræði heldur þeirri hugsun fastri, en leggur um leið áherzlu á íbúð guðs í heiminum (immanence). Hin eldri skoðan áleit hvert kraftaverk brot á náttúrulögmálinu, af því að samkvæmt henni var guð fyrir ofan heiminn og utan. Nútíðarskoðanin sýnir fram á, að það sé óhæfa að hugsa sér, að guð hafi engin önnur ráð en að brjóta eigið lögmál sitt. En vegna íbúðar sinnar í heiminum sé hann starfandi innan að og beiti lögum náttúrunnar til að framkvæma fyrirætlanir sínar. Hún neitar alls ekki svo-nefndum

*) „The fiction of an angry God is the most awful survival amongst us of primitive paganism“. Edward Caldwell Moore, Harvard: An Outline of the History of Christian Thought since Kant. New-York 1912, bls. 108. **) Dr. Kalweit: Gott in Christus und durch Christi Geist in uns. Religion in Geschichte u. Gegenwart II, 150.

kraftaverkum, eins og henni svo oft er borið á brýn. Þau eru henni eðlileg afleiðing þess, að guðdómurinn er hafinn yfir heiminn og er óendanlega mikið stærri en hann, um leið og hann hefir íbúð sína í heiminum. Þeir, sem kraftaverkum neita, trúa annaðhvort ekki tilveru guðs, eða þeir eru algyðistrúar og hugsa sér guð lokaðan inni í sköpunarverkinu.*) Kraftaverka-trúin verður einungis lifandi í huga þess, er sjálfur hefir fengið reynslu fyrir kraftaverkinu í eigin lífi sínu. Sú reynsla kemur fram við nútíðarmanninn eigi síður en þá, er uppi voru á fyrri tímum. Ný guðfræði hafnar því alls ekki kraftaverkatrúnni, þótt hún láti sér alls ekki til hugar koma að binda samvizkum manna þá byrði að heimta, að öllu, sem talið hefir verið til kraftaverka, sé trúað. En hún færir kraftaverka-trúna í nýjan búning og guðshugmyndinni samboðinn. Í huga nútíðarmannsins verður guðshugmyndin ekki göfugri né guðstrúin fullkomnari, þó vér trúum því, að Sara hafi alið son, er hún var níutíu ára gömul (1. Mós. 17,17; 18,11; 21,2 n.), eða að stafur Arons hafi laufgast, borið blóm og ávöxtu (4. Mós. 17), eða stafur Móse hafi snúist í höggorm, — kraftaverk, sem töframenn Egipta létu sér líka hepnast að gera (2. Mós. 4,3) —, eða asna Bileams talað (4. Mós. 22), eða sólin staðið kyr (Jós. 10), eða að drottinn hafi látið skuggann á sólvísi Akasar færast aftur um tíu stig (2. Kon. 20,11) eða járnöxina fljóta (2. Kon. 6,7). Einmitt þessari kraftaverka-trú sjáum vér á nýja testamentinu, að Jesú hefir verið fráhverfur. Það eru andlegu kraftaverkin, sem fram við manninn koma, trú, endurfæðing, hlýðni, sem í huga hans eru aðal-kraftaverkin.

Í sambandi við kraftaverka-trúna í hinni nýju mynd hennar stendur það, að minni áherzla er lögð á einstök atriði yfirnáttúrlegs eðlis, í sambandi við kristindóminn, en áður hefir verið. Koma önnur eins atriði og meyjarsonerni Jesú og líkamleg upprisa hans þá eðlilega fyrst í hugann. Áður var þetta tvent talið með grundvallar-atriðum trúarinnar, og svo litið á, að kenningin um guðdóm Krists stæði eða félli með þessu tvennu. Nú er hvorugt þetta álitið neitt sáluhjálpar-atriði. Kenningin um, að guð var í Kristi og sætti heiminn við sjálfan

---

*) Sbr. Johannes Wendland, prófessor í Basel, Die Wunderglaube in Christentum, 1910, ensk útg. 1911.

sig, á miklu öruggari grundvöll en þetta, sem hvorttveggja fær undur-ófullkominn stuðning í nýja testamentinu.

Alt þetta og ýmislegt annað, sem nefna mætti, þar sem hugsun trúaðra kristinna manna fer aðra leið en þá sem fyr var farin, má telja beinar afleiðingar þess, að gamla kenningin um bókstafsinnblástur biblíunnar er fallin. Það eru ályktanir, sem hugsandi mannsandinn dregur ósjálfrátt um leið og hann hefir losað sig undan oki bókstafsþrældómsins. Aldrei hefir mönnum betur skilist en nú, að alt er undir því komið að halda sér að sjálfum hjartapunkti hinnar kristilegu opinberunar, Jesú Kristi. Sá sem fast heldur við þann hjartapunkt og trúir því, að hann sé vegurinn, sannleikurinn og lífið, skoðar hann, kenningu hans og líf fortakslaus sannindi, hann er vissulega sjálffær að ganga eigin vegu í auka-atriðum.

18. **Frjálsræði í trúarefnum.** Hinum glögga greinarmun, sem gerður er af nútíma-guðfræðingum milli trúar og guðfræði má aldrei gleyma. Trúin verður að vera sú gamla trú, — trú á guð, hinn almáttuga föður, trú á Jesúm Krist, guðssoninn og mannssoninn, sem með framkomu sinni, lífi sínu, dauða og upprisu er orðinn hinn einstaki miðill vor, og trú á heilagan anda, sem með orði og heilögum athöfnum hefir leitt oss til guðs í Kristi og gerir mennina að hluttökum í gjöfum guðs í Kristi fyrir trúna — fyrirgefningu syndanna og eilífu lífi. Trú nútíðarmannsins verður því trú á þríeinan guð (Kaftan). „En trúin er andleg reynsla í hjarta og samvizku“ (Ording). Innan þessara takmarka verður trúarvitund einstaklingsins að vera frjáls, — fá að njóta fullkomins frjálsræðis. Því frjálsræði má engan svifta, þegar talað er um önnur eins atriði og yfirnáttúrlega fæðingu og líkamlega upprisu. Þau atriði heyra ekki til gamallar trúar, — trúarkjarnans, sem aldrei breytist. Fyrir þeim getur enginn andlega reynslu fengið. — Öllum ætti því að skiljast, að það liggur í hlutarins eðli, að guðfræðin, — búningurinn, sem sannindum trúarinnar er valinn — verður að vera nútíma-guðfræði, en eigi gömul, úrelt guðfræði. Öll sú guðfræði, sem á það skilið að nefnast því nafni, hefir ávalt verið guðfræði þess tíma, sem hún hefir komið fram á. Guðfræðin hlýtur að taka breytingum og stakkaskiftum á sama hátt og læknisfræði, lögfræði og hver sem

helzt önnur grein þekkingarinnar. Guðfræðin má sízt af öllu við því, að neita andlegum framförum mannkynsins. Hún verður að ganga í bandalag við hvert framfaraspor, sem mannkynið stígur. „Hún á ekki að lúta neinu ytra úrskurðarvaldi, en þræða brautir þeirrar nútíðarhugsunar, er vitund hefir um takmörk sín og lífsháttu, og bjóða allri veruleika-þekkingu opinn faðminn"*) Öllum hinum nýrri kennurum kristninnar, þeirra, er nokkurt álit hafa eignast, kemur saman um, að guðfræðin hljóti að vera nútíma-guðfræði, og að það sé hreinn og beinn ósómi annað að heimta. Samkvæmt starfsaðferðum samtíðar sinnar verður hún að starfa. Og þeir kennararnir í liðinni tíð, sem þeir bera mesta lotningu fyrir, eru Lúter á svæði guðfræðinnar, en Kant á svæði heimspekinnar; þeirra leiðbeiningum eru þeir fúsastir að taka. Það eru þeir sem kent hafa mannsandanum að meta það frjálsræði, sem honum er ætlað.

19. **Hver er ávinningurinn?** Er sú hugsana hreyfing, sem nefnd er ný guðfræði eða guðfræði nútímans, framför, eða er hún í trúarlegu tilliti afturför? Er hún fráfall frá hinni gömlu trú? Er hún meiri trú eða minni trú? — Ávinningurinn er mikill á allan hátt. Það er sami ávinningurinn og Páll postuli varð fyrir, er hann losnaði undan lögmálsoki Faríseanna og eignaðist frelsi kristins manns í andlegum efnum. Sami ávinningurinn og Lúter varð fyrir, er hann reif sig undan rétt-trúnaðaroki katólskrar kirkju og gerðist frjáls maður í skilningi sínum á sannindum kristindómsins. Kenningin um bókstafsgildi ritningarinnar hafði aftur fjötrað mannsandann í líkri rétt-trúnaðar-flækju og þeirri, er átti sér stað með Faríseum á dögum frelsarans og í kristninni á miðöldunum. Ritningin var aftur orðin álíka ánauðarok kristnum mönnum og lögmálið Gyðingum. Biblían mótmælendum álíka óskeikull páfi og páfinn í Rómi katólskum mönnum. Hún var þeim mun verri páfi, sem dauður bókstafur, ritinn endur fyrir löngu, er aumri dómstóll eða úrskurðarvald en lifandi maður, sem heyrir sömu kynslóð til og vér, þar sem einn tekur við af öðrum. Úrskurðarvald ritningarinnar í trúarefnum er afar-óheppileg og fráleit hugmynd.

---

*) Religion in Geschichte u. Gegenwart, IV, 421.

Samkvæmt þeirri kenningu mátti gera hvert það atriði að óhagganlegri trúarsetningu, er finna mátti átyllu fyrir í einhverri ákveðinni ritningargrein. Munurinn milli gamallar og nýrrar guðfræði er um fram alt í því fólginn, að nútíma-guðfræðin hefir öldungis skilyrðislaust fallið frá kenningunni um hið ytra úrskurðarvald ritningarinnar. Öllum stefnum innan þeirrar hreyfingar, sem nefnd er ný guðfræði, kemur saman um, að bókstafsinnblásturs-kenningin eða hver sú kenning önnur, sem felur í sér óskeikulleika biblíunnar, sé frá öllu sjónarmiði fráleit og kristinni trú ósamboðin.

En um leið og þessu úrskurðarvaldi ritningarinnar er hafnað, er áherzlan aftur lögð á sjálfsforræði (autonomi) einstaklingsins. Guð og mannssálin standa þá eftir sem hinar miklu stærðir, sem saman verða að starfa til meiri skilnings og meiri þroska. Öldungis fortakslaust erum vér þá á þeirri leið, þar sem guðfræði nútímans er að myndast, við áhrif þess sannleiksanda, sem starfandi hefir verið í kristninni frá öndverðu, — anda Jesú Krists. Annars vegar verður að leggja áherzluna á, að rannsóknar-aðferðum nútímans sé beitt á svæði trúarþekkingarinnar ekki síður en á öðrum svæðum. Hins vegar er jafn-sjálfsagt að leggja áherzluna á, að trúin í merkingunni: lifandi samfélag við upphaf og orsök tilverunnar, er eftir eðli sínu söm nú á tímum og hún var á dögum siðbótarinnar í sálum sannkristinna manna og kvenna. Kristileg trúarhugsan þessara tíma verður eins og trúarhugsan undanfarinna tíma, að lifa af því stöðugt að tileinka sér opinberan guðs í Kristi eins og hún hefir átt sér stað í sögu mannanna. Öll sú hreyfing, sem táknuð er með heitinu: guðfræði nútímans, er öldungis sjálfsagt framhald og eðlileg fullkomnan þess mikla starfs, sem unnið var af siðbótar-bylting 16. aldar, að afokan mannsandans. Nýja guðfræðin svo nefnda skilgetin dóttir siðbótarinnar. Ný-guðfræðingarnir marg-tortrygðu sporgöngumenn og arftakar siðbótarinnar. Ecclesia semper reformari debet — kirkjan verður ávalt að endurbætast — er orðtak allra sannleikselskra manna og sannelskenda kirkjunnar. Til þess er baráttan, og hún hefir sitt fyrirheit. „Vér höfum hér fyrir oss að nokkuru leyti hina miklu og æfagömlu baráttu milli tveggja hreyfinga innan kristinnar kirkju. Annars vegar eru bókstafsþrælarnir. Hins vegar þeir, sem leita eftir andan-

um. Það er hin gamla barátta siðbótarinnar í nýrri mynd. Það er nútíminn gegn hinu umliðna. Framþróanin gegn kyrrstöðunni. Hið nýja gegn hinu gamla. Trúarsetningin um, að opinberan guðs til mannanna hafi verið fullkomnuð og henni lokið fyrir þúsundum ára á bernskuskeiði mannkynsins, gegn þeirri trú, að hún haldi áfram þann dag í dag. .... Siðbótin nýja hlýtur að sigra. Því mannssálin, sem öðlast hefir frelsi í andlegum efnum, vill eigi fremur hverfa til ánauðarinnar aftur, en þrællinn, sem slitið hefir hlekkina."*)

---

*) Hjálmar A. Bergman og Barði G. Skúlason: Appelants Brief, bls. 126—127.

## III

# BIBLÍURANNSÓKN AÐ FORNU OG NÝJU

**20. Er hér að eins um dægurflugu að ræða?** Í umræðunum um biblíuna, sem orðið hafa með þjóð vorri hin síðari ár, hefir því hvað eftir annað verið haldið fram, að sú hreyfing á svæði guðfræðilegrar hugsunar, sem vér stöndum enn mitt upp í, sé eins konar undur-njóli, sem þotið hafi upp alt í einu og muni visna upp og verða að engu á tíma jafn-skömmum. Þetta sé að eins stundar-áning, í mesta lagi svo sem sumar-dvöl á ofurlítilli sjónarhæð. En brátt verði tjaldhælunum kipt upp og aftur flutt á heimilið gamla, þar sem skjól var betra og næðingurinn minni. Því er stöðugt haldið fram, að innan skamms muni alt falla niður aftur í sama farið og gömlu rétt-trúnaðar skoðanirnar á biblíunni og á ótal mörgu öðru ryðja sér aftur til rúms. Þá sé betra að vera í flokki þeirra, sem haldið hafi dauðahaldi í það gamla og eigi látið þokast úr stað. Því þegar bólan sé brostin, verði hinir að flónum. Það var sagt fyrir rétti af einum guðfræðingnum, er studdi málstað kirkjufélagsins, að allar nýjar skoðanir, er brytu bág við skoðanir þess kirkjufélagsins, sem hann heyrði til, og þeirra, er því væri að öllu leyti samdóma, „væri andstyggilegt húmbúgg og hræðileg trúvilla.“*) Þess vegna hefi eg álitið réttast að gefa hér ofurlítið ágrip af sögu biblíu-rannsóknanna að fornu og nýju, til þess menn geti gert sér hugmynd um, hvort hér er um eitthvað varanlegt að ræða, eða að eins einhverja dægurflugu.

**21. Sannleikurinn hefir ekkert að óttast.** Rannsókn er ætlunarverk vísindanna á öllum sviðum, ekki sízt sögulegra vísinda. Það er listin að aðgreina, sundurliða og dæma um það

*) Brief, bls. 123.

efni, sem er fyrir hendi. Biblíurannsókn hafa margir haft ímugust á, vegna þess þeir hafa sett hana í samband við trúleysi. Viðfangsefnið sé heilagur arfur, og að draga efa á nokkuð í sambandi við hann, sé lítilsvirðing og vantrú. Fyrir því hafi rannsókn, gagnrýni, kritik, í sambandi við hinar heilögu bækur, engan rétt á sér og eigi alls ekki að eiga sér stað. Biblíuvísindum yrði á þann hátt alveg að hafna. Kristnin hefir lengst af álitið biblíuna hafna yfir alla rannsókn, sem nokkura véfengingu hefði í för með sér, eða rannsókn í merkingu vorrar aldar. Svo að segja hver maður hefir í biblíunni leitað að sönnunum fyrir skoðunum sínum og þá oftast um leið þózt finna.*) Ávalt skyldi hafa það hugfast, að þegar vísindin gera skyldu sína, verður hið eiginlega markmið allrar vísindalegrar starfsemi, að komast að einhverjum jákvæðum árangri. Ætlunarverk hennar er ekki fyrst og fremst að rífa niður, eins og margir virðast gera sér í hugarlund, heldur einmitt að reisa við. Að byggja höll sannleikans traustari, stærri, fegurri en nokkuru sinni áður hér á þessari jörð, verður ávalt hið göfuga markmið allrar rannsóknar. Með öðrum orðum: að komast að hinu sanna í hverjum hlut. Sannleikurinn er í öllum hlutum sagna beztur. Og sannleikurinn gerir mennina frjálsa. Og hvað er þá að óttast? Þessi ótti fyrir biblíu-rannsókn og óbeit á henni er kristnum mönnum hrein og bein hneisa. „Hinir íhaldssömu bræður vorir reiða sig ekki á mátt guðs anda. Ósjaldan getum vér freistast til að álíta, að kristindómurinn sé fremur trú á föður lyginnar, en guð sannleikans. Því þegar lyginni og sannleikanum lýstur saman í baráttunni, trúa kristnir bræður vorir fremur á sigur lyginnar en sannleikans. Einungis ef þeir fyrir fram geta bundið og reirt mátt lyginnar haldlausum manna-fjötrum og festum, — þá fyrst eru þeir svo djarfir að vona, að andi sannleikans kunni að verða margfjötruðum höfðingja lyginnar yfirsterkari.“ **) Sannleikurinn hefir aldrei neitt að óttast. Óttinn um sigurmátt hans er trúleysi. Árangur allrar sannleiksbaráttu sigur.

22. **Biblíu-rannsókn á fyrstu öldum kristninnar.** Grikklandsvinina svo nefndu, eða þá menn, sem dýrkuðu grískar bók-

*) Sbr. Hic liber est in quo, quaerit sua dogmata quisque Invenit et pariter dogmata quisque — sua. **) S. Michelet, Om presteeden, bls. 127.

mentir og elskuðu þær, má eflaust skoða feður bókmentalegrar gagnrýni. Engin fornþjóð önnur en Grikkir hefir myndað sér fastar rannsóknar-reglur. Hinar aðrar fornþjóðir, sem bókmentaóðul áttu, settu sér að eins fyrir að varðveita þau. Þær safna, telja, bera saman. Minnið, en eigi dómgreindin, verður aðal-atriðið. Rannsókn þeirra myndaðist í sambandi við rit Hómers og Plató. Mestur sómi var Hómer sýndur. Textinn var fyrst og fremst gagnrýndur, óreglur athugaðar, skipulagi breytt, innskotum vísað á bug. Á þann hátt var textinn gagnrýndur og endurbættur. Í sambandi við Plató greindu þeir rit, sem með réttu væri eignuð honum frá öðrum, sem þeir álitu, að hann ætti ekki. Um innskot var talað í sambandi við rit Hómers ekki síður en guðspjöllin.

Rannsóknir kirkjufeðranna elztu í sambandi við texta biblíuritanna og heilleik þeirra má skoða afsprengi starfsemi bókfræðinganna grísku. Eigi var afsprengið samt faðerninu jafngöfugt. Hinn lærði Origenes*) (d. 254) reið þar á vaðið eins og í mörgu öðru, og vann stórvirki, þó aldrei yrði það í samanburði við það, sem til var ætlast, nema eins og líkneskjubolur, sem alla útlimi vantar. Eitt af ritum þeim, sem eftir hann lá, er: Sexdálkabókin (Hexapla). En ekki er nú til nema lítið brot; alt hitt er glatað. Þar var samhliða í sex dálkum gamla testamentið á hebresku, hebreski frumtextinn með grísku letri, sjötíumannaþýðingin og þrjár þýðingar aðrar. Átti þetta að vera „til þess menn gæti borið saman og séð, hver þýðng sé réttust á hverjum stað.“ Að þessu vann Origenes í 27 ár. En álitið er, að þetta hafi komið enn meiri ruglingi af stað en áður var, þó tilgangurinn væri hinn bezti. — Einn lærisveinn hans, þótt verrfeðrungur sé talinn, var Dionýsius frá Alexandríu (d. 265).**) Hann komst að þeirri niðurstöðu um Opinberunarbókina, að hún geti ekki verið eftir Jóhannes, lærisvein Jesú, af ástæðum, er hann tilfærir úr bókinni sjálfri. Hann efast aftur ekki um, að Jóhannes sé höfundur guðspjallsins. En við að bera þessi tvö rit saman, kemst hann að þeirri niðurstöðu um Opinberunarbókina, að höfundurinn geti ekki verið sami maður, þar sem upphaf hennar sé svo ólíkt upphafi guðspjallsins, hugsanaferill

*) Sbr. Jón Helgason: Almenn Kristnisaga, 1912, I, 140 **) Kristnisaga I, 175.

ólíkur, og orðatiltæki og stíll hvað öðru ólíkt. Hinu kirkjulega úrskurðarvaldi vildi hann alls ekki hlíta í þessum efnum. En snemma voru öll vafasöm spurnar-atriði leidd til lykta með samþyktum kirkjuþinganna. — Til eru tuttugu ræður, eignaðar Klemensi rómverska,*) en þó ranglega; ætla sumir að þær séu frá 2. öld, aðrir ekki eldri en frá 4. öld. Þar er það talið vafasamt, að Móse sé höfundur fimmbóka-ritsins (Mósesbókanna), vegna þess að þar sé lýst andláti hans. — Nefna má einnig í þessu sambandi tvo heiðna spekinga, sem báðir höfðu athugað bókmentir kristinna manna og uppi voru á fyrstu öldum kristninnar. Annar þeirra, Porfýríus,**) var uppi á 3. öld. Komst hann í einu atriði að sömu niðurstöðu og hinar nýju biblíurannsóknir. Við lestur Daníelsbókar hafði hann sannfærst um, að rangt væri að álíta það rit fram komið á herleiðingartímunum, austur í Babýlon, eins og alment var gert. Sú bók hlyti að vera samin fjórum öldum síðar, á dögum Antiokuss Epifanes. Hinn er heiðni heimspekingurinn Celsus,***) sem var uppi á 2. öld. Lét hann í ljós, eftir því sem Origenes segir í riti sínu gegn honum, að 1. Móseb. geti eigi með neinu móti öll verið eftir sama höfund, vegna þess að í henni komi fyrir svo margar mótsagnir. — Hugsjón kirkjufeðranna var að grundvalla kirkjulegar bókmentir, er stæði gullaldarritum Grikkja nokkurn veginn á sporði. Til þess að sanna tilverurétt kristninnar, urðu þeir að beita álíka gagnrýni við þau rit, sem kristnin studdist við, og Grikklands vinirnir beittu við grískar bókmentir. Vitaskuld tókst þeim hvorugt til fulls. En enginn getur neitað að hugsjónin var göfug og djarfmannleg og góðu málefni samboðin. Þótt þeir eignuðust engan jafn-rýninn höfund og Aristarchus, eru tilþrif þeirra góðra gjalda verð. Hann var nafnfrægastur þeirra manna, er fengust við rannsóknir Hómers-kvæðanna með Grikkjum, og var uppi um 210 f. Kr.

**23. Á miðöldum.** Skólaspeki miðaldanna kom eiginlega ekki með neina framför í sambandi við biblíufræðin. Biblían var skólaspekingunum auka-atriði og varð oft að eins konar barna-

---

*) Clementis Romani quae feruntur Homiliae viginti, nunc primum integrae edd. A. R. Dressel, Gottingae 1853. **) Kristnisaga I, 180. ***) Kristnisaga I, 141.

glingri í höndum þeirra. Hún gaf þeim ágætt tækifæri og tilefni í rökræður, en þær voru þeim hið mesta yndi. Þeir léku sér þá oft að ritningargreinum og höfðu eins og að leiksoppi. Pétur Abaeland (d. 1142), skólaspekingurinn frakkneski, sem uppi var á 12. öld og nefndur hefir verið Sókrates Frakklands, var sérlega gagnrýninn andi og að mörgu langt á undan þeim tímum, er hann var uppi á.*) Hann veltir þeirri spurningu fyrir sér, hvort frásöguna um dauða Móse í fyrstu Mósebók beri að skoða sem spádóm, sem Móse hafi komið fram með sjálfur, eða það sé frásögn annars manns. Hann bindur ekki hugtakið innblástur við bókmentir Ísraels einar, en álítur, að grísku og rómversku heimspekingarnir, og jafnvel Brama-prestar Hindúa hafi alls ekki farið á mis við hann. Hann álítur að innblástur sé stundum á háu stigi, stundum á lágu, í biblíuritunum. Fyrir því sé gildi þeirra harla misjafnt, og villur muni koma fyrir, bæði hjá spámönnum og postulum. Hann gerði álíka glöggan greinarmun og siðbótarmennirnir á úrskurðarvaldi biblíunnar og kirkjufeðranna. Á rannsóknarfrelsið leggur hann mikla áherzlu og á rétt vísindanna. Hann hefir óbeit á að vera fljótur til að trúa**) og álítur nauðungarvald í trúarefnum óhæfu. Hann heimtar frjálsa sannfæringu á öllum svæðum. — Lærður Gyðingur, sem uppi var um sama leyti og Abaelard, Ibn Esra (d. 1167), kom fram með kröfur furðu-ákveðnar um að beitt væri skynsamlegri rannsókn við lestur biblíunnar. Hann leitaðist við að breiða út málfræðiþekking Araba og vildi kenna Gyðingum að lesa gamla testamentið eftir bókstafnum. Honum fundust margar ástæður benda til þess, að fimm bækur Móse væru færðar í letur eftir hans dag. Þessi lærði Gyðingur hafði síðar mikil áhrif á spekinginn Spinoza. — Fornmentavinirnir, eða húmanistarnir svo nefndu, komu fram á 14. öld og bjuggu að mörgu leyti jarðveginn undir komu siðbótarinnar. Endurfæðingartímabilið varp ljóma sínum yfir löndin. Nýr heimur var að skapast. Miklar byltingar urðu í hugum manna á öllum svæðum. Húmanistarnir vöktu skilning manna á bókmentum fornaldarinnar og gerbreyttu smekknum í skáldskap og listum. Tungumálaþekkingin jókst að miklum mun, að því er til fornmálanna kom.

---

*) Sbr. Realencyclopaedia f. protest. Theologie u. Kirche I. 23. Sbr. Kristnisaga II, 249, nn. **) „Qui credit cito, levis est corde.“

Tekið var með nýjum áhuga að stunda grísku-nám og jafnvel hebreskan varð ekki út undan. Við það jókst skilningur á nýja testamentinu að miklum mun og gamla testamentið fór ekki alveg varhluta. Menn eins og Reuchlin (d. 1522), sem telja má einn hinn allra-helzta í hópi húmanistanna þýzku, juku þekkingu á hebreskri tungu að miklum mun. En hve miklar, sem byltingarnar urðu í hugum manna á öðrum sviðum, sat þó erfikenningin gamla um ritninguna enn að völdum. Hún var svo að segja ósnortin af öllum þeim byltingum, sem fram komu í öðrum efnum. — Erasmus (d. 1538) gaf út nýja testamentið á grísku 1516 og við þann texta mun Lúter hafa stuðst í biblíuþýðing sinni. Var útgáfa Erasmusar með málfræðilegum og sögulegum skýringum, er báru vott mikillar þekkingar og glæsilegra vitsmuna. Hann álítur stíl Efesusbréfsins ólíkan Páli. Hebreabréfið álítur hann ekki samið af Páli, heldur að líkindum af Klemensi rómverska. Jakobs-bréf finst honum, að ekkert hafi af postullegri göfgi til að bera. Opinberunarbókin sé grunsöm. Áhrifin, sem Erasmus hafði, voru fjarska víðtæk, bæði með vinum og andstæðingum, og öll í þá átt að vekja áhuga á lestri og rannsókn biblíunnar í ljósi þekkingarinnar. Katólsk kirkja launaði honum illa þá trúfesti, sem hann sýndi henni með því að yfirgefa hana aldrei. Að eins miklu leyti og henni var unt ónýtti hún lífsstarf hans. með því að láta kirkjuþingið í Trident (1545—63) hefja hina lélegu latnesku þýðingu, er Vulgata nefnist, til þeirrar helgi (kanonisation), sem Erasmus hafði svo rækilega sýnt, að hún átti ekki skilið, og erfikenninguna sömuleiðis, sem honum var svo meinilla við.*)

24. **Trúarþörfin mælistika siðbótarinnar.** Siðbótin var í raun réttri uppreist gegn yfirgangi páfavaldsins í kirkjunni og kirkjuvaldinu yfirleitt. Það lá þess vegna í hlutarins eðli, að siðbótamennirnir sýndu úrskurðarvaldi ritningarinnar í andlegum efnum þeim mun meiri lotningu. Annars hefði siðbótarhreyfingin ef til vill kafnað í fæðingunni og lítið meðhald fengið í hugum manna. Henni hefði þá verið eignað það gerræði, að vilja rífa sig undan öllu valdi, bæði guðs og manna. Biblíurannsókn gaf hún nýjan byr undir vængi með því að leyfa

*) De literarum hebraearum genuina antiquitate.

öllum aðgang að biblíunni. Siðbótarmenn fóru varlega í að sýna fram á ófullkomleika hennar, en leituðust við að meta gildi hinna ýmsu rita, sem þá varð mjög misjafnt, og skipa þeim niður í flokka. Mælikvarðinn var vanalega trúarþörfin. Bókmentasaga og söguleg rannsókn var síður viðfangsefni þeirra. Samt voru þeir, einkum Lúter, miklu frjálsari í þeim efnum en nokkurir kirkjunnar menn höfðu verið á undan þeim. Hljóðstafatáknin í hebreska textanum kallar Lúter ný manna uppátæki r a b b í n a n n a, sem hann hirði ekkert um.*) Annars varð vísindahliðin við rannsókn biblíunnar út undan hjá siðbótarmönnunum. Það var trúarkjarninn, sem þeir létu sér annast um. Þeir létu sér svo ant um hann, að þeir þóttust finna kenninguna um réttlæting af trú hvarvetna í biblíunni. En áherzlan, sem þeir lögðu á biblíuna, var ný. Hún var eins konar afturhvarf til hins upphaflega kristindóms. En um leið var hún áfellisdómur yfir samtíð þeirra. Biblían var í hendi siðbótarmannanna hið eiginlega vopn þeirra. Myndin af kristindómi postula-tímabilsins, sem þeir fengu við lestur nýjatestamentisins, var býsna ólík þeirri mynd, sem þeir höfðu fyrir augum sér í lífi samtíðarinnar af páfadóminum eins og hann birtist síðara hlut miðaldanna. Hún var svo ólík, að hún hlaut að skjóta alvarlegum mönnum skelk í bringu. Auk þess hafði hin nýja þekking endurfæðingar-tímabilsins sýnt fram á, að sumar af heimildum skólaspekinganna, eins og ritin, sem ranglega voru eignuð D í o n ý s í u s i A r e ó p a g i t a, voru alls engar heimildir. Baráttan, sem í fyrstu var milli siðbótarmanna og íhaldsmanna innan katólsku kirkjunnar, varð brátt barátta milli páfatrúarmanna og mótmælenda. Í þeirri baráttu hlaut það svo að fara, að úrskurðarvaldið, sem áður hafði verið í kirkjunnar höndum, yrði af mótmælendum flutt yfir til biblíunnar. „Biblían, og biblían ein, er trúarbrögð mótmælenda,“ sagði Chillingworth (d. 1644). Að öðru leyti verður gerð grein fyrir skoðunum Lúters og siðbótarmanna í einstökum atriðum í sérstökum kafla bókar þessarar.

**25. Seytjándu aldar guðfræðin.** Rétt-trúnaður 17. aldar skoðaði ritninguna alla jafnt guðlega heimild frá upphafi til enda.

---

*) „Neu Menschenfündlein der Rabbinen, um die er sich nicht kümmere.“ Walch VI, 292.

Guðfræðingunum rétt-trúuðu, sem þá voru uppi, virðist hún helzt mönnunum til þess gefin að fletta henni upp eins og orðabók og leita uppi ritningarstaði til sönnunar hinni rétt-trúuðu guðfræði. Eftir daga siðbótarinnar kom upp í mótmælenda heiminum kenningin um bókstafs-innblástur og varð allri biblíu-rannsókn þrándur í götu langt fram á 19. öld. Nú var um biblíuna talað, eins og textinn hefði aldrei færst úr lagi eða raskast. Þetta skaut loku fyrir það biblíurannsóknar-starf, sem siðbótartímabilið hóf. Katólskir guðfræðingar stóðu þá siðbótarkirkjunni framar í þessu efni. Þeir héldu því eindregið fram, að hugmyndin um óskaddan texta væri hégilja. Margvíslegum ruglingi og villum hefði verið smeygt þar inn af illgirni Gyðinga, og kæruleysi þeirra og hroðvirkni, sem afritað hefðu. Hljóðstafatáknin fundust þeim mjög vafasöm. — Þá kom upp kenningin um villuleysi eða óskeikulleik biblíunnar með mótmælendum og lifir hún í skotum og afkimum fram á þenna dag. Því var þá jafnframt haldið fram, að ferhyrningsletrið, sem hebreska er ritin með þann dag í dag, hafi verið hið upphaflega letur hebreskrar tungu, þótt kunnugt sé, að sú leturgerð ruddi sér til rúms og útrýmdi hinni eldri fyrst á tímanum eftir herleiðingu, tiltölulega skömmu fyrir daga frelsarans. Slíkar staðhæfingar gátu lærðustu menn með mótmælendum látið sér sama að koma fram með, eins og t. d. Buxtorf hinn yngri, guðfræðingurinn svissneski. Jafnvel Jóhann Gerhard (d. 1637) gat verið svo blindaður af rétt-trúnaði, að halda því fram, að hljóðstafatáknin væri upprunaleg og — innblásin, þvert ofan í skoðun siðbótarmannanna. Trúin heimtaði það; það hlyti að vera svo, annars væri grundvöllurinn ótryggur.

26. **Einstakir guðfræðingar.** Þessi feikna-áherzla á alfullkomna og guðlega bók gaf allri bókmentalegri gagnrýni á sviði biblíufræðanna svo eftirminnilegan kinnhest, að hún varð að þagna í bili. Samt mölduðu katólskir guðfræðingar stöðugt í móinn, einkum framan af 17. öld. Þeir vissu sem var, að með þessari áherzlu á guðlegt úrskurðarvald hins ritaða orðs, var verið að gera úrskurðarvald páfans og kirkjunnar að engu. Einn hinn allra-fyrsti, sem fram kom með biblíuskýringu á málfræðilegum og sögulegum grundvelli, var Hollendingurinn

frægi Hugo Grotius (d. 1645), sem mikil og langvarandi áhrif hefir haft á andlegt líf Norðurálfu og talinn er faðir alþjóðaréttarins. Hann gaf út hvert ritverkið á fætur öðru, biblíunni til skýringar.*)

Hann neitaði því, að Prédikarinn gæti verið eftir Salómó, og skildi Ljóðaljóðin sem kærleikssöngva milli Salómó og egipzkrar konungsdóttur. Hann stígur fyrstu sporin á braut trúarsögulegrar biblíuskýringar, sem gert hefir guðfræði vorrar aldar fræga og leitt hefir til svo mikillar auðlegðar. Hann benti t. d. á rómverska hermileikinn í sambandi við þyrnikrýningu frelsarans. Yfirleitt heimtaði hann, að biblíuskýringin væri leyst úr fjötrum trúfræðinnar og leitast væri við að gera sér grein hins sögulega umhverfis. — Sá maður, sem sýndi fyrst fram á það með rökum, að textinn hebreski, sem nú er notaður, sé langar leiðir frá að vera samhljóða eiginhandarritum frumhöfundanna, var Ludovicus Capellus (d. 1658), frakkneskur maður, en kennari við Öxnafurðu-háskólann. En um leið gerði hann kenninguna um bókstafsinnblástur valta í sessi. — Buxtorf hinn yngri kom þá fram með bók sína um uppruna, aldur og helgivald punktanna,**) og kom því til leiðar, að helgi hljóðstafa táknanna, sem bætt var inn í textann frá því á fimtu og sjöttu öld og þangað til á níundu öld, var gerð að trúaratriði í játningu Svisslendinga.***) Er það óefað eitt hið mesta óvit, er mennirnir nokkru sinni hafa játað trú sína á.

27. **Hobbes og deistarnir á Englandi.** En hér og þar voru ávalt einstakir menn, sem eigi létu neitt kenningar-óvit aftra sér frá að hugsa um þetta efni, og héldu rannsóknunum áfram, hvað sem hver sagði, bæði í páfakirkjunni og með mótmælendum. Svo var eigi sízt með deistana svo nefndu á Englandi. Einn þeirra var heimspekingurinn Thomas Hobbes, sem nefndur hefir verið „afi allra fríhyggjumanna á Englandi". Árið 1651 gaf hann út bók, sem hann nefndi Leviatan. Í

---

*) „Explicatio trium utilissimorum locorum novi testamenti" 1640, „Commentatio ad loca novi testamenti, quae de antichristo agunt" 1640, og einkum: „Annotationes ad vetus et novum testamentum" 1641-47. **) „De punctorum origine, antiquitate et auctoritate." ***) „Formula Consensus Helvetica."

þeirri bók heldur hann því fram, að Móse geti ekki verið höfundur Mósesbókanna, og bendir á staði eins og þann um gröf hans: „Og enginn maður veit til þessa dags, hvar gröf hans er“ (5. Mós. 34,7). Finst honum þessi staður segja til um, að fimmbókaritið hafi til orðið eftir dauða hans. Hann styður þetta enn fremur með því að benda á orðin:: „Þá voru Kanaanítar í landinu“ (1. Mós. 12,6). Hann sýnir fram á, að Jósúabók, Dómarabók, Rutarbók og Samúelsbækur sé miklu síðar til orðnar en atburðir þeir gerðust, sem þær segja frá, með því að benda á ýmsa staði, þar sem talað er um siðvenjur og ástæður, er eigi sér stað „til þessa dags“. Einkum bendir hann á staðinn í Dómarabók (18,20), þar sem það er tekið fram, að Jónatan og synir hans hafi verið prestar hjá ættkvísl Daníta „til þess fólkið var flutt burt úr landinu“, þ. e. herleitt. Í sambandi við Konunga og Kronikubækur bendir hann á, að það eitt sé fullnóg til sönnunar því, að þær sé í letur færðar eftir herleiðinguna, að sögunni sé haldið fram til þess tíma, því atburðirnir sé ávalt frásögninni eldri. Bækur þeirra Esru og Nehemía hafi verið ritaðar eftir herleiðingu. En Esterarbók á herleiðingartímunum sjálfum. Sumir sálmanna hafi ekki til orðið fyr en eftir herleiðingu. Alt gamla testamentið álítur hann að framkomið sé í þeirri mynd, sem vér eigum það nú, eftir að Gyðingar hurfu heim aftur úr herleiðingunni. Engar sannanir séu fyrir hendi, er sýni, hverjir hinir eiginlegu höfundar gamla testamentisins séu. Báðar þessar staðhæfingar Hobbes hafa fengið meðhald og rækilega rökstuðningu hjá öllum merkum guðfræðingum vorrar aldar.*)

28. **Spinoza.** Heimspekingurinn Spinoza kom fram með skoðanir í nafnfrægri bók, sem feiknamikla eftirtekt vakti g all-miklar deilur, um að gamla testamentið sé þjóðlegar og mannlegar bókmentir og trúarheimildir, sem hafi það til síns ágætis, að vera ákveðnari í skoðunum en nokkurar aðrar og með meiri innsýn í hinn ósýnilega heim.**) Hann álítur að Esra sé aðal-höfundur gamla testamentisins frá 1. Móseb. og til 2. Konungabókar, að báðum meðtöldum. Hafi Esra tekið þessar bækur saman á grundvelli eldri heimilda, en ekki lifað nógu

*) Encyclopaedia Britannica 11. útg. 1911, III, 861. **) „Tractatus theologico politicus“ 1670, VIII..og IX kap.

lengi, til að leggja síðustu hönd á verkið, og hreinsa það frá mótsögnum og endurtekningum. Spinoza sýndi fram á, hvernig lögmáli og frásögu væri blandað saman í fimmbókaritinu og að oft sé sagt frá sama viðburði með tveim hliðstæðum frásögum. Hjá Spinoza er aðal-hugsunin þessi: Trúfræðin má ekki vera í mótsögn við skynsemina. Hann vill finna í biblíunni kristindóm, sem laus sé við allar kennisetningar. Gagnstætt heimspekinni eigi kristindómurinn að vera fólginn í raungæfilegri lífsskoðun, er veiti manninum stuðning að störfum lífsins. — Katólskur prestur, R. Símon að nafni, sýnir fram á (1685), að fimmbókaritið hljóti að vera verk fleiri en eins höfundar; sannar hann það með því að sýna fram á margar stíltegundir. Sumir séu stuttorðir og gagnorðir, aðrir fjölorðir. Hvorki hann né Spinoza reyndu samt að sýna fram á þetta með nákvæmri sundurliðun.

29. **Tildrög og spor í áttina.** Sá, sem fyrstur gerði tilraun til þeirrar nákvæmu sundurliðunar, sem einkent hefir fornritarannsókn nýrrar tíðar, var frakkneskur læknir, Jean Astruc að nafni. Án þess að tilgreina nafn sitt gaf hann út bók*) árið 1753 um þetta efni. Hann sýndi fram á, að í 1. Móseb. og í tveim fyrstu kapítulum 2. Móseb., hefði tveim heimildarritum verið fléttað saman. Þau viðhefði sitt nafnið hvort um guðdóminn, — nöfnin Elóhím og Jahve. Hann greindi heimildir þessar að nokkuru leyti sundur. Hann hafði komið auga á nokkur af sérkennum þeirra, hvors um sig. Að svo miklu leyti var hann á réttri leið, því þau voru góð og gild. En þau voru of fá og þess vegna fekk hann ekki aðgreint frumrit þessi nema að nokkuru leyti. Rannsóknir seinni tíma hafa sannað, að hann hafði öldungis rétt fyrir sér í aðal-efni. En Astruc hélt, að Móse væri höfundurinn og að því leyti stendur hann sumum fyrirrennurum sínum á baki. — Síðast á 17. öld komu heittrúarmennirnir (pietistarnir) fram, og með þeim ruddi ný skoðun sér til rúms á biblíunni. Um fram alt annað leituðu menn þeirrar stefnu í henni að næringu fyrir sálir sínar. Gagnstætt því sem áður hafði átt sér stað, var áherzlan nú lögð á andann og efnið. Helztur lærðra guðfræðinga í hópi heit-

*) „Conjectures sur les memoires originaux, dont il paroit que Moyse s'est servi pour composer le libre de la Genèse."

trúarmanna var Bengel (d. 1752) og ná áhrif hans niður til vorra daga á sumum stöðum. Nú var tekið að greina ritninguna og kenningakerfi kirkjunnar sundur og lét Bengel sér að mörgu leyti hepnast það furðuvel. Í stað þess að tína fram sundurlausar ritningargreinir, þessu eða hinu til sönnunar, var nú farið að framsetja kenningar kirkjunnar í samfeldri heild. Var þá gerður greinarmunur á gildi bókanna eftir þeim mætti, sem þær áttu til að svala trúarþörfinni. Sú frumregla rétttrúnaðarins var hvarvetna brotin á bak aftur þar sem trúkendar-hreyfingin náði sér niðri, að þær séu allar jafn-gildar. Var gildi þeirra metið eftir þeirri sálubót, sem hver þeirra hafði í för með sér. Það var með öðrum orðum metið eftir áhrifum þeirra til trúar. Biblíuna skyldi ekki knésetja, heldur láta hana knýja til afturhvarfs. Í þessu var hin mesta framför fólgin og aftur horfið til skilnings siðbótarmannanna.

Aftur lagði heittrúar-hreyfingin á Englandi mjög einhliða áherzlu á úrskurðarvald biblíunnar. Á Þýzkalandi notuðu heittrúarmennirnir biblíuna um fram alt til guðræknisiðkana. En á Englandi skoðaði Wesley og fylgismenn hans biblíuna einnig og ekki síður sem guðlega heimild rétt-trúnaðarins, í baráttunni við deismann og efunargirni þeirra tíma. Áherzlan varð svo mikil að hún gekk fram úr öllu hófi. Bókinni fylgdu bein töfra-áhrif. Að bera hana á sér, var vernd gegn alls konar óhöppum. Þegar einhver var ráðalaus eða átti úr miklum vanda að ráða, átti hann að opna hana af handahófi og láta fyrstu orðin, er augað staðnæmdist við, skera úr.*) Þegar John Wesley var í vafa um, hvort hann ætti að fara ofan til Ipswich til að prédika þar, tók hann títuprjón, stakk honum inn á milli blaðanna í biblíunni, opnaði þar og lét fyrsta ritningarstaðinn, sem fyrir honum varð, segja sér til um, hvort hann ætti að fara eða vera kyr. Ef það var: „Greiddi hann (Jónas) fargjald og steig á skip í því skyni að fara“ (Jón. 1,3), hugsaði Jón sig ekki lengur um en fór. En væri það aftur svo: „Sá, sem er uppi á þakinu, fari ekki ofan“ (Mark. 13,15), fór hann hvergi. Væri hann ekki svoheppinn að finna neitt, sem svo var ljóst, leitaði hann annaðhvort lengi, eða þýddi eitthvað,

*) Arthur Cushman M'Giffert: Protestant Thought before Kant, New-York, 1911, bls. 172—173.

sem fyrir honum varð, með því að snúa því við með einhverjum brögðum, eins og þegar verið er að ráða draum, til þess að geta notað það samt.*) Enginn kunni betur að svala trúarþörf sinni og annara með biblíunni en John Wesley. Hins vegar var hún honum heiðinglegur töfrasproti, eins og hún hafði verið oft á dögum Ágústínuss, og jafnvel í höndum kirkjuföðursins sjálfs.**) Það kom þarna fram svo afar-áþreifanlega, eins og annars ávalt í sögunni, að heittrúnaðurinn, hversu margt gott sem hann annars ber í skauti sínu, þegar hann er einlægur snýst svo undur-auðveldlega yfir í hina mestu öfga- og ofsatrú. Þessi heiðinglega öfgatrú um töfravald hins ritaða orðs, heldur enn lífi fram á vora daga og kemur hvað eftir annað í ljós með forvörðum rétt-trúnaðarins meðal vor. Á Þýzkalandi hafði heittrúnaðurinn heillavænleg áhrif á skoðanir manna um biblíuna. Á Englandi fremur hið gagnstæða. Þaðan hafa því miður öfgaskoðanir um helgi og fullgildi biblíunnar breytt sig út til trúboðshreyfinganna í öðrum löndum, og orðið samferða hins vegar lofsverðum tilraunum biblíufélaganna að útbreiða biblíuna á öllum tungumálum um allan heim. „Álitið hefir verið, að einungis þyrfti að senda nógu margar lestir af bókinni með kraftaverka-mættinum út til heiðingjalandanna, til þess heilar þjóðir hyrfi til trúarinnar á Krist.***)

**30. Upplýsingaröldin.** Á Englandi var uppi um sama leyti, og þó nokkuð yngri, guðfræðingur einn að nafni Róbert Lowth. Hann var prófessor við háskólann í Öxnafurðu og síðar biskup. Sama árið og Astruc gaf út bók sína, þá er fyr var getið, gaf Lowth út aðra um skáldskap Hebrea.†) Síðar gaf hann út nýja þýðingu af spámanninum Jesaja, með skýringum. Sýndi hann fram á að mál spámannanna er að miklu meira leyti en menn höfðu áður gert sér ljóst, skáldskaparmál. Mesta þýðingu hafði það, að hann skoðaði gamla testamentið blátt áfram sem bókmentir. Bæði voru þessi rit hans þýdd á

---

*) Charles D. Williams, biskup í Michigan: The Bible: Have we lost it? American Magazine, April 1908, bls. 644. — Sbr. I. J. Smell: Wesley and Methodism, 1900, bls. 164—165. **) Sortes biblicae var þetta kallað og var nákvæmlega sama eðlis og „sortes vergilianae" í heiðnum heimi. ***) J. Allanson Picton: Man and the Bible, London 1909, bls. 32. †) Praelectiones de Sacra Poesi Hebraeorum, 1753.

þýzku.*) — Hins vegar tók nú upplýsingaröldin í strengina, að því er biblíurannsóknirnar snertir. Einn helzti guðfræðingur hennar hét Semler (d. 1791). Hann sýndi fram á, að helgiritasafn biblíunnar og guðs orð væri sitt hvað. Helgiritasafnið væri fram komið fyrir mannlegan tilverknað, og öllum ætti að vera frjálst að rannsaka það eftir eigin geðþótta. Þegar um réttan skilning nýja testamentisins er að ræða, vill hann setja sig inn í skoðanir og umheim nýja testamentishöfundanna, og þá um leið gera sér sem nákvæmasta grein trúarhugmynda gyðingdómsins, sem var sá jarðvegur, er kristnin spratt upp af. Á þann hátt verður svo nefnd „guðfræði biblíunnar“, grundvöllur trúfræðinnar, eins og á sér stað í nýrri tíð. Og á þann hátt leysast biblíu-rannsóknirnar smám saman úr böndum trúfræðinnar. En því verður naumast neitað, að önnur bönd komu í staðinn, án þess menn gerði sér það beinlínis ljóst. Rannsóknirnar fóru nú að verða kirkju og trúfræði andvígar, og létu að meira og minna leyti stjórnast af þeim ímugusti. Bók Spinoza, sem áður var getið, sagði til vegar og réð ferðum. Hvorki efunar-menn 17. aldar, né deistar, né skynsemi-trúarmenn 18. aldar fundu nýjar leiðir. En því miður sýndu þeir ekki aðra eins varfærni og nærgætni í umræðum og hann hafði gert, spekingurinn mikli. Árásir deistanna voru oft hrottalegar.

**31. „Hærri krítik“ kemur til sögu.** Eiginlega hefst það tímabil biblíu-rannsóknanna, sem vér stöndum uppi á, síðast á 18. öldinni. Þá brýzt sá skilningur fyrst algerlega til valda að rannsóknirnar verði að vera algerlega lausar við allar trúarsetningar. Með hinar sögulegu heimildir fyrir framan sig verði þær að leitast við að gera sér sem allra-ljósasta grein þess, er upphaflega átti sér stað og fór fram. Þær láta nú tungumálavísindin, bókmentasögu, mannkynssögu og sálarfræði fá sér þau tæki í hendur, sem leitast er við að fella réttlátan dóm eftir. Guðfræðingurinn ágæti, er haft hefir áhrif svo feiknamikil og frjóvandi á alla guðfræði 19. aldar, Schleiermacher (1768—1834), haslaði biblíu-rannsókninni völl, — markaði henni bás, ef svo má að orði komast. Hann lagði

*) Hið fyrra af Rosenmüller 1815. Hið síðara hefir verið gefi út á Englandi 13 sinnum á árunum 1779—1781 og hafði töluverð áhrif þar.

megin-áherzlu á tilfinningalíf mannsins í trúarefnum og á sérstöðu frelsarans. — Samt var það öllu fremur Johann Gottfried Eichhorn (d. 1827), sem hóf hin nýju sjónarmið til vegs og valda og gerði þau gildandi í rannsókn gamla og nýja testam.bókmentanna. Má telja hann öðrum fremur föður hinna nýju biblíu-rannsókna. Frá honum stafar heitið „hærri krítik.*) „Enginn gamall rithöfundur nokkurrar þjóðar hefir lifað svo (í bókmentunum) eftir sinn dag, að eigi hafi verið mörgu breytt í bókum hans eða viðaukum verið skotið þar inn.“ — „Fæst fornrit komu í þeirri mynd, sem vér nú eigum þau, frá hendi höfundanna“. Þessum setningum hefir hann þrýst inn í meðvitund allra þeirra, sem við bókmentalega gagnrýni fást. Eichhorn var skáldinu Herder handgenginn, gaf hinum andríku skoðunum hans stærra svigrúm og lagði þeim með rannsóknum sínum haldgóðan grundvöll. Herder (d. 1803) vildi kenna mönnum að lesa bibliuna sem hverja aðra mannlega bók og opna augu þeirra fyrir guðlegri og mannlegri fegurð hennar. Við lestur hennar vildi hann láta menn lifa sig inn í hinn barnslega, en um leið skáldlega skilning austurlandabúa á tilverunni. Þá fundu menn um leið alt annan skilning á margri ritningargrein, en kenning kirkjunnar hafði haldið fram. Eichhorn var austurlandafræðingur með afbrigðum og skoðaði gamla testamentið í ljósi austurlenzkra bókmenta. Í miklu ritverki í þrem bindum, um uppruna gamla testamentisins, gerði hann fyrstu tilraun til að rita rækilega bókmentasögu Gyðinga.**) En fullkominn heildarskilning á þroskasögu trúarhugmyndanna, sem Herder hafði látið sig dreyma um, brast hann samt. — De Wette (1780—1849) hefir nefndur verið fyrirrennari Wellhausens. Og víst er um það, að hann var einn af forvígismönnum biblíu-rannsóknanna á 19. öld. Hann sannar fyrstur manna það, sem Lúter hafði kannast við, hve óábyggilegar Kronikubækurnar eru. Með því ruddi hann réttari skilningi á sögu og trúarbrögðum Ísraels braut. Hvorttveggja var vafið þoku og reyk meðan Kronikubækurnar voru skoðaðar sem sögulegt rit. Með

---

*) Höhere Kritik. Íslenzka heitið ljótt og illa myndað, eins og öll, er þræða útlendu heitin of nákvæmt. Sbr. innri mission, sem þó er stöðugt notað öðrum þræði. **) Historische kritische Einleitung in das Alte Testament 1780—81, fjórða útg. 1823.

því að virða þær að vettugi sem sögulegar heimildir, sá hann fyrst til sólar og aðrir með honum. Hann hélt því fram, að 5. Mósebók hefði tilorðið á 7. öld f. Kr. De Wette var tröllaukinn frömuður sögulegra rannsókna, en oft og tíðum nokkuð neikvæðu. — Ewald (1803—1875) var jákvæðari andi, þó margir hafi vítt efunargirni hans. Í hinni miklu sögu sinni um Ísraelslýð, sem út kom á árunum 1843—1875, var fyrsta stórfenglega tilraunin ger til að taka til greina og setja í samstæða heild allan árangur biblíurannsóknanna.*) „Eftir að hafa skýrt skáld og síðan spámenn hins gamla sáttmála, fæ eg þeim, sem hingað til hafa veitt þessum ritverkum mínum vingjarnlega viðtöku, naumast nokkuð óvænt í hendur, þegar eg nú að síðustu dreg einnig hinar sögulegu bækur inn á rannsóknarsviðið og legg fram um leið heildarskoðun á fornöld Ísraels í fullu samhengi.“**) Með þessum orðum byrjar hann þetta nafnfrægasta verk sitt. Áhrifin frá manninum og ritverkum hans voru feikna-mikil.

32. **Gamla testamentis rannsóknin.** Samt sem áður var það annar maður, er lét sér takast að þrýsta því fram, sem verið hefir fram á vora daga aðal-atriðið í gamla testamentis rannsókn vorra tíma, en það eru sjálf trúarbrögð Ísraels og þroskaferill þeirra. Sá maður var Wilhelm Vatke (1806—1882), vinur hins alkunna guðfræðings á sviði nýja testamentisins, er síðar mun minst verða: D. Fr. Strauss. Þeir voru að því leyti líkir, að hvorugur trúði að líkindum á nokkurn persónulegan guð, heldur á eins konar hugsjónavald einungis, er alheiminum stýri. Báðir höfðu orðið fyrir miklum áhrifum frá Hegel og heimspeki hans. Vatke sýndi fram á, að það væri trúarhugmyndir spámannanna með Ísrael, en ekki helgisiðalögmálið, sem væri hið eiginlega hámark og sérkenni gamla testamentisins.***) Edward Reuss (1804—1891) kom fram með þá staðhæfingu 1832, að lögmálið sé yngra en spámennirnir og sálmarnir yngstir, en prestaritið frá tímanum eftir herleiðingu. Þetta kollvarpaði þeim skoðunum, sem hingað til höfðu verið ríkjandi, að prestaritið væri elzt þeirra

*) Geschichte des Volkes Israels bis auf Christus in 5 Bd. **) Eftir Religion in Geschichte u. Gegenwart II, 279. ***) Die Handbuch der biblischen Theologie, wissenschaftlich dargestelt 1835.

heimilda, er fimmbókaritið er fléttað saman af. — Einn af lærisveinum Reuss var Karl Heinrich Graf (1815—1869). Hið helzta ritverk hans var um hinar sögulegu bækur gamla testamentisins.*) Um það hefir hinn frægi hollenzki guðfræðingur Kuenen sagt, „að það í eiginlegum skilningi marki nýtt tímabil“. Eru hinar nýju skoðanir um tilorðning fimmbókaritsins og þroskasögu trúarbragðanna í Ísrael oft og tíðum tengdar við nafn hans. Graf leggur fram margföld og fullgild rök fyrir þeirri staðhæfingu Reuss, að prestaritið svo nefnda sé yngst, en ekki elzt af heimildum fimmbókaritsins. — Þá kemur Hollendingurinn, sem að ofan er nefndur, Abraham Kuenen (1828—1891) fram með meistaraleg rök um trúarsögu Ísraels (1869—70), þar sem gætni, nákvæmni og heilbrigð vísindamenska haldast í hendur. Með afar-víðtækri þekkingu styður hann þar skoðanir nútímaguðfræðinnar um tilorðningu Mósebókanna. Gengur hann feti framar en Graf, sem hélt því fram, að þeir kaflar prestaritsins, sem eru frásögn, kunni að vera eldri. Sýnir Kuenen fram á, að það sé alt frá tímanum eftir herleiðingu. — Wellhausen (f. 1844) hefir látið sér hepnast að sannfæra alla þá kynslóð gamla testamentis guðfræðinga, sem uppi hafa verið með honum, um aldur prestaritsins. Kannast nú allir við, að það sé yngst allra gamla testamentisritanna. Enda stóð Wellhausen á herðum guðfræðinganna, sem á undan honum höfðu verið og haldið hafa fram hinu sama. Rökstuðningsgáfu hefir Wellhausen þótt hafa með afbrigðum og kemur hún fram í öllum ritverkum hans, eins og t. d. Forspjalli til sögu Ísraels.**)

Svæði gamla testamentis-rannsóknanna hefir stöðugt stækkað, sannanirnar margfaldast og borist að úr öllum áttum. Á síðustu árum hafa rannsóknirnar einkum snúist um spámannaritin. Niðurstaðan hefir þar orðið sú, að öll spámannarit frá tímanum á undan herleiðingu eru til vor komin í mynd, sem þau hafa öðlast eftir herleiðingu, í nýjum útgáfum eftir höfunda, sem þá voru uppi, skeyttu eldri heimildir saman eftir eigin geðþótta og bættu því við frá eigin brjósti, sem þeim sýndist. Að því er spámannaritin snertir, hefir spurnaratriði rannsókn-

---

*) Die Geschichtlichen Bücher des Alten Testaments 1866. **) Prolegomena zur Geschichts Israels 1878, og Israelitische und jüdische Geschichte, 1894, 4. útg. 1907.

arinnar breyzt. Áður var spurningin þessi: Hvaða kaflar í Jesaja, Jeremia og hinum öðrum spámannaritum eru frá seinni tímum? Nú er hún fremur orðin svo: Hvernig fáum vér lesið úr þessum söfnum, sem gerð hafa verið eftir herleiðingu, þá kaflana, sem eru frá tímanum á undan herleiðingu? Saman við þetta fléttast svo vitaskuld hið fornfræga spurnaratriði um uppruna og framþróun Messíasar-hugmyndarinnar. — Árangur rannsóknanna á svæði gamla testamentisins má því í sem allra-styztu máli taka fram á þessa leið: 1. Móse getur ekki verið höfundur fimmbókaritsins. 2. Jesaja getur ekki verið höfundur þess kafla ritsins, sem honum er eignað, er byrjar með 40. kapítula og endar með þeim 64. — 3. Daníels-bók er ritin á 2. öld f. Kr. — 4. Prestaritið er til orðið eftir herleiðingu. — 5. Flestir sálmarnir eru til orðnir eftir herleiðingu.

33. **Nýja testamentis-rannsóknirnar.** Í byrjun 18. aldar má svo heita, að nýja testamentið væri alment skoðað spjaldanna á milli óyggjandi opinberunarbók hinna einu, sönnu trúarbragða, í mótmælendaheiminum, þó eigi skorti glöggskygna einstaklinga, sem höfðu nokkuð aðrar skoðanir í því efni. Nýja testamentið var heimild kenningarinnar. Hvert einstakt kenningaratriði átti að vera dregið af ákveðnum og full-ljósum stöðum í nýja testamentinu. En það var alt gefið fyrir guðlegan innblástur, sem að eins mannleg bíræfni gat fengið af sér að véfengja. Þá kom texta-rannsóknin til sögu. Nýjar útgáfur birtust, önnur 1707 eftir Mill,*) hin 1751 eftir Wetstein. Þar var það sannað eitt skifti fyrir öll, svo ekki mátti á móti bera, að handritunum hefir ekki borið saman frá elztu tíð og að munurinn er all-stórvægilegur víða. Þetta hnekti hugmyndinni um guðlegt fullgildi ritningarorðsins tilfinnanlega. Menn tók að gruna, að úrskurðarvald nýja testamentisins sé ekki eins óyggjandi og þeir höfðu gert sér í hugarlund, úr því mannleg dómgreind og þekking verður að skera úr um hljóðan orðanna. Mótmælalaust var eigi lengur unt að halda því fram,

---

*) Árið 1707 kollvarpaði John Mill allri trú á óskeikulleik nýja testamentis-textans með því að sýna fram á 30,000 ólíka leshætti, sem hann fann við samanburð nálægt 80 handrita. Sbr. Ernst von Dobschütz: The Bible. En. Religion and Ethics.

að úrskurðarvald nýja testmentisins sé sams konar og einhvers lagasafns, sem engum vafa er undirorpið. — Svo kemur þá líka annað atriði til sögu, sem verða átti eitt hið allra-mikilvægasta í vitund manna. En það voru náttúruvísindin, sem á 17. og 18. öld spruttu upp eins og laukar í garði. Menn tóku nú að hugsa um kraftaverkin eða jartegnirnar í nýja testamentinu í ljósi þekkingarinnar á náttúrunni, sem menn nú höfðu öðlast. Hingað til höfðu þessar jartegnir verið skoðaðar máttarviðir kristindómsins. Hér eftir tóku þær að valda sí-vaxandi erfiðleikum. Mörgum voru kraftaverkin eigi lengur trúnni til stuðnings, heldur miklu fremur til ásteytingar. Hvernig átti að skýra þennan voða-árekstur? Skynsemin, sem ávalt hafði verið höfð í litlum metum og skoðuð óendurfæddur heiðingi, komst nú til nýrrar tignar og var höfð í hávegum miklu meiri. Heimspekingarnir tóku nú fram svo miklu skýrar en áður, að sönn guðleg opinberun hlyti að vera svo úr garði ger, að hún fengi meðhald skynseminnar og vitsmunanna. En því miður var ekki léttur leikur að sýna fram á, að nýja testamentið í mörgum efnum hefði tekið slíka meginreglu til greina. Fyrir því tekur sá skilningur að ryðja sér til rúms, að nýja testamentið beri eigi að skoða sjálft sem opinberan, heldur fremur sem opinberunar-heimild, opinberunar-bókmentir. En sé það svo, verður eitt aðal-ætlunarverk rannsóknarinnar í því fólgið að gera sér nákvæma grein uppruna kristindómsins og elztu sögu, og á þann hátt komast að raun um hið sanna. Enda hefir þetta verið aðal-atriði nýja testamentis-rannsóknarinnar á 19. öld og það sem af er þeirri 20. — Skáldið Lessing á Þýzkalandi var glæsilegri rýnigáfu gæddur, eins og kunnugt er, en maður efagjarn að sama skapi. Hann gaf út árás eina á kristindóminn eftir Reimarus látinn.*) Er svo litið á af mörgum, að það hafi hrundið skynsemitrúarstefnunni inn í nýjan farveg. Aðal-atriðið í ritverki þessu eftir Reimarus var að sýna fram á, að hvað vel sem nýja testamentið væri lesið, gæti eigi lestur þess þrýst trúnni fram í mannshjartanu, ef sá er læsi, hefði hana eigi áður. Hin eldri skynsemi-trú hafði leitast við að skýra jartegnir nýja testamentisins eins og samtímis tilviljanir, öldungis eðlilegar; þó héldu menn sér dauða-

---

*) Wolfenbüttler Fragmente 1774—1777.

haldi við bókstafinn og nákvæmni frásagnanna. Ósjaldan tókst henni það afar-ófimlega. Bók þessi, sem Lessing gaf út, sýndi fram á, hve óheppileg skýringar-aðferð þetta er.

34. **Öfgaleiðir.** Fyrri hluta 19. aldar var uppi á Þýzkalandi guðfræðingur að nafni D. Fr. Strauss, og er hann áður nefndur. Hann gaf út æfisögu Jesú 1835, sem vakti eftirtekt afar-mikla. Þar var öllum kraftaverkasögum nýja testamentisins varpað fyrir borð og álitnar helgisagnir einar. Hann reyndi að gera að engu allar þær ástæður, er menn hingað til höfðu notað til þess að halda fast við kaftaverkin og tileinka sér þau. Hann skoðar þá trú nýja testamentis-höfundanna, að spádómarnir hafi ræzt í lífi Jesú, sprotna af því áliti lærisveinanna, að Jesús hafi verið Messías; þess vegna hlyti spádómarnir um Messías að rætast á honum. Í sambandi við þetta stæði kraftaverka-trúin; hún væri eins konar goðsagna-búningur, er kenningar kristinna manna hefði á sig tekið. Síðan gaf Strauss út aðra æfisögu Jesú handa þýzkri alþýðu (1863), en sú bók mishepnaðist og þótti ekki nærri nógu ljós. — Á Frakklandi reyndi Renan (1840) hið sama og dró upp mynd af Jesú, landi og lýð, ljósa og listfenga sem bezt mátti, en um of skáldlega og ímyndaða. — Hér gætir þess alt of mjög, hve myndin er löguð eftir lífsskoðun höfundanna og veruleikinn þess vegna virtur vettugi. Það er farið út fyrir grundvöll sögunnar.*) — Ferdinand Christian Baur, prófessor í Tübingen 1826—1860, og alment nefndur faðir Tübingen-skólans svo kallaða, lagði þann varanlega skerf til nýja testamentis-rannsóknarinnar, að aftur var horfið til frumritanna til þess að komast fyrir, hvort þau væri eftir þá höfunda, sem þau eru eignuð. Hann fann fyrst, að Galata-bréf og fyrra Korintu-bréf væri réttilega eignað Páli, manni, sem verið hefði leiðtogi þeirra, er hann hafði snúið til kristni. Því næst komst hann að þeirri niðurstöðu, að Rómverja-bréf og síðara Korintu-bréf væri einnig réttilega eignað Páli. Við að lesa nú þessi bréf ofan í kjölinn, rann sú hugmynd upp hjá honum, að hinn fyrsti kristindómur — kenning Jesú og frum-postulanna sjálfra — hafi verið með sterkum gyðinglegum blæ. Páll

*) Sbr. Weinel: Jesus im 19. Jahrhundert, e. útg. 1914, aukin og endurbætt, bls. 149—159.

hafi ekki verið einn af frum-lærisveinum hans, en snúist til kristni eftir krossfestinguna, eða þeirrar trúar, að Jesús hafi verið Messías. Um leið hafi hann orðið fyrstur til að sannfærast um, að lögmálið sé numið úr gildi fyrir kristna menn. Þá hafi risið upp misklíð mikil milli hans og frum-postulanna. Hún hafi ekki læknast fyr en gróið hafi um heilt með þessum tveim stefnum, hinni gyðinglegu og þeirri, sem kend er við Pál, í katólskri kirkju, eftir að hún kom til sögu. Það hafi fyrst verið á 2. öld. Baur heldur því fram, að Opinberunarbókin sé eftir Jóhannes Sebedeusson, sem veri ðhafi einn af leiðtogum gyðinglegu stefnunnar. En flestar hinar aðrar bækur hafi verið færðar seint í letur í þeirri mynd, sem vér eigum þær nú. Guðspjöllin sé öll frá 2. öld, þó Matteusar-guðspjall beri vott þess, að hafa varðveitt mikið til óbreytt all-mikið af gyðinglega frumritinu, er þar liggur til grundvallar. Postulasagan álítur Baur að ritin sé um 140. — Hér voru nýja testamentis-rannsóknirnar óneitanlega komnar inn í rangan farveg, enda öðlaðist þessi skýring Baurs og fylgismanna hans, fljótt nafnið „hlutdræg rannsókn“, (Tendens-Kritik), — eða rannsókn, sem ekki er gerð beint í þeim tilgangi að komast að sannleikanum, heldur til að finna sannanir fyrir einhverri skoðan, sem rannsóknin er hafin með. Slíkt getur ávalt komið fyrir, að rannsóknin villist, ekki að eins á svæði guðfræðinnar, heldur á öllum sviðum. En þegar gert er svo mikið úr þessu, að reynt er að ógilda með því réttmæti allra rannsókna, er farið með óvit. Vísindin leiðrétta sig ávalt sjálf. Það liggur í eðli þeirra.

35. **Tveir öndvegishöldar.** Hér varð þá líka þetta uppi á tening. Nú rísa upp nokkurir hinna ágætustu rannsóknarmanna á svæði guðfræðinnar og leiðrétta þessar öfgar og laga, sem komið var út í. Þar má fyrstan nefna Albrecht Ritschl. Hann sýndi fram á 1857, hvílíkt óvit það væri að þenja stífni lítils flokks og fastheldni við gyðinglegar venjur út yfir heila öld og láta hana ná til frumpostulanna allra. En sá mikli skerfur, sem hann lagði til vísindalegrar guðfræði eða biblíurannsóknanna, felst einkum í þeirri áherzlu, sem hann leggur á hið sögulega í kristindóminum, og þó einkum áherzlunni, sem hann leggur á hina sögulegu Krists-mynd. Hann skoðar

Jesú beina opinberan guðs í mannkynssögunni. Sú Krists-mynd, sem hann heldur fram, er enn að sönnu of mjög ífærð búningi kennisetninganna, þótt litla áherzlu leggi hann á kraftaverkin. Honum tókst ekki að tengja Krists-mynd sína við tímann og hið sögulega bakhjarl eins og mátti. En það hafa lærisveinar hans þeim mun betur látið sér hepnast. Síðan hefir Adolf Harnack og hver ágætis vísindamaðurinn á sviði guðfræðinnar á fætur öðrum, sýnt straumana, mörgu og einkennilegu, er í upphafi runnu saman og féllu í farveg kristindómsins. Erfisögninni hafa þeir aftur sýnt tilhlýðilega virðingu og látið hana leiðbeina sér, að svo miklu leyti sem þeim hefir réttmætt fundist. Margar mótbárur gegn ritvissu ýmsra bóka nýja testamentisins hafa þeir gert að engu og komið fram með jákvæða framsetningu og skýringu á svo ótal mörgu. Harnack hefir aftur þokað tímanum, er nýjatestamentisritin hafa orðið til á, nokkuð nær því sem áður var ætlað. Hann hefir sýnt fram á, að deila Páls við gyðinglegu stefnuna var ekki nærri því eins löng né stórkostleg og Baur ætlaði. Fall Jerúsalem-borgar tvístraði einmitt þeim hópnum og gerði áhrif hans næsta lítil. Söfnuðir Páls voru flestir grískir að uppruna. Alt þetta leiðréttir stefnu Tübingen-guðfræðinnar, og öfgarnar, sem hún óneitanlega lenti út í.

Þegar litið er yfir nýja testamentis-rannsókn síðustu hundrað áranna, verðum vér þess þegar varir, að hún stefnir stöðugt í sömu áttina. Hún er að gera sér grein hlutfallsins milli þriggja samstæðu guðspjallanna, sem eru hvert öðru svo lík, og þó svo ólík. Árangurinn er nú orðinn sá, að Markúsar-guðspjall er álitið elzt guðspjallanna, frá því um árið 70. Lúkas og Matteus, í þeirri mynd, sem vér nú eigum þau rit, sem við þá eru kend, milli áranna 80—100. Þau styðjast við Markúsar-guðspjall og annað rit, sem nú er glatað, þar sem skráð hafa verið mörg af orðum Jesú eða ræðum og nokkurar frásögur, sem ekki hafa verið teknar upp í Markúsar-guðspjall (Redequelle). Fjögur aðal-bréf Páls efast enginn um, að sé réttilega honum eignuð, og nú í seinni tíð sömuleiðis fyrra Þessaloniku-bréf og Filippi-bréfið. Síðara Þessaloniku-bréf og Kólossu-bréf kemur mönnum aftur ekki saman um. Bréfin til Títusar og Tímóteusar kemur biblíu-rannsókninni saman um, að sé ekki réttilega eignuð Páli, né heldur almennu bréfin réttilega talin

eftir þá höfunda, sem þau hafa eignuð verið. Fjórða guðspjallið og Jóhannesar-bréfin haldi fram skoðunum á Kristi og kristindóminum, sem útbreiddar hafi verið seint á fyrstu öld í Litlu-Asíu og færðar hafi verið í letur af kristnum kennara, er þar hafi átt heima, snemma á 2. öld.

36. **Trúarsaga.** Síðan á dögum Eichhorns hefir guðfræði Þýzkalands og þá um leið guðfræði hins mentaða heims, að lang-mestu leyti hvílt á þessum grundvelli biblíu-rannsóknanna. Nýjar og nýjar spurningar hafa risið upp, sem allar hafa í rauninni borið að sama brunni og öllum verið svarað á líkan hátt. Sú grein guðfræðinnar, sem áður var nefnd guðfræði gamla testamentisins, er nú fremur nefnd „trúarsaga Ísraels", eins og þær, sem Schulz, Smend, Marti og Stade hafa samið. Biblíuskýringarnar eftir Nowack og Marti ganga í sömu átt. Síðast en ekki sízt má nefna „rit gamla og nýja testamentisins, þýdd að nýju og skýrð fyrir nútímann".*) Í öllum þessum ritverkum er brugðið upp öldungis nýjum og gerbreyttum skilningi, bæði á tímabilinu, sem kent er við Móse, og eins gervöllum gangi sögu Gyðinga. Trúarbrögð Ísraels birtast þar sem söguleg stærð, er lýtur lögum framþróunarinnar eins og alt annað, bera má saman við önnur trúarbrögð og lýsa eftir hætti allrar sögulegrar þroskunar. Heitið trúarbragðasaga kemur nú fram og verður einkunnarorð. Samhengið, sem sýnt hefir verið fram á að eigi sér stað milli bókmenta forn-Babyloníumanna og Ísraels, hefir orðið mikill ávinningur. Lög Hammúrabi konungs, sem nýfundin mega heita og eru Móse-lögum miklu eldri, eru þeim að mörgu furðulega lík. Við samanburð trúarbragðanna kemur það í ljós, að trúarleg orðtæki, hugmyndir og athafnir, sem menn áður héldu, að hvergi komi fyrir nema hjá Ísrael, koma líka fyrir með öðrum þjóðum og eru svo að segja allsherjar eign. Ósjaldan verður þess greinilega vart, að uppruninn er ekki með Hebreum. Tökum til dæmis efnið í sögunni um sköpunina og syndaflóðið. Við samanburðinn verður það auðsætt, að hér eru hugmyndir stærri og eldri þjóðar teknar að láni. Sýnt hefir jafnvel verið

*) Schriften des alten und neuen Testamentes neu übersetzt und f. die Gegenwart erkl. Göttingen 1907—1915.

fram á, að eingyðistrú Hebrea sé runnin af eingyðistrú, er lifað hafi öðrum þræði með Babyloníumönnum.

37. **Með enskum þjóðum.** Þótt skoðanir biblíu-rannsóknanna ryddi sér þegar fyrir löngu til rúms á Þýzkalandi og megi heita að hafa setið þar lengi að völdum, áttu þær framan af nokkuð örðugra uppdráttar með enskum þjóðum ,sem ávalt eru furðu-íhaldssamar við hið gamla, ekki sízt í trúarefnum. Síðan á dögum Lowths á 18. öld og langt fram á 19. öld var allur þorri manna rannsóknunum fremur andvígur á Englandi, með fáeinum virðulegum undantekningum, eins og t. d. Colenso biskup. — Sá maður, sem á síðari tímum hefir á Englandi verið öndvegishöldur hinna nýju skoðana, er prófessor T. K. Cheyne. Síðan 1869 hefir hann verið starfandi með óþreytandi elju og dugnaði, en framan af með mestu sjálfsafneitun og varfærni vegna almenningsálitsins. Kring um 1880 verður á Englandi bylting í almenningsálitinu í þessu sambandi. Síðan hafa skoðanir gamla testamentis-rannsóknarinnar rutt sér til rúms í hinum enska heimi með sívaxandi hraða. Dr. Cheyne segir sjálfur: „Árið 1880 var það enn þá trúvillusök að halda því fram, að spádómsbók Jesaja væri eftir fleiri en einn höfund. Árið 1890 var þetta orðið sí-vaxanda hóp mentamanna í kirkjunni óyggjandi staðreynd.*) Árið 1906 var þetta orðin algeng vara á hugsanamarkaði enskumælandi manna.“ Tala þeirra höfunda, sem um þessi efni rita, verður hærri og hærri. Má nefna aðra eins menn og W. Robertson Smith og S. R. Driver. Níunda útgáfan af hinni miklu alfræðibók Englendinga, Encyclopaedia Britannica, tók að koma út árið 1875 og hélt áfram næstu ár. Í það mikla ritverk rituðu þeir Smith, Cheyne, Wellhausen og aðrir fjölmargar ritgerðir um guðfræðileg efni, einkum hinn fyrst nefndi. Studdi það ekki lítið að byltingunni, sem varð í hugsunarhættinum í þessu sambandi hvarvetna í hinum enska heimi. En 1878 var Robertson-Smith sakaður um trúvillu vegna ritgerða þessara og mál höfðað gegn honum. Hann féll á málinu, en varð svo frægur af vörninni, að hann breytti þeim ósigri, er hann

---

*) Origin of th Psalter, London 1891, XV. — Þar sem þessi merki guðfræðingur, sem nú er alveg nýlátinn, segir sögu þess, hvernig skoðanir rannsóknanna fengu hald á huga hans og þroskuðust hjá honum.

beið sjálfur, í sigur fyrir málefnið. Hann gaf út fyrirlestra, er þóttu sannfærandi með afbrigðum, þar sem hann hélt ósleitilega fram skoðunum, er Wellhausen hafði gert kunnar á Þýzkalandi og Kuenen komið fram með á Hollandi. Enda var hann fyrirtaks rithöfundur. Dr. Driver er gætinn og vandvirkur, en ekki jafn-ritsnjall. Hann gaf út bók sína um uppruna gamla testamentisins 1891; hefir sú bók verið gefin út mörgum sinnum síðan og þykir einna ágætast ritverk á því svæði.*)

Annar staðar í hinum ensku-mælandi heimi hefir álíka bylting í hugsunarhætti og skoðunum rutt sér til rúms. Í Ameríku hefir hver rithöfundurinn á fætur öðrum komið fram á svæði guðfræðilegra bókmenta síðan árið 1880 og talað máli hinna nýju skoðana, bæði í vísindaritum og alþýðubókum. Má nefna aðra eins menn og C. A. Briggs og Lymann Abott. Hinn fyrnefndi tók að sér útgáfu hins mikla safnverks: The International Critical Commentary í félagi við Driver, en er nú látinn. Hafa guðfræðingar beggja megin hafs lagt til þess mikla safns af biblíu-skýringum jöfnum höndum og er það talinn fullkominn jafnoki hinna beztu biblíu-skýringa, sem út koma á Þýzkalandi. Með Salmond, prófessor í Öxnafurðu, tók hann að sér útgáfu annars safns stórmerkra guðfræðirita, eftir höfunda, bæði enska og ameríska, er nefnist: International Theological Library, nú í 20 bindum, þar sem flestu hinu mætasta, er fram hefir komið af því tagi, er saman komið. Ekki þarf að taka fram, að hver einasta bók í þessu safni, sem ætlað er að ná yfir allar greinir guðfræðinnar, heldur fram síðustu og ábyggilegustu skoðunum rannsóknanna. Það byrjaði út að koma 1899 og var bók Drivers um uppruna gamla testamentisins fyrsta bókin.

**38. Alfræðibækur í trúarefnum.** Ekkert ber eins tvímælalausan vott um þær guðfræðilegu skoðanir, sem ráðandi eru og mestri útbreiðslu og viðurkenningu eiga að fagna á hverju tímabili eins og hinar svo nefndu biblíu-orðbækur. Með Þjóðverjum var Tellers orðbók yfir nýja testamentið algeng í byrjun 18. aldar. Hún var gefin út 6. sinni 1805. Í henni var

*) S. R. Driver: Introduction to the Literature of the Old Testament, 9. útgáfa, endurbætt og aukin, New-York 1899.

hið bezta, sem skynsemitrúin hafði til brunns að bera. Þá kom biblíu-orðbók Wieners í tveim bindum (3. útg. 1847). Þar réð andi og guðfræði De Wette og þær skoðanir á biblíunni, sem hann hélt fram og lýst hefir verið hér að framan. Þar næst birtist biblíu-orðbók Schenkels (1869—75) í fimm bindum; þá var Tübingen-guðfræðin við völdin og var skoðunum hennar haldið þar fram. Þá kom Riehm í tveim bindum 1875 og önnur útgáfa 1897. Getgátum var þar hafnað, en trúarsögunni gefið lang-mest rúm. Eigi má gleyma hinni miklu alfræðibók á svæði guðfræðinnar, er fyrst var gefin út af Herzog og í 3. sinni af Hauck (1896—1913) í 25 bindum, há-vísindaleg, en fer í mörgu meðalveg. Nú er öldungis nýkomið á þýzku eitt hið ágætasta ritverk, sem heimsbókmentirnar eiga: „Trúarbrögðin í sögu og nútíð“.*) Í öllum þessum fræðibókum er það svo, að þrátt fyrir dálitlar breytingar, sem skoðanirnar taka, eftir mönnunum, sem í þær rita, og mannsöldrunum, sem þær koma fram á, er þó sömu frjálslyndu rannsóknarstefnunni stöðugt haldið, en ávalt safnað stærri og stærri þekkingarforða. Aldrei hefir auðlegð þekkingarinnar verið jafn-mikil og nú.

Á Englandi kom út biblíu-orðbók eftir Smith 1863.**) Erfikenningar rétt-trúnaðarins sátu þar þá enn að völdum, enda hefir bókin ekkert annað fram að bera. Það er eins og England sé þá í annari heimsálfu en Þýzkaland. Árin 1898—1904 kom út biblíu-orðbók Hastings,***) sem öll er bygð á kenningum þeirra Vatke, Graf og Wellhausen, sem lýst hefir verið hér að framan. „Milli hennar og orðbókar Smith's gín gjá afarmikil,“ segir síðasta útgáfa (11., 1911) af Encyclopaedia Britannica, sem sjálf flytur hverja ágætis-ritgerðina á fætur annari um guðfræðileg efni, allar saman frá sjónarmiði síðustu rannsókna. Og þá má segja það með enn meira sanni um orðbók þeirra Cheyne og Black, er heldur fram þeim skoðununum, sem fjarlægastar eru hinu gamla.†) Enginn sá, er eignast vill guðfræðilegar og ábyggilegar heimildir,

---

*) Die Religion in Geschichte und Gegenwart. Handwörterbuch in gemeinverstandlicher Darstellung, herausgegeben von Schiele und Zscharnack Tübingen 1909—1913. 5 Bd. **) Sir William Smith: Dictionary of the Bible 1860—1865. ***) Hasting's Bible Dictionary 1898—1904. †) Encyclopaedia Biblica, 1899—1903.

hvort heldur kenslubækur eða almennar fræðibækur á því svæði, getur nú fengið annað en nýja guðfræði sér til stuðnings og þekkingarauka. Annað selst ekki, annað er ekki til neins að gefa út. Svo algerlega hefir ný guðfræði lagt undir sig landið með mentaþjóðunum.

39. **Árangur biblíu-rannsóknanna alment viðurkendur.** Ef til vill fæ eg ekki betur sannað útbreiðslu og almenna viðurkenningu þessara skoðana rannsóknanna um biblíuna en með því að tilfæra orð eins hins lærðasta guðfræðings á svæði gamla testamentisins, sem uppi er, prófessor Frants Buhl í Kaupmannahöfn, í formálanum fyrir 3. útgáfu af „Sögu Ísraelslýðs“, sem töluð er fyrir 16 árum. „Með tilliti til árangurs hinnar vísindalegu rannsóknar þessa efnis, er óþarft að færa sönnur fyrir honum við sérhvern þann, er að eins hefir haft stundarkynni af hinum fyrirferðamiklu þýzku, ensku, hollenzku og amerísku bókmentum frá þessu tímabili. Þrátt fyrir allan skoðanamun með tilliti til einstakra spurnaratriða og þrátt fyrir útúrdúra, sem stundum eru gerðir, byggir yfirgnæfandi meiri hluti þessara rita á þeim rannsóknar-grundvelli, er myndast hefir við samfelt hundrað ára starf, og sannar einmitt með því, hve öruggur þessi grundvöllur er. Einkum á þetta sér stað um þau rit, sem runnin eru frá hinum eiginlegu sérfræðingum á svæði gamla testamentisins. Það er þess vert að leggja áherzlu á þetta, þar sem þeir, sem láta sig dreyma um að útiloka algerlega þá ‚rannsókn‘, sem þeim er svo meinilla við, og með því ætla að þrýsta öllu aftur í gamla farið, hafa ef til vill ekki gert sér þá staðreynd ljósa, að þeir yrði að gera hvern einasta kennara í gamla testamentisfræðum rækan, sem um þetta leyti er settur við allar mentastofnanir mótmælenda í Norðurálfu, svo framarlega að gera ætti þessari kenslugrein skil samkvæmt kröfum þeirra.“*) Svo lét þessi prófessor við einn af háskólum Norðurálfu sér farast orð í júlí 1899. Þau 16 ár, sem síðan eru liðin, hefir stöðugt verið haldið í sömu áttina, svo þau eru enn sannari þann dag í dag, en þegar er þau voru töluð, og eiga ekki síður við um Ameríku.

---

*) Frants Buhl: Det israelitiske Folks Historie, tredje Udgave, København 1899, bls. IV.

**40. Að standa í sömu sporum.** Þetta örstutta yfirlit yfir sögu biblíu-rannsóknanna er nægilega ítarlegt ef til vill til þess að gefa sannleiks-elskum mönnum hugmynd um aldur þeirra og útbreiðslu. Upptökin eru þegar í elztu fornöld kirkjunnar. Við upptökin og langar leiðir niður eftir öldunum eru þær eins og smálækur. En sá smálækur heldur stöðugt áfram að renna, unz hann á fjórum síðustu öldum, einkum hinum tveim síðustu, verður að því stórfljóti, er öll önnur vötn falla í. Það má svo að orði komast, að allar mótbárur á vísindalegum grundvelli gegn þeim sé algerlega þagnaðar. Það eru ekki nema ljósfælnir sértrúarflokkar, sem flæktir eru útlifuðum trúarkreddum og blindaðir ofsatrú, sem nú berjast móti þeim, og vinna með því kristindóminum ómetanlegt tjón.

Í málaferlum þeim, sem út af deilunni milli gamallar og nýrrar guðfræði spunnust með Vestur-Íslendingum og gerð verður rækilegri grein fyrir síðar í bók þessari, lýsti lúterskur prestur í norsku sýnódunni (Fossmark), til þess fenginn af kirkjufélaginu vestur-íslenzka að hjálpa því við málareksturinn, nýrri guðfræði á þessa leið fyrir réttinum:

„Á hverjum hundrað árum breytist kristindómurinn. Ásigkomulag kirkjunnar í Noregi er feykilega grátlegt þann dag í dag. Mér skilst að kirkjan í Noregi sé í álíka grátlegu ástandi og kirkjan á Íslandi, og sömu raunalegu sannindin eiga heima um kirkju Þýzkalands. Þar byrjar h ú m b ú g g-ið hvert skifti. Svo fer það til Noregs, síðan til Danmerkur og að lokum yfir til Íslands hér um bil 25 árum síðar. .... Þetta h ú m b ú g g er nokkuð, sem tekur sig upp aftur og aftur einu sinni á hverri öld. Það er ekkert nýtt. Það er upptugga, — það er alt og sumt, í breyttri mynd. Kirkjufélag það, sem eg heyri til, hefir staðið stöðugt í sömu sporum síðan það var myndað fyrir 58 árum, og í nálægri tíð er ekkert, er bendir til nokkurrar breytingar hjá því að þessu leyti, svo eg viti. Kirkjufélag mitt og eg höfum aldrei breyzt í neinu kenningaratriði síðan það var stofnað 1858.“*)

Það má til sanns vegar færa, að kristindómurinn breytist á hverri öld, — skilningur manna á kristindóminum að minsta kosti. Sú staðhæfing er vitaskuld gerð þeim til minkunar, sem

*) In the Supreme Court, State of North Dakota, April 1913, Abstract bls. 266—267, folio 795—798. Sbr. Framb. pr. bls. 314.

að einhverju leyti breytast í skoðunum. En þegar að er gætt, er hún meira til lofs en lasts. Ein af þessum breytingum aldanna er siðbótin, — sú breytingin, sem þessir menn þykjast halda sér við. En í kristninni á stöðug siðbót að eiga sér stað. Allir sannleiks-elskir kristnir menn eru siðbótamenn. En hér er því hins vegar haldið fram, að æðsta dygðin í fari einstaklinganna og kirkjunnar sé, að standa ávalt nákvæmlega í sömu sporum, að því er til skilningsins kemur. Það er ekki stundarhugsan eins manns, heldur er það grundvallar-kenning rétt-trúnaðarstefnunnar nú og á öllum tímum, páfakirkjunnar, heimatrúboðsins á Íslandi, kirkjufélagsins vestur-íslenzka og sýnódu-guðfræðinnar lútersku í Ameríku. Æðsta dygðin er að vera steingerfingur, — skríða upp á múlann og verða að nátttrölli. Þess vegna eru allir þeir menn, sem eru skoðunum biblíurannsóknanna hlyntir, umsvifalaust brennimerktir trúvillingar.

---

## IV

## SKOÐANIR LÚTERS UM BIBLÍUNA

---

41. **Biblían ekki óskeikul.** Hér að framan var tekið fram, að á siðbótartímanum hefði trúarþörfin verið sú mælistika, sem lögð hefði verið á hin ýmsu rit biblíunnar og ummæli .Máttur orðanna til að svala trúarþörfinni var gildismælirinn. Sú meginregla var ný guðfræði þeirrar aldar. Á þann hátt hafði Lúter sannfærst um gildi biblíunnar, eða fagnaðarboðskaparins. „Ný guðfræði heldur hróðug leiðar sinnar," segir Lúter í Wittenberg sigrihrósandi.*) Um innblásturinn myndaði hann sér aldrei eiginlega samanhangandi hugmynd. En hugmyndir hans voru um það efni langar leiðir frá innblásturs kenningunni, sem Calovius síðar þrýsti inn í meðvitund kirkjunnar. „Eg held ekki, að nokkur í alvöru mundi þann dag í dag dirfast að staðhæfa, að þær sé hinar sömu."**) Miðaldakirkjunni lyfti Lúter upp af grunni einmitt með skilningi sínum á biblíunni. Það var svo langt frá, að hann tileinkaði sér innblásturs hugmynd miðaldanna, að um hann hefir merkur guðfræðingur með Þjóðverjum sagt: „Þá innblásturs-kenning, sem álítur öll ritin jafn-gilda heild, lagasafn, og hvarvetna sat að völdum í kaþólskri kirkju, er alls eigi unt að finna hjá Lúter."***) „Villuleysi biblíunnar heldur hann að eins fram í trúarefnum og lætur það alls ekki ná út yfir alt."†) Eins og Stefáni píslarvotti gat skjátlað í ræðu sinni (Post. 7), eins getur öllum hinum heilögu

---

*) „Die neue Theologie schreitet rüstig vorwärts", Enders I, 100. **) Ich glaube nicht, dass heute jemand ernstlich diese Identification wurde zu behaupten wagen." O. Scheel, Luthers Stellung zur heiligen Schrift, 1902, bls. 73. ***) Kunze, Glaubensregel, bls. 503. Eftir Thimme: Luthers Stellung. †) Thimme, bls. 74.

höfundum skjátlað.*) Ekki einu sinni postularnir eiga skilið að álítast óskeikulir í hversdagslegum hlutum, eftir skoðun hans. „Bókstafs-innblæstri ritningarinnar hefir Lúter aldrei haldið fram á nokkuru skeiði æfi sinnar, nema ef vera skyldi meðan hann enn var katólskur.“**) Miklu fremur skoðar hann biblíuna og dæmir um hana sumpart frá sögulegu sjónarmiði, þó vitaskuld væri hann þar skamt á leið kominn, sumpart frá sjónarmiði trúarinnar; það var honum aðal-atriðið, og þar var hann meistarinn.

42. **Biblían frá sögulegu sjónarmiði.** Lúter áleit það litlu máli skifta, hvort fimmbókarritið er eftir Móse eða ekki. „Hvað gerði það til? Þó Móse hafi ekki samið það, er það samt Mósebók.“***) — „Mér er svo meinilla við (2. Makkabea)-bókina og Esterarbók, að eg vildi að ekki væri til; því þær eru of gyðinglegar, og hafa mikið af heiðnum ósóma.“†) Konungabækur tók hann langt fram yfir Kronikubækur og taldi þær standa 100,000 fetum framar og þess vegna ábyggilegri.††) Hann álítur, að Móse hafi leitt lög og siðvenjur nágrannaþjóðanna inn hjá lýð sínum.†††) Hin tíu boðorð, segir Lúter, að Móse hafi getað tekið frá feðrunum,§) og muni hafa tileinkað sér margt frá nágrannaþjóðunum. „Hver efast um, að lögmálið og fleira hafi verið tekið eftir venju fyrri tíma og erfikenningu feðranna?“§§) Minnir það eigi lítið á biblíu-rannsókn vora, sem fundið hefir lög Hammurabi konungs og furðulega líkingu með þeim og Móse lögum. Lúter heldur því fram, að ræður spámannanna standi ekki í réttri röð og lætur sér til hugar koma, að ritum þeirra Jesaja, Jeremía og Hósea hafi verið um steypt af seinni tíðar mönnum. Með tilliti til nýja testamentisins má benda á, að Lúter skipaði fjórum ritum í eins konar viðbæti, aftan við hið eiginlega nýja testamenti, og merkti þau rit engum tölum eins og hin til að tákna röðina. Það var He-

*) Thimme, bls. 83. **) Karl Thimme: Luthers Stellung zur heiligen Schrift, 1902, bls. 87. ***) „Was thut das dazu? Wenn es gleich Mose nicht geschrieben hatte, doch ist es Mosi Buch.“ Erlanger Ausgabe 57, 35. †) „Ich bin dem buch (2. Maccabaer) und Esther so feind, dass ich wollte, sie wären gar nicht vorhanden; denn sie judenzen zu sehr, und haben viel heidnische Unart.“ Tischreden 62, 131. ††) S. st. 62, 132. †††) Enarrationes in Genesis. Opp. ex. IV, 259. §) E. A, 9, 253. §§) „Quis dubitet judicalia pleraque ex usu superiorum temporum et traditione patrum sumta.“ Annotationes in Genesis 1543, E. A. 63, 379.

brea-bréf, Jakobs og Júdasar-bréf og Opinberunarbókin. Og í formálanum fyrir þessum ritum gerði hann grein þess, að hann hefði tekið sér þetta leyfi. Frá sjónarmiði rétt-trúnaðarins, bæði þess á 17. öld og þess á vorum dögum, var það býsna mikið gerræði. En Lúter lét sér það ekki fyrir brjósti brenna. Um postulana segir hann, „að þeir hafi lítið ritað, og ekki allir, heldur að eins Pétur, Páll, Jóhannes og Matteus; eftir hina aðra postula höfum vér alls ekkert, því Jakobs-bréf og Júdasar, eru ekki postulleg rit, eftir því sem margir ætla.“ *) Um Pétur segir hann, að hann sé hinum postullega anda eigi jafn-gildur, með tilliti til 2. Pét. 3,9.**) Þetta var árið 1524, og það var eftir skoðunum rétt-trúnaðarmannanna árinu eftir að hann hafði náð þeim aldri, að hann gat ekki látið sér skjátlast. Matteusar-guðspjall er eftir sannfæringu Lúters ritað af postula. Samt skipar hann því skör lægra en Jóhannesar-guðspjalli. Til þess að ná hámarkinu er ekki nóg, að eitthvert rit sé eftir postula, heldur að efni þess svari til þess, sem hann álítur aðal-kjarna biblíunnar.***) Á þeim tíma, er Lúter fann sárast til þess, að hann þyrfti að styðjast við úrskurðarvald biblíunnar, neitaði hann að beygja sig jafnvel fyrir postullegum orðum.†) Í Leipzig efaðist hann í umræðunum við Eck um, að Jakob væri postuli, en kannaðist þó við, að hann hafi kunnað að vera það. En þótt hann hafi verið postuli, neitar hann að leggja sig undir úrskurðarvald hans. Jafnvel við orð Krists vill ekki Lúter binda sig, þegar þau sé ekki til hans töluð. „Ef Kristur hefði ekki bætt við: Prédikið allri skepnu, hefði eg ekkert látið það koma mér við og farið með það á sama hátt og eg nú fer með Móse; um hann kæri eg mig ekkert; hann kemur mér ekki við.“ ††) Benda verður um leið á einn stað, þar sem Lúter varar við að nota ákveðnari orðtæki en biblíunnar. Hann minnir á orðið „h o m o u s i o s“, sem kirkjan notaði gegn Aríusi og fylgismönnum hans. „Þó sál mín hati orðið h o m o-

---

*) E. A. 10,2, 388. Sbr. Scheel. **) E. A, 52, 271, ***) Sbr Scheel, bls. 50. †) Adolf Harnack: Lehrb. d. Dogm. 4, 1910, III, 858. ††) Wenn Christus nicht hätte hin zugesetzt: Prediget allen Creaturen, so wöllt ich mich nicht daran kehren, wollt nicht getauft werden, und mich also dagegen halten, wie ich mich itz und gegen Mose halte. An den kehre ich mich lauter nichts, er gehet auch mich nicht an, denn er nicht mir, sondern allein den Juden geben ist. E. A. 33, 17: Predichten über das erste Buch Mosis 1527.

usios, er eg ekki þess vegna trúvillingur. Hver getur neytt mig til að nota orð, sem af kirkjuþingi er leitt af ritningunni, ef eg að eins held merkingunni?"*) — Lúter tekur hart á þeim, sem nota biblíuna, án þess að taka hið sögulega tilefni til orðanna til greina: „Fyrst verður að muna, að ekki alt í biblíunni kemur mér við. Sumt kemur mér við; annað ekki; það eru svo ólíkir hlutir sem sumar og vetur. Það sem guð hefir skipað Abraham og Davíð, hefir hann ekki þess vegna skipað mér."**) — „Um alt, sem þeir lesa hjá Móse, segja þeir: Þarna talar guð; enginn getur neitað því. Svo hrópar skríllinn: Hæ, guð hefir sagt það, hver dirfist svo að mæla á móti?"***) Þetta segir hann 1527 í ræðum sínum út af fyrstu Mósebók, nokkurum árum eftir, að hann var orðinn óskeikull eftir dómi vorra rétt-trúnaðarbræðra. Hann setur fagnaðarerindið upp á móti Móselögmáli og kallar lögmálið „holdlegt" (fleischlich), ískyggilegt, og ekki sannleikann.†) Lúter tekur fram, að alt Móse lögmál heyri einungis Gyðingalýð til.††) Hann staðhæfir, „að ekki sé nóg að segja: Þetta hefir guð sagt, þetta eru guðs boð, heldur verður líka að gæta að því hverjum hefir verið boðið þetta."†††) Um biblíu-rannsókn talar Lúter þrem árum fyrir andlát sitt, og sýnir það bezt, að skoðanirnar um biblíuna fylgdu honum til grafar. Árið 1543 reit hann formála fyrir bók eftir W. Link um fimm bækur Móse, þar sem hann segir að við lestur ritningarinnar „eigi maður að sitja með pennann í hendi og skrifa niður það, sem kemur í hug við lestur og umhugsan. Á þann hátt hafa eflaust spámennirnir lesið í Móse og hinir síðari spámenn í hinum fyrri og ritað niður í bók þær góðu hugsanir sínar, sem heilagur andi hefir gefið þeim. .... Og þó þeir hinir sömu góðu og trúföstu kennarar .... létu hey, hálm og tré stundum blandast þar saman við og bygðu ekki úr eintómu silfri, gulli né gimsteinum, svo er þó grunnurinn varanlegur; hinu öðru eyðir eldur

---

*) „Si odit anima mea vocem homousios, non ero ego haereticus. Quis enim me cogit uti, modo rem teneam, quae in consilio per scripturas definita est." Rationis Latomianae confutatio 1521. Opp. var. V, 506. **) Sbr. Ammundsen: Den unge Luther, bls. 101. ***) E. A. 33, 15 n. †) Thimme, bls. 53. ††) Totam illam legem Mosaicam .... tantum ad populum Judaicum pertinuisse, VII, 96. †††) Non satis est dicere: Hoc deus locutus est, haec dei mandata sunt, sed videndum est et hoc, quibus mandarit, 33, 16.

hins síðasta dags."*) Lúter vílar ekki fyrir sér, að taka fram, að jafnvel spámönnunum hafi getað skjátlast og villur blandast saman við hjá þeim. „Slíkir spádómar (eins og Lichtenbergers og Jóakims ábóta og þar að auk nærri því öll Opinberunarbókin) eru í nýja testamentinu ónauðsynlegir spádómar, því þær bæta kristilega trú ekkert; forvitninni eru þeir að eins geðfeldir, þar sem þeir sýna, hvernig konungum og höfðingjum og öðrum veraldlegum stéttum muni ganga. Þess vegna er spádómsgáfan ein af hinum tilkomuminstu gjöfum guðs, og kemur líka stundum frá djöflinum."**) Þetta segir Lúter í einni af prédikunum sínum. Villur álítur hann að komi fyrir alveg eins í nýja testamentinu, og jafnvel í Hebrea-bréfi er hey, hálmur og rusl saman við.***) Fyrirsagnir sálmanna finnast honum vafasamar. Prédikarinn hélt hann, að væri ekki eftir Salómó, heldur væri færður í letur af Sírak á tímum Makkabeanna.†) Hann lætur þá skoðun í ljós árið 1528, að ræður Jesaja standi ekki í réttri röð og hafi ef til vill verið brenglað af seinni tíðar manni.††) Um Hósea heldur hann fram hinu sama árið 1532, tveim árum eftir að Ágsborgarjátning var samin.†††) Um bækur konunganna segir hann, að þær sé að eins „árbækur Gyðinga",§) og yfirleitt leggur hann enga áherzlu á umsögn biblíunnar um þau efni, er snerta veraldarsöguna.§§) Út af frásögninni um afneitan Péturs og frásögn Jóhannesar guðspjalls (18. kap.) um staðinn þar sem hún var gerð, segir Lúter: „Jóhannes kemur hér ruglingi á .... En menn fara hvorki til himins né helvítis þess vegna, þó því sé haldið fram, að allar þrjár afneitanir Péturs hafi farið fram í húsi Kaífasar."§§§) Sum apókrýfisk rit, eins og fyrsta Makkabeabók,¶) fundust honum vel geta átt heima í hinu helga ritsafni, miklu fremur en sum, sem þar væri, eins og t. d. Prédikarinn, „sem hvorki hefir stígvél né spora, heldur ríður í sokkum, eins og eg þegar eg var enn þá í klaustrinu."¶¶) Lúter hélt því fram, að hefði hann andans göfgi í dálítið fyllra mæli, gæti

*) 63, 379. **) „Und zuweilen auch vom Teufel kommt." 8, 22—23. ***) 63, 155. †) 62, 128. ††) 63, 57, (í formála fyrir Jesaja.) †††) 63, 74. §) „Nur der Jüden Kalender." 62, 132. §§) Thimme, 62. §§§) „Johannes machet hie eine Verwirrung .... Aber man fahret darumb weder gen Himmel noch zur Höllen, ob man schon dafür hält, dass alle drei Verleugnung in Kaiphas Hause geschehen sind." 50, 308, nn. ¶) Formálinn að 1. Makkabeabók frá árinu 1530, 63, 104. ¶¶) 62. 128, Tischreden.

hann skrifað nýja testamenti, sem eins væri gott og gilt og það, sem eftir postulana liggur. „Ef eg tæki sálmana, Jesaja, og um leið sama anda, gæti eg samið eins gott nýja testamenti eins og það, sem postularnir hafa ritað.“

43. **Biblían og trúarvitundin.** Samt sem áður var hið sögulega sjónarmið ekki aðal-atriðið í skoðan Lúters á biblíunni. Hann var of mjög barn sinnar eigin aldar til þess. Síðan hafa hin sögulegu sjónarmið rutt sér til rúms í hverjum hlut. En eins og tekið var fram hér að ofan, var trúarþörfin það sjónarmið, sem Lúter aðallega dæmdi um biblíuna frá. Að þeirri leið hafði hann sjálfur fundið hana og um leið sálu sinni frið. „Þú verður með sjálfum þér í samvizkunni að finna til Krists og ótvíræðlega til þess finna, að það er guðs orð, þó jafnvel allur heimur væri á móti því. Á meðan þú hefir ekki þessa tilfinningu, hefir þú enn þá vissulega ekki bragðað guðs orð, en liggur með eyrun við munn og penna mannanna.“*) — „Ef vér vildum ekki trúa fagnaðarerindinu, en létum tilleiðast af áliti allrar kristninnar, þá væri það rangt og ókristilegt. Einungis þess vegna ber sérhverjum að trúa, að það sé guðs orð og að finna það innvortis, að það sé sannleikur, jafnvel þó engill af himni og allur heimur prédikaði á móti.“**) „Guðs orð verður sjálft að fullnægja hjartanu, að umlykja manninn og ná tökum á honum, svo hann finni sig gagntekinn af því, hve satt og rétt að það sé.“ Fyrir því talar Lúter um tvo prófsteina réttrar kenningar: „Vér verðum að halda fast við þá kenningu og prédikan, sem vér höfum bæði ákveðinn stuðning fyrir í biblíunni og líka í reynslunni. Það skulu vera hin 2 vitni og eins og 2 prófsteinar réttrar kenningar.“***) Einatt talar Lúter svo um biblíuna, eins og væri úrskurðarvald hennar skilyrðislaust. Hann vill ekki heyra, að neinn bókstafur sé til hjá Páli, sem eigi allri kirkjunni beri að halda og hlýða†) Samt sem áður er það ávalt reynslan, rödd sálar hans, sem segir honum til. Hann talar um „heilaga ritningu og guðs orð“.††) Með öðrum orðum: „Alt í heilagri ritningu

---

*) Von beider Gestalt des Sacraments, 1522, E. A. 28, 298 **) Von Menschenlehren zu meiden, 1522; E. A. 28, 340. ***) E. A. 51, 103, †) De captivitate Babylonica 1520. Opp. var. V, 27. ††) Scriptura sancta et verbum Dei. W. A. I,506. Eftir Scheel.

er honum ekki guðs orð.“ Hann spyr sjálfan sig: „Hvernig getum við vitað, hvað er guðs orð?“ Hann vísar úrskurðarvaldi páfans og kirkjuþinganna á bug. Svo heldur hann áfram: „Þú átt á hættu að fara í gálgann, þú átt líf þitt á hættu. Þess vegna verður guð að segja þér það í hjarta þínu: Þetta er guðs orð, annars er það óvíst.“*) Og á öðrum stað: „Guð verður að draga manninn lengra, svo að hann, þegar maðurinn heyrir orðið, gefi honum það í hjartað, svo að hann sé viss um að það sé orð föðurins.“**) „Það er nauðsynlegt, að samvizkan og hjartað finni það, annars er það eintóm hræsni.“***) Samvizkan og hin innri tilfinning eru settar jafnhliða. Hann segir, að enginn skuli hrekja sig frá því, að guð kenni honum. „Frá því orði skal mig enginn hrekja, sem guð kennir mér .... Guð verður að tala í hjartanu.“†) „Eg verð að vera eins viss um það, eins og tveir og þrír sé fimm.“††) „Hvað ákveður mig þá? Enginn maður, heldur einungis sannleikurinn, sem er svo öldungis hárviss, að enginn fær borið á móti honum.“†††) Það er sama hugsanin og sú sem hann lætur í ljós í ritinu um herleiðinguna í Babýlon: „Mannssálin verður svo hrifin af sannleikanum, að hún neyðist til að segja með óbrigðulli vissu, að þetta sé sannleikur.“§) Þessi sannleikskraftur orðsins til að þrýsta sannfæringunni fram í hjarta mannsins er vitaskuld sama sem kraftur heilags anda: Testimonium spiritus sancti. Þess vegna segir Lúter líka: „Heilagur andi hefir skrifað í hjörtu vor staðhæfingar, sem eru lífinu sjálfu og allri reynslu áreiðanlegri og ábyggilegri,“§§)

---

*) Es gilt dir deinen Hals, es gilt dir dein Leben. Darum muss dir's Gott ins Herz sagen: Das ist Gottes Wort, sons ist es ungeschlossen. E. A. 13, 230, Prédikan frá 1522. **) Gott muss einen weiter ziehen, dass, wenn einer dass Wort höret, so gibt es ihm ins Herz, dass es des Vaters Wort gewiss sei. E. A. 47, 354. ***) Es ist von nöthen, dass es das Herz fühle, sonst ist es lauter Heuchelei. †) Darum von dem Wort, dass mich Gott lehret, soll mich niemand bringen .... Gott muss im Herzen reden. ††) Ich muss es so gewiss wissen als, dass drei und zwei fünfe machen. †††) Was beschleust mich da? Kein Mensch, sondern allein die Wahrheit, die so ganz und gar gewiss ist, dass sie kein Mensch leugnen kann. S. st. bls. 231. §) Veritate sic capitur anima .... ut dicere cogatur infallibili certitudine hanc esse veritatem. De captivitate Babylonica 1520, Opp. var. V, 102. Lúter tileinkar sér hér orð Ágústínusar. §§) Spiritus sanctus .... in cordibus nostris scripsit assertiones ipsa vita et omni experientia certiores et firmiores. Opp. var. V, 123-4.

Hann spyr: „Á hverju veit eg að orðið kemur frá guði? Spyr þú reynslu þína. Þegar orðið sker og lemur .... þá er það sent frá guði.“*) Engu öðru valdi má beita til að sannfæra aðra en valdi sannleikans. Eins og hvítasunnuhvinur þaut sá boðskapur frá Worms út um allan heim, að það væri engum ráðlegt að breyta gegn samvizku sinni. Það var hin mikla og ógleymanlega yfirlýsing um frelsi og ábyrgð einstaklingsins. „Hvorki páfi, né biskup, né nokkur maður hefir rétt til að leggja eitt atkvæði kristnum manni á herðar án samþykkis hans.“**) Í riti sínu einu, er hann nefnir: „Að kristið mannfélag eða söfnuður hafi rétt og vald til þess að dæma um allar kenningar“ o. s. frv.***) gerir hann þetta beint að umtalsefni. Heldur hann því þar fram, að hver kristinn maður hafi réttinn til að rannsaka sjálfur hverja kenningu og trúa í öllum efnum eftir því sem reynsla sjálfs hans og hinn líknandi kærleikur guðs bendir honum.

44. **Mælikvarðinn.** Lúter talaði um „heilaga ritningu og guðs orð“, eins og sýnt er hér að framan. Það kemur heim við þá skoðun nútíðarmanna á biblíunni, er heldur því fram, að guðs orð sé í ritningunni. Vitaskuld er langt frá því, að Lúter gerði þenna greinarmun ávalt, svo varfærinn maður var hann ekki. En hann er í huga hans stöðugt, þegar hann gerir sér og öðrum ljóst hvað í biblíunni sé áherzlu-atriðið, sem alt annað beri að dæma eftir. „Það játa eg fyrir sjálfum mér, að þegar eg oft hefi fundið í ritningunni minna en Krist, hefi eg aldrei enn þá fundið svölun.“†) Eins ljóst og verða má er þarna tekið fram í rauninni, að hið eina í ritningunni, sem fyrir Lúter hefir verulegt gildi, er Kristur; alt hitt eru umbúðir. Kristur er sannleikurinn og kjarni og þungamiðja ritningarinnar. Þess vegna getur hann sagt: „Hér stend eg, hér býð eg byrginn, hér stolta eg, státa og segi: Guðs orð met eg meira en alt annað, þess vegna vík eg ekki um hársbreidd frá því, þó þúsund Ágústín-

---

*) Woran erkenn ich, dass das Wort von Gott kommt? Frag dein Erfahrung um. Wenn das Wort schneidt und trifft .... so ist es von Gott ausgesandt. E. A. 40, 14. Út af 119. sálmi. **) De captivitate Babylonica 1520, Opp. var. V, 68. ***) Dass eine christliche Versamlung oder eine Gemeinde Recht und Macht habe alle Lehre zu urtheilen etc. †) Das beken ich vor mich, alls oft ich weniger yn der schrifft dan Christum funden hab, byn ich noch nie sat wurden.

usar, þúsund Heinzar og kirkjur að auk, væru á móti mér."*) „Páll vill ekkert annað vita en Krist (Kor. 2,2). Það sem prédikar ekki Krist, er ekki postulleg kenning, jafnvel þótt Pétur eða Páll kendu það. Það sem prédikar Krist aftur á móti, væri postulleg kenning, jafnvel þó Júdas, Hannas, Pílatus eða Heródes kendi það."**) — Fyrir því svarar Lúter mótstöðumanni sínum svo: „Þú otar fram þ r æ l n u m þ. e. ritningunni, og ekki allri, né heldur heldra hluta hennar. Þenna þræl læt eg þér eftir, og held fram d r o t n i, sem er konungur ritningarinnar."***) Og á öðrum stað: „Ef andstæðingar halda ritningunni fram gegn Kristi, höldum vér Kristi fram gegn ritningunni."†) Það er Kristur, sem kemur Lúter við; hið annað kærir hann sig ekkert um; það er ekki til hans. „Það er líka hinn rétti prófsteinn, til að dæma allar bækur, þegar maður sér, hvort þær prédika Krist eða ekki."††) Með öðrum orðum: Það í ritningunni, sem sýnir mér Krist, er guðs orð; hitt er að eins ritning — scriptura — eða umbúðir. Í þeirri merkingu talar Lúter um „heilaga ritning og guðs orð". Hann talar líka um ritninguna sem slíkar umbúðir og þær lélegar. „Því þetta eru þessir reifar, þessi jata, sem Kristur liggur í. Hrörlegir og lélegir eru reifarnir, en fjársjóðurinn, sem í þeim er fólginn, nefnilega Kristur, er mjög dýrmætur."†††) Á þenna hátt færði Lúter sér í nyt frelsi kristins manns til að v e l j a og h a f n a. Kristur var honum mælikvarðinn, hann og ekkert annað. „Greinarmunurinn, sem Lúter gerði milli biblíunnar og guðs orðs, gaf honum óvenjulegt sjálfstæði og sjálfsræði þegar hann var að fara með biblíuna."§)

---

*) Hier stehe ich, hier trotze ich, hier stolziere ich und sage: Gottes Wort ist mir über alles, darum gebe ich nicht ein Haar darauf, wenn 1000 Augustinus, 1000 Heinzen, Kirchen dazu, wider mich wären. E. A. 28, 379. **) E. A. 63, 157. Formálinn að Jakobs-bréfi 1522. ***) Tu urges servum, h e. s c r i p t u r a m et eam non totam neque potiorem eius partem. Hunc servum relinquo tibi, ego urgeo d o m i n u m, qui est rex scripturae. Gal. I, 388 n. Disputazia 1535. Opp. var. IV, 381, †) Si adversarii scripturam urserint contra Christum, urgemus Christum contra scripturam. Gen. I, 539. ††) Auch das ist der rechte Prufestein alle Bucher zu tadeln, wenn man siehet ob sie C h r i s t u m t r e i b e n oder nicht. E. A. 63, 157. †††) Hae enim sunt illae fasciae, hoc praesepe illud, in quo Christus iacet. Tenues et viles sunt fasciae, verum thesaurus involutus maximi est pretii, Christus scilicet. Opp. var. arg. VII, 77. Sbr. E. A. 63, 8. §) Arthur Cushman M'Giffert: Protestant Thought before Kant, 1911, bls. 56.

45. **Hefir Lúter afneitað sjálfum sér?** Fyrir rétti var því haldið fram af prestunum, sem báru vitni af hálfu kirkjufélagsins í málaferlunum út af deilunni um biblíuna, eins og sjá má af „Framburði prestanna fyrir rétti“ síðar í bók þessari, að Lúter hafi afturkallað opinberlega öll þau ummæli sín, er benda til þess, að hann hafi ekki álitið biblíuna alla jafn-gilda, né skoðað sjálfan sig og aðra kristna menn bundna við hvert orð hennar og bókstaf. „Lúter var ekki fullkominn maður, þegar hann yfirgaf katólsku kirkjuna. Þegar þér lesið æfisögu hans, verðið þér þess var hve hann þroskast. Mörg af ummælum þessum hafa verið afturkölluð opinberlega; hann vildi ekki standa við þau og ráðlagði fólki, að taka þau ekki gild“ (Ness). Svo fórust einu vitnanna orð. Hinir gengu á vaðið á eftir honum. Annar guðfræðingurinn (Fossmark) segir: „Á yngri árum hans (Lúters) var afstaða hans gagnvart biblíunni sem guðs orði algerlega ólík því, sem hún var á seinni árum.“ Sá þriðji (séra Kristinn) segir: „Með tilliti til þroska Lúters gildir það yfirleitt, að hann var á síðustu árum algerlega ólíkur því sem hann var, þegar hann yfirgaf rómversku kirkjuna. Eg skoða það almenna sögu, sem vér kennum í kirkju vorri, að um það leyti sem hann dó, viðurkendi hann alla biblíuna sem innblásið guðs orð og æðsta lögmál. Eg hefi lesið í sögunni, að hann játaði Jakobs-bréf, — að hann var sannfærður með tilliti til þess rits.“ Hann var beðinn að sanna þessi ummæli sín með ábyggilegum bókum. En engar þess konar heimildir hafði hann hjá sér og eigi var reynt að afla sér þeirra, þó þess væri góður kostur. Eina heimild kunni hann að nefna.*) En er að var gætt, bar hún vitni gegn honum. Þar stendur: „Ritningin var ekki Lúter neitt lögmál, heldur vitnisburður orðsins um Krist, vitnisburður um sáluhjálpina. Í þessu felst úrskurðarvald hennar.“**) Sá fjórði (Walper): „Þér verðið að gæta þess, að Lúter var ekki upphaflega lúterskur í þeirri merkingu, er vér leggjum í orðið, en Lúter var upphaflega katólskur munkur, og við lestur biblíunnar — heilagrar ritningar — varð hann upplýstur; hann var alinn upp í katólskri kirkju, og fyrir lestur heilagrar ritningar varð hann betur og betur það sem hann var síðustu æfi-ár sín.“ Sá fimti (Glenn): „Eg vil segja, að væri Lúter kominn þann dag í dag ofan til hinnar Sameinuðu lútersku kirkju í Vesturheimi, og segði, að við yrðum að kasta frá okkur Jakobs-bréfi og hinum öðrum ritum, þá myndum við ekki líta á hann sem vel lúterskan mann í okkar hópi.“ Sjötti guðfræðingurinn (séra Steingrímur) talar svo: „Mér hefir skilist, að stefna Lúters í þessu efni hafi verið breytileg, unz hún varð föst. Hann fór töluvert langan þroskaferil. Hann efaðist um sum biblíuritin. Hann gekk svo langt, að hann hafnaði sumum hlutum ritningarinnar. Eg kannast við ummæli hans um Jakobs-bréf. Eg veit ekki hver skoðun hans var um það bréf fyrir dauða hans. En eg hefi ávalt skilið það svo, sem hann styddist við guðs orð og að skoðanir hans um biblíuna hafi verið eftir sömu meginreglu og skoðanir

---

*) Jacobs and Haas: Lutheran Cyclopaedia, 1899, bls. 248. Sbr. Appellants' Brief, bls. 95—96. **) Bls. 248.

lútersku kirkjunnar yfirleitt. Mér er ekki kunnugt um neinn mismun á skoðunum Lúters um það leyti, að hann dó og lútersku kirkjunnar þann dag í dag.“ Sá sjöundi (séra Björn B. Jónsson) orðar framburð sinn á þessa leið: „Mér hefir aldrei skilist, að Lúter haldi því fram, að maður geti játað og hafnað heil. ritningu, eftir að hann hafði náð þeim þroska, sem lúterska kirkjan miðar við, þegar hún talar um hann sem föður sinn um fram aðra. Mér hefir ekki skilist, að hann hafi alla æfi haldið fram sömu skoðunum um innblásturs-kenninguna. Mér hefir verið sagt, að nokkuru eftir að hann yfirgaf katólska kirkju, hafi hann álitið, að hafna mætti pörtum heilagrar ritningar. Og mér hefir verið kent, að hann hafi tekið mjög ákveðinni breytingu á efri dögum sínum. Eftir því sem eg hefi lesið um þetta atriði, vil eg segja, að um það leyti sem hann dó, hafi hann játað innblástur allrar biblíunnar. Að mínu áliti er skilningur lúterskrar kirkju í Ameríku yfirleitt í samræmi við skilning Lúters á innblásturs-kenningunni um það leyti, sem hann dó.“ Aumingja Lúter! Loks komst hann til sannleikans viðurkenningar rétt áður en hann dó! Hann hlýtur þá, eftir framburði þessara guðfræðinga að hafa verið horfinn aftur til katólskrar trúar. Þroskaferillinn, sem þeir tala um, hefði þá allur verið aftur á bak. Það er aumi hugsanaruglingurinn. Þeir hafa augsýnilega gleymt þeirri setningu sinnar eigin sýnódu-guðfræði, að Lúter hafi orðið óskeikull árið 1523. Þá átti hann eftir 23 ár ólifuð. Í því er þó meira vit, að hann hafi verið óskeikull allan þann tíma, en að hann hafi loksins komist til réttrar trúar rétt fyrir andlátið. Flestallir þessara presta, ef ekki hver einasti, hafa standandi á bókahillum sínum lúterska biblíuskýring eftir ameríska guðfræðinga, er heyra ýmsum sýnódum til, og út kom rétt fyrir aldamótin síðustu. Þar er greinilega sagt frá skoðunum Lúters í sambandi við Jakobs-bréf. Eru mörg ummæli hans gefin orðrétt og þau fullsterk, svo þessir prestar hefðu átt að skilja og kannast við þau, er þau voru höfð upp fyrir þeim fyrir rétti. Þar var t. d. hispurslaust frá því sagt, að í þýzku biblíunni hafi Lúter skipað Hebreabréfi, Jakobs og Júdasarbréfi og Opinberunarbókinni aftast í eins konar viðbæti við nýja testamentið og sagt: „Þessi fjögur rit hafa verið fyr á tímum skoðuð í öðru ljósi.“*) Ekki er það með einu orði sagt að Lúter hafi tekið þessi ummæli sín aftur fyrir andlát sitt. Myndi þó naumast dul hafa verið á það dregin í biblíuskýring þessari, sem vitaskuld er hámark rétt-trúnaðarins. Prófessor Weidner, kennari þeirra séra Björns og séra Kristins, segir blátt áfram í skýringu sinni yfir Opinberunarbókina: „Það er vel kunnugt, að Lúter og sumir siðbótarmannanna drógu efa á postullegan uppruna Opinberunarbókarinnar og þess vegna líka á ritvissu hennar.“**) Hann nefnir ekki einu orði, að Lúter hafi gengið í sig með það álit sitt. Það er því ekki gott að vita, hver hefir kent þeim slíka

*) Revere F. Weidner: Annotations an the General Epistles of James, John and Jude 1897, bls. 90. Lutheran Commentary vol. XI. **). Weidner: Revelation 1898, bls. XI: It is well known that Luther and some of the Reformers questioned the apostolicity, and therefore also the canonicity, of the apocalypse.

kórvillu. Annað hvort hafa þeir hlotið að segja þetta móti betri vitund, og það er leitt að þurfa að segja það, eða þeir vita ekkert hvað stendur í þeim heimildarritum sýnódu-guðfræðinnar, sem þeir eru svo fast bundnir við. En nú skulum við sjá, hvernig þessu er farið.

Í Nýjatestamentis-útgáfu Lúters frá 1522 stendur á eftir 3. Jóhannesar-bréfi þessi stutta umsögn: „Hingað til höfum vér haft fyrir oss hin réttu og sönnu höfuðrit nýja testamentisins. Þessi fjögur, sem hér koma á eftir (Hebrea-bréf, Jakobs-bréf, Júdasar-bréf og Opinberunarbókin) hafa frá því í fornöld eigi notið sama álits.“*) Hann tekur sér það bessa-leyfi, að setja þessi rit í eins konar viðbæti. Sama árið skrifar hann: Margir staðhæfa og hafa mikið til síns máls, að þetta bréf sé ekki eftir Jakob postula og nái ekki göfgi postullegs anda.“**) Í formálanum fyrir Jakobsbréfi segir hann blátt áfram 1522: „Þessu bréfi hafa hinir gömlu hafnað.“***) Í Um Júdasar-bréf segir hann: „Hinir gömlu feður hafa hafnað því úr aðal-ritsafninu.“†) Og um Opinberunarbókina segir hann: „Margir feðranna fyr á tímum hafa hafnað þessu riti.“††) Í formála fyrir sömu bók, sem hann ritar 1545, árinu áður en hann lézt, ritar hann: „Vegna vafasamrar skýringar .... höfum vér hingað til gengið fram hjá þessari bók, einkum vegna þess, að það er álit nokkurra gamalla feðra, að hún sé ekki eftir Jóhannes postula .... og í þeim vafa látum vér hana vera.“†††) Um Júdasar-bréf segir hann, að það láni frá og sé að nokkuru leyti eftirrit af 2. Péturs-bréfi,§) og noti apokrýfisk rit.§§) Um Jakob segir Lúter, að hann láni frá Pétri og Páli og hafi þó snemma látist.§§§) Af því, hvernig síðara Péturs-bréf (3,15) minnist Pálsbréfanna, dregur hann nákvæmlega sömu ályktan og biblíurannsókn vorra tíma, að það bréf sé ritað löngu síðar en Páls-bréfin;¶) líkt sé farið Hebrea- (2,3) og Júdasar-bréfi, er

---

*) Haben vorzeiten ein ander Ansehn gehabt. **) Hanc epistolam non esse apostoli Jacobi, nec apostolico spiritu dignam multi valde probabiliter asserunt. De capt. Bab. V, III. ***) Diese Epistel ist von den Alten verworfen. 63, 156. †) Die alten Väter haben sie aus der Hauptschrift verworfen. 63, 158. ††) Viel der Väter haben dies Buch vorzeiten verworfen. S. st. bls. 169. †††) Um der solcher ungewissen Auslegung .... willen haben wirs bisher auch lassen liegen, sonderlich weil es auch bei etlishen alter Vätern geachtet, dass (es) nicht S. Johannis, des Apostels, sei .... in welchem Zweifel wirs für uns auch noch lassen bleiben. E. A. 63, 159. §) 63, 158. §§) 52, 277 og 281. §§§) 63, 157. ¶) Diese Epistel (muss) lang nach S. Paulus Episteln geschrieben sei. 52, 271.

tali um postulana eins og heyrandi til löngu liðinni kynslóð.*) Um Jakobs-bréf skrifar hann ennfremur: „Eg álít það ekki vera postullegt rit, og þetta eru ástæður mínar: Það kennir beint á móti Páli og allri ritningu annari réttlætingu af verkum.**) — Í samanburði við aðalritin er það rétt nefnt hálmbréf, því það er alls ekki evangelisks eðlis.“***) — „Það ætlar að kenna kristnum mönnum, og minnist ekki einu sinni svo yfirgripsmikilla kenninga sem píslarsögunnar, upprisunnar og anda Krists, sem er þó ætlunarverk hins sanna postula.“†) Fyrsta svipaða umsögn Lúters gagnvert Jakobsbréfi er frá árinu 1519: „Stíll þessa bréfs er langt fyrir neðan postullega göfgi og er alls ekki við stíl Páls saman að jafna.“††)

Um þetta efni segir þýzkur höfundur: „Lúter hefir í þessu atriði alls ekki breytt um skoðan eins lengi og hann lifði.“†††) Og annar: „Vér getum ekki sagt, að Lúter hafi verið sjálfum sér ótrúr, að hann hafi fallið frá frjálsmannlegri skoðan á ritningunni, sem hann upphaflega hafði, meira eða minna snögglega.“§) Samt sem áður hefir hann látið setninguna þar sem orðtækið h á l m-bréf kemur fyrir, falla burt í hinum seinni biblíu-útgáfum, en það er hvergi til eitt einasta orð eftir hann um það, að honum hafi fundist það of-harður dómur. Að álit hans á Jakobs-bréfi hélzt hið sama frá fyrstu tíð og fram að andláti hans sézt bezt á því, að í skýringu sinni yfir 1. Mósebók, sem ritin er á allra-síðustu árum hans, hikar hann sér ekki við að segja: „Jakob talar í óráði, er hann segir að verkin réttlæti.“§§) Og í borðræðunum segir hann: „Hverjum sem tekst að samrýma Pál og Jakob, vil eg setja húfuna mína á höfuðið og láta hann kalla mig aulabárð.“§§§) Gamli Lúter er furðu líkur Lúter hinum unga í orðavali og talshætti. Hann

---

*) 63, 154—155. **) 65, 156. ***) Darumb ist Sanct Jakobs Epistel ein recht strohern Epistel gegen sie (die Hauptbücher), denn sie doch keine evangelische Art hat (1522). 63, 115. †) 63, 156. ††) Stilus epistolae illius longe est infra apostolicam maiestatem, nec cum Paulino ullo modo comparandus. Resolutiones super propositionibus Lipsiae disputatis, 1519, Opera varii argumenti III, 278. †††) Karl Thimme: Luthers Stellung zur Heiligen Schrift, Gütersloh, 1903, bls. 66. §) Otto Scheel: Luthers Stellung zur heiligen Schrift, 1902, bls. 76. Höf var þá privat dócent við háskólann í Kiel. §§) Delirat Jacobus fructus justificare. Enarr. in Gen. 1535—45. Opera Exegetica latina V, 227. §§§) Wer Paulum und Jakobum zusammen reimen kann, dem will ich mein Barret aufsetsen und will mich einen Narren schelten lassen. Tischreden 62, 127.

afneitaði aldrei sjálfum sér meðan hann lifði; til þess var hann of sannarlegt mikilmenni. Um borðræður hans hér skal það tekið fram hér, að þær eru nú skoðaðar ágæt heimild, síðan dagbækurnar, er þær voru gefnar út eftir, hafa verið prentaðar, og hægt er að styðja hver einstök ummæli við þær. Árið 1543 kom út partur af kirkjupostillu Lúters, þrem árum áður en hann dó. Þar hikar hann sér ekki við að kveða upp þann dóm sinn um Jakobs-bréf enn einu sinni frammi fyrir söfnuðinum, að „bréfið sé ekki eftir postulann og sé langt frá að vera jafngilt hinum öðrum postula-ritum.*) Í prédikan frá árinu 1536, yfir Jak. 1,16 nn., segir hann í dálítilli formálagrein: „Vér viljum ekki gera bréfið alveg rækt, þó það sé ekki skrifað af postula, né að öðru leyti postullegs eðlis og tegundar, og ekki alveg hreinni kenningu samboðið.**) Hið merkilega við þessi síðustu ummæli Lúters um Jakobsbréf er einmitt það, hve nauðalík þau eru hinum fyrstu ummælum hans frá árinu 1519. Og eftirtektarvert er það líka, hve líkt þeir komast að orði um þetta n. t. rit, Erasmus og Lúter. Dómur Erasmusar var svo: „Það virðist ekki bera með sér postullega tign og göfgi.“***) Um Opinberunarbókina komst Lúter svo að orði 1522, einu ári áður en hann varð óskeikull(!): „Andi minn finnur ekkert hæli í þessari bók, og er mér það nægileg ástæða til að meta hana lítils, að hún hvorki kennir né viðurkennir Krist, en að gera það er um fram alt postulleg skylda.“†) Spádómum hennar samjafnar hann spádómum Lictenbergers nokkurs, er þóttu mesta rugl. En í síðari útgáfum eru þessi ummæli um opinberunarbókina feld úr. Í formálanum fyrir Opinberunarbókinni frá 1545, er dómur hans nokkuð mildari. Þar skilur hann við hana, án þess að kveða upp dóm um, hvort hún eigi heima í nýja testamentinu eða ekki,††) eins og sýnt er hér að framan. Í þessum smáatriðum hefir Lúter eins og ofurlítið

---

*) Die Epistel ist nicht des Apostels und den andern Aposteln weit nicht zu gleichen. **) Wir wollen sie nicht gar verwerfen, wiewohl die Epistel nicht von einem Apostel geschrieben noch altenhalben der rechten apostolischen Art und Schlages und der reinen Lehre ganz gemäss ist. ***) Non referre videtur maiestatem illam et gravitatem apostolicam. Eftir Thimme, bls. 67. †) Mein Geist kann sich in das Buch nicht schicken, und ist mir die Ursach genug dass ich sein nicht hoch achte, dass Christus darin weder gelehrt noch erkannt wird, welches doch zu tun for allem ein Apostel schuldig ist. 63, 170.

mildað úr fyrsta orðalagi sínu, án þess í raun og veru að breyta dómi sínum, með tilliti til Jakobs-bréfs og Opinberunarbókarinnar. Hann er orðinn eldri maður og kemst varlegar að orði, þó djarfmáll hafi hann verið fram í andlátið. Annars vegar var Lúter barn aldar sinnar, talaði mál hennar og var að mörgu leyti háður skoðunum hennar. Hins vegar var hann þrjár aldir á undan sinni tíð í skoðunum sínum og dómum. Þá talar hann sem siðbótarmaðurinn frjálsi, — talar af sínu eigin. Þrátt fyrir alt hefir hann haslað hugsanafrelsinu stærri völl í meðvitund mannanna, en nokkur einn maður hefir gert síðan á dögum Páls postula. Hann hefði ekki gert það, ef hann hefði gengið í sig og afturkallað þau ummælin, er mest gengu í berhögg við skoðanir, sem unnið höfðu margra alda hefðar-helgi. Lúter hefir ekkert af ummælum sínum um biblíuna afturkallað „Þrír sakar-aðiljar voru prestar, sem heima áttu í Grand Forks, bænum þar sem réttarhaldið var. Í þeim bæ voru fleiri lúterskir prestar aðrir. Í bænum er líka stórt opinbert bókasafn. Það sætir þess vegna býsna mikilli furðu, að þrátt fyrir alt þetta og þrátt fyrir það, að réttarhaldið í Grand Forks varaði í fimm daga, var ekki neinu vitni sakaraðilja unt að leggja fram fyrir réttinn, þó á þá væri skorað af lögmönnum sakborninga að gera það, eina einustu heimild til að sanna, að Lúter hefði nokkuru sinni — hvað þá heldur fyrir þann tíma að játningarnar voru saman teknar, — breytt skoðunum sínum, sem lýst er hér að framan.*)

45 b. **Arfleifð Lúters.** Allir menn eru háðir tímanum, sem þeir eru uppi á og takmarkaðir af honum. Allir skilja eftir svo og svo mikið af ætlunarverki sínu óunnið. Lúter var að þessu leyti engin undantekning. Hann vann eitt hið stærsta þrekvirki, sem nokkur einn maður hefir unnið. Hann kollvarpaði öllu kenningarkerfi katólskrar kirkju, sem staðið hafði óhaggað síðan í fornöld. Trúin, sem kirkjufeður og skólamenn lögðu alla áherzluna á, var auðsveipni við kenningarkerfi kirkjunnar; því að það álitu þeir óskeikult. En Lúter gekk í berhögg við öll þessi fullveldi. Hann barðist gegn óskeikulleika kirkjunnar, páfans, kirkjuþinganna og kirkjufeðranna, bæði að því er trúarlærdóma snerti og skýringu biblíunnar. Hann gerði ekkert úr því, að hið kirkjulega skipulag gæti verið sannleikanum nokkurt veð eða nokkurum manni vátrygging í þeim efnum. Frammi fyrir öllum heimi hafnaði hann öllum trúarsetningum liðins tíma, nema að því leyti, sem hann gat fundið

*) Appelants' Brief, bls. 95—96.

þeim fullgildar sannanir. Enginn maður hafði rétt til að koma til hans og segja: Þessu skaltu trúa, sökum þess að kirkjan hefir trúað því í margar aldir. Hann varð sjálfur að finna sönnunina. „Lúter hefir aldrei sjálfur haldið því fram, að felsandi trú og rétt-trúuð guðfræði sé eitt og hið sama."*) Og um leið og Lúter barðist svo hraustlega gegn fullveldi kirkjuþinganna og kirkjunnar yfirleitt, barðist hann líka gegn óskeikulleik biblíunnar. „Hvernig gat hann annað?***) Fyrir því gerði Lúter greinarmun guðs orðs og ritningarinnar, eins og sýnt var með eigin orðum hans. „Það getur engum vafa verið undirorpið, að afstaða Lúters til nýja testamentisins eins og hún birtist í „formálunum" og öðrum fleiri ritverkum er sú rétta, þ. a. e. a. s. sú sem hefir verið í samræmi við trú hans."†) En á hinn bóginn var langt frá, að Lúter léti sér hepnast, að ganga svo frá kenningu sinni um biblíuna, og ýmsum kenningum öðrum, að þær væri full-ljósar eða full-hreinsaðar af hinum katólska sora. Ætlunarverkið var kröftum eins manns algerlega ofvaxið, svo þetta þarf engan að furða. Þrátt fyrir þetta var æfistarf Lúters risaverk, sem nærri því virðist mannlegum kröftum ofurefli. En hann lét andlegu afsprengi sínu eftir mikla arfleifð, sem í því er fólgin að halda því siðbótarverki áfram, er hann svo frjálsmannlega hóf, og hreinsa láfa kristinnar kirkju af hálminum og hisminu, sem hann skildi eftir. Í hverju arfleifð þessi er fólgin, skal eg nú leitast við að taka fram í sem fæstum orðum.

(i.) Lúter skilur við kenninguna um biblíuna og úrskurðarvald hennar í allmikilli óreiðu. Þegar hann talar um Krist í mannssálinni sem hinn sanna prófstein, náðarboðskapinn sem guðs orð og trúarvitund mannsins sem hið æðsta úrskurðarvald, talar hann af sínu eigin, eins og siðbótarmaðurinn frjálsi. En að svo miklu leyti sem hann talar um hið ritaða orð biblíunnar sem úrskurðarvald utan við manninn, eins og hann því miður gerði öðrum þræði, talar hann eins og barn katólskrar kirkju. Hann brestur með öðrum orðum máttinn til að rífa sig með öllu undan hinu ytra fullveldi, sem hann barðist gegn. Þessar leifar katólskunnar sem hann skilur þarna eftir, reynast eftirkomendum hans örlagaþrunginn arfur, sem þá brestur enn þá meir mátt til að losa sig við. Fyrir því féll siðbótarkirkja 17. aldar aftur niður í katólskuna í kenningu sinni um biblíuna, og hið seinna ástand varð verra hinu fyrra, lúterska kenningin um biblíuna enn meira óvit en nokkurn tíma katólska kenningin. „Það er óhætt að segja, að engar leifar katólskunnar hafa orðið mótmælendatrúnni annar eins Þrándur í Götu og þessar."†) Alveg á sama hátt og í katólskunni var ritningin látin lúta reglu trúarinnar,††) sem ekkert annað var en trúfræðin lúterska. Mannsandinn var aftur kominn undir ánauðarok steingjörs rétt-trúnaðar, er studdist við óskeikula biblíu, og þessi óskeikula biblía var látin kenna það eitt,

---

*) M'Giffert: Protestant Thought before Kant, bls. 60. **) Harnack: Dogmengeschichte 4 III, 858. ***) S. st. †) Harnack: Dogmengeschichte III, bls. 878. ††) Regula fidea, analogia fidei, — „mælikvarði biblíunnar sjálfrar" eins og kirkjufélags-yfirlýsingin komst fremur ófimlega að orði.

sem hann heimtaði. Einmitt að þessu leyti hefir Lúter eftir skilið mikla arfleifð: þá, að losa sig við ytra fullgildi (autóritet) ritaðs og óskeikuls orðs á sama hátt og hann reif sig undan öllu öðru katólsku fullgildi eða úrskurðarvaldi.

(ii.) Lúter tekur við og afhendir afkomendum sínum kenninguna um erfðasyndina gagnrýnilaust. Hann gætir þess ekki, að hún er heiðinglegur og gyðinglegur arfur, sem í höndum katólskrar kirkju hefir orðið hjáleitur viðauki við fagnaðarerindið. Kenningin um erfðasynd er bæði meira og minna en náðarboðskapurinn. Hún er meira að svo miklu leyti sem hún er fólgin í ímyndaðri þekkingu á upphafi mannkynssögunnar. Hún er minna en fagnaðarboðskapur Krists vegna þess að hún breytir sektartilfinningu mannsins í afsökun. Hún er hjáleitur viðauki, sem siðbótarkirkjan þarf að losna við.

(iii.) Lúter var einhliða í baráttu sinni gegn páfadómi og miðaldakirkju. Hann bar lotningu miklu meiri fyrir fornkirkjunni; gagnrýnin var enginn meginþáttur í eðli Lúters. Gagnvart guðfræði fornkirkjunnar var hún alls ekki glögg, þótt hann skoðaði sig alls ekki bundinn af kirkjufeðrum né kirkjuþingum. Trúgreinasagan var þá vafin þoku í samanburði við það sem hún er nú. Og Lúter, þó furðu-lærður væri, gat ekki í því efni vitað meira en samtíð hans. Þættina, sem heiðin heimspeki fornaldarinnar hafði ofið inn í kenningakerfi kirkjunnar, kunni hann því ekki að rekja úr. Fyrir því tekur hann við kenningu fornkirkjunnar um þau tvö eðli Krists eins og heilögum trúararfi. Út frá henni komst hann út í það óvit, að halda fram kenningunni um alstaðarnálægð líkama Krists, sem er eins mikil fjarstæða og kenningaheilaspuni skólaspekinnar, þar sem hann er í algleymingi. Þenna sora heiðinglegrar heimspeki og afvegaleiddrar skólaspeki hefur hann skilið eftirkomendum sínum eftir, að hreinsa fagnaðarerindið frá.

(iv.) Í kenningunni um náðarmeðulin verður sömu ósamkvæmni vart hjá Lúter og í kenningunni um biblíuna. Og hún hefir þar orðið að álíka miklu tjóni og hömlu fyrir siðbótarkirkjuna. Hann fellur þar niður aftur í sama katólska farið og hann var á góðri leið með að komast upp úr. Barátta hans við trúarvinglsmenn samtíðarinnar hafði þetta í för með sér. Saman við kenningu hans um náðarmeðulin fléttast katólsk trú á töfra-áhrif orðsins og sakramentanna, sem eiginlega eru heiðinglegar leifar. Engin slík töfra-áhrif eiga heima í fagnaðarerindi Krists.

(v.) Lúter lagði einhliða áherzlu á réttlætingu af trú andspænis verkum. Afleiðingin varð sú, að áherzlan lenti á hreinni trú, hreinni kenningu. Gömlu katólsku dogmurnar og játningarnar voru fléttaðar inn í hið nýja trúarkerfi. Lúter bar sig að í guðfræðinni eins og barn á heimili foreldra sinna, og hugsaði að eins um að bæta úr síðustu þörf í hvert skifti. Hugmyndin um kirkjuna sem samfélag heilagra breyttist í hugmynd um kirkjuna sem samfélag rétt-trúaðra. Áherzlan lendir á trúarskoðunum, en ekki á heilögu líferni. Nýr rétttrúnaður rís upp, sem verður engu minni harðstjóri en hinn katólski rétt-trúnaður. Við þau ókjör hafa mótmælendur lifað nærri því fram

á þenna dag. Að þessu leyti skilur Lúter siðbótarkirkjunni eftir mikla arfleifð: Að skilja á milli dauðs rétt-trúnaðar og lifandi trúar á fagnaðarerindi Jesú. Þetta framhald siðbótarinnar er ætlunarverk vorra tíma.

Lúter verður ekkert minni maður í huga nútímabarnanna, þótt þau geri hann ekki lengur að óskeikulum manni, en skoði hann menskan mann að eins, barn samtíðar sinnar, er eigi gat einn unnið ætlunarverk margra alda. „Frá ytra sjónarmiði voru árin milli 1519 og 1524 dýrlegustu árin í æfisögu Lúters. Þá réð hann lögum og lofum með þjóð sinni, var leiðtogi hennar og sameinaði þetta dreifða og sundraða land betur en verið hafði nokkuru sinni áður. Hann talar eins og spámaður og fann til þess að hann var spámaður.“ „Eg hefi fagnaðarerindið ekki frá mönnum, heldur fyrir drottin vorn Jesúm Krist,“ sagði hann.*) En umbrot og ólga hins nýja tíma gerðu hann hikandi, svo fyrirheitin rættust ekki öll.

*) Thomas M. Lindsay, Glasgow: A. History of the Reformation, 1906, bls. 385.

V

# TRÚARSKOÐANIR ÞJÓÐAR VORRAR

46. **Hver rök fylgja engli þeim?** Sjálfsagt hefir oftar verið rætt um gamla og nýja guðfræði með Íslendingum en nú á dögum, þó litlar sögur fari af þeim umræðum. Það myndi fróðlegt þykja nú að eiga glögg skilríki fyrir þeim andlegu umræðum, sem átt hafa sér stað á Íslandi um það leyti sem kristindómurinn var að ryðja sér þar til rúms. Vér getum verið þess fullvísir, að þau skifti um trúarskoðanir hafa ekki gengið orðalaust af. Bendingar fáeinar eru um það í fornsögum vorum, þó fáar sé og ófullkomnar. Fróðlegt hefði verið að vera í skálanum hjá Njáli, þegar menn komu til hans, hópum saman, er það fréttist, að Ólafur konungur hefði kristnað Vesturlönd, — Hjaltland, Orkneyjar og Færeyjar, og menn hafa rent grun í, hvað fyrir Íslandi lægi í þessu efni — og hófu máls á því, „at slíkt væri mikil firn að hafna fornum sið ok átrúnaði. Njáll sagði þá: ‚Svá lízt mér sem hinn nýi átrúnaður muni vera miklu betri, ok sá muni sæll, er hann fær heldr. Ok ef þeir menn koma út hingað, er þann sið bjóða, þá skal ek þat vel flytja‘.“ — Mikils væri um það vert að eiga nú nákvæma frásögn af samtalinu milli Þangbrands og Halls af Síðu í tjaldinu að Þvottá, sem Njála hefir varðveitt að eins ofurlítið bergmál af. Þangbrandur var göfugborinn maður og hefir sjálfsagt átt eitthvað af menningu nýrrar tíðar og þeim gáfum, sem til þurfti að boða slíkum höfðingjum og vitmönnum nýjan sið sem þeim Njáli og Síðu-Halli. Þangbrandur söng messur í tjaldinu. Hallur gerist forvitinn, gengur þangað og mælir til Þangbrands: Í hverja minning heldr þú þenna dag? — Michael engill á daginn, segir hann. — Hver rök fylgja engli þeim?

segir Hallr. Mörg segir Þangbrandur, hann skal meta alt, sem þú gerir, bæði gott og ilt, — ok hann er svá miskunnsamur, at hann metur alt þat meira, sem vel er gert. Hallr mælti: Eiga vildi ek mér hann at vin. — Þat munt þú mega, segir Þang-Brandr, ok gefst þú honum þá í dag með guði. — Þat vil ek þá til skilja, segir Hallr, at þú heitir mér því fyrir hann, at hann sé þá fylgjuengill minn. — Því mun ek heita þér, segir Þang-Brandr." (Njála, 100. kap.). — — Viðtali þeirra Þangbrands og Veturliða skálds væri eigi síður fróðlegt að hafa sannar sögur af. Má ganga að því vísu, að skáldið muni hafa fært sterk rök og góð fyrir trú sinni og orðið Þangbrandi þungur fyrir í þeim orðaskiftum. Eru líkur til að ætla, að Þangbrandur hafi þózt þar verða undir og bera ósigur af þeim hólmi. Fyrir því hafi hann brugðist reiður við og skáldið orðið að gjalda fyrir með lífi sínu. Sú skýring vísunnar, sem um þetta var ort, virðist mér líklegri, en að hann hafi veginn verið að eins fyrir að gjalda þögn við „sigurtalum" Þangbrands. — Mikils væri um það vert að eiga frá þeim sjálfum, höfðingjunum forn-íslenzku, Njáli, Síðu-Halli, Þorkeli mána, Áskeli goða og Ingimundi gamla lýsingu umbrotanna, sem urðu í brjósti þeirra, er hinn gamli átrúnaður var að hrynja og hinn nýi að festa rætur. Spurning Halls er eftirtektaverð: Hver rök fylgja engli þeim? Fjöldi Íslendinga mun eiga eitthvert bergmál hennar í huga sér. Það liggur í eðli Íslendingsins að vilja leita að rökum fyrir trú sinni. Hefði postulinn Páll boðað Íslendingum trú, myndi hann að líkindum hafa lokið lofsorði á þá lyndiseinkunn þeirra eigi síður en rannsóknarþrá Beröumanna (Post. 17,11).

**47. Ný guðfræði um siðaskiftin.** Þá megum vér líka vera þess fullvísir, að umræður um trúmál hafa átt sér stað á Íslandi um það leyti, sem siðbótarhreyfingin tók að berast þangað. Íslendingar hefðu eigi á þeirri öld verið þeir vitsmunamenn, er þeir ávalt hafa reynst, ef hugsanir siðbótarinnar hefði ekki kveikt eld í huga þeirra og umræður um þá stórkostlegu byltingu, er þá var að gerast í heiminum. Það má nærri geta, að landið hefir alt logað í heitum trúmála-umræðum um það leyti, sem Jón Arason barðist mest gegn útbreiðslu siðbótarinnar á Íslandi og varð að síðustu að láta lífið fyrir. Árið 1537

var siðbótin innleidd í Danmörku. Árið eftir sendir Kristján konungur III. kirkjufyrirskipan sína til Íslands, og eftir henni áttu allir að lifa, lærðir menn og leikir. Má nærri geta, að þá hafi einhverjum orðið skrafdrjúgt um hinn nýja sið, og að einatt hafi slegið í brösur með nýrri og gamalli guðfræði. Gissur Einarsson kemur úr utanför sinni til Íslands kring um 1533; hefir hann þá að líkindum verið í Wittenbergi, kynst þeim Lúter og Melanchthon ef til vill og fengið ógleymanlega mynd af því andlega lífi, sem þá átti sér stað í Þýzkalandi og um alla Norðurálfu. Sá hlýtur að hafa horfið heim aftur með hugann fullan nýrrar guðfræði, — fullan byltinga og ólgu hins nýja tíma. En hann var stiltur maður og kunni vel með að fara. Enda var honum vandgert við fóstra sinn, Ögmund biskup Pálsson, sem ekki virðist hafa haft grun um, hvers konar guðfræði hinn ungi maður flutti heim með sér. Né heldur mun hann hafa vitað af ferðum hans til Wittenbergs, sé sögusögnin um þær á rökum bygð. Svo var hann þá grunaður um trúvillu, eða um það að hafa heillaður orðið af siðbótar-guðfræði, að naumast vildi nokkur ljá honum húsaskjól. Varð hann þá um hríð að hafa ofan af fyrir sér og móður sinni, gamalli og bláfátækri, með því að stunda fiskiveiðar, unz hann komst loks að kennarastöðu í latínu við eitt klaustrið. Árið 1536 verður fóstri hans, sem nú er orðinn gamall og hniginn, að fá hann sér til aðstoðar, og mun Gissur hafa dulið skoðanir sínar fyrir honum. Árið 1539 kemur Ögmundur biskup því til leiðar, að fóstursonur hans er kjörinn til biskups í Skálholtsstifti og vorið eftir fær hann biskupsvígslu í Danmörku. Kom honum þá í góðar þarfir að kunna vel þýzka tungu, enda varð hann þá að beita öllu lagi við konung, því eftir burtför hans frá Íslandi, höfðu menn konungs verið myrtir á biskupssetrinu sjálfu í Skálholti. Sýnir það bezt, hve ólgan var mikil í hugum manna. Til Íslands mun Gissur hafa horfið aftur með eindreginn ásetning um, að fylgja fram kirkjuskipan konungs af alefli, enda unnið konungi þess heit, að láta fylgja hinum nýja sið og kenna guðs orð rétt og hreint.

Oddur Gottskálksson, sonur Gottskálks grimma Hólabiskups, hafði verið sendur til föðurbróður síns í Noregi, meðan hann var á barnsaldri. Þaðan hafði hann verið sendur til Þýzkalands, til framhalds námi sínu. Þá mun hann hafa kynst sið-

bótarhreyfingunni, þó ekki sé kunnugt hvar fyrst, eða með hverju móti. Sjálfur hefir hann sagt frá þeirri miklu sálarbaráttu, er hann lenti í út af kenningum þeirrar nýju guðfræði, sem þá var á ferðum. Hann var hér um bil jafn-gamall öldinni og hefir að líkindum verið 17 eða 18 ára piltur, þegar Lúter sló upp deilugreinum sínum á hallarkirkjudyrnar í Wittenbergi. Hugsanir siðbótarinnar berast inn í sálu hans á þeim árunum, er maðurinn er næmastur og hugurinn opnastur fyrir andlegum straumum, sem berast honum. Hann sér marga hinna vitrustu manna og beztu, þeirra er hann þekti, bæði í hópi jafnaldra sinna og annara, snúast í lið með siðbótinni. Sjálfur kveðst hann hafa verið tregur og tengslin mörg, sem héldu honum föstum. Ólgan varð svo mikil í huga hans, að hún varnaði honum svefns. Þrjár nætur vakti hann samfleytt á bæn til guðs um leiðbeining, svo hann fengi ratað rétta leið út úr myrkrinu. Vildi hann helga líf sitt alt því málefni, sem hann gæti orðið sannfærður um, að væri sannleikanum samkvæmt. Þriðja morguninn birti til í huga hans skyndilega. Böndin, sem hingað til höfðu haldið honum föstum við hið gamla, höfðu snögglega hrokkið sundur. Honum fanst hann vera frjáls maður og leiðin fram undan björt og bein. Af siðbótarmönnunum íslenzku er Oddur Gottskálksson göfugastur og hreinastur. Úr utanvist sinni kom hann til Íslands 1534, var með Ögmundi biskupi í Skálholti ásamt fleiri vinum siðbótarinnar, þangað til 1539, vann þá í laumi að nýja testamentisþýðingu sinni eftir Vulgata og þýðingu Lúters, varð Gissuri Einarssyni samferða með hana til Danmerkur og lét prenta í Hróarskeldu (Roskilde) 1540. Þykir hún standa nokkurn veginn jafnfætis öðrum þýðingum, sem gerðar voru um sama leyti. Hann þýddi líka fyrstu postilluna, sem Íslendingar eignuðust — Corvins-postillu — svo prestarnir hefðu eitthvað að lesa í kirkjunum, því ekki voru þeir svo vel að sér í nýrri guðfræði þeirra tíma, að þeir væri færir um að útlista kenninguna af eigin rammleik. Og þátt átti hann all-mikinn í þýðingu gamla testamentisins, sem síðar var gefið út af Guðbrandi biskupi. Nýja testamenti Odds er fyrsta bókin, sem prentuð var á íslenzku og er nú harla sjaldgæf. Prestvígslu vildi Oddur aldrei þiggja og mun þó að innræti og mentun hafa verið meiri prestur en flestir ef ekki allir samtímismenn

hans á Íslandi. Hann hefir óefað verið mestur nýguðfræðingur sinnar tíðar með þjóð vorri, og bezt skilið og tileinkað sér hinn andlega kjarna siðbótarinnar.

48. **Hallgrímur Pétursson og Jón Vídalín.** Rétt-trúnaður 17. aldar náði sér niðri á Íslandi ekki síður en annars staðar í mótmælenda-heiminum. Við þá stefnu eru tengd tvö ágætustu nöfn íslenzkrar kirkju, þeirra Hallgríms Péturssonar (d. 1674) og Jóns Vídalíns (d. 1720). Hinn fyrnefndi söng sanna og lifandi trú inn í hjörtu þjóðar vorrar með Passíusálmunum. En guðfræðin öll er í rauninni rétt-trúnaðar-guðfræðin, sem þá var í algleymingi. Nokkuð af Passíusálmunum er þess eðlis, að það firnist aldrei, því þar er hinn hreini andardráttur trúarinnar, sem tilheyrir öllum öldum og aldrei firnist. En meiri hlutinn af því ágæta skáldverki er því miður svo tímabundinn, eins og eðlilegt er, að allar tilraunir með að gera það í heild sinni að nútíðarsálmabók, hljóta að mishepnast. Og það er vegna þess, hve guðfræðin er úrelt orðin og búningur trúarhugmyndanna. Sama á sér stað um Jónsbók, sem nálega tvær aldir hafa fundið trú sinni næringu í. Sú bók var notuð af mörgum til húslestra langt fram á 19. öld. Nú er hún svo úrelt orðin, þrátt fyrir mælsku og andríki, að naumast mundi tilhlýðilegt þykja að hafa um hönd á heimilum eða í kirkjum með þjóð vorri. Hugmyndin um reiði guðs og refsidóma kemur þar fram nálega í hverri prédikan, oft í fremur ægilegum búningi. Á boðskapnum öllum er ógnunar- og fyrirdæmingarsvipur, sem vér erum nú vaxnir frá. Trúarkjarninn í ritum beggja þessara ágætismanna eldist vitaskuld aldrei. Hann er samkvæmt eðli sínu ávalt jafn-gildur. En trúfræðin er orðin gömul guðfræði, ekki að eins komin á fallanda fót, heldur nú fallin með öllu.

49. **Heittrúin eða pietisminn.** Eigi átti rétt-trúnaðurinn því að fagna að verða ávalt einvaldur með þjóð vorri, fremur en annars staðar. Heit-trúarstefnan þýzka barst einnig til Íslands. Það var danskur maður, L u d v i g H a r b o e (f. 1709, d. 1783), sem flutti hana þangað. Hann var skipaður eftirlitsmaður kirkjunnar á Íslandi (G e n e r a l K i r k e v i s i t a t o r) 1741, þá ungur maður, að eins 32 ára. Var mönnum alment illa

við komu hans til Íslands og kviðu henni sárt, meðfram sjálfsagt vegna þess, að menn höfðu hugboð um, að þessi svo nefnda heit-trú væri annars vegar o f t r ú eða jafnvel öfgatrú, sem ekki var ástæðulaust. Á Íslandi var Harboe þangað til 1745, sístarfandi að viðreisn kirkjunnar og eflingu almennrar upplýsingar. Sá hann um, að hver löggjöfin kæmi út á fætur annari í þessu sambandi á árunum 1742—1745. Hann studdi mjög að utanförum íslenzkra námsmanna til háskólans í Kaupmannahöfn. Fyrir tilstilli hans urðu latínuskólarnir eins konar guðfræðiskólar. Hann lætur helgi sunnudagsins verða betur haldna, kemur á barnaspurningum og fermingu, húsvitjunum presta, heimilisaga, hjónabandslöggjöf og hælum handa holdsveikum. Harboe hvarf aftur frá Íslandi eftir fjögurra ára dvöl og hafði áunnið sér kærleik og hylli íslenzkra presta. Verður hans ávalt að góðu getið á ættjörð vorri. Hann kom tiltölulega mörgum umbótum til leiðar á skömmum tíma, sem rétttrúnaðurinn hafði annaðhvort ekki haft lag á eða lund til. Sú nýja guðfræði, sem hann fylgdi, leit svo á, að það væri langar leiðir frá, að alt væri fengið með rétt-trúnaðinum. Kristindómurinn sé andi og líf og eigi að birtast í heilögu líferni og endurbættu mannfélags-ástandi. Áhrif hans á prestastéttina munu hafa verið eindregin í áttina til lifandi trúar, vakandi og starfandi að velferð lands og lýðs. En stefnunni fylgdi strangur lögmáls-blær, óbeit og ímugustur á glaðværð og skemtunum, sem hvorki var holt né heilbrigt og hefir einkent kristindóm Norðmanna fram á vora daga, þar sem pietisminn eða heit-trúin náði sér bezt niðri.

50. **Upplýsingaröldin.** Skynsemistrúin svo nefnda eða r a t i o n a l i s m i n n braut líka enn meiri bág við rétt-trúnaðinn gamla. Vitaskuld átti sú stefna ekki eins mikið af trúaráhuga og heit-trúnaðurinn, og það var bagi. En þótt hún væri nokkuð örvend á þá höndina, átti hún víðsýni miklu meira en p i e t i s m i n n eða heit-trúin, sem á endanum lenti út í þröngsýnis-þoku. Fulltrúi upplýsingaraldarinnar með þjóð vorri var einkum Magnús Stephensen (1763—1833), einn hinn mesti upplýsingarfrömuður og víðsýnismaður, sem þjóð vor hefir átt. Sá sannfærist um það, sem les eftirmæli 18. aldar. Hann virðist hafa verið heima nálega á öllum sviðum. Sálmabókin frá

1801 ber hans minjar, en hún var mikil framför og markvert spor í menningaráttina, þrátt fyrir gallana. Hugmyndin um hið sameiginlega í öllum trúarbrögðum kemur fram hjá honum, (sbr. sálminn „Ó, guð, Jehóva, Júpiter“)*) í nokkuð ófimlegri mynd. En nú er það ein af þeim hugmyndum í sambandi við kristindóminn, sem mönnum er bezt við, að það sé alt eini og sami guðdómurinn, sem birtist í trúarbrögðum allra þjóða, að kjarnanum til, og mennirnir hafa leitast við að standa í sambandi við með ýmsum hætti og heitum. Það var sannarlega ný guðfræði þá. Býsna mikið af guðfræði upplýsingartímabilsins hefir runnið saman í huga hinna betur mentuðu presta landsins. Þess ber prédikanasafn síra Árna Helgasonar ljósan vott. Frásögn nýja testamentisins var í flestum efnum tekin góð og gild, en frásögurnar skýrðar sem eðlilegir viðburðir. Var mikið um þá nýju guðfræði talað í byrjun aldarinnar og oftar en hitt dæmd nokkuð hart af alþýðu. Samt sem áður kom hún svo miklu til leiðar, að rétt-trúnaðurinn, sem vaknaði aftur á 19. öld, varð til þess neyddur, að fá sér annan og miklu mannúðlegri búning en áður, og var það vissulega góðra gjalda vert. Skynsemitrúin svo nefnda hefir unnið heiminum miklu meira gagn, en kannast hefir verið við alment. Nú eru menn fyrst að skilja það til fulls. Því nú hafa menn látið sér skiljast, að skynsemi og trú eigi samleið og eigi að leiðbeina hvor annari. Áður var skilningurinn sá, að skynsemin sé heiðingi, er eigi megi taka til greina í trúarefnum. — Framan af 19. öld mun skilningur Íslendinga í guðfræðilegum efnum hafa verið allmjög litaður guðfræði skynsemi-trúarinnar. Séra Jón Jónsson lærði á Möðrufelli mun hafa verið nokkurn veginn eini maðurinn, sem tók í strenginn eindregið á móti, og hefir sjálfsagt haft nokkur áhrif með hinum mörgu smáritum sínum. Þegar L. Chr. Möller, danskur guðfræðingur, kom til Íslands 1832 og reit um ferð sína árið eftir, fanst honum skynsemi-trúna, sem borist hafði til landsins frá háskólanum í Kaupmannahöfn seint á 18. öld, vera aðal-einkennið á trúarlífi Íslendinga. Enda hefir mjög lítið orðið vart við „piestismann“ eða heittrúarstefnuna svo kölluðu með Íslendingum. Sjálfsagt höfum vér þar farið einhvers á mis, því

*) Sá sálmur var þó ekki tekinn upp í Aldamótabókina, en er prentaður í „Ljóðmælum“ hans.

skal ekki neitað. Hvort sú dapra lífsskoðan, sem pietisminn hefir ávalt haft í för með sér, hefði betur stutt þjóð vora í lífsbaráttunni er annað mál. Kristindómur Íslendinga hefir ávalt verið fremur bjartsýnn, og af því hefir þeim ekki veitt; þess vegna hefir minni áherzla verið lögð á synd og spillingu, böl og refsidóma. Hann hefir haft nokkuð af ívafi skynsemitrúarinnar. En þrátt fyrir það hefir uppistaðan haldið í öllum byljum eða stormum, sem á hafa dunið. Það orkar nú engra tvímæla lengur, að skynsemi-trúin hefir unnið heiminum og um leið ættjörðu vorri miklu meira gagn en kannast hefir verið við. Í Noregi náði heittrúnaðurinn algerlega yfirtökum og hefir reynst Norðmönnum mjög vafasamur ávinningur. Hann hefir aukið og margfaldað þröngsýni þjóðarinnar og oft og einatt lokað huga hennar fyrir heppilegum áhrifum utan að. Hann hefir gert kristindóminn að lögmálsoki á herðum hennar, aukið dómsýki og hleypidóma, sem ný guðfræði fyrst nú er að hreinsa úr huga hennar.

**51. Séra Tómas Sæmundsson.** Fjölnir kom til sögu 1835. Einn af stofnendum hans og helztu styrktarmönnum var Tómas Sæmundsson, prestur og prófastur að Breiðabólsstað í Fljótshlíð. Eins og kunnugt er, voru áhrif hans mikil í þá átt að vekja þjóðina af þeim svefni, er hún lengi hafði sofið, vekja hana til hugsunar og framkvæmda á öllum svæðum. Nokkurar tækifærisræður eru til eftir hann, sem bera vott um trúarskoðanir hans og þá tegund kristindóms, sem hann flutti. Í aðfararæðu sinni, er hann flutti að Breiðabólsstað 1835, segir hann: „Hvergi finnur hjartað fullnægju nema hjá guði; hvergi hið rétta föðurland sitt annars staðar en á himnum; hvergi frið, utan í þeirri trúaröruggu fullvissu, að sá sem á himnum býr, sé mannanna gæzkuríkur faðir, sem elskar öll sín börn, sem alla hefir skapað til ævarandi sælu með sjálfum sér. Héðan kemur hjartanu styrkleiki til að stríða og bera sigur úr býtum, sjá, það er raustin drottins, sem kallar til lífsins.“*) Með þessum orðum finst mér hann muni hafa einkent sinn eigin kristindóm og kristindóm þjóðar sinnar rétt.

---

*) Tómas Sæmundsson: Ræður við ýms tækifæri. Viðeyjarklaustri 1841, bls. 4.

„Guðs orð," segir hann í sömu ræðunni, „sem ritað stendur í hinu nýja testamenti er því eini grundvöllur allrar sannrar trúar, allrar sannrar þekkingar í trúarefnum, og hver sem efast um það, hann er ekki fær um, hann má ekki hafa á hendi kenslu kristinna trúarbragða."*) — „Eg hefi oft heyrt til þess tekið, að einn kennimaður kendi öðrum ólíkt, og hefi heyrt menn hneykslast á því, að kenning guðs orðs geti breyzt með tímanum, að þær bækur, sem einu sinni voru í áliti sem ómengað guðs orð, geti síðar álitist miður hæfar til guðlegrar brúkunar, að það geti orðið þörf á nýjum sálmum og söngvum á nýjum öldum og mannsöldrum. Á slíku þarf enginn að hneykslast, þegar betur er að gætt: allar bækur nema ritningin er manna verk, en alt það sem mennirnir gera er ófullkomið, enginn mannanna hefir fundið ómengaðan sannleika, því að guð er sannleikurinn. Vér sjáum að eins að nokkru leyti, sem í spegli og ráðgátu, eins og postulinn segir, það er alt hálfverk. Ritningin er það eina ritið, sem heldur óbreytanlegu og stöðugu gildi til heimsins enda, því hún er rituð með guðs fingri; en enginn hefir orðið svo vitur, að hann geti skilið hana fullkomlega; hún er guðs verk, fer með guðs speki, og til þess maðurinn gæti skilið hana algerlega, yrði hann að hætta að vera maður, yrði hann að vera guð. Einn maðurinn, ein öldin skilur því guðs orð fullkomlegar en önnur; eftir tímanna framförum og vísindanna fer skilningnum á guðs orði fram, hann eykst og þroskast, en fullkominn verður hann aldrei á þessu ófullkomleikans landi."**)

Á þessum orðum sézt, hve hátt hann setur ritninguna; hún er rituð með „guðs fingri"; hún er ekki manna verk, heldur guðs verk. Hins vegar sýnir hann fram á, hve mannlegur skilningur sé ófullkominn og hvernig honum sé stöðugt að fara fram með vaxandi þekkingu. Séra Tómas var enginn bókstafstrúarmaður, það er öðru nær. Í annari ræðu tekur hann það fram: „Hvað á eg að ætla um þá, sem taka bókstafinn, er deyðir, í stað andans, er lífgar; sem leggja á andans frjálsræði hættulega hlekki og reyna til að útslökkva sálarinnar lífsneista, áður en hann er svo glæddur, að ljósið verði á honum kveikt."***)

**52. Mynster og Martensen.** Hugleiðingar J. P. Mynsters, Sjálandsbiskups, voru þýddar á íslenzku af þeim Fjölnismönnum og gefnar út 1839. Sú bók hefir haft meiri áhrif á trúarskoðanir Íslendinga á 19. öld, en flestar bækur aðrar, og það einmitt þeirra, sem bezt hafa verið viti bornir. Það er há-kirkjulegur rétt-trúnaður, sem þar birtist, ekki rétt-trúnaður 17. aldar, heldur sá, er átt hefir í höggi við skynsemi-trúna og verið í nauðum staddur. Það er rétt-trúnaður, agaður og auðmýktur í langri baráttu, — heflaður og sorfinn, klæddur búningi 19.

*) Ræður bls. 10. **) S. st. 11—12. ***) S. st. bls. 30.

aldar. Þar er farið svo undur-varlega, þær kenningarnar, sem mest höfðu orðið til ásteitingar, annað hvort ekki nefndar, eða með svo mikilli varúð, að hver fær að halda skoðan sinni. Þar er alls ekki talað um guðs brennandi heiftar reiði, og kenningin um bókstafs-innblástur ekki nefnd á nafn. Um hina sex sköpunardaga segir hann: „Þú getur mælt þessa daga eins og þú vilt á stuttan eða langan mælikvarða .... Þykist þú í lögun jarðarinnar, þeirri sem nú er, finna merki langvinnra umbyltinga, þá láttu það ekki verða þér til ásteitingar, því orðið dagur getur líka merkt langt tímabil."*) Og mjög er það eftirtektavert, að kenning Mynsters um upprisulíkamann er í raun og veru nákvæmlega sú sama og nú er haldið fram af nýrri guðfræði. Hann leggur sömu áherzluna og hún á kenningu Páls postula um andlegan líkama. Mynster segir, að það sé fjarri því, að postulinn kenni „að vér munum hafa jarðneskan líkama í hinum sælla heimi."**) Og hann gerir öllum þetta skiljanlegt með því að segja: „Hvernig ætti það að safnast saman eða rísa upp aftur, sem rotnað er sundur í jörðunni, og komið er upp í loftið og vindurinn hefir feykt í allar áttir og samlagast hefir öðrum líkömum? Postulinn samsinnir þessu að nokkru leyti; þegar þú sáir, segir hann, sáir þú ekki því, sem fram á að koma, heldur einhverju frækorni, er guð gefur slíkan líkama og hann vill; ennfremur segir hann, að upprisu dauðra sé þannig varið, að holdlegum líkama verði sáð, en upp aftur rísi andlegur líkami; og hann fullyrðir það, að hold og blóð getur ekki erft guðs ríki, né dauðlegleiki ódauðlegleika (1. Kor. 15,37-50). Postulinn útrýmir á þenna hátt allri jarðneskri hugmynd um líkama þann, er vér eigum að öðlast; hann segir ekki að almættið muni safna saman í upprisunni öllum þeim pörtum, sem tvístrast hafa sinn í hverja áttina; hann segir einmitt hið gagnstæða, því hold og blóð geta ekki erft guðs ríki. Enda meðan vér lifum hér á jörðunni, er það fremur mynd sú, sem hold og blóð vort lagast eftir, er vér köllum líkama vorn, en holdið og blóðið sjálft. Blóðið er á sífeldri rás um líkamann, en aldrei hið sama, því það breytist án afláts og verður að nýju, meðan maðurinn andar og hjartað bærist; það er eins og á, sem alt af hefir sama nafnið, þó vatnið í henni sé aldrei það sama. Nú er ekki einn blóðdropi, né einn vöðvi í líkama þínum samur og í æsku þinni, og þó segir þú, að líkami þinn sé hinn sami, hvernig sem hann breytist. Af þessu má sjá, að hið jarðneska, er vér tökum utan að og samlögum líkama vorum, er ekki hið verulega í honum, heldur er hið verulega í honum nákvæmlega samtengt við sálina og myndar innan að alt það, sem samlagast líkamanum eftir mynd sinni."***)

Þetta er vissulega meira í ætt við nýja guðfræði, en rétt-trúnaðinn gamla!

Þá er annar danskur maður, er eigi má gleyma, þar sem áhrif hans á íslenzkan 19. aldar kristindóm eru stór-mikil, Martensen biskup (d. 1884). Trúfræði hans kom út 1849 og varð fræg um alla Norðurálfu.

*) Dr. J. P. Mynster: Hugleiðingar um höfuðatriði kristinnar trúar. Kaupmannahöfn 1853, bls. 122. **) Mynster: Hugleiðingar bls. 533. ***) S. st. bls. 534.

Um hana hefir þýzkur höfundur (Landerer) sagt í trúgreinasögu sinni, að hún „sé vafalaust hin bezta endursköpun (rekonstruktion) kirkjulegrar trúfræði, frá sjónarmiði 19. aldar þekkingar.“ Hún var líka ekki að eins lesin og lögð til grundvallar trúfræðikenslu í mótmælendaheiminum, heldur líka lesin og út af henni lagt suður í Rómi og Aþenuborg. Við prestaskólann í Reykjavík var hún lögð til grundvallar við kensluna þegar frá fyrstu byrjun. „Pétur biskup Pétursson og Sigurður lektor Melsted, sem haft hafa þar á hendi kensluna í trúfræðinni (Dogmatik), hafa nefnilega lagt bók Martensens til grundvallar fyrir fyrirlestrum sínum og mér vitanlega ekki vikið frá henni í neinu,“ segir séra Jón Bjarnason 1879.*) Um þessa bók Martensens var dæmt á nokkurn annan veg af Missouri-guðfræðinni en annars staðar í heiminum. Walter, hinn mikli spámaður þeirra, kvað upp um hana svo feldan dóm: „Hin svo kallaða trúarfræði Martensens er hrærigrautur af hinum hryllilegustu trúarvillum. Það er vel vert fyrir Íslendinga að merkja sér þenna dóm, því hann er í raun réttri dómur yfir þeirri trúfræði, sem alt til þessa (1879) hefir kend verið hinum íslenzku prestaefnum á prestaskólanum.“**) — Martensen var kirkjulegur maður með afbrigðum. Grundvallaratriði kristindómsins, eins og lúterska kirkjan hefir haldið þeim fram, játaði hann af fullkominni sannfæringu.***) En hann áleit sér leyfilegt að varpa yfir þau öll ljósi þekkingar sinnar og skýra þau samkvæmt því. Að trú og þekking væri í insta eðli eitt og hið sama var heilög sannfæring hans; hann hóf kenninguna gömlu um trúarvitundina (testimonium spiritus sancti) til nýrrar tignar, á líkan hátt og ný guðfræði nú á dögum, einmitt með því að sýna fram á, að hún fæli í sér einingu trúar og þekkingar. Hann er líkur mörgum nútíma guðfræðingum að því leyti að dultrú og guðspeki voru eftirlæti hans. Hann kendi samtíðinni betur að hugsa um trúaratriðin í nýju ljósi en flestir kennarar aðrir. Þótt hann væri rétt-trúaður maður í raun og veru, sprengdi hugsan hans, sem var frumleg og sjálfstæð, rétt-trúnaðarkerfið. Koma Jesú Krists í heiminn hafði samkvæmt skoðan hans ekki einungis andlega og siðferðislega byltingu í för með sér; hún hafði áhrif á alheimsheildina (universum) alla. Kraftaverkin áleit hann, að væri byrjun til framhaldandi náttúru-ummyndunar. Kvöldmáltíðin skyldist honum vera fæða handa upprisulíkamanum. Hann hélt fram millibils-ástandi eftir dauðann og áleit, að útskúfan gæti ekki átt sér stað, meðan heimsrásin er við lýði. En þegar sagan væri útrunnin, áleit hann að hugsanin heimtaði, að hún gæti átt sér stað. Guðspeki og dultrú höfðu töluverð áhrif á hugsan hans; verður það ekki sízt ljóst, er hann talar um bústaði sálnanna og líkindin til þess að guðdómurinn hafi eins konar líkama. Mesta og víðtækasta merkingu hafa áhrif Martensens að því leyti, að hann dregur allar hliðar lífsins og öll svæði mannlegrar starfsemi inn undir sjónarmið kristindómsins. — Þessi skilningur Martensens á kristindóminum,

---

*) Nauðsynleg hugv. bls. 59. **) S. st. ***) Realencyclopaedie f. Theologie u. Kirche XII (1903), bls. 375.

frjálsmannlegur og víðsýnn, féll í góðan jarðveg á Íslandi. Sú sannfæring komst inn í huga fjölda hinna efnilegri ungu presta, að rétttrúnaðurinn væri ekki það æðsta, heldur væri leyfilegt að seilast lengra. Milli Martensens og þeirrar nýju guðfræði, sem vér nú tölum um, eru ótal tengsli. Hann lagði eins konar loftbrýr, sem mannsandinn hlaut að voga sér út á, áður langt liði. Sú kristindómsstefna, sem hugsan hans hafði skapað á Íslandi, seinna hlut 19. aldar, er að skoða sem beinan inngang til nýrrar guðfræði 20. aldar með þjóð vorri.

53. **Barnalærdómsbækur.** Lengi var Ponti sú lærdómsbók í kristnum fræðum, sem lærð var á Íslandi. Hann kom út á íslenzku árið 1741, eftir Erik Pontoppidan, danskan biskup. Í Danmörku kom hann út einum fjórum árum áður. Þar var rétt-trúnaður og heit-trúnaður fléttaður saman. Rétttrúnaðarmenn í Danmörku börðust gegn bókinni hnúum og hnefum vegna heit-trúnaðarins.*) En bókin var lengi notuð í Danmörku og hefir átt mikinn þátt í að móta trúarhugmyndir fólksins. Heimatrúboðs-kristindóminn má skoða beina afleiðing. Í Noregi var Ponti notaður í ágripi sem eina barnalærdómsbókin í landinu, þangað til um síðustu aldamót, alla 19. öld út. — Þegar barnalærdómur Balles kom út í Danmörku, mætti hann feikilega mikilli mótspyrnu, svo var Ponti orðinn alþýðu manna kær. Öðru máli var að gegna á Íslandi. Þar höfðu menn ávalt verið óánægðir með Ponta. Þýðingin var upphaflega slæm og það gerði sitt til. Á Íslandi kom barnalærdómur Balles skömmu fyrir aldamótin, (Leirárgörðum 1796) og virðast menn hafa orðið beint fegnir. Sú barnalærdómsbók var notuð við fermingarundirbúning, eins og kunnugt er, unz barnalærdómur séra Helga Hálfdánarsonar tók við um 1880. Því hin stutta kenslubók Balslevs fékk aldrei almenna útbreiðslu. Í sambandi við kenningu sína um biblíuna leggur Balle lang-mesta áherzluna á kraftaverkin. Hann segir, að það sé víst að guðs vilja sé „að finna í biblíunni og þess vegna kallast hún guðs orð; því hún kennir oss fullkomlega og aug-

*) Ponti kom út á dönsku 1737, og nefndist: „Sandhed til Gudfrygtighed". Halldór Brynjólfsson, síðar biskup á Hólum, þýddi kverið á íslenzku og kallaði: „Sannleike Gudhrædslunnar", prentað í Kaupmannahöfn 1741. Þýðingin slæm og kverið kallað „Rangi-Ponti". Síðar þýtt af Högna prófasti Sigurðssyni á Breiðabólsstað í Fljótshlíð og gefið út á Hólum 1759, 1764, 1769, 1773, 1775, 1781. „Var lært á Ponta á landi hér fram á byrjun 19. aldar." Sbr. æfisaga Jóns Þorkelssonar skólameistara, Rvík 1910, bls. 40.

ljóslega alt það, sem syndugur maður þarf að vita sér til umbótar og sannrar velferðar, bæði í þessu og tilkomanda lífi.“ (§ 6). Hann tekur fram, að guð hafi staðfest orð sitt með því, að gefa höfundunum „bæði speki til að auglýsa þá hluti, sem enginn maður gat vitað af sjálfum sér, og líka krafta til að framkvæma þau verk, sem enginn hefði getað gert með neinslags náttúrlegum meðulum (§ 7). Spádóma, er sagt hafi fyrir markverða viðburði hafi enginn nema alvitur guð getað veitt þessum heilögu mönnum þekkingu um.“ Kraftaverkin hafi útheimt guðlegan kraft; „guð, sem er almáttugur, hefir einungis haft þá heilögu menn til að gera þvílík dásemdarverk.“ Um gamla testamentið segir hann, að bækur þess sé „enn þá í mörgum greinum nytsamlegar handa oss og þénanlegar til lærdóms, huggunar og viðvörunar.“ Balle segir, „að bækur gamla testamentisins sé af guði“ og vitnar í 24. kap. Lúkasarguðspjalls ·(25, 27, 45) því til sönnunar, — samtal Jesú við lærisveinanna á leiðinni til Emmaus. „Trúverðugleiki guðspjallamannanna og postulanna sé staðfestur“ með kraftaverkum þeirra, á sama hátt og Kristur hafi sannað með kraftaverkum sínum, „að hann væri sendur af guði“. Hann tekur jafnvel fram, að vér vitum, „að guðspjallamennirnir og postularnir hafi skrifað þær bækur, sem þeim eru eignaðar“ á skrifum hinna elztu kristinna lærifeðra. — Það er tiltölulega mikið um þetta atriði sagt í barnalærdómsbók. Það er auðheyrt, að hér er maður að kenna æskulýðnum, sem sjálfur hefir verið í baráttu-eldinum við skynsemi-trúna. Hann við hefir þá varasemi að segja, að gamla testamentið sé nytsamlegt og þénanlegt í mörgum greinum, — ekki öllum greinum. Bækur þess sé af guði, sem er óljóst að orði komist og óíslenzkulega, en ef til vill látið vera svo óákveðið með vilja; guð eigi sinn þátt í þeim, eins og spádómarnir og kraftaverkin sanni. Balle forðast að framsetja nokkura kenningu um innblásturinn, hverrar tegundar hann sé, eða með hverjum hætti. Af Balle hefir því enginn dregið þá ályktan, að hvert orð í ritningunni standi þar upp á ábyrgð guðs. Enda hefir því aldrei verið haldið fram af nokkurum Íslendingi svo kunnugt sé, fyr en séra Páll heitinn Þorláksson varð til þess um 1880, en hann hafði numið guðfræði hjá Missouri-sýnódunni í Ameríku. Um og eftir síðastliðin aldamót tók kirkju-

félagið vestur-íslenzka kenningu þessa að sér og hefir fylgt henni fram af miklum ákafa.

54. **Frjálslyndur kristindómur.** Myndin af ásjónu aldarinnar skapast ávalt af andlitsdráttum og andlegum einkennum mannanna, sem þá voru uppi. Magnús Eiríksson (f. 1806) var nærri jafn-gamall 19. öldinni og tók að rita um guðfræðileg efni á dönsku 1844. Þá kom út hin fyrsta bók hans: „Om Baptister og Barnedaab". Svo hélt hann áfram með eina og tvær bækur á ári oftast nær, þangað til 1874. Enginn Íslendingur hefir ritað jafn-mikið um guðfræðileg efni og hann. Ein af bókum hans kom út á íslenzku 1865: Jóhannesar guðspjall og lærdómur kirkjunnar um guð. Fékk hún allillar viðtökur á Íslandi og varð fyrir næsta ómildum dómum. Sýnir það vitaskuld þroskaleysi þjóðarinnar í þeim efnum. En bók hans og ritverk yfirleitt, er bygð voru á guðfræði Tübingen-skólans, sem nefndur er hér að framan, mun hafa haft töluverð áhrif á trúarskoðanir hinna upplýstari manna. Þó þeir gæfi þeim alls ekki samþykki sitt og þætti of langt farið, fengu þeir býsna glögt hugboð um, að eitthvað væri meira en lítið athugavert við það rétt-trúnaðarkerfi, sem tekið hafði verið í arf frá fyrri öldum. Að minsta kosti er það eftirtektarvert, að þeir menn, er gerast guðfræðingar um það leyti og rétt á eftir, eru býsna frjálslyndir menn í trúarskoðunum sínum. — Séra Páll Sigurðsson í Gaulverjabæ útskrifaðist af prestaskólanum 1863 og mun snemma hafa látið hug sinn hneigjast í þá áttina. Enda ber prédikanasafn hans þess ljósan vott, hve óánægður hann er með rétt-trúnaðarstefnuna. — Skáldið séra Matthías Jochumsson útskrifaðist frá prestaskólanum 1865 og hefir haft mikil áhrif á trúarskoðanir þjóðar vorrar með bókmentalegri starfsemi sinni. Með ljóðum sínum hefir hann sungið frjálslyndan kristindóm inn í hjörtun og með stöðugum blaðagreinum hefir hann gert sér far um að veita eins miklu af nýjum hugsunum um trúarefni inn yfir landið og honum hefir verið unt. Andi hans hefir verið sívakandi í þeim efnum og svo trúhneigður, að hann hefir verið í stöðugri leit eftir nýjum skýringum á sannindum kristindómsins, er fullnægt gæti trúarþörf hans. Aldrei hefir það betur komið í ljós í sambandi við nokkurt skáld, hve andi skáldanna er skygn. Séra Matthías sér

og verður hrifinn af flóðöldu nýrrar guðfræði, einmitt þeirrar, sem nú er á ferðum, að minsta kosti einum 25—30 árum áður en aðrir verða hennar varir. Hann breiðir faðminn út á móti henni og þreytist ekki að segja þjóð sinni frá, hvað hún eigi í vændum. Báðir hafa þeir, séra Matthías og séra Páll, hneigst nokkuð langt í únítara-áttina, að dæmi Magnúsar Eiríkssonar, með að hafna kenningunni um guðlegt eðli Krists. Í því efni hafa þeir naumast fengið meðhald þjóðar sinnar, nema þeirra fáu, sem gerst hafa ákveðnir únítarar. Fjöldanum af þjóðinni er ant um að missa ekki sjónar á birtunni guðlegu í augliti Krists. Hún lætur sér vera umhugað um aldrei að gleyma, að í ásjónu hans og lífi hefir guð birzt henni og komið til móts við hana á sama hátt og fram kom við hina fyrstu lærisveina hans, þó kenningin um hann eða skýringin guðfræðilega í sambandi við persónu hans og æfistarf sé að taka nokkurum stakkaskiftum í huga hennar. Í persónu hans hefir guðdómurinn birzt henni augljósast, af honum hefir hún lært að þekkja föðurinn og tilbiðja hann. Jesús Kristur er henni, ekkert síður en á rétttrúnaðaröldinni, vegurinn, sannleikurinn og lífið. — Séra Valdemar Briem verður kandídat frá prestaskólanum 1872. Hann hefir betur þrætt hinar vanalegu brautir í guðfræðinni. En það er bjart yfir ljóðum hans, og fylgt hefir hann þeim mönnum að máli, sem hér hafa nefndir verið í því að hafna útskúfunarkenningunni og halda því fram all-eindregið, að hinn almáttugi frelsis kærleikur muni að síðustu finna jafnvel óstýrilátustu börnunum einhverja leið út úr myrkrinu. Um það og fleira í frjálslyndisáttina ber ljóðakverið hans vott. Og margir muna betur en margt annað úr biblíuljóðum þetta erindi:

„Koma tíð mun sú um síðir
svartir verða jafnir hvítum,
heiðnir kristnir, viltir vísir,
vondir hljóta náð úr býtum.“

55. **Pétur og Helgi.** En nefna verður líka tvo menn, sem borið hafa rétt-trúnað þjóðar vorrar á höndum sér síðara hluta 19.-aldar. Pétur biskup Pétursson gaf út Helgidagaprédikanir sínar 1856 og hóf um leið útgáfu guðsorðabóka í röð handa alþýðu. Mildin og mannúðin eru aðal-einkenni

þeirra, en áhrifin naumast að sama skapi. Munurinn á prédikunum Péturs og Jónsbók er feikilega mikill, þó að í rauninni sé rétt-trúnaðurinn líkur. Hjá Vídalín er hann í vatnsstígvélum með svipu í hendi, hnarreistur, eldfjörugur og í góðum holdum. Hjá Pétri gengur hann á ullarskóm. Mildina og þýðleikann hjá Pétri kunnu menn að meta og tóku bókum hans fegins hendi. Sýnir það bezt, hve þreyttir menn voru orðnir á hinum gamla rétt-trúnaði, sem mönnum þótti býsna strangur herra. Þrátt fyrir mikla meðfædda varasemi víkur þó Pétur í einu atriði að minsta kosti út af rétt-trúnaðarbrautinni. Í kenningunni um altarissakramentið er hann miklu nær skilningi endurbættu kirkjunnar, en hinnar lútersku, og þá um leið nær skilningi nýrrar guðfræði í þeim efnum. — Hinn maðurinn, sem hægt er um að segja, að borið hafi rétt-trúnaðinn með þjóð vorri um fram aðra á herðum sér fram á vora daga, er Helgi Hálfdánarson lektor. Hann hefir verið nefndur „ágætasti kennari Íslands á 19. öld"*) Með barnalærdómi sínum 1877 og sálmabókinni frá 1886 hefir hann haft mikil og góð áhrif á þjóðina í heild sinni, auk áhrifanna, sem hann hafði á prestastéttina. Prédikanir hans, sem gefnar voru út að honum látnum, eru með sömu ummerkjum: Rétt-trúnaður og heit-trúnaður, ákveðinn, en öfgalaus. Frá hans hendi er alt laukrétt og ljóst, bæði frá sjónarmiði kenningar og hugsunar. Í kenningarefnum er skilningur játningarritanna honum algild regla. Mun hann hafa haft fremur óbeit á nokkurri fráviknìngu frá þeirri reglu af hálfu presta og guðfræðinga. En þessi lotning fyrir að kenna „rétt og hreint", hefir hjá honum ávalt trúarhitann í för með sér. Í kverinu, sálmunum, prédikununum er honum ávalt heitt um hjarta, svo ilinn leggur inn til þess, er les. Áherzlan á rétt-trúnaðinn hefir að líkindum orðið nokkuru meiri fyrir það los, sem hann fann á hugsunum prestanna í því efni. Í biblíuskýring var hann alls enginn bókstafstrúarmaður. Í fyrirlestrum, er eg hnýstist í eitt sinn, ver hann t. d. frumleik fjallræðunnar hjá Matteusi, en finst þó sú hugsan engin fjarstæða, að Matteus kunni að hafa sett hana saman af „orðum" Jesú við ýms tækifæri. Kaflann úr trúfræði hans um innblásturinn hefi eg fyrir mér. Er auðsætt, að hann fylgir þýskum guðfræðingi að nafni Philippi (d. 1882).

*) Þórhallur Bjarnarson: Kirkelexikon for Norden II, 323.

„Samkvæmt hinni nýjustu, vísindalega ummynduðu innblásturs-hugmynd ber eigi að álíta, að uppruni og eðli ritningarinnar sé að öllu leyti beinlínis guðlegt, heldur er réttara að kalla það guðmannlegt. Eftir þeirri skoðun má ekki loka augunum fyrir þjónsmynd ritningarinnar, þ. e. þeirri eðlishlið hennar, sem er algerlega mannleg ...... Eftir þessu á hvorki að réttu lagi að segja: biblían er guðs orð í ótakmörkuðum skilningi né að hún að eins innihaldi guðs orð, heldur ber að segja: Biblían er guðs orð í, með og undir mannlegu orði. Það er rangt að hugsa sér höfunda biblíunnar svo sem svifta mannlegu frjálsræði þá er þeir rituðu, heldur ber að hugsa sér þá í því ásigkomulagi, að hinir meðfæddu hæfileikar þeirra hafi verið auknir og þeim veitt yfirnáttúrleg guðleg upplýsing og aðstoð í verki þeirra. .... Þó má þetta eigi skiljast svo, að hvert einstakt orð í ritningunni sé innblásin af guði, og því verður því ekki samsint, sem Hollaz*) sagði í því tilliti: „Öll og einstök orð, sem vér lesum í hinni helgu bók eru innblásin spámönnum og postulum af heilögum anda og lesin þeim fyrir að rita."**)

Barnalærdómurinn fer ekki langt. Þar segir í 11. gr. að ljósasta og fullkomnasta þekkingin á guði og hans vilja fáum vér af hans opinberaða orði í hinni heilögu bók, er heitir biblía ...." Og í 111. gr. er gefin sú skilgreining á guðs orði, að það sé „alt það, sem guð hefir látið spámenn sína, son sinn Jesúm Krist og lærisveina hans til vor tala oss til andlegrar uppfræðingar, betrunar og huggunar". Samkvæmt báðum þessum greinum er „guðs orð" og heilög ritning ekki eitt og hið sama, heldur er guðs orð að finna í ritningunni, þar sem hún talar „oss til andlegrar uppfræðingar, betrunar og huggunar". Þar er enn fremur tekið fram (17. gr.) um höfunda biblíunnar, að þeir hafi „allir ritað að ráðstöfun guðs og með aðstoð hans anda". Það bendir á þann skilning, að mennirnir hafi verið innblásnir fremur en ritin. Og það er töluvert langt bil á milli þeirrar kenningar og kenningarinnar um fullkominn (plenary) innblástur. Það er hér ekkert sem bendir á, að biblían sé öldungis villulaus. Séra Helgi bendir einmitt í trúfræði sinni á hina mörgu leshætti biblíuhandritanna. Kenningin um þetta villuleysi biblíunnar er ólútersk í raun og veru, og fullkominn, eða plenary, innblástur, sem útilokar möguleikann til þess að nokkur villa geti komið fyrir, hugmynd, sem runnin er upp í kalvínsku eða endurbættu kirkjunni. Henni hefir

*) Hollaz var einn af mestu rétt-trúnaðarmönnum 17. aldar (d. 1713).
**) Omnia et singula verba, qua in codice leguntur a spiritu sancto prophetis et apostolis inspirata, et in calamum dictata.

aldrei verið haldið fram af nokkurum íslenzkum guðfræðingi, mentuðum á ættjörð vorri. Og hún mætti þegar sterkum og einbeittum andmælum af hálfu gáfaðs guðfræðings, sem rétt var útskrifaður úr prestaskólanum í Reykjavík, þegar hún tók að láta til sín heyra meðal Íslendinga í Ameríku. Þau sterku andmæli komu einmitt frá séra Jóni Bjarnasyni, sem þá var flestum mönnum betur fær til að dæma um og gera sér grein fyrir þeirri kristindómstegund, sem þjóð vor hafði tileinkað sér. Kristindómur hans var þá sá frjálslyndi skilningur á trúaratriðunum, sem einkendi síðara hluta 19. aldar. Hann mótmælti í nafni íslenzkrar kristni. Hann mótmælti því eindregið, að því broti þjóðarinnar, sem fluzt hafði vestur um haf, yrði þrýst inn undir ok sýnódu-guðfræðinnar.

56. **Hvaða kristindómstegund fluttu Íslendingar með sér vestur um haf?** Hver er nú niðurstaðan, sem vér komumst að við þetta stutta yfirlit yfir trúarsögu þjóðar vorrar? Sú, að guðfræðin hefir ekki verið við eina fjöl feld hjá Íslendingum fremur en öðrum. Hún hefir tekið mörgum og miklum stakkaskiftum. Ekki einungis þeim, sem siðaskiftin tvenn höfðu í för með sér. Rétt-trúnaðurinn, sem til vor kom eftir siðaskiftin seinni, tók svo miklum stakkaskiftum með þjóð vorri frá því á 17. öld og þangað til seint á 19. öld, að furðu sætir. Það er orðinn eins mikill munur á því, hvernig hann kemur til dyranna og aldarhátturinn sjálfur. Það er dálítil vorkunn, þótt þeir eigi bágt með að þekkja hvor annan, nafnarnir, rétt-trúnaður 17. aldar og rétt-trúnaður 19. aldar, þegar er fundum þeirra ber saman niðri í Nýja-Íslandi rétt fyrir 1880. Munurinn er eins mikill og á Grallaranum og Sálmabókinni nýju, sem út kom 1886; því trúarblær og trúarhugmyndir koma fram lang-glöggast í sálmaskáldskapnum. Svo spyrjum vér eðlilega: Hvaða kristindómur var það, sem Íslendingar fluttu með sér frá Íslandi, þegar þeir fluttust til Ameríku? Var það Grallara-kristindómurinn eða var það kristindómur sálmabókarinnar? Burtflutningurinn frá Íslandi átti sér að lang-mestu leyti stað á árunum 1875—1885, einmitt þeim árum, sem flestir hinna nýju sálma, sem sálmabókin hefir meðferðis, urðu til á. Sálmabókarverkið alt var unnið á þeim tíma. Hún kom út um það leyti, að söfnuðirnir elztu voru að myndast vestan hafs, og

var tekið tveim höndum, með því mönnum þá fanst hún hafa þann kristindóm til brunns að bera, sem menn höfðu flutt vestur með sér, þó hún í þeim efnum væri fremur á eftir tímanum en á undan. Þann kristindóm voru söfnuðirnir stofnaðir til að efla og varðveita. Kirkjufélagið var myndað í þeim tilgangi að kenna íslenzkan kristindóm eins og hann var þá kendur á Íslandi.“ Við það kannaðist séra Steingrímur fyrir rétti og kirkjufélagsprestarnir allir. Og sú kristindómstegund er næsta ólík sýnódu-guðfræðinni. Nú hefir kirkjufélagið lagt fram sönnur fyrir breytingunni, sem á er orðin, með því að fá sér nýja sálmabók! Betri sönnun en þá getur ekki.

---

VI

# SÝNÓDU-GUÐFRÆÐIN OG KIRKJUFÉLAGIÐ

---

**57. Tveir íslenzkir guðfræðingar í Ameríku.** Um sama leyti og þeir frjálslyndu prestar, sem nefndir eru hér að framan, luku skólanámi, útskrifuðust tveir ungir og efnilegir menn, annar frá prestaskólanum, hinn frá latínuskólanum, og fluttust skömmu síðar til Vesturheims, til að leita gæfunnar þar. Séra Jón Bjarnason lauk embættisprófi í guðfræði 1869, en séra Páll latínuskólanámi 1871. Hinn síðarnefndi réðst til Ameríkufarar árinu eftir. Lenti hann til borgarinnar Milwaukee, hitti þar norska sýnódu-presta, sem réðu honum þegar að fara á prestaskóla Missouri-sýnódunnar í St. Louis, og byrja guðfræðinám í þeim tilgangi að verða prestur í norsku sýnódinni.*) Séra Páll byrjaði nám þar þegar veturinn 1872 og hélt því áfram í þrjú ár. Sumarið 1875 vígðist hann til dálítils safnaðar, er myndast hafði í fyrstu nýlendu Íslendinga í Bandaríkjum. Var hún í Shawanó County í Wisconsin-ríki. — Árið 1873 fluttist séra Jón einnig til Vesturheims. Þjóðhátíðardaginn 2. ágúst 1874 flutti hann fyrstu íslenzka prédikan í hinni vestlægu heimsálfu á samkomu nokkurra Íslendinga, er á þann hátt mintust ættjarðar sinnar. Var séra Jón kominn vestur um haf, til að takast á hendur prestskap í norsku sýnódunni fyrir milligöngu séra Páls.**) En hann varð þess brátt áskynja, að hann átti ekki samsuðu með þeim, prestunum norsku, eins og hann sjálfur kemst að orði. Þeir voru heldur ekki lengi

---

*) Í Ameríku nefnast öll kirkjufélög sýnódur. Það er sama orð og sýnódus sem prestastefnan íslenzka er kölluð. **) Jón Bjarnason: Nauðsynleg hugvekja. Lundi 1879, bls. 63.

að átta sig á, að hann var af öðru guðfræðilegu sauðahúsi en þeir, en vonuðu að takast mundi að sannfæra hann um „villu trúarskoðana“ hans. Hann var gerður að kennara við latínuskóla Norðmanna í bænum Decorah; þar var hann undir handarjaðri tveggja helztu guðfræðinga Norðmanna. Gerðu þeir nú alt sitt til að steypa þennan íslenzka trúvilling upp í góðan og gildan sýnódumann.

„Olli sá aðgangur mér ekki lítilla sálarharmkvæla,“ segir hann sjálfur. „Slíku getur enginn getið nærri, sem ekki hefir í það komist. Því þó mér væri þá engan veginn ljóst alt hið skakka í kenningu norsku sýnódunnar, er eg hefi síðan séð, varð eg þess þó brátt fullviss, að prestalýður þessa kirkjufélags starfaði að mörgu leyti mjög fjarri anda kristindómsins. Kreddurnar, sem eg smám saman kyntist fleiri og fleiri, þóttu mér sök sér, en trúarofsinn og hið beiska hatur til annara kristinna manna og kirkjufélaga, er ekki höfðu getað komist að sömu niðurstöðu í kristindómsmálum sem norska sýnódan, áfellisdómarnir og óbænirnar yfir kirkjulegum mótstöðumönnum, hin djúpa fyrirlitning á öllum kristindómi, sem ekki hafði á sér lútersku-stimpil Missourisýnódunnar og hið megna dramb og sjálfsþótti út af sínum eigin ímynduða rétt-trúnaði, — þetta var mér frá upphafi með öllu óþolanda. Eg sá mér því áður langt leið nauðugan einn kost að hætta allri prestskapar-tilhugsun í þessu kirkjufélagi og einsetti mér að leita í einhverja aðra átt.“*)

**58. Tvær rétt-trúnaðar-tegundir rekast á.** Allfjölmenn nýlenda hafði myndast 1875—6 af fólki, nýkomnu frá Íslandi, við Winnipeg-vatn í fylkinu Manitoba og var kölluð Nýja-Ísland. Þangað fóru þeir báðir, séra Jón Bjarnason og séra Páll, til að veita fólki þessu prestlega þjónustu. Séra Páll fylgdi stefnu norsku sýnódunnar og prestaskólans í St. Louis, sem hann hafði útskrifast af. En séra Jón fylgdi þeim trúmálaskoðunum, sem hann hafði flutt með sér af ættjörðinni. Séra Páll sagðist flytja hina einu og sönnu lútersku kenningu, — þann kristindóm, er íslenzk alþýða ætti í þeim guðsorðabókum, er henni hefði orðið kærastur, Vídalíns-postillu og Passíusálmunum. Séra Páll sagði, að séra Jón flytti nýgjörfingskristindóm, sem fullur væri alls konar villu og fráfalls frá hinu gamla. Séra Jón varaði menn jafn-eindregið við þeim antikristindómi, sem kenningar norsku sýnódunnar

*) Nauðsynleg hugvekja, bls. 62—63.

bæru í skauti sínu.*) Þótti honum lakast af öllu, „ef séra Páll héldi áfram að telja mönnum trú um samhljóðan sína við þær kristindómshugmyndir, sem heima eiga á Íslandi".**) Með öðrum orðum: Þeir stóðu þarna hvor gagnvart öðrum, séra Páll fulltrúi gamallar guðfræði, en séra Jón fulltrúi nýrrar, — annar fulltrúi 17. aldar rétt-trúnaðarins, hinn fulltrúi hins ummyndaða 19. aldar rétt-trúnaðar.

Svo miklum stakkaskiftum hafði rétt-trúnaðurinn tekið, að þessum tveim guðfræðingum, er enga aðra guðfræði þektu en rétt-trúnaðarguðfræðina, fundust stefnurnar, er þeir fylgdu hvor um sig, vera fullkomnar andstæður, er eigi gæti með neinu móti búið undir sama þaki. Séra Jón segir: „Ýmislegt í kenningu séra Páls og þess kirkjufélags, er hann hefir svarist á hönd, er með öllu óþekt í sögu hinnar evangelísku kristni á Íslandi alt fram á þenna dag." (N. h. 3). Á trúmálafundi, sem þeir héldu sameiginlega 1878, kom það í ljós, að munurinn lá „ekki að eins í smáatriðum kristindóms-kenningarinnar, heldur í sjálfum „trúargrundvellinum" (3). Séra Páll gerði þar þá játningu, að hann gæti ekki staðið í trúarsamfélagi við neinn af hinum íslenzku kennimönnum þessara tíma, að því leyti sem trúarjátning þeirra hefir komið í ljós. Hann amaðist við því, að safnaðarfólk hans hafði grafreit sameiginlegan safnaðarfólki séra Jóns (4). „Á samtalsfundinum neitaði hann að halda bænagjörð ásamt með mér," segir séra Jón, „af þeirri ástæðu, að eg væri villutrúarmaður; eins lýsti hann yfir því undir fundarlokin, að samvizka sín leyfði sér ekki að skoða mig sem bróður sinn í drotni vorum Jesú Kristi, og sama hugsunarhátt hefir hann eðlilega sett sér sem mark og mið að skapa hjá þeim Íslendingum, sem hann fær náð til. Nú hefi eg ekki í neinu verulegu atriði hingað til haldið fram öðrum kristindómi en þeim, sem kendur er guðfræðingunum íslenzku bæði á prestaskólanum í Reykjavík og Kaupmannahöfn og sem þessir sömu menn aftur kenna út frá sér, þegar þeir eru orðnir prestar" (4). Bilið milli þessara tveggja guðfræðinga virðist ekki vera neitt smáræði. Séra Páll kallaði það nýgjörvings-villudóm (5), sem séra Jón prédikaði. Séra Jón kallaði það aftur anti-kristindóm (5), er séra Páll fer með. Hann ritar nauðsynlega hugvekju „til þess fyrst og fremst, að menn geti forðast þann antikristindóm, sem norska sýnódan ber í skauti sínu, og þar næst til þess, að allir, sem vilja hafa opin augu, fái gengið úr skugga um, að mótspyrna mín og annara, er sömu stefnu fylgja í kristindómsmálum, er hvorki ranglát né ástæðulaus" (10).

**59. „Nauðsynleg hugvekja" og sýnódu-guðfræðin.** Um þetta leyti kom út bók eftir norskan guðfræðing, Ole Bugge Asperheim (f. 1846) að nafni. Hann var mentaður í Noregi og hafði ágætt embættispróf frá háskólanum í Kristjaníu. Hann gerðist prestur og pró-

*) Nauðsynleg hugvekja, bls. 9. **) S. st., bls. 61.

fessor í guðfræði hjá norsku sýnódunni. En samvinnan varð skammæ. Hann lagði fljótt embætti sitt niður og reit bók er hann nefndi: „Missourisynoden og den norske Synode“. Í henni sýnir Asperheim fram á, að þetta kirkjufélag Norðmanna hafi snúið bakinu við móðurkirkjunni í Noregi, hallað sér að Missouri-sýnódunni,“ og um leið „steypst alveg í sama mótið og þetta þýzk-ameríkanska kirkjufélag (11). Séra Jón Bjarnason ritar Nauðsynlega hugvekju á grundvelli þessar bókar Asperheims, sem vel er gengið frá og vandvirknislega og hvert orð stutt með opinberum samþyktum á kirkjuþingum og öðrum óhrekjandi heimildum. Nauðsynleg hugvekja telur upp nokkur trúarleg sérkenni þessara tveggja kirkjufélaga, eða sýnódu-guðfræðinnar. Og eru þau í sem fæstum orðum þessi:

(i.) Það er syndsamlegt að setja fé á vöxtu. Þeirri kenningu reyndi Walter, hinn mikli rétt-trúnaðar-guðfræðingur Missouri-sýnódunnar, að fá kirkjufélag sitt til að veita samþykki, en tókst ekki. Það strandaði á kaupsýsluhyggjuviti Þjóðverjanna. Höf. Nauðsynlegrar hugvekju var á fundi með guðfræðinemum í St. Louis, þar sem þeir sátu „með hina og aðra skrjóða frá oftrúaröld lúterskunnar og biblíuna fyrir framan sig“ og létu „cítötum (tilvitnunum) rigna úr öllum áttum því til sönnunar, að það væri synd að setja peninga sína á rentu“ (12.) Þetta er til dæmis um það, hvernig nýjar kenningar eru myndaðar og fastnegldar. Þessi kenning varð „brennandi spursmál“ í báðum kirkjufélögunum, en dó í fæðingunni. Mammonshyggjan var ljósmóðir og lét sér ekki ant um langlífi.

(ii.) Ekkjumanni er synd að ganga að eiga systur látinnar konu sinnar. Sú kredda var fastnegld 1878 í Missouri- sýnódunni og kirkjufélögum þeim, sem henni voru áhangandi. Áður var „kirkjuaga beitt við menn, er ekki fengust til að slíta hjónabandi við systur fyrri konu sinnar, eins og líka við þá, er tekið hafa rentu af peningum“ (14). Reynt var að koma þessari kreddu að í Norsku Sýnódunni, en mun ekki hafa tekist. „Reynslan sýnir, að þeir álíti það eins heilaga, ef ekki heilagri skyldu sína að leggja þessi nýju ok leikmannalýðnum á herðar, eins og að innræta mönnum grundvallar-atriði kristindómsins“ (14). Og þetta er sannað og fastneglt með því, að vitna til 3. Mósebókar (18. og 20. kap.), þótt það standi þar alls ekki. Að efast um þetta er að vera svo óguðlegur „að vilja ekki beygja sig undir guðs orð“ (15), því alt sem prestarnir sannfærast um að standi í biblíunni, er „guðdómlegur sannleikur“.

(iii.) Sólin snýst í kringum jörðina. *„Það er eins guðdómlega víst, að sólin hreyfir sig á himninum umhverfis jörðina, eins og það er víst, að guð hefir grundvallað jörðina“* (16). *„Enginn gefur ritningunni þann heiður, sem henni ber, nema hann sé guðdómlega fullvissaður um, að sólin snúist í kringum jörðina“* (16). Um þetta segir séra Jón: „Hve auðveldlega fælist ístöðulaus maður frá sjálfstæðri rannsókn heilagrar ritningar og kristilegri hugsan, þegar hann veit, að með því að aðhyllast stjörnufræði-kenning Kópeníkusar á hann á hættu að vera dæmdur trúvillingur“ (16—17).

(iv.) Bænarefnið verður að tilgreinast. „Til þess að

bænin til drottins sé rétt, þarf að ákveða hlut þann, sem beðið er um eða þakkað fyrir. — Þó er þetta þvert á móti skýrum ritningarstað (Róm. 8,26).

(v.) Lúter er óskeikull eftir 1523. „Að Lúter hafi ekki skjátlast í kenningu nokkurs lærdóms guðs orðs eftir 1523, að Lúter hafi verið engillinn með hið eilífa evangelium, sem um er spáð í Jóhannesar Opinberunarbók og að rit Lúters standi öllum mannlegum ritum ofar" (18). Missourimenn segjast vera svo sannfærðir um þetta í samvizku sinni, „að þeir geti með engu móti neitað því, nema með því að falla úr náðarstöðunni" (19). Samkvæmt þessu standa rit Lúters „ofar öllum mannlegum ritum af því honum skjátlaðist ekki í neinu eftir 1523".

(vi.) Páfinn í Rómi er Antikristur. „Það er í sannleika hræðilegt, þegar lúterskur maður vill ekki trúa því, að páfinn sé Antikristurinn. Slík vantrú er svívirðilegt vanþakklæti fyrir gæzku guðs. Vei þeim presti, sem leitast við að telja tilheyrendum sínum trú um, að páfinn sé ekki Antikristur. Á síðasta degi mun hann með skelfingu fá að sjá, hvað hann hefir gert" (19—20). Þessi orð eru tilfærð úr þýzku trúmálariti Missourimanna. „Hve innilega norska sýnódan trúir á þessa kreddu, er auðsætt af bölbæn þeirri, er þetta kirkjufélag hefir saman tekið og er þessi árin (c. 1880) í óða önn að innleiða í söfnuði sína. Bölbænin er svo: ‚Lát Satan troðast undir fætur vorar og *lát* mann syndarinnar og son glötunarinnar, páfann í Rómaborg, *tortýnast* af anda þíns munns.' Svona eiga söfnuðir norsku sýnódunnar að biðja til drottins að minsta kosti einu sinni á ári, á Allraheilagra- messu, um leið og þeir þakka honum fyrir Lúter og siðbótina lútersku!" (20).*)

(vii.) Trúarþekkingin stendur í stað síðan á dögum Lúters. „Þeir neita því, að trúarþekkingin eins og annað taki sögulegum framförum, svo að Lúter hlýtur eftir þeirra skoðan að hafa getað séð (og þá líka séð) alla guðfræðilega hluti ofan í kjölinn, sem rétt-trúaðir menn nú geta séð. Adam á að hafa haft í höfðinu alla þá guðfræði, sem hinir rétt-trúuðu guðfræðingar kristninnar á öllum öldum hafa haft. ‚Honum hefir verið eins kunn kenning ritningarinnar um náðarmeðulin og oss!' (Asperheim), eins og yfir höfuð að tala allur kristindómurinn á að hafa verið eins opinber hinum trúuðu á tíma gamla testamentisins eins og postulum Jesú Krists" (21).

(viii.) Skilyrðislaust hefir guð útvalið suma menn til sáluhjálpar. Kalvínsku kenninguna um fyrirhuganina (prædestination) hafa þeir gert að kenningu sinni. „Þeir segja, að trúin sé ekki skilyrði fyrir því, að mennirnir sé af guði útvaldir til sáluhjálpar, heldur sé trúin afleiðing þess, að maðurinn sé útvalinn. Suma hefir guð útvalið til sáluhjálpar og þeim gefur hann trú. Þeir líkja náðarútvalningunni við uppsprettu, en trúnni við læk, er rennur frá uppsprettunni. ‚Trúin er ekki orsök útvalningarinnar, heldur er útvaln-

---

*) Synodens Psalmebog, Decorah, 1875, bls. 148: „Lad Satan trædes under vore Födder og lad det Syndens Menneske og Fordærvelsens Sön, Paven udi Rom, fortæres ved din Munds Aande."

ingin orsök trúarinnar.' .... ‚Guð hefi frá eilífð útvalið nokkurn hluta mannsins til sáluhjálpar; hann hefir ákvarðað, að þessir menn skuli verða og hljóta að verða sáluhólpnir, og svo framarlega sem guð er guð, svo sannarlega verða þeir líka sáluhólpnir, og fyrir utan þá enginn'" (25). Þessi orð eru tilfærð úr allsherjar sýnódu-ályktunum þeirra. Á þessa kenningu, sem bæði brýtur bág við fagnaðarerindið sjálft og alla lúterska guðfræði fram á þenna dag, leggja þeir svo mikla áherzlu, að þeir segja, „að röng kenning um náðarútvalninguna geti kostað sáluhjálp hundrað og þúsund ódauðlegra sálna." .... „‚Þessa hörmulegu kenningu um náðarvalið leitast nú Missourimenn trúlega að innræta öllum þeim, er í þeirra kirkjufélagi standa' (Asperheim). Það er *skelfilegt* fyrir kristinn mann að efa það, að hann sé útvalinn. *Svo tala engir* ***aðrir en hinir nýrri guðfræðingar***" (27).

(ix.) Fyrirgefning syndanna er engu skilyrði bundin. Þegar gengið er til altaris og presturinn boðar altarisgestunum fyrirgefningu, segja þeir, að „með aflausnarorðunum rétti guð að hverjum þeim, sem orðið heyra, fyrirgefningu syndanna, veiti þeim hana og gefi, *hvort sem þeir trúa ellegar ekki*" (35). „Eg trúi því, og er fullviss um það, að guð hefir fyrirgefið mér syndir mínar fyrir 1800 árum, um leið og Kristur fullkomnaði endurlausnarverk sitt" (38). Svo hljóðar trúarjátning þessara sýnódumanna. Þessi sýnódu-guðfræði heldur því fram, „að guð hafi lagt ávöxtinn af endurlausnarverki Krists, fyrirgefning alls mannkynsins synda og heimsréttlætinguna, niður í náðarmeðulin, orðið og sakramentin, á líkan hátt og hann hefir lagt segulaflið í járnið eða næringarkraftinn í líkamsfæðu þá, er vér neytum" (30).

(x.) Heilagur andi hefir lesið hvert orð biblíunnar fyrir. Það er kenning sýnódu-guðfræðinnar, „að hvert einstakt orð í biblíunni hafi verið hinum heilögu rithöfundum beinlínis lesið fyrir af heilögum anda" og það sé „bókstafleg samhljóðan (milli) hinna einstöku kafla biblíunnar" (40).

(xi.) **Játningarritin sett jafnhliða eða ofar ritningunni.** „Walter og öllum hans sporgöngumönnum, smáum og stórum, þykir það óhæfa, ef einhver gengur beint að ritningunni, í vissri von um, að hann fyrir rannsókn hennar muni komast að sömu niðurstöðu eins og Lúter og fylgismenn hans til forna, og þó er því að einu leyti haldið fram, að heilög ritning sé ljós í hverju einstöku atriði, og hins vegar því, að niðurstaða sú, er hinir forn-lútersku guðfræðingar komust til, hafi verið bæði rétt og fullkomin. Trúarjátningarritin eru nú í þeirra augum ómissandi, til rétts skilnings á ritningunni, en þau eru ekki einhlít, því mörg eru þau trúaratriði, sem þar er annað hvort slept alveg, eða ekki nógu nákvæmlega ákveðin. Svo sýnist þeim Waltersmönnum, og því verður líka að „slá föstu" svo miklu meira af fornlútersku trúarjátningunni. Þessi forn-lútersku rit eru nú á þann hátt bindandi fyrir samvizkur sýnódumanna, að komist einhver í rannsókn heilagrar ritningar að annari niðurstöðu, jafnvel þótt að eins sé í smáatriði, heldur en þessi gömlu rit, og hann svo ekki, þegar honum er sýnt fram á, hve mismunandi biblíu-útlegging hans og hinna fornu guðfræðinga er, fæst til að játa að honum hafi yfirsést, þá er hann jafn-harðan

dæmdur trúvillingur, sem ekki vilji beygja sig undir guðs orð.“ Hér kemur alveg sama stefna fram hjá þeim sýnóduprestum og í páfakirkjunni. Mannaorð er sett ofar guðs opinberaða orði í ritningunni“ (46—47). Slík „rétt-trúnaðar-gleraugu“ bindur sýnódu-guðfræðin öllum kristnum fylgismönnum sínum á herðar. Enginn má „ganga frá ritningunni til hinna lútersku játingarrita og annara forn-lúterskra trúarrita, heldur þvert á móti frá þessum fornritum til ritningarinnar.“ Lúterskur maður má ekki útskýra trúarjátningarnar eftir ritningunni, heldur ritninguna eftir játningum og kenningum kirkjunnar“ (48). „Alt trúarjátningasafn lútersku kirkjunnar“ verður óumflýjanlegt ok á herðum almennings innan þessara kirkjufélaga.“ — Og í sannleika meira til: heil hrúga forn-lúterskra guðfræðirita frá 16., 17. og 18. öld“ (46).

(xii.) Nálega æðisgengið hatur til manna með aðrar trúarskoðanir. Um þetta atriði fer Nauðsynleg hugvekja svo feldum orðum: „Bera þeir sýnódumenn nálega æðisgengið hatur ekki að eins til hinna ýmsu kirkjudeilda, sem ekki bera nafn Lúters í merki sínu, heldur og til alls Lúterdóms utan síns eigin kirkjufélags, sem vor öld hefir framleitt. Þeir hafa algerlega flúið burt frá þeim tíma, er þeir sjálfir lifa á, og líta út í annara manna augum eins og nátttröll, er dagað hefir uppi frá löngu liðnum öldum“ (56). „Sá, sem ekki vill viðurkenna þeirra kirkjufélag sem þvílíkt sauðahús (þ. e. hið eina sanna), sá sem ekki getur fengist til að líta sömu augum á hvert smáatriði í trúarefnum og þeir, sá sem ekki getur verið með þeim í því að fyrirlíta og fordæma gjörvalla guðfræðisstefnu þessarar aldar, bæði í hinum lútersku löndum (Þýzkalandi og Norðurlöndum) og utan þeirra, hann má ekki skoðast sannkristinn bróðir; með honum má fólk af þeirra sauðahúsi ekkert andlegt samneyti eiga; hann er illgresi, sem ekki má spilla akri drottins“ (56). „Ekki að eins fjöldi hinna ágætustu kristindómsvina katólsku kirkjunnar, ekki að eins trúarhetjur hinna ýmsu reformeruðu kirkjudeilda, bæði að fornu og nýju, heldur og hinir fremstu lútersku guðfræðingar þessarar aldar í Þýzkalandi og Norðurlöndum, liggja undir bannfæringu úr þeirri átt, heldur leyfa Missouri-menn sér iðulega að dæma um hjartalagið hjá þessum mönnum og eigna það vonzku viljans, að þeir eru þeim ekki sammála um það eða það trúaratriði“ (57). „Um fólk í reformeruðu kirkjunni segja þeir t. a. m., að það beri heldur fyrir sig orð Kalvíns en Zwingli, af því að hinn fyrnefndi hafi verið kænni í því að breiða yfir lygina“. Metódista kalla þeir sálnaræningja á rétt-trúnaðar-mállýzku“ sinni. „,En hvergi kemur þó þetta kærleiksleysi og ranglæti Missourimanna eins sterklega fram, og þegar þeir eru að eiga við hina ‚nýrri guðfræðinga‘, en svo kalla þeir alla hina lútersku guðfræðinga Þýzkalands, sem lifað hafa á 19. öld, ásamt fjölda guðfræðinga, sem sumpart hafa enga ákveðna stefnu eða jafnvel ókristilega‘. Öllum þessum mönnum er blandað saman, því það er nóg til þess að verða settur í gapastokkinn, ef maður er ekki samhljóða sýnódumönnum í öllu. Um innblástur ritningarinnar kennir nú t. a. m. ekki einn guðfræðingur lútersku kirkjunnar á þessum tímum sama sem Missouri-sýnódan hefir ‚slegið föstu‘, og þetta eina atriði er

nóg til þess að gera alla hina lútersku guðfræðinga utan Missouri-sýnódunnar og þeirra sýnódna, er henni hafa gengið á hönd, að trúvillingum. Að svo miklu leyti sem heimsréttlætingardómur Missourimanna er kunnugur hinum lútersku guðfræðingum Þýzkalands, þá hefir hann svo sem eðlilegt er mætt þar mótmælum, en um þau mótmæli hafa Missourimenn sagt, að þar hafi *djöfullinn talað út úr þeim*" (58—59). Um danska guðfræðinginn alkunna, Martensen biskup, dæmir Walter svo: „*Hin svo kallaða trúfræði Martensens er hrærigrautur af hinum hryllilegustu trúvillum*" (59), og á þann dóm fallast vitaskuld allir sýnódumenn.

**60. Hámark trúarhrokans.** Eg hefi álitið nauðsynlegt að gefa íslenzkum lesendum sem glöggasta hugmynd um sýnódu-guðfræðina með þessum útdrætti úr Nauðsynlegri hugvekju, sem hlýtur að skoðast ágæt heimild í þessum efnum. Höfundurinn hafði verið hátt á tvö ár með helztu guðfræðingum norsku sýnódunnar og í þjónustu hennar sem kennari á bezta skeiði æfi sinnar. „Á þessum tíma," segir hann, „lærði eg að þekkja sýnóduna nokkurn veginn ofan í kjölinn" (64). Asperheim, sem var stiltur maður, prýðilega að sér og stórgáfaður maður, byggir orð sín á ályktunum, sem gerðar hafa verið á kirkjuþingum, eða ritgerðum, er staðið hafa í tímaritum þeirra. Og ekkert af kenningum þessum hefir verið aftur tekið. Sagan hefir líka staðfest alt sem hér er sagt. Út af kenningunni um náðarvalið, sem Walter og Missourimenn komu fram með, splundraðist það allsherjar kirkjufélag lúterskra manna í Ameríku, sem nefndist Synodal-Konferenz 1881. Eitt lúterska kirkjufélagið, Ohio-sýnódan, lýsti Walter, föður þeirra Missourimanna, í bann. Er farið um þetta svo feldum orðum í hinu ágæta þýzka guðfræðilega ritverki, sem oft hefir verið vitnað til hér að framan: Trúarbrögðin í sögu og nútíð: „C. F. Walter gekst með góðum árangri fyrir sameiningu lúterskra manna í öðrum ríkjum við Missourisýnóduna. Þar sem hann samt sem áður féll út í trúvillu náðarvaldskenningarinnar, — en samkvæmt henni öðlast einungis útvaldir sáluhjálplega trú, var hann ásamt sýnódu sinni bannfærður 1881 af Ohiosýnódunni."*) Ohiosýnódan og norska sýnódan höfðu slitið sambandinu við Sýnódal-konferenzuna 1880 út af þessu deiluefni. — Að tilhlutun Missouri-sýnódunnar og með

*) Religion in Geschichte und Gegenwart (1913), V, 749: Wurde er gebannt.

fullu samþykki hennar, var árið 1889 gefin út bók eftir prestinn Grasse, er nefndist: „Sérkenningar helztu kirkjufélaganna, sem nefna sig lútersk, og hinna nafnkendustu trúvillukirkna".*) Grasse, og Missourisýnódan um leið, komst að þeirri niðurstöðu, að af þeim þýzku sýnódum í Ameríku sé að eins þrjár rétt-trúaðar, þær sem kenna sig við ríkin þrjú, Missouri, Wisconsin og Minnesota. Af þeim sýnódum, þar sem ensk tunga er töluð, sé að eins „Enska Missouri-konferenzan" rétt-trúuð, og í henni voru þá að eins 12 prestar. Með Norðmönnum sé að eins norska sýnódan rétt-trúuð. Bókin endar með þeirri staðhæfingu, sem fræg er orðin: „Á Þýzkalandi er nú á tímum sýnóda hinnar evangelisku, lútersku fríkirkju á Saxlandi og öðrum ríkjum, einasta rétt-trúaða félagsheildin."**) Árið 1912 voru 64 lúterskar sýnódur í Ameríku. Frá sjónarmiði Missouri-sýnódunnar og þá um leið norsku sýnódunnar, eru fimm þeirra rétt-trúaðar, og að minsta kosti ein þeirra örlítil. Í þessari saxnesku fríkirkju, sem nefnd er, voru árið 1907 að eins 21 smásöfnuður og einir 16 prestar. Af öllum miljónum Þýzkalands er þetta eina rétt-trúaða fólkið. Lítil er vonin um sáluhjálp mannkynsins frá sjónarmiði rétt-trúnaðarins! Svo óskaplegt getur þröngsýnið orðið.

Aldrei hefir það betur komið í ljós en í þessari bók, eftir Grasse, er samin var að beinni tilhlutan Missourisýnódunnar, að dómur Nauðsynlegrar hugvekju hefir sterk rök við að styðjast, þó harður sé: Missouri-sýnódan er hin lang-ófrjálslyndasta kirkjudeild, sem enn hefir komið fram í mannkynssögunni (9). Og þess ber að gæta um leið, að norska sýnódan er einungis norsk útgáfa af henni, eins og höfundurinn tekur réttilega fram (bls. 11). Og nú hefir því miður sú raun á orðið, að kirkjufélagið vestur-íslenzka hefir hnýtt sér þar aftan í.

**61. Samanburður.** Þessa sýnódu-guðfræði virðist kirkjufélagið vestur-íslenzka komið furðu langt á leið með að tileinka sér. Í málaferlum þeim, sem út af trúmáladeilunni í kirkjufélaginu risu 1910, og úrslitadómur var feldur í af hæstarétti 1914, bar Fossmark, prestur í norsku sýnódunni, fyrir rétti, „að

*) Grasse: Unterscheidungslehren der hauptsächlichsten, sich luterisch nennenden Synoden, sowie namhaftesten Sektenkirchen u. s. w. 1889.
**) Religion in Geschichte u. Gegenwart V, 1611.

kirkjufélag hans hefði ávalt verið, er nú og verður ávalt, vona eg, í samræmi við Missouri-sýnóduna í kenningarefnum."*) Og séra Steingrímur Þorláksson bar það sömuleiðis, „að hann vissi ekki til að neitt ósamræmi eigi sér stað í nálægri tíð milli kirkjufélagsins íslenzka, lúterska og norsku sýnódunnar."**) Málaferlin hafa því leitt það í ljós, svo greinilega, að ekki verður móti mælt, að Missouri-sýnódan, norska sýnódan og kirkjufélagið vestur-íslenzka mynda eina heild, að því er kenninguna snertir. Hjá þessum kirkjufélögum stendur rétt-trúnaðurinn á jafn-háu stigi. Það sem á við um eitt, á við um þau öll. Sýnódu-guðfræðin virðist vera runnin saman við kirkjufélags-guðfræðina, hversu ólíklegt sem þetta hefði þótt 1878 og árin þar á eftir. Merkin til þess hafa orðið augljósari og augljósari með líðandi árum. Árið 1908 á kirkjuþingi í Selkirk stendur höfundur Nauðsynl. hugv. nákvæmlega í sömu sporum og andstæðingur hans, séra Páll, stóð 1878 á samtalsfundinum á Gimli. Samanber fyrirlesturinn um gildi trúarjátninga, sem þar var fluttur.

Vitaskuld má segja með sönnu, að ekki hafi kirkjufélagið enn þá með beinum kirkjuþings-samþyktum bundist öllum kreddum sýnódu-guðfræðinnar, sem taldar hafa verið upp. Það hefir til dæmis ekki bannað áhangendum sínum að heimta vöxtu af lánsfé, enda sá sýnódu-guðfræðin sér það aldrei fært. Aftur hefir því verið fylgt fram mjög ósleitilega í kirkjufélaginu, að það sé bein kristileg skylda að greiða tíund af fé sínu í þarfir kirkjunnar, og einhverir urðu víst til að taka upp þá reglu, meðan hitinn út af þeirri kenningu var sem mestur, hver sem endingin hefir orðið. Og sú regla myndi hafa enn víðtækari áhrif í mannfélögunum, ef hún fengi alment gildi, en hin um afnám vaxta. Engin kirkjuþings-fyrirskipan hefir verið gerð um það, að bænin til guðs sé ógild, nema hún sé um ákveðin efni. En haldið var því fram í Sameiningunni allsterklega, að lang-réttasta aðferðin, sem kristnir menn gæti beitt gegn þeim, er sannleikanum sýna mótþróa, væri sú að biðja bölbæna gegn þeim, — biðja guð um einhverja líkamlega refsingu yfir þá, sakir óguðleiks þeirra. „Þá (þ. e. ef brot annara manna eru án afsökunar) er skylda þín að biðja guð

*) Abstract 267, f. 798. **) S. st. 292, f. 872.

af öllum mætti um svo stór-mikla tímanlega hegningu yfir þann, svo aðrir sjái afdrif hans og steypi sér ekki í eilífa glötun með viðlíka syndum .... Réttilega við höfð mun þessi aðferð leiða meira gott af sér en allir dómstólar heimsins, án þess þó rétt sé að lasta þá."*) Öldungis í samræmi við þetta er því haldið fram í sambandi við frásögn Jósúabókar um, að fólkið í Kanaan-landi hafi verið strádrepið, karlmenn, konur og börn, samkvæmt beinni skipan drottins, að þetta hafi verið eitt hið mesta líknarverk, er sögur fara af. „Eg get ekki betur séð, en að það verk drottins (eða verk framkvæmt beint eftir skipan hans) hafi verið miskunnarverk og það eitt hið helzta, sem vér höfum nokkurar sögur um."**) En þá verður spurningin þessi: Því vinnur þá ekki guð sama miskunnarverkið á öllum, sem ekki eru rétt-trúaðir sýnódu-guðfræðingar? Sé þetta með því afsakað, að þetta sé að eins ummæli einstaklinga, þá ber þess fyrst og fremst að gæta, að þessu hefir öldungis mótmælalaust verið haldið fram í málgagni kirkjufélagsins, og í annan stað ber að taka til greina, að samkvæmt sýnódu-guðfræðinni „er ekki og á ekki, eftir því sem hún sjálf segir", kirkjulegt málgagn „að vera munnur einstaklinga, nema að því leyti, sem þeir tala máli síns kirkjufélags."***) Um kyrrstöðu sólarinnar, sem frá er sagt í Jósúabók, virðast kirkjufélagsprestar nú vera orðnir alveg eins guðdómlega fullvissaðir og bræður þeirra í Missouri-sýnódunni. Framburður séra Kristins Ólafssonar fyrir rétti tekur þar af öll tvímæli: „Eg trúi staðhæfing bibliunnar, að Jósúa hafi skipað sólinni að standa kyrri, og að hún hafi gert það, og eg trúi því að höfundur þeirrar ritningargreinar hafi verið innblásinn, að guð standi í ábyrgð fyrir þessari staðhæfing bibliunnar og að hún sé sönn. Þó stjörnufræðin sýni, að sólin sé fasta stjarna og hreyfist þess vegna ekki, myndi eg segja, að nauðsynlegt sé að trúa þessu." Og þegar hann var spurður, hvort hann tryði því, að sólin snerist kring um jörðina, svaraði hann: „Eg get ekki skýrt það. Eg felst á það í bibliunni. Eg skil það alls ekki. Eg trúi því af því að það er þar. Samkvæmt kenningu minni um p l e n a r y innblástur væri sá

*) Sam. 23. árg. jan. 1909, bls. 336—337. **) Sbr. Sam. júní 1909 (Hjörtur J. Leo: Blóðbaðið í Kanaan bls. 108—117). ***) Nauðsynl. hugv. bls. 17.

maður trúvillingur, sem ekki tryði þessu, — ef hann hafnaði nokkurri staðhæfingu í biblíunni."*) Og séra Björn, forseti kirkjufélagsins, sagðist vera framburði séra Kristins í þessu efni fullkomlega samþykkur.**) Missouri-guðfræðin hefir gert Lúter að páfa og lýst yfir því að eftir árið 1523 sé hann óskeikull. Í þessu efni virtist kirkjufélags-guðfræðin nokkuð reikul við réttarhaldið. Væri komið fram með nokkuð af ummælum Lúters um biblíuna, sem ekki samrýmdist kirkjufélags-guðfræðinni, kvað við óðara í hinum rétt-trúaða prestahópi, sem þar var staddur, að þetta væri ekkert að marka. Þetta hefði Lúter alt tekið aftur síðar á æfi sinni. Mest af tilvitnunum þeim í rit Lúters, sem fram voru lögð í réttinum, voru teknar úr ritum hans eftir 1523. Með því að neita gildi þeirra, eins og prestarnir létu sér sama og hugðust með því að bjarga málstað sínum, hafa þeir stigið örlagaþrungnara spor en þeir hafa gert sér í hugarlund. Samkvæmt sýnódu-guðfræðinni, sem þeir játa, hafa þeir með því hlotið því miður „að falla úr náðarstöðunni" sjálfri.***) Helzt leit út fyrir, að Lúter myndi hafa tekið aftur mest af því sem hann var að fara með fyrir andlát sitt. Væri það svo í raun og veru, yrði ekki heiðurinn fyrir siðbótarstarfið, sem honum hefir verið eignaður, ýkja mikill. En það var auðsætt að prestarnir, er sýnódu-guðfræðina vörðu fyrir rétti, höfðu mjög ófullkomna hugmynd um hinn eiginlega Lúter, — frá hvaða árum hvert af ritverkum hans og í hverju sú bylting var eiginlega fólgin, sem skoðanir hans á biblíunni höfðu í för með sér. Fyrir þessu er nokkur grein ger í kaflanum um skoðanir Lúters á biblíunni.

Missouri-sýnódan hrópar vei yfir hvern þann prest, er ekki komi söfnuði sínum í skilning um, að páfinn sé antikristur og við hefir ógnanir, sem gefa í skyn, að það hafi sáluhjálparglötun í för með sér fyrir hann. Nauðsynleg hugvekja kallar sýnódu-guðfræðina antikristindóm. Nú kalla Sameiningin og Bjarmi guðfræði nútímans hvert í kapp við annað únitara-trú og heiðindóm. Það orkar engra tvímæla, að ný guðfræði er í huga þessara gamaldags-guðfræðinga nú antikristur verri en sjálfur páfinn. En átakanlegast af öllu er það, að nú skuli sú

---

*) Abstract 88—89. Sbr. Framb. pr. bls. 291. **) Framb. pr. bls. 299.
***) Nauðsynleg hugvekja 19. Sbr. bls. 95 að framan.

guðfræði, sem Nauðsynleg hugvekja kallaði antikristindóm, einmitt vera orðin guðfræði kirkjufélagsins. Nú er svo komð, að sá prestur þykir ekki húshæfur í kirkjufélaginu, sem eigi prédikar rækilega inn í hvers manns hjarta, að ný guðfræði sé heiðindómur og únítaratrú!

Um það, að þekkingin í trúarefnum standi í stað um aldur og æfi og eigi að standa í stað, virðist kirkjufélags-guðfræðin og sýnódu-guðfræðin vera jafn-sannfærðar. Fossmark prestur bar það fyrir rétti: „Kirkjufélag það, sem eg heyri til, hefir staðið í stað síðan það var stofnað fyrir 58 árum, og í nálægri framtíð er engin bending til breytingar í því efni svo eg viti. Kirkjufélag mitt og eg höfum aldrei breyzt í nokkuru kenningar-atriði síðan það var stofnað 1858."*) Sýnódu-guðfræðin og kirkjufélags-guðfræðin eru báðar öldungis kyrrstæðar. Hugsjónin er sú að standa í sporum játningarritanna um aldur og æfi. En — „mönnunum munar, annað hvort aftur á bak, ellegar nokkuð á leið", segir skáldið og það sannast hér. Í raun réttri hafa trúarhugmyndirnar þokast aftur á bak, — langa leið aftur fyrir siðbótartímabilið og aftur í miðalda-myrkrið. — Umræðurnar um innblásturs-kenninguna hafa staðið yfir í fleiri ár, svo það er íslenzkum almenningi kunnugt orðið, að kirkjufélagið er bundið á klafa nákvæmlega sömu bókstafstrúar og sýnóduguðfræðin. Biblían er af báðum ger að óskeikulum páfa, sem þeim mun lakari er páfanum í Rómi, að hún getur aldrei breyzt, en allir páfar deyja, nýir koma í staðinn og enginn nákvæmlega öðrum líkur. Lifandi mannssálin ávalt dauðum bókstafnum fremri dómari. — Hugmyndirnar um gildi trúarjátninga nákvæmlega þær sömu. Trúarjátningarnar eru skoðaðar lagabönd, er alla fjötri við þann skilning á biblíunni í kenningaratriðunum, sem þar er haldið fram. Þegar frá sé vikið, eigi það í hvert skifti að varða embættismissi, ef prestur á í hlut, en burtrekstri úr söfnuði, ef leikmaður á í hlut, en lögsókn um trúvillu og algjörðu eignatjóni, ef söfnuður á í hlut. — Sýnódu-guðfræðinnar síðasta einkenni, sem upp var talið, var nálega æðisgengið hatur til manna með aðrar trúarskoðanir. Því miður hefir kirkjufélagið of mjög tileinkað sér þetta raunalega sérmerki og er það óefað harmsefnið mesta, í sambandi við sögu þess. Kæran, sem

*) Framb. pr. bls. 314.

málaferlin voru bygð á, er kæra um trúvillu. Orðin trúvilla og trúvillingar ganga eins og gráir kettir í gegn um allan framburðinn fyrir rétti og málsskjölin öll. Þau orð hafa eiginlega gengið eins og bardaga-hróp gegn um deiluna alla, beggja megin hafsins. Viðkvæðið, sem notað hefir verið í rökfærslu stað, hefir ávalt verið: „Heiðingjar, únítarar!“ Þegar núverandi biskup Íslands var vígður og flutti ágæta ræðu við það tækifæri, var hún einkend í Sameiningunni með heitinu: Heiðindómsbláþráður! Í ræðu sinni hafði biskup mint á orð Páls postula: „Halt þú þeirri trú, sem þú hefir með sjálfum þér fyrir guði“ (Róm. 14,22), og brýnt fyrir mönnum umburðarlyndis-skylduna. Um þetta farast ritstjóra Sameiningarinnar svo orð: „Allur hugsanaþráðurinn, sem hann (þ. e. biskupinn) spinnur þar út af þessari rammöfugu biblíu-útlegging er ömurlegur heiðindóms bláþráður.“ *) Ákæra um trúvillu og heiðindóm hefir verið notuð af alefli til að gera alla ný-guðfræðinga tortryggilega og ófrægja þá sem mest í augum almennings. Kristindóm á hvergi að vera að finna nema hjá þeim, sem fylgja kirkjufélags eða heimatrúboðs-guðfræðinni í einu og öllu. Því verður ekki neitað, að sýnódu-guðfræðin er orðin guðfræði kirkjufélagsins að langmestu leyti. Eftir því sem fram hefir komið í þessari deilu og nú síðast við málaferlin, hefir það tileinkað sér hana nokkurn veginn alla. Það hefir raðað sér við hlið þeirra kirkjufélaganna, sem Nauðsynleg hugvekja segir um, að sé hinar lang-ófrjálslyndustu kirkjudeildir, sem fram hafi komið í mannkynssögunni (bls. 9). Frá Missouri-sýnódunni og norsku sýnódunni fékk kirkjufélagið hjálp við málareksturinn með því að fá þaðan vitni. Einn þeirra, Fossmark prestur, var eitt helzta vitnið: „Hann talaði um hið grátlega ástand kirkjunnar í Noregi, Íslandi, Þýzkalandi og Danmörku og seildist með fyrirdæminguna alla leið til Metódista og biskupa-kirknanna í Bandaríkjum og lýsti meðlimi þeirra fullfleyga únítara, en var svo hygginn að láta hana ekki ná til Presbytera-kirkjunnar, af því hann vissi að undirréttardómarinn var meðlimur þeirrar kirkjudeildar (Abstr. f. 797). Hann bætir svo við: ‚Mín

*) Sam. nóv. 1908, bls. 259. Orðtækið „heiðindóms bláþráður“ hefi eg heyrt haft eftir hálfbróður J. Bj. séra Brynjólfi Jónssyni í Vestmannaeyjum í sambandi við Mormónatrúna.

sýnóda hefir ávalt verið, er og eg vona hún ávalt verði í samræmi við Missouri-sýnóduna.'"*)

62. **Hvernig hefir þetta atvikast?** Það hefir atvikast á alveg eðlilegan hátt eins og annað sem við ber í heiminum. Skoðanir í trúarefnum breytast að lang-mestu leyti út frá þeim skólum, þar sem prestsefnin fá mentan sína. Kirkjufélagið hefir frá upphafi orðið að vera upp á aðra komið að þessu leyti. Það hefir aldrei neinn prestaskóla átt og verður sjálfsagt aldrei þess um komið. Til þess er það ekki nógu stórt og öflugt. Reynslan gerði menn hrædda við prestaskóla Missouri-sýnódunnar og norsku sýnódunnar. Þess vegna brauzt sá, sem þetta ritar, til Noregs, þegar honum kom til hugar, að fara að lesa guðfræði. Hið sama átti sér stað um séra Steingrím Þorláksson. Þegar eg af ýmsum ástæðum varð til þess neyddur að hverfa vestur aftur og lesa guðfræði eitt ár við einhvern prestaskóla í Ameríku, leitaði eg til Philadelphia, af því það var lengst frá Missouri og eg hélt að þar væri andrúmsloft frjálsara með hinum svo nefndu General Council-mönnum. Þegar þangað kom fann eg, að þeir voru að sumu leyti fremri. Dómsýkin var þar ögn minni og horn höfðu þeir í síðu Missouri-manna fyrir rétt-trúnaðarhrokann, þó ekki væri þar mikið að munum. En óheyrilega var guðfræði þeirra gamaldags. Hið eina, sem eg hafði upp úr verunni þar, var að eins að þekkja rétt-trúnaðarguðfræði 17. aldar enn betur en áður. Þetta General Council er eins konar allsherjar félag, sem margar sýnódur eða smærri kirkjufélög heyra til; eru sumar þeirra stórar og mannmargar. Allar eru þær af þýzkum uppruna. Í sumum þeirra er enskan orðin það mál, sem talað er og lesið. Í öðrum, líklega svo sem helmingnum, er þýzk tunga töluð og alt látið fara fram á þýzku með fastheldni fjarska mikilli við þjóðernið. Fólkið flest búið að vera ákaflega lengi í landinu, á 3. hundrað ár, og er allur þorri þess kallað Pennsylvania-Dutch. Er það langíhaldssamasta fólkið, sem fluzt hefir frá nokkuru landi Norðurálfunnar til Ameríku og sezt að í Bandaríkjunum. Það kveður svo ramt að, að með því hefir myndast þýzk mállýzka síðan

---

*) Appelants' Brief, bls. 35.

það settist þar að, sem hvergi er töluð á Þýzkalandi og fáeinar bækur hafa verið gefnar út á. Það sýnir, hve ákaflega íhaldssamt fólkið er. Enda fanst mér eina hugsjónin vera að standa í stað í andlegum efnum og vera rétt-trúað; með því var alt fengið. Samt sem áður fanst mér andrúmsloftið þarna ekki vera eins herfilegt og vestur í ríkjunum, þar sem eg hafði verið með Norðmönnum. Og sú tegund lúterskunnar, sem þarna var haldið fram, einkum í hópi þeirra, sem enska tungu töluðu, vera þó dálítið aðgengilegri en sú, er eg hafði kynst með þeim Norðmönnum, sem tilheyrðu norsku sýnódunni. Og eg hafði þá von, að hinn frjálshugsandi enski umheimur þarna í Austurríkjunum myndi á tiltölulega skömmum tíma hafa svo heppileg áhrif á fólk þetta, að það einnig í trúarefnum færi að hugsa eins og nútíma menn. Þá von ól eg einlægt í brjósti, þangað til biblíurannsóknir þessara tíma komu til sögu og tekið var að ræða þær alment. Þá fóru þessir General Council menn að keppast við frændur sína vestur í Missouri með fordæmingar og óskaplega áfellisdóma, er þeir hugðust að kveða þann nýja draug niður með. Þá skildi eg til fulls, að hér var í rauninni nákvæmlega sama skilningsleysið, — sama andlega steingjörfings-eðlið og orðið sýnódu-guðfræði ávalt hafði táknað í huga mínum. Hún á heima alls staðar jafnt í lútersku kirkjunni í Ameríku, með ofurlitlum smálitbreytingum, svo munurinn er sama sem enginn, — hvað lengi sem það verður. Auk prestaskólans í Philadelphia hafa þessir General Council menn annan prestaskóla í Chicago. Séra Björn Jónsson, sem nú er forseti kirkjufélagsins, var fyrsti Íslendingurinn, sem stundaði þar nám tvo vetur. Sá prestaskóli er þeim mun meira gamaldags en sá í Philadelphia, sem hann liggur fleiri mílum vestar á hnettinum. Á þann skóla hafa allir hinir yngri prestar kirkjufélagsins gengið. Séra Björn fékk komið til leiðar breytingu á grundvallarlögum kirkjufélagsins eftir kreddum þeirra General Council manna þegar 1897. Þó þær væri ekki stórvægilegar, sá eg þegar í hverja áttina vindurinn blés, reyndi að koma í veg fyrir, en fékk ekki komið öðrum í skilning um, hvar fiskur lá undir steini. Síðan hefir séra Björn stutt afturhaldið af alefli, sem orðið hefir rammara með hverju ári og fengið stuðning þessara Chicagó-presta. Hann flutti erindið um inn-

blásturinn á kirkjuþingi 1899, þegar við séra Jón heitinn vorum á Íslandi, þar sem hann hélt því fram, að guð stæði í ábyrgð fyrir hverju orði í ritningunni. Þó síra Steingrímur læsi guðfræði sína í Noregi, hefir hann ávalt verið sýnóduguðfræðingur í anda, orðið það meira og meira með árum og aldri. Séra Hans Thorgrimsen var Missouri-maður eins langt og augað eygði, enda útskrifaður frá St. Louis. Hugur séra Jóns Bjarnasonar hafði smám saman snúist til gamallar guðfræði við að lesa blaðið International Sunday School Times, þar sem gamaldagsskoðunum um biblíuna var lengi haldið fram all-eindregið, og þeirri skoðun smeygt inn, að sá, sem nógu væri vel að sér í alls konar samrímunarspeki, gæti ávalt fengið alt í biblíunni til að standa nákvæmlega heima. Nauðsynleg hugvekja og fyrstu grundvallarlög kirkjufélagsins eru vitnisburður um, hvernig guðfræði hans var upphaflega. Sameiningin hin síðari ár og hinir síðari kirkjuþings-fyrirlestrar hans eins og Að Helgafelli og Gildi trúarjátninga og fleiri, bera vott um, hvernig guðfræði hans var orðin. Séra Steingrímur bar fyrir rétti: „Séra Jón Bjarnason var mjög frjálslyndur í kenningarefnum, þegar hann kom fyrst til þessa lands .... Það hefir orðið breyting síðan á þessum fyrstu dögum á stefnu séra Jóns Bjarnasonar í áttina til að verða andlegri, fastheldnari við guðs orð og játningar lút. kirkjunnar, frá mínu sjónarmiði. .... Eg held, að í deilu þessari við bróður minn hafi hann haldið því fram, að hann væri sjálfur réttur fulltrúi skoðana kirkjunnar á Íslandi og að bróðir minn væri fulltrúi norsku sýnódunnar.“*) „Það kemur glögt í ljós í framburði vitnanna í máli þessu, að saga Norðmanna í Ameríku endurtókst í sögu Íslendinga í þessu tilliti, að þegar Norðmenn komu til þessa lands fyrir meira en hálfri öld, voru þeir til þess neyddir, að láta prestaefni sín leita sér mentunar í skólum Missouri-sýnódunnar, þar sem prófessor Walter var leiðtoginn og forkólfurinn. Árangurinn hjá þeim varð sá, að norska kirkjan lúterska í Ameríku drakk í sig sérkenningar Missouri-sýnódunnar og hvarf frá stefnu móðurkirkjunnar í Noregi.“**)

Þegar leitast verður við í framtíðinni að skýra fyrir sér,

---

*) Framb. pr. bls. 325. **) Appelant' Brief 34.

hvernig það atvikaðist, að kirkjufélagið vestur-íslenzka hefir svo fullkomlega látið sýnódu-guðfræðina renna niður hjá sér, mun ávalt verða komist að sömu niðurstöðu og gert er í þessum ummælum: „Að svona illa fór á kirkjuþinginu 1909 mun aðallega eiga orsök sína í því, að margir prestar kirkjufélagsins hafa fengið guðfræðismentun sína í þröngsýnum prestaskóla í Chicagó, þar sem fáránlegri innblásturskenningu hefir verið haldið fram, að því er virðist, og fastheldni við trúarjátningar kirkjudeildanna talin afar-nauðsynleg, en þekking nútímans ekki sýnd jafnmikil virðing. Og ungir prestar mótast eðlilega af því, sem ‚í þá er látið‘, því á hitt mun sjaldnast lögð áherzla á prestaskólum: að kenna prestaefnunum að hugsa sjálfir og hugsa frjálst.“*)

63. **Sannleikurinn ber sigur úr býtum.** Eg get af öllu hjarta tekið undir með höfundi Nauðsynlegrar hugvekju og sagt: „En til þess sá hluti Íslendinga, sem er hugsandi og skynsamur þurfi ekki framvegis í blindni að leiðast inn í myrkur sýnódu-guðfræðinnar hefi eg komið fram með þessi mótmæli og staðið uppi í þessari baráttu eftir efnum. „Eg álít það beina skyldu mína“ eins og hann „að sýna mönnum fram á, út í hvað þeir ganga, sem kasta sér í arma“ þessarar sýnódu-guðfræði. Hún er gjörólík þeirri kristindómstegund, sem þjóð vor hefir tileinkað sér og bezt sýnist samlaga sig eðli hennar, á sama hátt og heimatrúboðs-kristindómurinn er gjörólíkur kenningarstefnu kirkju vorrar. Og þó þessi mótmæli virðist hafa verið borin ofurliði í bili, eru ýms fyrirbrigði, sem benda á, að þau hafi fengið miklu meira meðhald í hugum manna en komið hefir í ljós. Síðan klofningurinn varð á kirkjufélaginu og málaferlin hófust, er það vitanlegt, að sumir helztu prestar kirkjufélagsins eru teknir að flytja svo frjálslyndan kristindóm í stólræðum sínum í kirkjunni, að fólki finst að í því efni sé þeir að keppast við að verða okkur ný-guðfræðingum fremri. Það er ef til vill bending um að eigi þurfi að örvænta. Enda er til þess engin ástæða frá neinu sjónarmiði. Sannleikurinn hlýtur að sigra. Hér í þessu frjálsa landi eru kirkjudeildirnar allar að verða frjálslyndisins megin í túar-

*) Prófessor Haraldur Níelsson, Ísafold 1911, XXXVIII, 43.

efnum og það er óhugsandi að kirkjufélagið íslenzka eða kirkjufélögin lútersku fái til lengdar lifað í algerðri einangran frá andlega lífinu hringinn í kring. „Hreyfingin hlýtur að sigra og mun gera það af sömu ástæðu og hin mikla hreyfing um allan kristinn heim er að sigra. Því mannssálin, sem fundið hefir frelsi sitt í andlegum efnum, hverfur ekki í ánauðina aftur fremur en þrællinn, sem slitið hefir hlekki sína.“ (Brief. 127.)

---

## VII

## DEILAN UM BIBLÍUNA

64. **Höfuðsök að breytast.** Meðan sá árekstur milli rétt-trúnaðar 17. aldar og rétt-trúnaðar 19. aldar varð í Nýja-Íslandi, sem talað er um hér að framan, sátu þeir menn, er á síðar árum hafa verið nefndir nýguðfræðingar, allir á skólabekkjunum. Skömmu síðar, árið 1883, útskrifaðist Þórhallur Bjarnarson biskup frá háskólanum í Kaupmannahöfn, og þeir prófessorarnir Jón Helgason og Haraldur Níelsson 1892 og 1897, en sá sem þetta ritar 1886. Við háskólann í Kaupmannahöfn mun fremur lítið af nýrri guðfræði hafa verið farið að gera vart við sig. Prófessor Frants Buhl mun þar hafa verið sá fyrsti, sem eiginlega heyrði nýja tímanum til. Hann verður dócent við háskólann 1880 og tveim árum síðar prófessor með gamlatestamentisfræði sem aðalkenslugrein. Hans kenslu nutu þeir séra Jón og séra Haraldur. Vegna þess komu þeir út af háskólanum með réttari skilning á gamla testamentinu, en áður hafði til verið með Íslendingum. En Buhl mun þá hafa veri eini kennarinn við Kaupmannahafnar-háskóla, sem að nokkurum verulegum mun hafði tileinkað sér hin nýju sjónarmið í guðfræðinni. Á öllum svæðum öðrum mun gömul guðfræði hafa setið þar að völdum. Þegar séra Jón Helgason fer sína Þýzkalands-ferð 1894 og sendir Kirkjublaðinu ferðasögubrot, dagsett í Erlangen 29. maí, segir hann, að það nafn, sem hann heyri nefnt í Þýzkalandi öllum nöfnum oftar, sé nafn guðfræðingsins fræga Ritzschl. En um hann hafi hann ekki annað vitað, áður en til Þýzkalands kom, en að hann væri „Abelard afturgenginn“.*) Meira en það fengum við þó um

*) Kirkjublaðið IV, 123.

hann að heyra í Kristjaníu einum tíu árum áður, þó margfróðir yrðum við ekki. En það var vegna þess, að þar var prófessor Fredrik Petersen á svæði trúfræðinnar það sem Buhl var í Kaupmannahöfn á svæði gamla testamentis-fræðanna, — forvígismaður hins nýja tíma. Þórhallur biskup hefir hvað eftir annað tekið það fram, hve mikilli furðu það sæti, hvað honum og samtímismönnum hans við háskólann hafi verið boðið af ómögulegum skilningi og skýringum gamallar guðfræði.*) Um alla þessa íslenzku ný-guðfræðinga á það heima, að þeir hafa vaxið út úr hinum gömlu skoðunum og inn í þær nýju. Aukin þekking hefir smám saman þrýst huganum úr hinum gamla hugsana-heimi guðfræðinnar og inn í hinn nýja. Í fyrstu vorum við allir gamaldags guðfræðingar. Eitt af vopnunum, sem því hefir beitt verið til að gera nýja guðfræði og þá, sem hana hafa flutt, tortryggilega í augum almennings, er að sýna fram á, hve skoðanir okkar hafi breyzt. Samkvæmt hinum gamla skilningi er það álitin höfuðsök að breyta trúarskoðunum sínum. Svo mikil er oftrúin orðin á það kenningarkerfi, sem myndaðist í kirkjunni eftir daga siðbótarinnar á 17. öld. Engum hefir verið borið það eins mikið á brýn og okkur séra Jóni Helgasyni. Vitnað hefir verið í fyrirlestra hans á prestaskólanum fyrir 1900, til þess að sanna, hvílíkum stakkaskiftum trú hans hafi tekið.**) Og vitnað hefir verið hvað eftir annað í það, sem eg skrifaði fyrst framan af eftir að eg varð prestur 1886, til að sanna, hversu eg sé fallinn frá trúnni. Það var gert að einu aðal-atriði í málaferlum þeim, er kirkjufélagið hóf. Eg verð því að biðja lesendur mína velvirðingar á því, að eg geri hér, eitt skifti fyrir öll, grein þess, hvernig breytingin kom fram hjá sjálfum mér. Læt eg svo aðra dæma um eftir vild. En svo oft hefi eg verið sakaður um að hafa gerst ný-guðfræðingur af hégómagirni og öðrum lélegum hvötum, eða jafnvel látið kaupa mig til þess, að það, sem eg hér segi, ætti að verða fyrirgefið. Það er alls ekki sagt af neinni löngun til að gera sjálfan sig að umtalsefni, heldur að eins af þeirri

---

*) Sbr. P. Madsen: Johannes Aabenbaring. Köbenhavn 1887. 1—727 blaðsíður, full af ómögulegum skýringum gamallar guðfræði, svo að furðu sætir. Eg keypti og las, en varð illa sneyptur. **) Sbr. Jón Helgason: Til andmælenda minna. Sérprentun úr Ísafold 1914, bls. 51.

löngun, sem hverjum manni er meðfædd, að standa eigi í ósönnu ljósi gagnvart öðrum.

**65. Mín eigin saga.** Eg kom til Ameríku 17 ára gamall drengur, einn míns liðs, árið 1875. Þangað til hafði eg alist upp í sveit norðanlands. Foreldrar mínir voru bæði bókelsk og lásu flest af því, sem þá kom út á íslenzku. Sjálfur var eg snemma hneigður til bókar, og örfuðu þau lestrarfýst mína, en deyfðu ekki. Eg lærði undir skóla, komst svo langt að taka inntökupróf í latínuskólann, varð veikur í hendi um haustið, svo eg komst ekki á réttum tíma og hætti við í bráð. Næsta sumar fór eg til Vesturheims. Um það leyti man eg, að eg var fullur alls konar frjálslyndum trúarskoðunum, sem eg hafði drukkið í mig á uppvaxtarárunum. Fyrsta prédikan, sem eg heyrði í Ameríku, var flutt af norskum sýnódu-presti. Var hún öll um englana og miklu meira úr því atriði gert en eg hafði áður heyrt. Sama sumar hafði séra Páll Þorláksson tekið prestsvígslu. Með honum var eg fyrsta veturinn við undirbúning undir skólanám, með Níelsi Steingrími bróður hans, sem nú er prestur í kirkjufélaginu. Ætlaði séra Páll að koma okkur á mentaskóla norsku sýnódunnar í Decorah. Mig langaði til að læra, — hafði farið vestur vegna þess, að eg sá torfærur svo miklar á leiðinni á Íslandi, að eg treysti mér ekki. Löngunin var svo sterk, að eg held eg hefði fremur gengið í svarta skóla en fara allri skólamentun á mis. Hélt að á sama stæði nokkurn veginn, hvað skólinn héti og hvernig á honum stæði. Haustið 1876 kom eg til Decorah og var þar þangað til 1881, að eg útskrifaðist. Að mörgu leyti var skólinn fremur góður. Það sem kent var á annað borð, var nákvæmlega yfirfarið og sumir kennararnir voru góðir. Trúfræði var þar kend tvær stundir í viku öll árin, eftir Dietrichs Forklaring, eldgamalli skýringu á Fræðum Lúters eftir þýzkan höf. þar sem öllum kreddum rétt-trúnaðarins var haldið fram. Og kenslan var alveg í sama anda. Sú guðfræði, sem eg þar eignaðist, var vissulega gömul guðfræði í eiginlegasta skilningi. Þó æði-mikið færi fram hjá, varð sjálfsagt töluvert eftir og settist að. Samt var það svo, að þó eg hugsaði helzt til þess að verða prestur, gat eg með engu móti fengið mig til að byrja guðfræðinám við sýnódu-prestaskólana, hvorki Þjóðverja né Norðmanna í Ameríku. Eg varði tveim árum til að vinna mér inn ofurlítið fé, svo eg gæti farið til Noregs á háskólann í Kristjaníu. Eg las þar af öllu því kappi, sem eg átti til, en að eins í tvö ár, lengra hrökk ekki mitt litla fé. Fór þá vestur aftur með þeim ásetningi, að ganga eitt ár til í lúterskan guðfræðiskóla í austur-ríkjunum, þar sem ensk tunga væri töluð. Eg áleit að guðfræðin þar myndi bera meiri Norðurálfu-keim en sú sýnóduguðfræði, sem eg þekti, og hafði fengið ímugust á.

**66. Haldinn hömlum.** Í Kristjaníu hafði eg lært langmest af Fredrik Petersen. Hvert orð sem hann talaði flaug upp í fang mér. Svo fanst mér maðurinn og hugsan hans öll geðfeld og aðlaðandi. Frem-

ur var hann samt oft óljós og þungskilinn. Var alment yfir því kvartað, að torvelt væri að vita, hvert hann væri að fara. Hið gamla var ekki fallið úr gildi í huga hans nema að sumu leyti, — hin gömlu sjónarmið guðfræðinnar flæktust líka fyrir honum og voru enn ekki yfirunnin af hinum nýju. Hann hélt fyrirlestra um forspjall siðfræðinnar og var það mest um Herbert Spencer, heimspekinginn enska. Voru þeir aðal-efni bókar hans um sköpunina, sem út kom þessi ár í tvennu lagi.*) Efnið reyndi eg að tileinka mér sem bezt eg mátti því eg fann, að hér var guðfræði á ferðum, betur eftir mínu geði en nokkuð annað, sem eg hafði kynst. En mig brast skilyrði til að geta það til fulls, enda er sjónarmiðið nokkuð óljóst og óákveðið hjá þessum ágæta manni, sem eg kyntist vel og átti löng samtöl við, er eg aldrei gleymi. Gamla guðfræðin flæktist fyrir mér. Aðra röð fyrirlestra flutti hann um innblásturs-kenninguna; þar var eg betur á nótunum og þá fanst mér eg geta tileinkað mér að öllu. Engar bækur hefi eg lesið eins oft upp aftur og hans.

Svo kom eg tilPhiladelphíu og fann þegar, að eg var kominn inn í annan heim. Sá maðurinn, sem eg kyntist þar bezt og lærði mest af, var dr. Jacobs, enda er hann talinn lærðasti maðurinn lúterskrar kirkju í Ameríku. Hann flutti fyrirlestra í trúfræði um sakramentin og fann eg að þeir voru feikilega gamaldags. Í viðtali fanst mér hann miklu frjálslyndari maður en í kenslusalnum. Í Noregi hafði eg kynst þýzku ritverki í fjórum bindum eftir ýmsa höfunda, sem náði yfir allar greinar guðfræðinnar og átti að vera eins konar kenslubók handa guðfræðinemum. Ritverk**) þetta hafði eg með mér í Philadelphia og las í öllum stundum, sem eg mátti. Sá dr. Jacobs það hjá mér og hvatti mig af alefli til að lesa og eignaðist það sjálfur. Það var nýtt af nálinni og að mörgu leyti aðgengilegt. Þar marglas eg einkum trúvarnarfræðina (Apologetik) eftir Robert Kübel, prófessor í Tübingen, sem mér gazt sérlega vel að. Hinn stutta námstíma minn hafði eg notað svo vel, að eg er viss um að fáir guðfræðinemar hafa komist yfir meira á þrem árum. Og það sem lang-bezt hafði í mig gengið var það, er skoðað var um þetta leyti ný guðfræði á Norðurlöndum. En það var sú stefna, sem líklega er bezt auðkend með nöfnum þeirra Luthardt og Zöckler og þá var íhaldsstefna á Þýzkalandi. Ritzschl og fylgilið hans í guðfræðiheiminum þýzka hafði naumast enn fengið nokkura áhangendur á Norðurlöndum né í hinum enska heimi, svo farið væri að bera á. Gömlu rétt-trúnaðarkreddurnar frá Decorah flæktust þó enn í huga mínum og urðu alstaðar í vegi. Naumast kemur nokkur guðfræðingur svo út úr skóla, að hugmyndirnar sé ekki í meiri og minni bendu í huga hans. Þess vegna var það engin furða, þó svo væri um mig, eins og uppeldissaga mín hafði verið. Enda fann eg sárt til þess Það var eins og togast væri á um huga minn úr tveim áttum.

---

*) Fredrik Petersen: Om Skabelsen, Opholdelsen og Styrelsen, 1883, Anden Bog: Theologien 1885. **) O. Zöckler (Greifswald): Handbuch d. theol. Wissenschaften in encyklop. Darstellung 1885, I—IV.

**67. Fyrstu prestskapar ár.** Svo varð eg prestur 1886. Erfiðara prestakall getur naumast en það sem eg tók að mér. Eg varð að prédika á 9 stöðum og aka á milli; einn þeirra var 50 mílur frá heimili mínu, annar 36, þriðji 20, fjórði 16 o. s. frv. Eg ók fram og aftur alla daga og prédikaði oft þrisvar sinnum hvern sunnudag. Því miður varð tíminn enginn til lesturs og umhugsunar. Söfnuði varð eg að mynda á þessum stöðum, nema tveim. Í trúmálum var heilmikið los á hugum manna og töluverð mótspyrna. Heilmikið af íslenzku frjálslyndi í trúarefnum annars vegar og ókirkjulegum og beint andvígum hugsunarhætti hins vegar. Þetta stældi mig og gerði mig íhaldssamari en eg annars hefði orðið. Eg kunni ekki aðra leið að fara en halda fram játningunum lútersku og þeirra skilningi, en gerði það oft og tíðum með hikandi hendi. Eg lenti á þessum árum í smáritdeilum, einni við séra Þórhall Bjarnarson, nú biskup, og það út af útskúfunarkenningunni. Eg varð þá að hafa á hendi ritstjórn Samein. í sjúkdómsforföllum séra Jóns. Eg man, að í bréfi til biskupsins hélt eg þá fram þeirri skoðan, að enginn hlekkur í rétt-trúnaðarkeðjunni mætti bila. En skelfing sá eg eftir bæði í ritdeilunni og bréfinu svo að segja rétt á eftir. Það man eg vel. Sömuleiðis eftir óbilgjörnum dómi um Kirkjublaðið, sem út kom í Aldamótum og oft hefir verið notaður sem hirtingarvöndur á mig. Hann varð til vegna þess, að einstöku menn í söfnuðum mínum voru að nota Kirkjublaðið gegn mér. Eg tók mér það nærri, því eg hafði sízt af öllu viljað vera kendur við neinar afturhaldsöfgar og hafði forðast það í prédikunum mínum. Ræður þær, sem út voru gefnar í Íslandsför minni 1899, E i n a  l í f i ð, eru gott sýnishorn af prédikunum mínum fram að þeim tíma, held eg. Það er nokkurn veginn öfgalaus rétt-trúnaður; sýnódu-öfgunum hafði eg megnustu óbeit á. Og svo lét eg bræði mína bitna á Kirkjublaðinu, sem mér þá fanst fara með einhvern tilslökunar-kristindóm, sem ekki væri líklegur til sigurs. En eg stór-iðraðist, er frá leið, og eg sá, hvað öfugt það var að eiga í deilum við þá, sem af kærleika til kristindómsins væri að leitast við að þoka trúarhugmyndunum ofurlítið áfram og leysa úr fjötrum.

**68. Dagrenning.** Eftir því sem á leið, fór eg að lesa meira. Eg hélt B e w e i s  des  G l a u b e n s öll þessi ár og las all-rækilega. En þó margt væri þar að læra og guðfræðin væri jafn-ólík sýnóduguðfræðinni og austrið vestrinu, hélt það íhaldsseminni fremur við hjá mér, heldur en hitt. En þegar gamla testamentis-rannsóknin tók fyrir alvöru að ryðja sér til rúms, dró hún hugann þegar til sín. Árið 1893 hafði eg haldið fyrirlestur á kirkjuþingi um Gildi gamla testamentisins. Únítarar voru um það leyti fremur lotningarlítið að ráðast á gamla testamentið, svo að margir hinna gætnari alþýðumanna tóku sér nærri. Fyrir bein tilmæli flutti eg fyrirlestur þenna, alls ekki móti trúaðri biblíurannsókn, né vísindalegri niðurstöðu, heldur gegn þessum tilraunum til að ógilda gamla testamentið og gera það hlægilegt. En eins og oft vill verða, gekk eg feti framar en eg vildi. Eg tók samt greinilega fram, að það væri ekki vegna þess, að innblásturskenningin stæði í vegi. Biblían væri

leiðarvísir í „sáluhjálparefnum“ að eins. Engin kenning um bókstafs-innblástur væri tiltök, né heldur væri hann kendur eins og þá var í kirkjufélaginu. Að þessu leyti eru tekin af öll tvímæli. Svo langt var eg kominn. En að öðru leyti ber fyrirlesturinn með sér, að hin nýju sjónarmið eru ekki búin að leysa gáturnar. Með þenna fyrirlestur var eg óánægður, þegar eg var að semja hann, og þó enn óánægðari, þegar eg var búinn, án þess hann mætti þó nokkrum andmælum. Eg fann að eg hafði verið að verja eitthvað, sem ekki átti að verja. Þetta varð til þess, að eg útvegaði mér nýja biblíuskýring yfir gamla testamentið í sjö bindum, sem út kom á Þýzkalandi um þetta leyti. Fyrsta bindið um 4 fyrstu Móse-bækur brauzt eg í gegn um með miklum ákafa og sannfærðist af því býsna vel um réttmæti hinna nýju biblíu-rannsókna og að niðurstaða þeirra væri býsna ábyggileg.*) Enn betur sannfærðist eg af stuttri en einkar greinilegri bók eftir Hermann Strack um uppruna gamla testamentisins,**) sem út kom 1895 og eg fékk um leið. Hún var stutt og ljós, handhæg og góð að átta sig á. Eftir að hafa lesið hana varð eg sannfærður um það, í huga mínum, að skilningurinn á gamla testamentinu væri að taka miklum og heppilegum stakkaskiftum. Eg var ekki í neinum vafa um, hvoru megin eg yrði þar. Og mér fanst feikna byrði vera létt af mér.

Séra Jón Helgason skrifaði mér 1898, að hið eina, sem hann væri mér ekki sammála um, væri fyrirlestur minn um gamla testamentið, vegna þess að hann tæki ekki niðurstöðu biblíurannsóknanna til greina. Eg gat þá svarað honum þegar í stað og sagt honum, að nú væri eg honum jafn-sannfærður orðinn í því efni. Enda voru þá liðin fimm ár frá því fyrirlesturinn var fluttur. Hann var þá að semja ritgerð sína um Móse-bækurnar í ljósi hinna nýju biblíu-rannsókna, sem út kom í Tímariti Bókmentafélagsis. Fundum okkar bar saman 1899, er eg kom til Íslands, en ekki til þess, að við gætum talað saman neitt að ráði, sökum utanferðar hans. Séra Jón á því alls enga sök á neinum breytingum, er orðið hafa á trúarskoðunum mínum. Eg leit svo á frá upphafi, að ritgerðir hans tvær í Tímariti Bókmentafélagsins væri hið lang-merkverðasta, sem frá íslenzku kirkjunni hefði komið langa-lengi. Þær voru mér ný og ótvíræð sönnun þess, að hún vildi fylgjast með í lífi aldarinnar og eigi láta hugsanahreyfingar hennar fara fram hjá sér í guðfræðilegum efnum. Og það var mér stór og mikill fögnuður.

**69. Sannfærður, en hikandi.** Á þenna hátt smáþokaðist hugur og sannfæring frá hinu gamla til hins nýja. Það kostaði margra ára umhugsan og baráttu. Mig furðar nú miklu meira, hve eg var tornæmur og lengi á leiðinni, en hve fljótur eg varð til að breytast. En undirbúningsmentan minni var þar um að kenna og þeim feikna-fjötrum afgamals rétt-trúnaðar, sem eg var þá færður í. Það var mér lengi feikilega ægileg tilhugsan, að verða talinn trúvillingur. En um leið og

*) Kurzgefasster Kommentar von Strack und O. Zöckler. Munchen 1894. **) Strack: Einleitung in das alte Testament, 1895.

eg gat sætt mig við það og var orðinn fyllilega sannfærður, fanst mér eg vera orðinn frjáls maður, sem hefði miklu fegurri og sannari boðskap að flytja en áður. Mér duldist ekki, hvað það mundi kosta og hvað eg mundi verða að leggja í sölur. Þegar eg var á heimleið úr Íslandsferð minni 1899, var eg einn á gangi uppi á þilfari skipsins, sem flutti okkur frá Íslandi, og gekk þar fram og aftur eftir að dimt var orðið, er það lá á höfninni í Leith. Mér fanst þá sem eg sæi ljósa og glögga brautina, sem lægi fram undan mér og eg vera hrifinn langar leiðir inn í ókomna tímann. Mér fanst loftið óumræðilega hreint og létt, en kuldann leggja að mér. Mér fanst eg standa uppi einn og vinalaus; allir þeir búnir að snúa við mér bakinu, sem verið höfðu samverkamenn mínir og beztu vinir. Þrátt fyrir það fanst mér eg vera frjáls og glaður, í sátt við guð og samvizku mína betur en nokkuru sinni áður. Og eg hélt öruggur fram á þá braut, fullvís þess að hafa drottinn í verki með mér. — Þeir mega lá mér sem vilja, hve íhaldssamur eg var, framan af. Bæði það, sem hér að framan er talið, og svo hitt, hve mikill ímugustur og skilningsleysi á kirkjulegri starfsemi átti sér stað, er menn höfðu eðlilega flutt með sér, ætti að sýna, að það var ekki óeðlilegt. Það sem barg mér, var það, að eg leitaðist við að afla mér meiri og meiri þekkingar, gera mér grein þess, sem var að gerast í heiminum á því svæði, þar sem eg átti heima. Það er ekki síður prestinum lífsskilyrði, en kennaranum, lækninum, náttúrufræðingnum.

70. **Upphaf deilunnar.** Fyrsta byrjan til deilunnar um biblíuna ætla eg að hafi verið ritgerðir, sem birtust í blaðinu „Verði ljós“, er ritstjórinn, séra Jón Helgason, nefndi „Smápistla um alvarleg efni“. Var annar þessara pistla um: „Þversagnir og missögli í heilagri ritningu, og sá þriðji í tveim tölublöðum um „Innblástur heilagrar ritningar“.*) Hann kannaðist þar hiklaust við, að missagnir geti átt sér stað og eigi sér stað í ritningunni, biblían sé „ekki guðs orð eingöngu, þótt hún innihaldi guðs orð“ og þar sé fingraför mannlegs breiskleika og ófullkomleika“. Það sem vér reiðum oss á í ritningunni, sé ekki sögulegar frásagnir um sköpun heimsins á sex dögum, né uppruna Ísraelslýðs, né daga dómaranna, né konunganna, heldur það eitt, „sem lýtur að frelsisráðstöfunum guðs, syndugum mönnum til sáluhjálpar“. Í kaflanum um Innblásturinn segist hann „einskorða“ þetta hugtak við „hinn sáluhjálplega sannleika í ritningunni“ (43), og sýnir fram á, hvílík fjarstæða það sé að ætla, að hinir helgu höfundar hafi verið óskeikulir í öllum öðrum efnum. „Þeim getur eins fyrir (innblásturinn) skjátlast í ýmsu, er snertir þessaheimsleg efni,

*) Verði ljós! 1899, bls. 24—30; 43—47 og 55—59.

náttúrufræðileg, sagnfræðileg, landfræðileg efni o. s. frv“ (44). Hann tekur fram, að ritningin kenni hvergi innblástur, sem nái út yfir alt, og sýnir fram á, að sú ritningargrein, sem oftast er vitnað í því til sönnunar (2. Tím. 3,16): „Sérhver ritning, sem innblásin er af guði“, segi alls ekkert um, að öll ritningin sé innblásin, heldur einungis, að til sé þau rit, er innblásin sé. Játningaritin segi ekkert um „víðtæki“ eða eðli innblástursins, játi að eins að hann eigi sér stað. Kenningin um, að öll ritningin sé innblásin orði til orðs sé frá 17. öld. En þá hafi menn tileinkað sér innblásturs-hugmynd Gyðinga, eins og hún varð til á tímanum eftir herleiðinguna. „Hún er frá upphafi vega sinna ósönn, þar sem hún blandar saman ritningunni og opinberaninni, eða lætur ritningu og opinberan vera eitt og hið sama“ (57). Henni sé „hafnað af hér um bil öllum guðfræðingum og guðfræðilegum stefnum innan lút. kirkjunnar. Mér vitanlega eru það ekki aðrir en hin svo kallaða Missourisýnóda í Vesturheimi, sem viðurkennir hana, en það stendur aftur í sambandi við, að þessi kirkjuflokkur hefir í öllum greinum rígbundið sig við kristindóms og guðfræðiskoðan 17. aldar guðfræðinganna yfir höfuð“ (57).

71. **Andmæli gamallar guðfræði.** Ritgerðum þessum var þegar tekið að andmæla í Frækornum og Fríkirkjunni í Reykjavík, og Sameiningunni í Winnipeg. En aðalsvarið átti að vera fyrirlestur, sem fluttur var á kirkjuþingi 1899 af séra Birni B. Jónssyni og nefndist: Guðlegur innblástur heilagrar ritningar.*) Þar er kenningin um fullkominn (plenary) innblástur talin hin „eina rétta“ innblásturskenning, með þeim ummælum, er síðan eru fræg orðin: „Og þetta er vor kenning, að guð hafi með sínum heilaga anda útbúið höfunda biblíunnar, að alt, sem þeir hafa ritað, sé algerlega satt og sé samþykt af guði, svo alt, sem stendur í biblíunni sé þar að hans vilja, eins og hann sjálfur vildi segja það, og sé því hans orð, talað upp á hans ábyrgð. Vér neitum því, að missagnir eða villur sé í biblíunni, heldur sé hún öll innblásin af guði“ (70). Því er lofað í neðanmálsgrein, að í sérstakri ritgerð um þetta efni, sem síðar verði birt, skuli grein gerð fyrir „þversögnum“ eða mótsögnum, er

*) Aldamót 9. ár 1899, bls. 41—71.

sumir haldi fram að fyrir komi á ýmsum stöðum í biblíunni. En sú ritgerð er óritin enn. — Síðast í þeim árgangi Aldamóta, sem fyrirlestur þessi var birtur í, var stutt grein eftir ritstjórann (F. J. B.) með fyrirsögn: „Nýtt kristilegt umræðuefni,“ þar sem það, er um þetta efni hafði verið sagt, bæði með og móti, er sett í samband hvað við annað og málið lagt fyrir til almennrar umræðu. Er þar tekið í streng á þessa leið:*)

„En það (að kannast við mótsagnir í biblíunni) hefir þýðing í aðra átt, — þá þýðing að sýna og sanna, að hin gamla kenning um bókstaflegan innblástur ritningarinnar rekur sig hvarvetna á. Spurningin er þessi: Eigum vér að trúa því og halda því fram, að hvert orð ritningarinnar sé eins fullkomið og það væri talað af guði sjálfum? Er það bókin, er vér nefnum heilaga ritning, sem er hinn eiginlegi grundvöllur trúar vorrar, þegar vér förum að hugsa oss um? Byggjum vér hana ekki á honum, sem til vor talar gegn um bókina? Er ekki hin guðmannlega persóna frelsarans, sem heilög ritning sýnir oss eins og í skuggsjá, hinn sanni og fullkomni grundvöllur trúarinnar? Fyrirdæmum vér ekki kenning rómversk-katólsku kirkjunnar um óskeikulan páfa, er sé eins konar fulltrúi drottins hér á jörðu? Gerum vér ekki heilaga ritningu að óskeikulum páfa, ef vér höldum því fram, þvert ofan í ljós rök og rannsóknir trúaðra og lærðra manna, að hvert smáatriði í framsetning biblíunnar sé talað upp á ábyrgð guðs almáttugs? Verði það þá sannað, að eitthvert smá-atriði í ritningunni sé ekki fullkominn sögulegur sannleikur, er þá ekki guð orðinn að lygara, um leið og allur grundvöllur trúar vorrar er gersamlega eyðilagður? Er ekki svo margt í ritningunni, sem ber þess ljósan vott, að hún er færð í letur hér á jörðu, en ekki á himni, að varasamt sé að halda fram annari eins kenningu? Leiðir maður ekki trú ótal-margra kristinna manna með því móti í voða?“

Þessi árgangur Aldamóta kom út í ársbyrjan 1900.

**72. Í algleymingi.** Aldamótaárið 1900 kom út ritgerð séra Jóns Helgasonar: Mósebækurnar í ljósi hinna vísindalegu biblíurannsókna.**) Þar er rækilega sýnt fram á, að Móse geti ekki verið höfundur Mósebókanna, að fimmbókaritið sé „samsteypa fjögurra aðal-heimildarrita frá ýmsum tímum og eftir ýmsa höfunda, sem hver um sig fylgi ákveðinni stefnu“, að Mósebækurnar sé teknar saman í þeirri mynd, sem vér eigum þær nú, austur í Babýlon, á tímabilinu frá 500—458 f. Kr. — Í Aldamótum birtist sama ár (1900) fyrirlestur eftir séra Jón Bjarnason um Mót-

*) Aldamót IX. ár, 1899, bls. 174. **) Tímarit Bókmentafél. 1900.

s a g n i r.*) Fjallar hann um mótsagnir í sambandi við kristindóms opinberanina og kristilega lífsskoðan yfirleitt. En í innganginum er minst ritgerðanna í „Verði ljós", um mótsagnir í biblíunni, og þeirri skoðun haldið fram, að óheppilegt og ótímabært hafi verið að koma fram með þetta nú, þar sem svo mikið los eigi sér stað á trúarskoðunum með þjóð vorri, og að íslenzkur almenningur sé eigi nógu þroskaður fyrir umræður um þetta efni. — Í sama árgangi ritsins er ritgerð eftir ritstjórann um h i n a r n ý j u b i b l í u r a n n s ó k n i r, skýrt all-ítarlega frá efninu í tímarits ritgerð séra Jóns Helgasonar, sýnt fram á, að í hinum nýju skoðunum felist beinn ávinningur fyrir kristilega lífsskoðan, trúaratriðin skýrist og alls engu sé haggað í sambandi við þau. Síðast er bent á, að einmitt á þessum tíma hafi verið sjálfsagt að koma fram með þetta mikilsvarðanda mál, þar sem það sé nú brennandi umræðuefni um öll Norðurlönd. — Árið eftir, 1901, kom út önnur ritgerð eftir séra Jón Helgason í Tímaritinu: H v e r n i g g a m l a t e s t a m e n t i ð e r o r ð i ð t i l.**) Höfundurinn skýrir þar frá, að fimmbókaritið (Mósebækur) hafi í rauninni fyrst komið fram í heiminum árið 444 f. Kr., þegar Esra prestur las lögbókina í áheyrn lýðsins. Svo hafi ritsafn gamla testamentisins haldið áfram að myndast og stækka, þangað til hér um bil 100 árum e. Kr., er það á fundinum í Jamnia fekk endilega mynd. — Í Samein. eru andmæli frá þeim séra Jóni Bj. og séra Birni gegn hinum nýju kenningum og eru þau gerð með sterkari og sterkari orðum. Dómarnir fara nú að verða nokkuð svæsnir. Séra Björn tekur fram „að nútíðar-biblíurannsóknirnar megi skoða sem einhverja verstu tegund vantrúarinnar og að allir eiginleikar hennar sé fjandsamlegir sannleiks-opinberaninni" — orð sem hann hefir eftir einhverjum „víðfrægum" amerískum guðfræðing, en hann þó ekki kann að nefna, og virðist gera að sínum eigin.***) Hins vegar er stöðugt hert á innblástursskenningunni. „Alt sem er í heilagri ritningu er innblásið. Sagan sem sögð eru í biblíunni er sönn; tal og athafnir mannanna, bæði góðra og vondra, og jafnvel Satans sjálfs, er skráð þar rétt og áreiðanlega. Hinum helgu höfundum var leiðbeint svo af heilögum anda, að þeir gátu farið rétt með alt, sem þeir skýrðu

*) Aldamót X, 1900. **) Tímarit 1901, bls. 76—126. ***) Sbr. Sam. jan. 1901.

frá. Þetta nær til allrar biblíunnar og því er rétt að segja, að öll biblían sé guðs orð, en ekki að hún innihaldi guðs orð.“*) Séra Jón Bjarnason hélt því aftur sterklega fram, að fjöldi veiktrúaðra manna myndi líða algert skipbrot á trú sinni vegna þessara kenninga biblíurannsóknanna. Í greininni: Hin hærri kritik (marz 1901) neitar hann því ekki, að hinar nýju skoðanir geti verið réttar, en heldur því fram, að það sé samt sem áður órétt að flytja þær.

Á kirkjuþingi 1901 flutti sá sem þetta ritar fyrirlestur um innblásturinn: Bókstafurinn og andinn.**) Var þar varlega og fremur gætilega leitast við að gera grein fyrir kenningunni um biblíuna frá hinu nýja sjónarmiði, — eins varlega og höfundurinn hafði lag á. — Á sama kirkjuþingi (1911) flutti séra Jón Bj. fyrirlesturinn: Þrándur í götu.***) Þar er vikið að kenningum biblíurannsóknanna og séra Jóni Helgasyni borið á brýn, að hann geri þær að sérkreddu. Mótspyrna hans (J. Bj.) gegn þessari sérkreddu, sé ekki sprottin af bókstafstrú á biblíunni, sem ráðandi var hjá guðfræðingum 17. aldarinnar. „Mér stendur jafn-mikill stuggur af þeirri guðfræðisskoðan, hvar sem hún verður fyrir mér í nútíðinni, eins og fyrir 28 árum, þegar eg mætti henni nýkominn frá Íslandi vestur um haf hjá einni lúterskri kirkjudeild hér í álfu. Eg leit á þá skoðan sem kreddu eða oftrúar-öfgar, einkum þegar eg sá, hve ónærgætnislega og fáránlega skoðaninni var beitt í kirkjulífinu. Og það álit mitt er í aðal-atriðunum óbreytt enn.“†) Mótspyrna hans sé sprottin af því, að nú sé þessari nýju kenningu beitt jafn-ónærgætnislega. En hann gleymdi því, að þegar fyrir tíu árum, árið 1891, hafði hann haldið fram skýringu á innblæstrinum, sem í raun og veru er alveg í samræmi við 17. aldar kenninguna: „Guðs andi hefir innblásið mál það, er hinir mannlegu höfundar biblíunnar tala á; hann stendur æfinlega á bak við þann vitnisburð, er þeir bera fram, hann stýrir öllu máli þeirra, ræður öllum þeirra orðatiltækjum.“††) Svo mikil áhrif hafði lestur Sunday School Times, til undirbúnings kenslunni á sunnudagsskólanum í hverri viku, þá þegar haft á hugsanir hans. Enda hafði okkur

---

*) Sameiningin marz 1901, bls. 14. **) Aldamót XI, 1901, bls. 55—130. ***) Aldamót XI, 1901, bls. 10—54. †) S. st. XI, 1901, bls. 40. ††) Sam. 5. árg. 1891, feb.

orðið svo mjög sundurorða út af því blaði, sem honum fanst allra blaða bezt, á fyrsta kirkjuþingi, er eg var á sem prestur, að fjöldi fólks örvænti um samvinnu okkar. Samt sem áður varð hún svo góð, að báðir mintust hennar, eftir að skilnaðurinn varð, sem einnar hinnar fegurstu endurminningar liðinnar æfi. En eg forðaðist ávalt, eftir þetta fyrsta kirkjuþing 1886, að minnast á Sunday School Times og skoðanir þess á biblíunni. Út af umræðum séra Jóns Bjarnasonar í fyrirlestrinum Þrándur í Götu, lýsir séra Jón Helgason yfir því í Verði ljós, að hann sjái ekki neitt sé unnið við að halda deilum þessum áfram, „svo að eg fyrir mitt leyti hefi nú áformað að leggja pennann niður, og lofa nafna mínum, sem eg þrátt fyrir framkomu hans í þessu máli, virði nú engu síður en eg hefi áður gert, að tala við sjálfan mig um ‚hina hærri kritik', enda þó mér þyki fremur leitt að sjá hann standa þar sem annan — Þránd í Götu."*) Sömuleiðis var því lýst yfir af séra Jóni Helgasyni þá um leið, að hann treysti sér ekki til að eiga orðastað frekar við séra Björn um þetta mál, vegna fordæminganna, sem hann hafi notað til að kveða niður alt sem séra Jón Helgason hafi sagt. Að öðru leyti „læt eg hann sjálfan geta sér til ástæðunnar."**)

73. **Ómildir dómar.** Sumarið 1902 voru tveir fyrirlestrar fluttir á kirkjuþingi. Annar þeirra: Að Helgafelli, eftir séra Jón Bjarnason, hinn: Straumar,***) eftir séra Björn B. Jónsson. Bæði höfðu erindi þessi meðferðis, einkum þó hið fyrra, svo freka og lítið rökstudda árás á hinar nýju kenningar um biblíuna og ótal aðra hluti, að sá, sem þetta ritar, man svo langt, að honum fanst hann þá ekki beint eiga heima í kirkjufélaginu lengur. — Í þeim árgangi Verði ljóss, 1902, eru engar deilugreinar, en kafli úr fyrirlestrinum: Bókstafurinn og andinn, tekinn upp. — Árið 1903 varð deila allhörð milli séra Haralds Níelssonar og ritstjóra Sameiningarinnar, séra Jóns Bjarnasonar, út af ummælum nokkurum í fyrirlestrinum: Þrándur í Götu, þar sem gefið var í skyn, að séra Haraldur hefði naumast þekkingu til að dæma um biblíurannsóknirn-

---

*) Vindhöggva orustur í Sam. Verði ljós, nóv. 1901, bls. 173. **) S. st., bls. 171. ***) Aldamót XII, 1902, bls. 15—93.

ar.*) — Í kirkjuþingsfyrirlestri frá 1903, er nefndur var Kristsmynd úr íslenzkum steini, var leitast við að benda á, ákveðið en þó varlega, að hin íslenzka víkingslund væri ekki dottin úr sögunni og virtist enn vera lítt kristnuð. Fyrir því sé ágreiningsumræður um andleg mál meðal vor með svo miklum lýtum, og umburðarlyndi sama sem ekkert.**) Hvernig sambúðinni milli gamalla og nýrra skoðana ætti að vera háttað, var lýst í annari ritgerð: Tveir kirkjulegir fyrirmyndarmenn.***)

Um nokkurn tíma mátti svo heita, að deilan lægi niðri. Þó verið væri stöðugt að hnýta í biblíurannsóknir og *hærri kritik* í Sameiningunni og víðar, bæði austan hafs og vestan, var því lítill sem enginn gaumur gefinn. Árið 1906 komu *Vafurlogar* út, með fáeinum erindum, sem flutt höfðu verið við ýms tækifæri og ekki í fyrstu hugsað til að prenta. Þar er einn kaflinn með fyrirsögninni: Grjótkast. Þar er spurt: „Hví skyldu únítarar og lúterstrúarmenn hafa horn í síðu hvor annars?“ Svo eru nokkurir þeirra flokka taldir upp, sem þá áttu í baráttu hver við annan í þjóðlífi voru, og sagt: „Margar fylkingar í liði svo litlu. Það er eigi til nokkurs hlutar að vera vondur út af því. En reyna mætti að draga fylkingarnar saman, kenna þeim að verjast sameiginlegum óvinum, leggja undir sig lönd, sem enn eru óunnin, en hætta öllu grjótkasti. Myndi þær þá eigi smám saman renna saman og gleyma þeim smámunum, er þeim kann á milli að bera og renna saman í þéttskipaða bræðrafylking?“ Þetta var höfundinum tekið upp næsta óstint, og honum borið á brýn, að hann teldi það smámuni, er únítörum og lúterstrúarmönnum bæri á milli. Væri það óhæfilega breiður grundvöllur fyrir kristinn kennimann til að standa á.

**74. Nýtt tímarit.** *Breiðablik* fóru að koma út í júní 1906. Í fyrsta og öðrum árgangi þeirra eru svo sem engar deilugreinar. En það er leitast við að ræða þau mál, er uppi voru á teningi með þjóð vorri á nokkuð annan hátt og í öðrum tón en títt hafði verið áður í blöðum og tímaritum vestan hafs.

*) Haraldur Níelsson: Þekking og hógværð, svar til Sam. V. l. VIII, 10. Einkennileg hógværð. Nýtt svar til Sam. VIII, 192 (1903). **) Aldamót XIII, 1903, bls. 5—41. ***) S. st. 63—81.

Blaðamenskan tók þá einn lakasta kippinn og út af því er eina ádeilugreinin í fyrsta og öðrum árgangi blaðsins.*) Um langan tíma hafði það verið stöðug viðleitni mín, að sýna fram á við hvert tækifæri, hve umburðarlyndið væri sjálfsagt í öllum umræðum um andleg mál, sjálfsagðast þó og sönn lífsnauðsyn í trúmálum. Mig langaði til að fá til leiðar komið stiltum og gætilegum rökræðum um ágreiningsatriðin, þar sem sannleiksástin væri augljós hjá öllum, en ófrægingum og óbróðurlegum getsökum vísað á bug. En þetta er hlutur, sem ekki lærist á einu ári. Líklega hefði eg aldrei haft djörfung til að leggja út í baráttuna gegn þeim ósóma, ef eg hefði fyrir fram gert mér þess ljósa grein, hvað hún myndi hafa í för með sér. En er eg nú lít yfir hið liðna, iðrast eg þess alls ekki. Þó lítið kunni að hafa áunnist, er eg sannfærður um, að það er þó eitthvað. Kann það að eiga enn eftir að koma betur í ljós. Það var orðin brennandi sannfæring mín, að frjálslyndur kristindómur væri hin eina tegund kristindóms, er nokkurt varanlegt bergmál væri líklegt til að finna með þjóð vorri. „Hjá oss Íslendingum — guði sé lof fyrir það — er almennur trúaráhugi því að eins hugsanlegur, að hann byggist á lífi og sann-frjálslyndum kristindómi. Þjóðlíf vort bíður þess aldrei bætur, ef trúarlífinu í landinu er spilt, hvort heldur það er gert með svefni sinnuleysisins eða þröngsýnis-ofstæki fáfræðinnar.**) Svo komst „Nýtt kirkjublað" að orði í ársbyrjun 1908. Það var einmitt sama tilfinningin, sem hafði knúð mig sterkara en nokkuð annað til að byrja útgáfu Breiðablika. „Vestur-Íslendingar verða að undri, svo framarlega sem þeir láta þrýsta sér inn í þröngsýni og þekkingarfordóma liðinna alda, svo heimatrúboðsstefnan danska verði ofan á hjá þeim."***) Með þeim orðum endaði 2. árgangur Breiðablika.

75. **„Postulleg stefnuskrá".** Á kirkjuþingi 1907 var fluttur fyrirlesturinn: Postulleg stefnuskrá.†) Hann var fluttur beint gegn þeirri trúvarnaraðferð, að standa stöðugt með steyttan hnefann framan í hvern þann, sem heldur fram einhverri skoðan, ólíkri þeirri, sem áður hefir verið álitin góð

---

*) Herfileg blaðamenska, Breiðablik I, 70—74. **) Þórhallur Bjarnarson, Nýtt kirkjublað 1908, 1.. ***) Breiðablik II, 179. †) Áramót 1907, bls. 102—128.

og gild. Kúgunaraðferðin sé úr gildi gengin. Það dugi ekki lengur að hrópa: „Þú verður að trúa nákvæmlega eins og eg, annars verður þú ekki hólpinn.“ Kirkjunnar mikla mein hafi á liðnum öldum verið í því fólgið, að menn vildu vinna sálir með steyttum lögmálshnefa. Öll kristin kirkja finni til þess, að hún hafi vaxið síðan á 16. og 17. öld. Það sé því óvit og árangurslaust að ota fram trúarjátningum þeirra tíma — rétt-trúnaðartímans. Það sé guðs vilji, að kirkjudeildirnar vaxi upp úr gömlum trúarjátningum sínum. Þær sem ekki vilji vaxa, verði steingjörvingar. — Eins og grösin sé til á undan grasafræðinni og stjörnurnar á undan stjörnufræðinni, eins sé líka trúin til og trúarhugmyndirnar löngu á undan trúfræðinni. Trúin sé eftir eðli sínu hin sama, hvernig sem trúfræðin breytist. Skilningur trúfræðinnar á einhverju gefnu tímabili verði aldrei sáluhjálpar-atriði. Guð setji sig í samband við mannssálirnar, þrátt fyrir gallaðan skilning trúfræðinnar. Það er sýnt fram á, hvernig stöðugt sé haldið áfram, að gera þá menn tortryggilega í augum íslenzkrar alþýðu og látið í veðri vaka, að þeir hafi svikist undan merkjum, — einmitt þá mennina, sem láti sér annast um að styðja sannan kristindóm með þjóð vorri. Í erindi þessu er gengið í berhögg við það, sem mér hefir fundist öfugt í trúvarnar-aðferð kirkjufélagsins um margra ára bil. Bent var í innganginum á þá fyrirmynd, sem Páll postuli gaf, — hann sem vildi vera öllum alt, til þess hann áynni nokkura. Um það var kirkjufélagsdómurinn á þessa leið: „Naumast þarf að taka fram, að mynd sú, sem þar (í fyrirlestrinum) er dregin upp af Páli postula er öll skekt og skæld, og því sann-nefnd skrípamynd, og skal fyrir því grein gjör hér í blaðinu ef ástæða virðist til.“*) „Mörgum mun verða forvitni á að sjá hina myndina,“ sagði Nýtt kirkjublað.**) En sú forvitni var aldrei södd.

**75. Gerður rækur.** Almennar umræður voru fyrirhugaðar fram að fara á kirkjuþingi í Selkirk 1908 um g i l d i t r ú a r j á t n i n g a. Þóttist eg þá vita á hverju eg mætti eiga von. Þær umræður hóf forseti kirkjufélagsins, séra Jón Bjarnason, með inngangsræðu, sem útbýtt var prentaðri með áheyrendum,

---

*) Sam. júlí 1907, bls. 138—142. **) N. Kbl. 1907, bls. 216.

um leið og hún hafði verið flutt. Þar eru tekin af öll tvímæli um gildi trúarjátninga. Að láta þær niður falla, „er sama sem afnám kirkjunnar eða dauði hennar."*) — „Nú vill nýr andi, sem sönnum kristindómi er andstæður, ryðja sér til rúms víðsvegar um lönd kirkjunnar. Hann birtist í kenningar-kerfi nýju guðfræðinnar svo nefndu, sem og biblíu-‚kritikinni', sem eins og kunnugt er, hefir lagt sálir sumra hinna heldri klerka íslenzku kirkjunnar undir sig. Fráleitari trúvillustefna getur naumast hugsast. Það er heiðindómur í kirkjulegum dularklæðum. Ekki gerir sá andi sér neitt verulegt far um það, að fá trúarjátningar kristninnar afnumdar, eða ekki opinberlega; en hann þolir þær ekki sem hermerki, vill að eins að á þær sé litið sem sögulegan minnisvarða, er geti verið vitnisburður þess, hvernig menn hafi skynsamlega gert sér grein fyrir kenningum kristindómsins á ýmsum tíðum. Eiginlega miðar alt í þeirri átt að því að láta alt sem sérkennilegt er við efni kristinnar trúar, verða að engu. Með því að samþýða það náttúrlegum mannshugsunum og heimsandanum, er mergurinn úr því etinn. Stefnan telur sér trú um það, að hún sé mannúðin sjálf eða kærleikurinn, og alt getur hún umborið — nema ákveðnar kristindómskenningar."**) Nefnir höfundurinn þessa stefnu: „Afeyrt sauðfjármark" í kristilegu tilliti, og sé það „þjófsmarkið". „Eyra sauðkindarinnar hafi verið sniðið af niður við hlust." — „Svona fara þeir að, sem á vorri tíð innan kristilegrar kirkju leika algerlega lausum hala, að því er kenninguna snertir, og vilja í þeim efnum, að alt sé látið óákveðið; eða halda einu fram í dag og öðru á morgun; vilja ekki binda sig við neina trúarjátningu og heimta það, sem þeir kalla algert kenningarfrelsi. Úr því háttalagi getur ekki annað orðið, svo framarlega sem ekki er viðnám veitt, en það að þjófsmarkið kemst að innan hjarðar drottins eða í kristinni kirkju."***) — Við umræður þær, sem fram fóru á eftir, stóð eg einn uppi með að mótmæla. Eg sýndi fram á réttmæti kröfunnar um kenningarfrelsi; enginn klerkur eða kennari gæti kent öðru vísi en eftir beztu samvizku og sannfæringu. Skilningur hverrar ritningargreinar og hvers játningar-atriðis yrði hjá honum að vera sá skilningur, er mynd-

---

*) Áramót IV, 1908, 19. **) S. st. IV, 1908, bls. 22—23. ***) S. st. bls. 25.

aðist í hans eigin huga, þegar hann læsi, en ekki skilningur einhvers annars. Játningarritin gerði sjálf alls enga kröfu til þess að vera lagaboð, er gilda ætti um aldur og æfi, heldur að eins þeirra kennara, sem þar hefði átt hlut að máli. Játningarnar ætti að vera kirkjunni leiðbeiningar en alls ekki lagafjötur, sem gerði hana að steingjörfing. — En umræður þessar um gildi trúarjátninga voru að eins inngangur þess, sem vera átti hið eiginlega afrek þessa kirkjuþings. Ætlunarverk þess var að gera mig rækan frá kennara-embættinu við Wesley-College, sökum trúvillu. Þegar það kom til tals, krafðist eg þess að vera fyrst gerður rækur sem prestur og sýndi fram á, að ef trúvilla væri á ferðum, væri ólíkt hættulegra að láta mig standa á prédikunarstól tvisvar hvern helgan dag í söfnuði, sem heyrði kirkjufélaginu til, en að fást við kenslu í íslenzku, sem alls eigi ætti skylt við nokkur trúmál. Eg krafðist þess, að sú trúvilla, er eg hafði gert mig sekan um, væri tekin fram í skýrum og ótvíræðum orðum, og dómur svo kveðinn upp. En við þeirri kröfu var skelt skolleyrum.*) Embættið við skólann var lagt niður af hálfu kirkjufélagsins. Eg hafði farið frá álitlegasta prestakallinu í kirkjufélaginu, til þess að takast kennara-embætti þetta á hendur. Og það starf hafði hepnast um fram allar vonir. Þegar eg nú var sviftur því, hafði eg ekki annað við að styðjast en örlítinn og bláfátækan söfnuð, sem tvísýna var mikil með, hvort haldið gæti áfram að vera til. Tilgangurinn með afnámi kennara-embættisins gat engum dulist.

77. **Á öndverðum meið.** Út af þessari kirkjuþingsræðu um gildi trúarjátninga spunnust einu persónulegu deilugreinarnar, er fóru á milli mín og höf., míns gamla vinar. Þegar eftir kirkjuþing svaraði eg þeirri óþyrmilegu árás með grein um kenningarfrelsi.**) Var hún prentuð upp í Ísafold. Henni var aftur svarað með grein í Sameiningunni með fyrirsögn: „Afturgangan“***) Með því nafni var átt við Breiðablik, sem ritstjóri Sam. hafði álitið að dottin væri úr sögunni fyrir ofurlítinn drátt, sem varð á útkomu þeirra, og hafði heldur en ekki fagnað yfir. Breiðablik svöruðu með: Yndisleg

*) Nýtt kirkjublað, 1908, 203. **) Breiðablik III. 5—8. ***) Sam. ágúst 1908, bls. 161—167.

trúvörn!*) Það er í rauninni eina orðhvassa deilugreinin, sem nokkuru sinni stóð í blaðinu. Þar er leitast við að sýna fram á, hve óhæfileg sú trúvarnaraðferð sé, er lengi hafi viðhöfð verið í kirkjufélaginu og nú sé komin í algleyming. Hún sé ekki fólgin í nokkurri tilraun til rökfærslu, heldur til að leita að ljótustu líkingum og heitum, sem málið á til í eigu sinni og gera úr eins konar gjörninga-byl gegn andstæðingum. Öldungis í sama streng var tekið á Íslandi: „Og nú eru menn vorrar eigin þjóðar á bandi með sértrúar-öfgamönnum að berja niður alla íhugan og rannsókn heilagrar ritningar. Eigi er það gert með röksemdum, — rannsókn og röksemdir mega einmitt ekki komast að, — heldur er sú leiðin farin, að reyna að hræða og kúga með svæsnustu hrakyrðum og ófrægingargetsökum.“**) Það sljákkaði í bili. En þá var öðrum og yngri mönnum otað á stað, sem ekki voru ef til vill eins stórorðir, en kunnu ekki að neinu leyti betur með að fara. Sýndu þeir tilfinnanlegt þroskaleysi, furðulegt þekkingarleysi og jafnvel greindarskort í deilugreinum sínum. Enda var þeim sjaldan eða aldrei svarað.

Smá ritgerðir um deiluatriðin birtust í Breiðablikum 1908. Blaðið var lítið, og eg áleit að stuttar og léttar ritgerðir um biblíuna og annað í sambandi við það mál, sem verið var að ræða, myndi betur ná tilgangi sínum en langar og rækilegar. En af þeim ritgerðum virðist einkum ein hafa orðið bræðrum mínum í kirkjufél. til herfilegrar ásteytingar. Það var greinarkorn um söguritan Gyðinga.***) Þegar til málaferlanna kom og sanna skyldi trúvillukæruna, þótti helzt mergur í henni. Er þó furða, að ekki skyldi vera um auðugri garð að gresja, eftir að búið var að veifa trúvillu-kylfunni svo lengi. Í greinarstúf þessum er sýnt fram á það, sem hverjum athugulum lesara ætti að liggja í augum uppi, að hinar sögulegu bækur gamla testamentisins ber fremur að skoða sem hugleiðingar út af sögulegum viðburðum, en sem nákvæma sögu. Kjarninn í þeim er guðleg handleiðsla. En í einstökum atriðum fer samsetningin mjög fjarri því að geta verið sannsöguleg frásögn eða mynd af atburðunum, eins og þeir voru í raun og veru. Aldrei hefir víst trúvillukæra farið fyrir dóm-

*) Breiðablik III, 5—8. **) Nýtt kirkjublað 1. september 1908.
***) Breiðablik III, 178—183.

stóla nokkurs lands, sem ekki hefir haft meira við að styðjast en greinarkorn þetta. Enda standa þessi ummæli lögmanna fyrir hæstarétti óhrakin og ómótmælt: „Vér dirfumst að segja, að þegar þessi dómstóll er beðinn að lýsa yfir því, að fastheldni við kenningu (þ. e. innblásturinn), sem hvergi er greinilega tekin fram í játningum kirkjunnar, sé aðalatriði og að neitan um að játa slíka kenningu sé trúvillusök, þá eru þessir sakaraðiljar að biðja þenna dómstól að gera það, sem enginn dómstóll annar í öllum hinum ensku-mælanda heimi hefir nokkuru sinni áður gert.“*)

**78. Biblían í upprisuskrúða.** Sá af svo nefndum ný-guðfræðingum, sem minst hafði um málið ritað sjálft, var séra Haraldur Níelsson, nú prófessor. Hann hafði síðastl. 10—12 ár unnið að hinni nýju og ágætu biblíuþýðing vorri, er út kom 1908 og 1912. Er sú biblíuþýðing eitt hið mesta ágætisverk, sem unnið hefir verið fyrir þjóð vora og stendur biblíuþýðing stórþjóðanna framar að fegurð og nákvæmni. Hinar nýrri biblíuþýðingar með öðrum þjóðum hafa tekið hinum eldri mikið fram að nákvæmni og réttum skilningi, en staðið þeim yfirleitt að baki, að því er snertir hreinleik málsins og göfgi. En hin íslenzka biblíuþýðing vor sameinar þetta tvent snildarlega. Jafnvandað og göfugt nútíðarmál eigum vér nú naumast á nokkurri bók og biblíunni. Biblíumálið, eins og það nú er orðið, hlýtur hér eftir að verða öllum þeim fyrirmynd, er rita vilja mál vort eins og bezt má verða. Nýja testamentinu frá 1906 var í þessu efni nokkuð ábótavant. En síðan málkend séra Haralds og stílfimi fékk einnig þar að njóta sín, í samvinnu með ágætum samverkamönnum, er orðinn óslitinn unaður að lesa nýja testamentið eins og það birtist í nýrri mynd 1912, eigi síður en hið gamla. Nær því á hverri blaðsíðu hefir misskilningur og þekkingarskortur fyrri alda verið leiðréttur. Biblían íslenzka er orðin ný bók, með nýjum og réttari skilningi í ótal efnum. Enda hafa öll þekkingartæki nútímans verið notuð. Og þessi þekkingartæki eru einmitt þau, sem ný guðfræði hefir framleitt. Með þeim hefir hún látið kristindóminn birtast í nýjum og dýrðlegri upprisuskrúða en áður. Gamla guðfræðin hafði engin tæki til að leysa slíkt verk af hendi viðunanlega. Til

*) Appelants' Brief, 113—114.

þess var hún of bundin gömlum trúfræðilegum sjónarmiðum, er heimtuðu, að engu mætti hagga, svo það kæmi í bága við kennisetningakerfið arfgenga. Hina nýju og ágætu þýðing biblíunnar, sem vér höfum eignast, og telja má einn fegursta gimstein bókmenta vorra, eigum vér nýrri guðfræði að þakka. Og sá maðurinn, sem þar á lang-stærstan hlut að máli og þrýst hefir á hana innsigli anda síns öllum öðrum fremur, mun lengi í minnum hafður sem sá, er þjóð vor á hina mestu þakkarskuld að greiða. Það er nýguðfræðingurinn Haraldur Níelsson, prófessor. Engar minstu líkur eru til, að nokkuð verulegt verði í þýðingunni aftur fært í hið gamla horf, heldur þvert á móti lengra í hið nýja.

**79. Prédikarinn.** Hingað til hafði séra Haraldur nálega engan þátt tekið í deilunni um biblíuna. En í fyrsta hefti Skírnis 1908 er eftir hann ritgerð um Prédikarann og bölsýni hans, fróðleg og sannfærandi. Fer hann þar svo feldum orðum um skoðanir þjóðar vorrar á ritningunni:

„Flestir Íslendingar, er telja sig fylgja kenningu kirkjunnar, hafa mjög ákveðnar skoðanir um það, hvað ritningin sé. Hún er guðs opinberaða orð, segja þeir. Og út frá þeirri staðhæfingu ímynda þeir sér, að allar kenningar hinna helgu höfunda hljóti að renna saman í eina heild; þar geti engin rödd verið hjáróma, — engar mótsagnir átt sér stað í ‚guðs orði'. Þessar skoðanir hafa verið gróðursettar í huga þeirra í bernsku kendar þeim í barnalærdómskverinu. En allan fróðleik um ritninguna vantar að öðru leyti. Fæstum hefir komið til hugar að gera sér grein, hvernig þessi rit, sem þeim er sagt að sé eftir Móse, Davíð og Salómó og spámenn gyðinga og postula Krists, — menn, sem svo langt er á milli, — hvernig þau séu orðin ein heild, ein heilög ritning. — Ekki þarf nú annað en lesa nokkura kafla í ritningunni með athygli, til þess að reka sig á það, að ritningin er ekki alstaðar sjálfri sér samkvæm. Mótsagnirnar eru margar og miklar og skoðanirnar margar mjög svo frábrugðnar hver annari. Og á því þarf engan að furða, sem nota vill skynsemina. — Hvernig getur nokkur maður talið það sennilegt, að hugmyndir Móse eða Salómós um guð og tilveruna hafi verið jafnfullkomnar og skoðanir postulanna? Móse fór með Ísraelslýð af Egiftalandi um 1320 f. Kr., að því er menn vita bezt og Salómó ríkti frá 970—933 f. Kr. En rit hins nýja sáttmála flest samin síðari hluta fyrstu aldar eftir Krists burð. Skoðanir manna breytast og þróast á skemri tíma en 1000 árum. — Ekkert er í raun réttri eðlilegra, en að ýmissa mótsagna verði vart í biblíunni og trúarhugmyndirnar taki breytingum og þroska eftir því sem tímarnir líða. Að svo sé, vita líka allir þeir, sem til hlítar

hafa kynt sér rit biblíunnar og satt vilja segja. Framþróunarlögmálið ríkir þar sem annars staðar í tilverunni. Breytingarnar eru ef til vill hvergi eins hægfara og í trúarbrögðunum og þó á þar við þetta, að „bágt er að standa í stað og mönnunum munar annaðhvort aftur á bak, ellegar nokkuð á leið". Gamla skoðanin, að ritningin sé ein heild, öll spjaldanna á milli óskeikult ‚guðs orð', — hún styðst við vanþekkinguna eina og forna trú á þetta ritsafn. — En vér eigum ekki að trúa á ritninguna. Vér eigum að trúa á guð og treysta honum. En ritninguna eigum vér að rannsaka og þekkja."*)

Höfundurinn sýnir fram á mótsagnir, sem fyrir komi hvað eftir annað í þessu riti gamla testamentisins, sem beri það með sér að vera alls ekki eftir Salómó, þótt það hafi verið honum eignað. Muni það vera samið um 200 f. Kr., en mörgum innskotum bætt inn í á 2. öld, svo það hafi fengið þá mynd, sem það nú hefir um 100 f. Kr. Inn í ritsafn gamla sáttmálans hafi það ekki verið tekið fyrr en á fundinum í Jabne árið 90 e. Kr. „En all-lengi var það bannað meðal Gyðinga, að unglingar væru látnir komast í Prédikarann." Höfundurinn tilfærir orð prófessor Driver, eins merkasta og gætnasta biblíufræðings vorra tíma, um Prédikarann: „Ef kenning hans yfirleitt væri fylgt út í æsar, mundi hún beinlínis verða til þess að lama framfaraviðleitni mannanna, kefja allar sjálfsafneitunar og mannúðarhvatir og deyða alla göfgandi og ósérplægna starfsemi."**) „Munurinn á lífsskoðan er eins mikill og munurinn á skammdegisrökkri vetrarins og langdegissólskini sumarsins."***)

**80. Trúarjátningar og kenningarfrelsi.** Önnur ritgerð birtist eftir sama höfund seinna á árinu: T r ú a r j á t n i n g a r n a r o g k e n n i n g a r f r e l s i p r e s t a.†) Er hún beint rituð í tilefni af kirkjuþingserindinu um gildi trúarjátninga. Í ritgerð þessari er sýnt fram á, hvílík fjarstæða sé að halda því fram „að trúarjátningar kirkjunnar hafi verið í mestum heiðri hafðar .... á þeim tíðum, þá er mest bar á því, að ríki Jesú Krists er ekki af þessum heimi .... Á slíkum tíðum fæddust í fornöld þrjár almennu trúarjátningarnar í kristninni og læstu sig inn í sálir kirkjulýðsins víðsvegar um lönd".††) Á postula-

---

*) Haraldur Níelsson: Prédikarinn og bölsýni hans. Skírnir LXXXII, 1908, bls. 43—44. **) S. st. bls. 59. ***) S. st. bls. 61. †) S. st. bls. 211—236. ††) Áramót 1908, bls. 21.

tímunum og ofsóknaröldunum, þrjár fyrstu aldirnar út, hafi kristnir menn einmitt komist af trúarjátningalaust. Postullega trúarjátningin og Nikeu-játning sé í þeirri mynd, sem vér nú eigum þær frá því um 500 e. Kr. og sú sem kend er við Aþanasíus ekki fyr en í byrjun miðaldanna, einni eða tveimur öldum síðar. Þó þessar þrjár játningar hafi verið kallaðar almennar, hafi þær aldrei hlotið almenna viðurkenningu í kristinni kirkju. Siðbótarmennirnir hafi algerlega afsagt „að gera nokkuð að dómara yfir trúarskoðunum sínum nema heilaga ritningu eina. Þeir neituðu fullgildi (a u t o r i t e t) játningarritanna, nema að svo miklu leyti þau væru samkvæm ritningunni.*) Upphaflega var langt frá að til þess væri „ætlast í lútersku kirkjunni, að trúarjátningarnar ættu að vera dómari (og um leið drotnari) yfir skoðunum manna á ókomnum öldum. Hitt er bersýnilegt, að þeim var ætlað að vera til leiðbeiningar."**) — Um innblásturinn er það tekið fram, að „engum, sem af samvizkusemi hefir kynt sér biblíu-rannsóknir 19. aldarinnar, kemur til hugar að tala um innblástur í öðrum skilningi en þeim, að hinir helgu höfundar sjálfir hafi verið innblásnir, — mennirnir, e n e k k i r i t i n. Og þá beri þess vel að gæta, að þeim innblæstri þurfi alls ekki að fylgja fullkominn óskeikulleiki, eins og áður var haldið fram".***) Bent er á allmarga guðfræðinga dönsku kirkjunnar, er haldið hafi fram skoðunum, sem beint hafi brotið bág við trúarjátningarnar og verið þeim frábrugðnar. Hafi engum dottið í hug að finna þeim það til sakar. Því síður hafi verið reynt að koma þeim frá embætti þeirra vegna. Með „kenningarfrelsi presta er átt við, að söfnuðirnir eða kirkjufélagið heimti þ a ð e i t t af prestunum, að þeir kenni samkvæmt heilagri ritningu eftir beztu sannfæringu".†) Einmitt þetta kenningarfrelsi sé lögleitt í söfnuðum hins íslenzka lúterska kirkjufélags þeirra Vestur-Íslendinga. „Samkvæmt safnaðarlagafrumvarpi kirkjufélagsins binda þeir kenninguna við ritninguna eina og eru í því tilliti sannir lærisveinar Lúters." En nú séu þeir teknir að kvarta yfir því, að ákvæði um trúarjátningarnar vanti. Séra Jón Bjarnason segi: „Svipað ákvæði (þ. e. eins og um ritninguna) ætti einnig að vera í lögum vorum að því er snertir trúarjátninguna eða trúarjátningarritin,

*) Skírnir, 1908, bls. 220. **) S. st. bls. 222. ***) S. st. bls. 224. †) S. st. bls. 228.

sem söfnuðirnir binda sig við." Út af þeim ummælum tekur séra Haraldur fram: „Þannig verður það ljóst að það kenningarfrelsi, sem vér sumir hér heim erum að æskja eftir og séra J. B. nefnir nú óvit og öðrum ljótari nöfnum, er lögleitt og hefir lengi verið í kirkjufélaginu íslenzka vestan hafs. En hið minna frelsið, sem vér höfum búið við hér heima og búum enn við, það æskir séra J. B. nú að lögleiða þar vestra.*) — „Það sem fyrir oss vakir, sem aðhyllumst kenningarfrelsi presta, er einmitt þetta: Við viljum forðast kyrstöðuna og afturförina. Vér treystum sannleika kristindómsins til að þola alt frelsi. Vér teljum honum bezt borgið, þar sem hugsanafrelsið er einlægast. Vér viljum ekki að neinu leyti binda hendurnar á sannleikanum, heldur leysa alla þá fjötra, sem mennirnir af grunnhygni sinni, en sjálfsagt stundum af góðum hug hafa viljað á hann leggja. Og oss stendur stuggur af því að kirkjan á nokkurn hátt reyni að hefta hugsanafrelsið. Skjöldur hennar er orðinn of óhreinn af hluttökunni í því óhappaverki á liðnum öldum."**)

**81. Á Þingvelli.** Árið 1909 var að mörgu leyti merkisár í sögu íslenzkrar kristni beggja megin hafs. Þá var prestastefna, óvenjulega fjörug og tilþrifamikil, haldin á Þingvelli. Eitt helzta umræðuefnið þar var: Prestarnir og játningarritin. Um það efni flutti séra Jón Helgason erindi, eins og inngangsorð til umræðanna.***) Hann telur þar rangt að heitbinda prestana við játningarritin í kenningunni og tekur fram fjórar ástæður fyrir því áliti sínu, sem allar eru vel rökstuddar. 1) „Játningarritin eru alls ekki upphaflega samin í þeim tilgangi að vera bindandi regla og mælisnúra fyrir kirkjuna á öllum tímum." Ágsborgarjátning hafi að eins verið saman tekin til að berja niður lygar og óhróður um hina nýju kenning. Fræðin hafi Lúter ætlað prestum til stuðnings við fræðsluna í kristindóminum. Postullega játningin sé alls ekki samin af postulum drottins, heldur sé frá 6. öld í núverandi mynd. — Níkeu-játningin hafi aldrei verið samþykt af allsherjar kirkjuþingi, sé talin grunsöm jafnvel af katólskum guðfræðingum

---

*) Skírnir, 1908, bls. 229. **) st. bls. 235. ***) Jón Helgason: Prestarnir og játningarritin. Skírnir LXXXII, 1909, bls. 193—224.

og hafi ekki fengið útbreiðslu fyr en á 6. og 7. öld. Játning Aþanasíusar sé alls ekki af honum samin. Þessi þrjú játningarrit fornkirkjunnar séu öll rangnefnd og rangfeðruð og alls ekki almenn. 2) Játningarritunum hafi verið neytt upp á menn af hinu veraldlega valdi, kirkjan hafi alls engan þátt átt í lögfestingu játningarritanna í hinum lútersku löndum, „heldur eingöngu veraldlega valdið", sú lögfesting hafi aldrei verið framkvæmd á Íslandi og þess vegna sé engin ástæða til að halda játningarhaftinu að íslenzkum prestum. 3) Játningarritin séu „ófullkomin mannasmíð, sem í flestu tilliti bera á sér fingraför sinna tíma". Postullega játningin tekur ekkert tillit til kenningar frelsarans, Níkeu-játningin fremur háspekileg skýring trúarinnar en einföld játning, Aþanasíus-játning hafi beint ókristileg atriði meðferðis og misskilji hugtakið „sáluhjálpleg trú". Ágsborgar-játning bannar leikmönnum að prédika, fyrirdæmir þá sem halda því fram, að börn geti orðið hólpin án skírnar, heldur fram erfðasynd, sem steypir í eilífa glötun og sömuleiðis eilífri útskúfan. Fræðin haldi fram töfra-áhrifum orðsins, er sé beint á móti fagnaðarerindinu. — 4) Heitbinding prestanna við játningarritin brjóti bág við þá meginreglu lútersku kirkjunnar, sem er í því fólgin, að heilög ritning, og hún ein, hafi að geyma hin eilífu sannindi til sáluhjálpar. „Eg vil að hætt sé að heitbinda prestana við játningarritin og að hitt sé látið nægja, að þeir lofi eftir beztu samvizku að kenna samkvæmt guðs orði í ritningunni." — Þetta er nákvæmlega hið sama og eg hélt fram árinu áður í kirkjuþinginu í Selkirk viðvíkjandi heitbindingunni. Umræðunum, sem út af erindi þessu risu á Þingvelli, lýsir Ísafold á þessa leið: „Mikla eftirtekt vakti það, að biskup kvaðst hafa talað við einn af beztu lögfræðingum landsins um málið, og hann hafi sagt, að hann gæti ekki hugsað sér þann dómstól, sem dæmdi eftir trúarjátningum. Er maður ekki að vega að dauðum, sagði biskup. Játningarritin eru dauð í samvizkum manna. En hitt er víst, að prestaheitið eins og það er nú, er hér orðið í ósamræmi. Eins tóku menn og vandlega eftir því, að séra Valdemar Briem taldi sig með öllu mótfallinn prestaheiti. Lýst var því yfir í umræðunum, að prestaheitið næði alls ekki til prestaskólans, fræðslan þar væri ekki lögbundin, að því, er til kenningar kæmi, kennurunum væri ekki ætlað að fara

eftir neinu öðru en því, sem þeir vissu sannast og réttast. Þó að skoðanamunur væri nokkur, kom öllum ræðumönnum saman um það, að játningarritin væru ófullkomin. Og mikill meiri hluti ræðumanna var því gersamlega mótfallinn, að stofnað væri til nýrra játninga, enda tók frummælandi (J. H.) skarið af í því efni, þær yrðu ekki annað en ný höft á samvizkum manna og skilningi á Kristi."

**82. Stóri dómur.** Um sama leyti voru viðburðir að gerast með Íslendingum vestan hafs, er þóttu all-miklum tíðindum sæta. Kirkjuþing kom saman í júnímánuði seint. Var það á allra vitorði, að deilumálin mundu þar koma fyrir. Kappi allmiklu var beitt fyrir kirkjuþing til þess að afla Sameiningarstefnunni í kirkjufélaginu svo mikils fylgis við kosningar erindreka í söfnuðum, að hún gæti haft töglin og hagldirnar á þessu kirkjuþingi. Mánudaginn 28. júní kom deilumálið fyrir kirkjuþing. Var þá borin fram af hálfu meirihlutans tillaga, sem í einu og öllu löghelgaði skoðanir Sameiningarinnar sem hinar einu trúmálaskoðanir, er eiga mættu griðland í kirkjufélaginu. Yfirlýsing þessi eða stóri dómur er á þessa leið:

„Þingið lýsir yfir því, að stefna sú, sem málgagn kirkjufélagsins Sameiningin hefir haldð fram á liðnu ári sé réttmæt stefna kirkjufélagsins, en mótmælir þeim árásum á þá stefnu, sem komið hafa fram innan kirkjufélagsins frá séra Friðrik J. Bergmann í tímariti hans Breiðablikum. Og út af þeim árásum gerir þingið eftirfylgjandi þingsályktun:

„1. Kirkjufélagið neitar, að trúarjátningar kirkjufélagsins séu að eins ráðleggjandi, en ekki bindandi, eins og haldið hefir verið fram af séra F. J. Bergmann í Breiðablikum.

Trúarjátningar eru bindandi, þar til þær eru afnumdar.

2. Kirkjufélagið neitar því, að kennimenn kirkjufélagsins hafi rétt til að kenna hvað sem þeim lízt, jafnvel þó að þeir geti sagt, að þeir séu að kenna eftir beztu samvizku og sannfæringu. Þeir hafa ekki leyfi til að kenna innan kirkjufélagsins nokkuð er kemur í bága við það, er þeir hafa skuldbundið sig til að kenna sem prestar kirkjufélagsins.

3. Kirkjuþingið neitar, að trúarmeðvitund mannsins hafi úrskurðarvald yfir heilagri ritningu og megi hafna orðum hennar eftir vild, og þeirri niðurstöðu, sem af þessu flýtur, að biblían sé óáreiðanleg bók. Aftur á móti lýsir kirkjuþingið yfir því, að það haldi fast við þá játningu kirkjufélagsins, að öll ritningin sé guðs orð, áreiðanlegt og innblásið, og að hvað eina beri þar að dæma eftir mælikvarða biblíunnar sjálfrar."

Áður yfirlýsing þessi var samþykt með meiri hluta atkvæða, bar einn erindreki, Gunnlaugur Pétursson (George Peterson), lögmaður frá Pembina, fram þessa tillögu af hálfu minni hlutans:

„Til þess að trúmálaágreiningur sá, sem á sér stað, verði eigi kirkjufélagi voru til tjóns, leyfi eg mér að bera fram svo hljóðandi tillögu, er komi í stað þeirrar, sem þegar er fyrir þinginu:

1. Að báðar skoðanir, sem fram hafa komið, séu álitnar jafn-réttháar í kristninni og kirkjufélagi voru, þegar þeim er haldið fram á grundvelli trúarinnar og þeir, sem þeim fylgja, hvorri um sig, megi ræða það sem á milli ber í friði, í fullu trausti þess, að sannleikurinn verði ofan á að síðustu.

2. Að prestar og leikmenn safnaða vorra séu eigi víttir, hvorri skoðaninni sem þeir fylgja og að það sé eigi álit þeirra né virðingu í kirkjufélaginu að neinu leyti til hnekkis eða skerðingar.

3. Að fræða megi almenning safnaða vorra bæði í ræðu og riti, bæði utan kirkju og innan, um hinar nýju biblíurannsóknir og niðurstöðu þeirra, þegar það er gert í trú á föður, son og heilagan anda, í ljósi játningarrita kirkju vorrar, í þeim tilgangi að fjarlægja ásteitingarsteina og efla trúna í hjörtum manna.

4. Að halda megi áfram að ræða það, sem þessum skoðunum ber á milli, bróðurlega, bæði einslega og opinberlega, en forðast að blanda persónulegum ádeilum eða fyrirdæmingum þar saman við, og engum leyft að gefa í skyn, hvorki beinlínis né óbeinlínis, að hér sé að eins um únítara-trú eða jafnvel heiðindóm að ræða annars vegar, en hins vegar faríseahátt og trúhræsni.

5. Að báðar skoðanir hafi jafnan rétt til að skýra málstað sinn í málgagni kirkjufélagsins, og hvorug fyrirdæmd.

6. Að kostað sé kapps um að láta ágreininginn út af skoðunum þessum eigi spilla kristilegri samvinnu né bróðurhug, og leitast við að lækna þau sár, sem deilan kann að hafa valdið hingað til.

7. Að kirkjufélagið láti ekki deilu þessa spilla samkomulagi við kirkjuna á Íslandi né bróðurhug, svo vér getum orðið fyrir heillavænlegum áhrifum þaðan og sjálfir stutt og eflt kristilegan áhuga þar með orðum og eftirdæmi.“

Einn af prestum kirkjufélagsins, séra Friðrik Hallgrímsson, bar upp miðlunartillögu. Hafði hann samið hana án þess að ráðfæra sig við nokkurn og undir hvorugan málspart borið, en ætlast til, að hún mælti með sér sjálf. Þótt hún kæmi með öllu flatt upp á og eg enga vitneskju hefði um, að hún væri á ferðinni, studdi eg hana þegar til að sýna, hve langt eg væri fús til þess að ganga í miðlunaráttina. Hún var á þessa leið:

„1. Kirkjufélagið mótmælir öllum þeim guðfræðisstefnum, sem beinlínis eða óbeinlínis afneita sannsöguleik þeirra grundvallar-atriða kristindómsins, sem fram eru tekin í hinni postullegu trúarjátningu.

2. Kirkjufélagið viðurkennir réttmæti og gagnsemi trúaðrar biblíurannsóknar, en álítur hins vegar margar af þeim staðhæfingum, sem nú á tímum er haldið fram í nafni biblíu-rannsóknanna, ósannaðar getgátur, sem sumar hverjar séu andstæðar heilbrigðri kristilegri trúarhugsan.

3. Kirkjufélagið viðurkennir, að opinberar umræður um trúmál séu gagnlegar, en álítur að þær eigi alt af að fara fram með hógværð og stillingu, án allrar áreitni eða persónulegra brigzlyrða."

Við umræðurnar kom það fram, að meiri hluta fanst miðlunartillaga þessi enn verri og óaðgengilegri en hin, sem fram hafði komið næst á undan. Henni voru jafnvel valin svo háðuleg ummæli, að hún væri s l æ ð u r, sem leitast væri verið að binda með fyrir augu manna. Var hún loks borin upp til atkvæða og feld með 49 atkvæðum gegn 27. Þá var breytingartillaga minni hlutans borin upp og feld. Að síðustu var frumtillaga meiri hlutans samþykt með 49 atkvæðum gegn 27. — Það var auðsætt á öllu, að öldungis stóð á sama hvað sagt var eða gert til samkomulags. Leiðtogar kirkjufélagsins höfðu komið sér saman um, að ekkert samkomulag mætti eiga sér stað milli flokkanna. Úr því meiri hlutinn væri nógu sterkur til þess að koma vilja sínum í gegn, skyldi hann ekki taka neitt annað til greina og alls ekkert hugsa um afleiðingarnar.

Nú var eigi annað eftir fyrir minni hlutann en að fá um það skýran og greinilegan úrskurð þingsins, hvort hann mætti vera til eða ekki, eða hvort hann mætti halda áfram að vera í kirkjufélaginu með þá stefnuskrá, sem hann hafði lagt fram. Hjálmar A. Bergman, lögmaður, bar þá fram þessa tillögu:

„Kirkjuþingið lýsir yfir því, að prestar og leikmenn kirkjufélagsins, séu eigi með neinu, sem samþykt hefir verið á þessu kirkjuþingi, gerðir rækir úr kirkjufélaginu, þrátt fyrir það þó þeir fylgi skoðunum þeim, sem fram eru teknar í breytingartillögu þeirri, sem fram var borin af George Peterson."

Meiri hlutinn virtist verða í vandræðum all-miklum með tillögu þessa. Afdrif hennar í þinginu hlutu að skera úr um rétt eða réttleysi minni hlutans. Fyrri hluti tillögunnar var loks samþyktur. En seinni hlutinn (frá: þrátt fyrir það) feldur. Með öðrum orðum: Minnihlutamennirnir voru ekki gerðir rækir í orði kveðnu, en skoðanir þeirra lýstar réttlausar og rækar. Þá gekk minni hlutinn af þingi, þar sem hann áleit, að

hann ætti ekkert erindi lengur á því þingi, þar sem hann mætti ekki flytja skoðanir sínar og fylgja þeim. Flestir minnihlutamenn gengu af þingi þegar í stað, að minsta kosti 16 manns. Flestir hinna gengu af þingi næsta dag. Með kirkjuþingsyfirlýsingu þeirri, sem nú hafði verið samþykt, hafði kirkjuþingið fastbundist þessum fjórum afar-víðtæku og mikilvægu kenningar-atriðum:

1. Það skoðar trúarjátningar sínar lagabönd og neitar kenningarfrelsi presta.

2. Það neitar, að trúarvitund mannsins hafi nokkurn rétt til að velja og hafna í guðs orði, eða með öðrum orðum, neitar hugsanafrelsi í trúarefnum.

3. Það staðhæfir að biblíuna beri að skoða óskeikula bók.

4. Það hikar sér eigi við að tileinka sér og játa að fullu trúmálaskoðanir þær, sem birtust í þeim árgangi Sameiningarinnar, er út kom milli kirkjuþinga 1908 og 1909.

Það var örlaga-þrungin stund og sjálfsagt eitt hið mesta óhappaverk, er unnið hefir verið með Íslendingum.

83. **Úrsagnir safnaðanna.** Þegar í næsta mánuði eftir kirkjuþing komu úrsagnir og yfirlýsingar safnaðanna, sem erindrekarnir voru frá, er álitu sig gerða ræka. Setjum vér hér nokkurar þeirra:

I.

*Frá Tjaldbúðarsöfnuði.*

„Með því Tjaldbúðarsöfnuði skilst af samþyktum síðasta kirkjuþings, að engir þeir, er eigi fallist á trúmálaskoðanir þær, er Sameiningin flytur og kirkjulega stefnu, hafi hér eftir rétt á sér í kirkjufélaginu, en sé óbeinlínis hrundið út úr því, og

„með því söfnuðurinn álítur, að hann sé um leið sviftur því samvizkufrelsi, sem ávalt hefir verið sögulegt einkenni lúterskrar kirkju og hvergi bannað í grundvallarlögum kirkjufélagsins, og

„með því söfnuðinum virðist þröngur skilningur á gildi biblíunnar og játninganna lögleiddur í kirkjufélaginu af síðasta kirkjuþingi, gagnólíkur þeim, sem mótað hefir íslenzkt þjóðerni og kristindóm hingað til,

„lýsir Tjaldbúðarsöfnuður yfir því, að hann segir sig úr sambandi við kirkjufélagið,

„en lætur um leið þá von í ljós, að það umburðarleysi í trúarefnum af hálfu kirkjufélagsins, sem þessari úrsögn veldur, hverfi í nálægri framtíð, svo allir Vestur-Íslendingar, er leggja vilja rækt við sannan kristindóm, fái starfað saman í bróðurlegri eindrægni, þó skoðanir þeirra séu eigi steyptar nákvæmlega sama móti.“

II.

*Frá Garðar-söfnuði.*

„Sökum þess:

„að skoðanir meiri hlutans á síðasta kirkjuþingi urðu svo einskorðaðar á þá leið, að öllum innan kirkjufélagsins beri að aðhyllast stefnu Sameiningarinnar sem eina réttmæta í ágreiningsmáli kirkjufélagsins, og enn fremur,

„að þingið synjaði þeirri málaleitan minni hlutans, að félagsmenn mætti flytja og fylgja þeim skoðunum og þeirri niðurstöðu, sem kristileg rannsókn ritningarinnar nú á tímum áskilur sér rétt til að mega halda fram,

„lýsir Garðar-söfnuður yfir því, að hann segir sig úr sambandi við kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi.“

III.

*Frá Vatna-söfnuði, 1. ág. 1909.*

„Sökum þess vér getum ekki viðurkent Sameininguna, hvorki fyr né síðar sem óskeikult trúvarnarrit eða dómstól í öllum ágreiningsmálum kirkjufélagsins, né heldur fallist á árásir hennar á móðurkirkjuna á Íslandi, og

„sökum þess vér fáum ekki aðhylst þröngsýni meiri hluta, er fram kom á síðasta kirkjuþingi, en aðhyllumst þær rýmri trúarskoðanir, er haldið var fram í tillögu minni hluta,

„lýsir Vatna-söfnuður yfir því, að hann segir sig úr hinu ev. lút. kirkjufélagi Íslendinga í Vesturheimi.“

IV.

„Til forseta hins ev. lút. kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi. Winnipeg, 3. ág. 1909.

„Þar sem eg á síðasta kirkjuþingi var sviftur rétti til að fylgja þeim skoðunum, sem eg hefi opinberlega gert grein fyrir, og flytja þær, án þess sannað hafi verið af guðs orði, játningarritum kirkju vorrar eða grundvallarlögum kirkjufélagsins, að eg hafi í nokkuru brotið, segi eg hér með sambandi mínu við kirkjufélagið slitið.

Virðingarfylst

F. J. Bergmann.

V.

*Frá Quill Lake-söfnuði.*

„Vegna þess að alvarleg óánægja á sér stað í Quill Lake-söfnuði út af úrslitum síðasta kirkjuþings, gjörir hann eftirfylgjandi yfirlýsingu:

„Söfnuðurinn viðurkennir ekki, að stefna ‚Sameiningarinnar‘ síðastliðið ár hafi verið réttmæt stefna kirkjufélagsins og hann getur ekki að ýmsu leyti fallist á þingsályktun meiri hluta viðvíkjandi trúmáladeilunni, og

„þar eð söfnuðurinn sér ekki, að meiri hluti síðasta kirkjuþings

hafi gjört neina alvarlega tilraun til samkomulags, fyrst þingið sá sér ekki fært að samþykkja miðlunartillögu séra Friðriks Hallgrímssonar, „lýsir Quill Lake-söfnuður yfir því, að hann segir sig úr sambandi við hið ev. lút. kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi,

„en telur sig jafnframt fúsan til að fylgjast með kristilegum og friðsömum félagsskap, ef friður yrði saminn milli flokkanna á komandi árum.“

VI.

*Frá Þingvallasöfnuði.*

„Út af ágreiningsmáli kirkjufélagsins gerir Þingvallasöfnuður eftirfylgjandi yfirlýsing:,

„Söfnuðurinn neitar því, að stefna sú, er kirkjufélagstímaritið Sameiningin hélt fram í árganginum frá kirkjuþingi 1908 til kirkjuþings 1909 sé að öllu leyti réttmæt stefna kirkjufélagsins.

„Söfnuðurinn neitar því, að trúarvitund mannsins hafi ekki vald til að velja og hafna, þó um heilaga ritning sé að ræða, en í því valdi felst vitanlega úrskurðarvald.

„Söfnuðurinn álítur, að hann hafi fylsta rétt til að fræðast um rannsóknir þær, sem vísindamenn nútímast hafa um hönd, ritningunni að ýmsu leyti til skýringar, en síðasta kirkjuþing neitaði þeim rétti með því að fella tillögu minni hlutans.

„Af ofanskráðum atriðum og hinni óheppilegu samþykt síðasta kirkjuþings, segir Þingvalla-söfnuður sig úr sambandi við hið ev. lút. kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi.“

Alls sögðu níu söfnuðir sig úr kirkjufélaginu eða meira en tvö þúsund manns. Var það hér um bil einn þriðjungur allra þeirra, sem í kirkjufélaginu stóðu, en þeir voru 7214 alls, um það leyti að klofningurinn varð. Bæði í Sameiningunni og í bréfi frá forseta kirkjufélagsins, rituðu rétt eftir kirkjuþing 1909 til biskupsins á Íslandi, var mér borið á brýn, að eg væri að ferðast fram og aftur í söfnuðum kirkjufélagsins, til þess að fá þá til að segja sig úr félaginu. Sá áburður var öldungis tilhæfulaus og enginn flugufótur fyrir. Eg forðaðist jafnvel að hafa nokkur bréfaskifti um þau efni við nokkura þá, er í kirkjufélaginu stóðu og átti þar alls engan hlut að máli. Jafnvel Tjaldbúðarsöfnuð lét eg í þeim efnum alveg sjálfráðan. Eg átti alls engan þátt í úrgöngu safnaðanna, annan en þann, sem öllum er kunnur. Þeir slitu sambandi við kirkjufélagið öldungis af sjálfsdáðum.

**84. Kristindómurinn aflagaður.** Eftir kirkjuþing 1909 lét eg eiginlega deiluna sem allra-mest falla niður af minni hálfu,

en hélt áfram að birta smá-ritgerðir um ýms efni í sambandi við biblíuna og einstök rit hennar, til þess að sýna í hvaða ljósi orð hennar beri að skoða. Rétt þegar fregnin kom til Íslands um það, hver úrslit mála hefðu orðið á kirkjuþingi, flutti séra Haraldur Níelsson ræðu í dómkirkjunni 1. ágúst 1909, sem birtist í Breiðablikum og nefnd er Einkennið, út af guðspjallinu: Gætið yðar fyrir falskennendum. Sýnir höfundurinn þar fram á, að kristindómseinkennið sé ekki samræmi í trúarskoðunum, heldur að þeir séu eitt í kærleika til vors himneska föður. Jafnvel postularnir, Páll og Pétur, Jakob og Jóhannes, hafi haft og haldið fram ólíkum skoðunum. Af hlýðni Abrahams hafi Páll dregið þá ályktan, að maðurinn réttlætist af trú, en Jakob, að hann réttlætist af verkum. Kærleikurinn í lífinu sé einkennið á sönnum kristindómi. Mennirnir verði að lokum eingöngu dæmdir eftir því, hvort þeir hafi lifað í kærleika til Krists eða ekki. Hann talar um deilurnar, sem átt hafa sér stað í kirkjunni frá fyrstu tímum og fyrirdæmingar, sem þeim hafi fylgt.

„Nýlega höfum vér verið á þetta mintir. Innan vors eigin þjóðflokks er slík deila risin í algleymingi. Það er meðal landa vorra í Vesturheimi. Kirkjufélag þeirra virðist ætla að klofna út af þeim deilum, er þar hafa risið milli hinnar gömlu stefnu og þeirrar, er fylgir hinni svo nefndu nýju guðfræði. En nýja guðfræðin er ekki annað en skilningur þeirra manna á kristindóminum, sem hafa hlýtt þeirri óhjákvæmilegu skyldu að útiloka sig ekki frá hinni fullkomnari þekkingu nútímans og láta hana leiðrétta það, sem menn vita nú að rangt var í skoðunum eldri kynslóða. Enn er þekking vor í molum, en alt af fer hún þó smávaxandi, alt af fullkomnast hún. Nýja guðfræðin er tilraun til að fullnægja þeirri sjálfsögðu skyldu, að samþýða fagnaðarboðskap Krists hugsunarhætti nútíðarkynslóðarinnar, á sama hátt og undangengnar kynslóðir hafa samþýtt hann sínum hugsunarhætti. En ef það er ekki gert, missir fagnaðarerindið vald sitt yfir mannssálunum, og þá verða boðendur orðsins og hinir kristnu kennarar þess valdandi, að það verður ekki þessari kynslóð til sams konar blessunar sem það hefir verið undanförnum kynslóðum. Því að þrátt fyrir deilurnar hefir það orðið óteljandi sálum til blessunar.“*)

Þá eru líka ummæli Ísafoldar næsta eftirtektarverð, því þau sína hve glögt og nákvæmlega rétt þeir menn á Íslandi, er fylgdust með í þessu sem gerðist, skildu það, er fram fór á

---

*) Haraldur Níelsson: Einkennið, Breiðablik IV, 57.

kirkjuþingi, og hvernig þeir dæmdu um það. „Vér teljum alveg óhætt að fullyrða, að slíkt hefði ekki getað komið fyrir í nokkurri mótmælendakirkju Norðurálfunnar. Í engri slíkri kirkju mundu samþyktir þær, sem kirkjuþingið hefir látið frá sér fara, hafa verið gerðar um bindingarafl trúarjátningarritanna, og um það, að öll ritningin sé guðs orð, áreiðanlegt og innblásið.“*)

Daginn eftir að gengið var af þingi af minnihlutamönnum, gerði forseti kirkjuþingsins (séra B. B. J.) hátíðlega yfirlýsingu um, að kirkjuþingið hefði ekki gefið nokkurt tilefni til þess, að nokkur maður gengi af þinginu. Út af þessu kemst Ísafold svo að orði:

„Ekki kemur oss það óvart, að foringjar kirkjufélagsins vestræna neiti því, að þeir hafi vísað nokkurum manni út á síðasta kirkjuþingi. Þeir hafa lagt kapp á að þvo þann blett af sér, láta svo sýnast sem þeir, er út hafa gengið, hafi gert það ótilneyddir. Forseti kirkjufélagsins orðaði það svo, að kirkjuþingið hefði ekki gefið nokkurt tilefni til þess, að nokkur maður gengi af þinginu. En slíkar tilraunir eru ekki til annars en vansæmda. Kirkjuþingið lýsti að sönnu yfir því, „að prestar og leikmenn kirkjufélagsins sé ekki með neinu, er samþykt hefir verið á þessu kirkjuþingi, gerðir rækir úr kirkjufélaginu.“ En það neitaði að lýsa yfir því, að þeir yrðu ekki reknir, ef þeir héldi áfram að halda fram þeim skoðunum, sem um var deilt og meiri hluti kirkjuþings lagðist á móti. — Með öðrum orðum, kirkjuþingið segir: Við skulum fyrirgefa það, að þið hafið haldið fram ykkar sannfæringu. En þið megið búast við að verða reknir, ef þið gerið það eftirleiðis. — Það liggur í augum uppi, að enginn sannleikselskandi maður, sem ann sæmd sinni, getur setið kyr, eftir að hafa fengið yfir sig slíka dembu. Hér var enginn annar kostur fyrir hendi en sá að fara. — — Hvað bókstafs-þrældómurinn hlýtur að hafa ranghverft hugum þeirra manna, sem svona geta hugsað og annað eins og þetta látið um sig spyrjast! — Ef andstæðingar vildu láta kúgast til þess að hætta við að láta uppi sannfæring sína um andleg mál, ef þeir voru fáanlegir til að svíkja þann sannleik, sem þeir töldu sér trúað fyrir, og fara að tala gegn sannfæring sinni, þá voru þeir gildir og góðir í kristnum félagsskap. En væri þeir ófáanlegir til þess, væri þeir staðráðnir í því, að standa við sannfæring sína, þá — burt með þá! — Ódrengskapinn og hræsnina hefir hið evangeliska lúterska kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi að þessu sinni gert að skilyrði þess að verða ekki gerður rækur. Er hlaupið að því að aflaga kristindóminn öllu meira annan veg en með því að fara svona með hann? — Þessi er afleiðingin

---

*) Ísafold XXXVI, 18. árg. 1909, bls. 214.

af bókstafsþrældómnum. Þessi er afleiðingin af trúarjátningabandinu. Þessi er afleiðingin af prestaskólum, sem loka augunum fyrir þekkingu nútímans. — Eigum vér að gera leik að því að hleypa slíku inn í þjóðlíf vort?"

85. **Barnalegur handaþvottur.** Með yfirlýsingu, sem gerð var af prestum kirkjufélagsins á fundi í Winnipeg 16. sept. 1909, og skrifað var undir af þeim sjö, var þeirri staðhæfing mótmælt, „að kjarni ágreiningsmálsins innan kirkjufélagsins sé bókstafsinnblástur ritningarinnar, sömuleiðis því, að kirkjuþingið hafi neitað réttmæti og gagnsemi trúaðrar biblíurannsóknar; en á þessu hvorttveggja, segir Nýtt kirkjublað (15. ág. þ. á.), að trúmálaágreiningurinn vestra leiki." Þegar til málaferlanna kom, sannaði kirkjufélagið bezt sjálft hvílík fjarstæða þessi mótmæli voru. Þar snerist öll sókn kirkjufélagsins um, að færa sönnur fyrir, að söfnuður sá, er málið var höfðað gegn, hefði gert sig sekan um trúvillu, og trúvillan væri í því fólgin, að hann hefði yfirgefið (!) kenninguna um bókstafsinnblástur biblíunnar, er samþykt hefði verið með grundvallarlögum safnaðarins og kirkjufélagsins, en vitaskuld er þar hvergi svo mikið sem vikið að, fremur en hún aldrei hefði verið til. Að kirkjufélagið hafi neitað „réttmæti og gagnsemi trúaðrar biblíurannsóknar" með yfirlýsingu sinni, dylst víst engum, sem þá yfirlýsingu les, og man, að hún fyrirdæmir einmitt trúarvitund mannsins og rétt hennar til að hafna nokkuru í biblíunni sem brjótandi bág við fagnaðarerindi Jesú. — Sömuleiðis var það lýst fjarstæða, að síðasti árgangur Sameiningarinnar hafi verið gerður að trúarjátning eða talinn óskeikull. Fyrir rétti var við það kannast af séra Kristni Ólafssyni, einum þessara sjö presta, er mótmæla-yfirlýsinguna gerðu, að kirkjuþings-samþyktin, sem dóminn kvað upp í málinu af hálfu kirkjufélagsins, megi skoða trúarjátningu. „Erindrekarnir á kirkjuþingi og prestarnir á kirkjuþingi, sem atkvæði greiddu með yfirlýsingu Friðjóns Friðrikssonar, gerðu játningu fyrir sjálfa sig, og kirkjufélagið sömuleiðis. Samkvæmt skilningi mínum á yfirlýsingu Friðjóns Friðrikssonar var hún endurtekning játningar um kenningarstefnu kirkjufélagsins, og býst eg við, að hún að því leyti sé trúarjátning fólksins, er greiddi atkvæði með henni, ef nota skyldi það orðalag. Eg hefi

ekkert út á það orðalag að setja. Eg neita því ekki, að eg hefi einmitt komist svo að orði sjálfur."*)

**86. Þrjú sendibréf austur um haf.** Nýtt kirkjublað hafði meðferðis kafla úr þremur bréfum til biskups Þórhalls Bjarnarsonar, 15. október.**) Fyrsta bréfið er ritað nokkuru fyrir kirkjuþing af séra Jóni Bjarnasyni. Er þess þar farið á leit, að biskupinn ráðleggi mér að segja mig úr kirkjufélaginu. Þykist hann ekkert vita, hvað gert verði við mál mitt á kirkjuþingi. Í sambandi við þetta má taka fram, að séra Kristinn bar fyrir rétti. „Eg kannaðist við það, að yfirlýsingin (F. F.) var gerð einungis í þeim tilgangi, — að losast við séra Friðrik Bergmann úr kirkjufélaginu." —***) — Annað bréfið var frá þeim sem þetta ritar, og dagsett í júlí, skömmu eftir kirkjuþing. Var þar tekið fram, að minni hlutinn hefði að eins farið fram á jafnrétti. „Tuttugu og fimm ára fagnaðarhátíð að sumri. Yður boðið, heyri eg. Mörgum finst ofsóknarandinn hér hafa komið upp um sig. Einn maður ofsóttur oddi og egg fyrir skoðanir, svo honum er ekki vært. Öðrum boðið með nákvæmlega sömu skoðanir. Gaman væri að fá yður hingað vestur sviptúr. Stór missjón, ef þér gætuð komið á sáttum með heiðarlegum skilmálum. Því miður finnast mér líkindin lítil....Drottinn einn getur látið tímann og rás viðburðanna gera það." — — Þriðja bréfið var frá séra Birni B. Jónssyni. Þar er sagt, að ekkert geti verið sannleikanum fjær en það, að hér (á kirkjuþingi) væri einungis að deila um bókstafs-innblástur ritningarinnar. Og um leið er gefið í skyn, að „deilan sé runnin af félagslegum og persónulegum rótum". Þar er það einnig sagt, að „séra Friðrik Bergmann sé nú að ferðast um meðal safnaðanna í ýmsum bygðum og reynt er til á allar lundir að fá söfnuði til að ganga úr kirkjufélaginu og segja prestum sínum upp þjónustu". Alt voru þetta ósannindi hrein og bein og enginn flugufótur fyrir. Að deilan væri runnin af félagslegum rótum, á víst að vera aðdróttun um, að eg hafi viljað brjótast til valda í kirkjufélaginu og hafið deiluna vegna þess. Sú aðdróttan fór hér huldu höfði manna á milli á stöku stað, en vogaði sér aldrei

*) Abstract 78—79, f. 231—235. Framb. pr. bls. 286. **) Nýtt kbl. 1909, bls. 235—237. ***) Abstract bls. 69, f. 202. Sbr. Framb. pr. bls. 282.

út í dagsbirtuna, og hefir ávalt átt sama upprunann. Hefir verið álitið óhætt að sleppa henni til Íslands, þar sem menn þektu ekki til. Hér fór hún ekki út úr myrkrinu, vegna þess allir vissu, að hún átti enga átyllu. Nokkura vegtyllu í kirkjufélaginu, um fram það litla álit sem eg átti, hafði mér aldrei hugkvæmst að girnast. Myndi líka hafa borið mig alveg þveröfugt að, ef sá fiskur hefði legið undir steini. — Hin aðdróttanin um, að deilan hafi verið af persónulegum rótum runnin, er jafn-fráleit og tilhæfulaus. Embættisbræður mínir í kirkjufélaginu höfðu að öðru leyti ekkert gert á minn hluta, og eg ekkert á þeirra svo mér sé kunnugt. Okkur séra Jóni Bjarnasyni hafði aldrei í neinum öðrum efnum farið neitt nema hið allra-ástúðlegasta á milli. Vitaskuld varð eg þess var, að hann lét sér þykja við mig, að eg gat ekki fylgt honum í að fyrirdæma biblíu-rannsóknirnar. En nokkuru eftir að honum var fullkunnugt um stefnu mína þar, átti hann mestan þátt í að mér var fengið kennaraembættið í íslenzku við Wesley-College. Eg vítti blaðamenskuna hér vestan hafs, þegar mér og öðrum þótti þar taka út yfir, og átti Sameiningin þar vitaskuld sinn skerf. En eg hafði gert það sem vinur og eins nærgætnislega og eg hafði lag á. Eg hafði lengi reynt að beina trúvarnar-aðferð blaðsins í annað horf, og neyddist að síðustu til að sýna fram á, hve öfug hún væri. Það var sjálfsagt, að eg segði meiningu mína, þegar hún kom í bág við hans, eins og hann hafði svo oft gert, þegar eg átti í hlut. En hann þoldi það ekki til lengdar, að nein skoðan nema hans fengi að eiga sér stað, þar sem hann náði til. Fyrir því varð að kveða niður alla mótspyrnu, ef unt var. Hann var svo gerður, minn ágæti vinur. En alsáttir skildum við. Eg sagði honum, er eg átti tal við hann tíu dögum fyrir andlátið, að eg vildi láta hann vita nú, að í hjarta mínu væri engin þykkja eða óvild til hans, heldur einmitt hið gagnstæða. Hann sagði þá eitthvað á þessa leið: „Mörg bréf hafa farið á milli okkar. Hefi eg byrjað öll með: Elskulegi vinur! Alt, sem þau orð áttu að tákna, kemur nú fram í hugann, er við erum að skilja. Að sönnu veit eg að eitt og annað, sem eg kann að hafa sagt í bréfum síðari ár, kann að varpa á þetta nokkurum skugga. En yfir alt það vildi eg nú láta slegið striki.“

87. **Þingvalla-söfnuður.** Enginn safnaðanna, sem úr kirkjufélaginu gengu, hefir orðið eins frægur fyrir þá úrsögn sína og Þingvalla-söfnuður. Var hann þó einn af hinum fámennustu. Hann var af kirkjufélaginu til þess kosinn að líða fyrir úrgöngusynd allra þessara safnaða. Nokkurir menn, er fylgjandi voru þar kirkjufélaginu, voru til þess hvattir að lögsækja meirihlutann, sem var lang-mestur hluti safnaðarins, og heimta að hann léti kirkju-eignina af hendi. Saga þess, sem gerðist í söfnuðinum, er eitthvað á þessa leið: Fundur var haldinn 26. júlí 1909 í þeim tilgangi að ræða samþyktir síðasta kirkjuþings. Gerði þá Guðmundur bóndi Gíslason þá uppástungu, að söfnuðurinn gengi úr kirkjufélaginu, og var það stutt af Vigfúsi S. Hanssyni. En tillaga þessi var ekki borin upp til atkvæða, sökum þess að hún kom í bága við grundvallarlög safnaðarins. Um þennan fund sagði séra Kristinn fyrir rétti, að á honum hefði hann fyrst orðið þess var, að söfnuðurinn var að fara. Hann beitti þar öllum brögðum, til þess safnaðarmenn fengi engu fram komið. Liðugum mánuði síðar var annar fundur haldinn, 29. ágúst. Þar var samþykt tillaga um, að segja prestinum upp þjónustu vegna ofríkis hans í safnaðarmálum, einkum á síðasta safnaðarfundi og vegna þess, að hann hafi lýst yfir því, að hann geti ekki þjónað þeim söfnuði, er hafi aðrar skoðanir en hann í trúmálum. Var uppsögnin með sex mánaða fyrirvara, samkvæmt köllunarbréfi. Á ársfundi safnaðarins, 8. jan. 1910, var þriggja manna nefnd kosin til að íhuga breytingu á safnaðarlögunum, svo slíta mætti sambandi við kirkjufélagið. Á fundi, sem haldinn var 22. maí 1910, var tillaga þessarar nefndar rædd, en samþykt frestað. Á þeim fundi bar Guðmundur Gíslason fram þá tillögu, studda af Jónatan Gíslasyni, að söfnuðurinn sendi enga erindreka á kirkjuþing, og var hún samþykt í einu hljóði. Á þessum fundi sleit minnihlutinn í söfnuðinum, sem dró taum kirkjufélagsins, samvinnu við meirihlutann, með því að leggja fram skjal, dagsett 21. maí, þar sem uppsögn safnaðarins til prestsins var tilfærð sem ástæða. Þó höfðu allir verið ásáttir um hana á safnaðarfundi 8. jan. og presturinn viðurkent rétt meirihlutans til að segja honum upp. Fyrir rétti kannaðist séra Kristinn við, að fram að 21. maí hefði söfnuðurinn ekki gert neitt, er hann hafi álitið vott trúarbreytingar, nema yfirlýsinguna, þegar

er honum var sagt upp.*) — Á fundi 5. júní 1910 var safnaðarlögunum breytt, samþykt að ganga úr kirkjufélaginu í einu hljóði og yfirlýsing sú, sem tilfærð er hér að framan, þar sem ástæðurnar fyrir úrgöngunni eru til greindar, sömuleiðis samþykt í einu hljóði. Þetta fór fram eftir að minnihlutinn hafði skilið sig frá meirihlutanum 22. maí. Út af þessari úrsagnaryfirlýsingu var safnaðar-meirihlutinn sakaður um trúvillu og í því sambandi er þess gætandi, að yfirlýsingin hafði ekki verið stíluð af neinum meðlim Þingvalla-safnaðar, heldur af Gamalíel Þorleifssyni, sem var og er einn helztu manna Garðarsafnaðar. Hann hafði ekki gert það í þeim tilgangi að taka fram trúarskoðanir safnaðarins, heldur til þess að söfnuðurinn kæmist út úr kirkjufélaginu. Minnihlutinn leggur þá kæruskjal fyrir kirkjuþing 17. til 22. júní, og var það dagsett 10. júní. Þessi kæra var samin eftir að söfnuðurinn hafði sagt sig úr kirkjufélaginu og eftir að yfirlýsingin var gerð, sem trúvillukæran er bygð á. En í kæruskjali sínu til kirkjuþings kvartar minnihlutinn einungis um það, sem bar við fyrir 22. maí 1910, þegar klofningurinn varð, nefnilega það, að prestinum var sagt upp. Á kirkjuþinginu var fimm manna nefnd sett af séra Birni Jónssyni, forseta; samkvæmt áliti þeirrar nefndar, sem kirkjuþingið samþykti, tók það sér dómsvald í málinu og ályktaði að minni hlutinn sé hinn rétti söfnuður. Þetta var gert án þess að sakborningar hefðu komið þar nærri eða fengið að bera hönd fyrir höfuð sér. Í ágústmánuði 1910 löggilti meiri hlutinn sig sem Hinn lút. Þingvalla-söfnuð, og síðan var kirkjueignin látin ganga með eignarbréfi úr höndum safnaðarfulltrúanna í hendur hinu löggilta safnaðarfélagi, er síðan hefir verið réttur eigandi. Á þessu kirkjuþingi 1910 var ný yfirlýsing samþykt, eftir tillögum fimm-manna nefndar, er þeir voru báðir í, séra Kristinn og Brandur læknir Brandsson, er verið hafði forseti trúvillu-nefndarinnar, er kvað upp dóminn yfir Þingvalla-söfnuði. Þar var það tekið fram, að allar tilraunir til að burtrýma misskilningi og rangfærslum í sambandi við deilumál það, er orðið hefði til klofnings í kirkjufélaginu, væri æskilegar. Einkum væri áríðandi að taka það fram, að kirkjufélagið hafi engan ímugust á vísindalegum rannsóknum, heldur einmitt

*) Abstract 74, 218. Framb. pr. bls. 284.

gagnstætt. Það sé líka ákveðinn skilningur kirkjufélagsins, að enginn hafi verið gerður úr því rækur á síðasta kirkjuþingi. En aðal-atriðið var þetta: „Kirkjuþingið lýsir yfir hrygð sinni út af því, að einn af prestum kirkjufélagsins og nokkurir af söfnuðum þess skuli hafa sagt skilið við kirkjufélagið, út af samþyktum þeim, sem gerðar voru á kirkjuþinginu 1909. Þær samþyktir voru ekki gerðar í þeim tilgangi, að neinn prestur eða söfnuður þyrfti að skoða sig rekinn úr kirkjufélaginu, þrátt fyrir þann skoðanamun, sem fram hefir komið viðvíkjandi i n n b l á s t u r s k e n n i n g u n n i, sé hún bygð á grunvelli trúarinnar á yfirnáttúrlega guðlega opinberan. Þetta kirkjuþing býður hlutaðeigendum að ganga í kirkjufélagið aftur til bróðurlegrar samvinnu í framtíðinni, og skorar á þá að taka þessu boði.“ Annars vegar er yfirlýsing Þingvallasafnaðar um að maðurinn megi beita trúarvitund sinni við lestur heilagrar ritningar trúvillusök svo röm, að sjálfsagt er að svifta hann kirkjueign sinni sökum hennar. Hins vegar er hún engin sök og Þingvalla-söfnuði og öllum söfnuðum öðrum, sem úr kirkjufélaginu höfðu gengið, boðið að ganga í það aftur „til bróðurlegrar samvinnu í framtíðinni“, „þrátt fyrir þann skoðanamun, sem fram hefir komið viðvíkjandi innblásturskenningunni“. En sá skrípaleikur, sem hafður var í frammi við Þingvalla-söfnuð og alla hina aðra söfnuði, sem kjark höfðu haft til að standa við sannfæringu sína! Annars vegar ógnanir og kúgunartilraunir. Hins vegar tálboðsginningar!

Stefnan var dagsett 7. október 1910. Stefnendur eða sakaraðiljar eru minnihlutamennirnir, fimm bændur, sem kirkjufélaginu fylgdu að málum. Þeir, sem stefnt var, eða sakborningar, voru fulltrúar Þingvalla-safnaðar: Magnús Benjamínsson, Ólafur Ólafsson, Kristján G. Kristjánsson. Christian Geir og Jónatan H. Gíslason. Safnaðarfundur var haldinn 2. nóvember 1910 á heimili Ólafs Ólafssonar. Lýsti forseti yfir því, að fundur þessi væri til þess kallaður að gera ákvarðanir í sambandi við mál það, sem höfðað hefði verið gegn söfnuðinum. Var það mál þá tekið til umræðu og voru allir, sem töluðu, því fylgjandi, að söfnuðurinn skyldi halda uppi vörn í málinu. Tillaga um það var borin fram af Friðriki Ólafssyni og studd af Kristjáni G. Kristjánssyni; var hún samþykt í

einu hljóði. Var þá önnur tillaga borin upp af Guðmundi Gíslasyni og studd af Páli Ólafssyni, að söfnuðurinn fái lögmennina Hjálmar A. Bergman og Barða G. Skúlason til að taka málið að sér og fela þeim flutning þess fyrir safnaðarins hönd. Fulltrúum safnaðarins var falið að gera við þá alla nauðsynlega samninga þessu viðvíkjandi. Á ársfundi safnaðarins 7. janúar 1911 urðu þessir fulltrúar: Magnús Benjamínsson, Friðrik Ólafsson, Christian Geir, Kristján G. Kristjánsson og Ármann Stefánsson.

Sjaldan hefir meiri staðfesta verið sýnd af íslenzkum bændum en þessum Þingvalla-safnaðarmönnum. Það var ekki árennilegt að leggja út í málaferli gegn heilu kirkjufélagi, sem allir vissu að ekkert mundi láta ógert til þess að verða ekki undir í leiknum. Á allar lundir hafði verið reynt að tala um fyrir þeim og vefja þeim um fingur sér. En allar slíkar tilraunir urðu til einskis. Þeir stóðu eins og klettur og létu hvergi bifast. Og þó var hér um andlegt mál að ræða, er margir myndi ætla að bændur myndi leiða hjá sér og ekki vera fljótir til að leggja mikið í sölurnar fyrir. Þetta gera þeir alt af sjálfsdáðum, án nokkurrar hvatningar utan að.

---

VIII

# KENNINGIN UM INNBLÁSTUR BIBLÍUNNAR

**88. Gamla innblásturs-kenningin fallin.** Flestar fornþjóðir eiga sínar helgu bækur. Öll meiri háttar trúarbrögð styðjast við heilög rit. Biblía kristinna manna er ein af slíkum helgum bókum mannkynsins. Flestar gera þær kröfur til innblásturs eða guðlegs uppruna. Kenningin um guðlegan innblástur heilagra bóka hefir fléttað sterkan þátt inn í sögu mannsandans. Engin heilög bók gerir eins sterka kröfu til innblásturs og Kóraninn, trúarbók Múhamedsmanna. Hún er tekin saman á himni en ekki á jörðu, skráð af englum en ekki mönnum. Sjálf gerir biblía kristinna manna engan veginn þá kröfu, að vera til orðin á himni eða töluð af himnum ofan. Ekkert rit hennar gerir þá kröfu, nema helzt Opinberunarbókin. En það rit hefir eiginlega notið minst álits í kristninni, allra nýja testamentisritanna að minsta kosti. En mennirnir hafa komið fram með þá kenningu í sambandi við biblíuna, til þess að gefa orðum hennar fullkomið gildi. Allir hinir mörgu höfundar biblíunnar eru Gyðingar, nema að eins Lúkas einn. Það voru líka Gyðingar, sem fyrst komu fram með kenninguna um bókstafsinnblástur í sambandi við gamla testamentisritin. En úr heiðingjaheiminum er hún runnin inn til þeirra. Það er svo langt frá, að sú kenning sé kristileg, að hún er beint af heiðinglegum toga spunnin. Sannleikskjarna einhvern getur hún átt alveg eins fyrir því. Kenning þessi var vakin upp aftur af guðfræði 17. aldar. Þóttust guðfræðingarnir, sem þá voru uppi, hafa fundið þar óskeikulan dómstól eða úrskurðarvald í öllum andlegum deilumálum. Með kenningunni um, að ritningunni geti

ekki skjátlast, þóttust mótmælendur finna trú sinni sömu tryggingu og katólskir menn í kenningunni um óskeikula kirkju og óskeikulan páfa. Roma locuta est, causa finita est — Rómaborg hefir talað, málið er útkljáð — sögðu páfatrúarmenn. „Skrifað stendur"*) sögðu mótmælendur. Og „guðs orð varir að eilífu".**) Á þenna hátt hugðust menn að reisa sannindum trúarinnar óbilandi vígi. En virkisveggurinn er hruninn. Hann var mannaverk og öll mannaverk hrynja. Kenningu kirkjunnar um bókstafs-innblástur biblíunnar er farið nákvæmlega á sama hátt og kenningu Ptolemeusar á sviði náttúruvísindanna. Hún hélt því fram, að jörðin væri þungamiðja alheimsins. Kringum hana snerist sólin og allar plánetur. Stjörnurnar á festingu himinsins væru eins og ljósker, til þess mannanna börn þyrftu ekki að sitja í niðamyrkri um nætur. Þessi kenning, sem eitt sinn var hið sannasta, er menn þektu, varð að víkja fyrir kenningu Kóperníks um alheiminn, sem við höfum lifað við síðan á dögum siðbótarinnar. Kenning Ptolemeusar hrundi til þess aldrei að rísa við aftur. Kenningin um bókstafs-innblástur biblíunnar er hruninn og það er öldungis óhætt að fullyrða, að hún rís aldrei upp aftur. „Hún hefir horfið eins og á einni nóttu. Enginn guðfræðingur, sem nokkurt orð hefir á sér, heldur henni nú fram. Hún er ekki lengur kend í skólunum, og jafnvel þeir af meðlimum kirkjunnar, sem halda fast við gamlar trúarskoðanir, eru farnar að slíta sig undan valdi þessarar vanasannfæringar."***) Svo mælir einn hinna íhaldssamari guðfræðinga Þýzkalands fyrir fimm árum, kennari við háskólann í Berlín. Og um þá staðhæfingu, sem oft er gerð af lítiltrúuðum mönnum, að öll trú verði að engu, um leið og hætt sé að halda fram óskeikulleik ritningarorðsins, segir íhaldssamur enskur guðfræðingur nýlátinn, sem oft hefir verið vitnað til af gamalli guðfræði með Íslendingum, að hún sé fyrir hvern þann, er verja vill opinberaða trú, sama sem að fremja sjálfsmorð.†)

---

*) γέγραπται. **) Verbum dei manet in aeternum. ***) Reinhold Seeberg: Offenbarung und Inspiration, 1909, e. útg. Revelation and Inspiration, 1909. †) This on the face of it is a most suicidal position for any defender of revelation to take up. James Orr: Revelation and Inspiration. New-York & London 1910, bls. 198.

Eg ætla hér í örstuttu máli að taka fram helztu ástæðurnar til þess, að þessi kenning um bókstafs-innblástur er úr gildi gengin. Hún hefir orðið að þoka fyrir marg-aukinni þekkingu á biblíunni sjálfri og öllu því, er stutt getur skilning vorn á ritum hennar. En um leið skal eg taka fram, að ekkert af því, sem hrundið hefir innblásturs-kenningunni, haggar gildi biblíunnar sjálfrar hið allra-minsta. Gildi hennar felst í því, að í henni finnum vér Krist og kenningu hans, og í Kristi kemur guð sjálfur til móts við oss sem ástríkur faðir. Eftir því sem vér komum betur auga á Krist í biblíunni og fagnaðarerindi hans og látum oss skiljast, að þar höfum vér hinn sanna grundvöll trúar vorrar, eftir því glatar alt hið annað meira og minna gildi sínu. Vér sannfærumst þá um, að utan um þenna dýrmæta kjarna trúar vorrar hafa hlaðist fánýtar og úreltar umbúðir, sem eru leifar frá eldri þroskastigum trúarinnar, og varpa oft og tíðum skugga á þá opinberan, sem oss er gefin í Kristi. Vér elskum biblíuna eftir því meir, sem vér látum oss betur skiljast, að það er Kristur og erindi hans, sem í trúarlegu tilliti er alt, og lærum að dæma um alt í biblíunni með því að mæla það alt á þann mælikvarða. Vér elskum Krist eftir því meir, sem vér lærum betur að vefja hinar tímabundnu umbúðir biblíunnar utan af frelsaranum og fagnaðarerindi hans. Vér tileinkum oss Krist og lífsverk hans hér á þessari jörð eftir því betur, sem vér vísum greinilegar á bug í ritningunni hinum ófullkomnu leifum af barnatrúar-hugmyndum mannkynsins, sem þar verða svo víða fyrir oss. Vér trúum á þann guð, sem komið hefir til móts við mennina í Kristi. En vér trúum hvorki á bókina né bókstafinn.*) Ekkert af því sem hér er sagt dregur hið minsta úr sanngildi ritningarinnar. Það haggar alls engu, nema kenningunni um bókstafs-innblástur og óskeikulleik. Og það er engin biblíu-kenning, heldur andlaus kenning þekkingarlítilla manna, sem mikið ógagn hefir unnið heiminum.

**89. Ritsafn biblíunnar.** (1.) Saga hins helga ritsafns **(kanon)** biblíunnar hefir orðið kenningunni

---

*) Að öðru leyti vil eg biðja menn að lesa kaflann: Heilög ritning og vér í bók Jóns Helgasonar, prófessors: Grundvöllurinn er Kristur, bls. 44—55, í sambandi við það sem hér er sagt.

um bókstafs-innblástur til falls. „Þegar trúarbrögðin hafa náð ákveðnum þroska, stöndum vér hvarvetna andspænis því markverða fyrirbrigði, að fram kemur safn (kanon) heilagra ritninga.“*) Hvorki gamla testamentið né hið nýja er fram komið sem heild alt í einu, heldur hafa þessar heildir smámyndast á löngum tíma. Menn hafa vinsað úr miklu stærri bókmentum þau ritin, er þeir álitu göfugust. Og ávalt hefir það verið gert af mönnum, sem ekkert sérstakt tilkall hafa átt til að vera innblásnir menn um fram aðra. Sjálfir hafa höfundar ritanna engu um það ráðið og alls enga hugmynd haft um, er þeir rituðu eða töluðu, að orð þeirra yrðu í ókominni tíð álitin óskeikul í öllum efnum. Gamla testamentis-ritunum skiftu Gyðingar í þrjá flokka. Lögmálið (Tora) var álitið elzt. Það eru fimm bækur Móse, fimmbókaritið. Það var fyrst viðtekið sem heilagt ritsafn eftir herleiðingu, árið 444 f. Kr. Þá koma spámennirnir (Nebiim) og er Jósúabók, Dómarabók, Samúelsbækur og Konungabækur taldar þar með. Þessum ritum var fyrst búið að raða í eina heild um 250 f. Kr. og þá fyrst voru þau viðurkend heilög rit. Að síðustu koma hin önnur rit, helgiritin, sem safnað er saman á tímabilinu frá 150 f. Kr. og þangað til 90 e. Kr. Daníels-bók var ekki talin með spámannaritum af þeirri einföldu ástæðu, að hún var ekki færð í letur fyr en um 165 f. Kr. Sumir sálmanna eru taldir enn yngri og það jafnvel margir og nokkurir þeirra eru taldir, eftir áliti einstöku fræðimanna, ekki til orðnir fyr en á fyrstu öld e. Kr. Esterar-bók er enn yngri en Daníel. Þráttað var um fjögur rit alla fyrstu öldina, hvort þau mættu teljast með ritum gamla testamentisins eða ekki. Þessi rit voru: Prédikarinn, Ljóðaljóðin, Esterar-bók og Esekíel. Mönnum veitti næsta torvelt að samríma lagakaflann i síðustu kapítulum bókar Esekíels löggjöf fimmbókaritsins. En fræðimaðurinn Hananía lét sér hepnast að vinna þá þraut með því að brenna hundrað mælum miðnæturolíu. Það þótti bíræfni að lesa bókina hátt í samkundunum. Prédikaranum var andmælt vegna bölsýnisins, vegna ýmissa ummæla ,er þóttu trúvillukend, og vegna margra mótsagna. Á Esterar-bók höfðu menn ímugust, af því hún kann ekki að nefna guð. Og Ljóðaljóð-

*) William Bousset (Göttingen): Das Wesen der Religion, 3. útg. 1906, bls. 122.

unum óaði mönnum við, sökum hins heita og fremur holdlega ástamáls. — Á þingi, sem Palestínu-Gyðingar héldu í Jabne, í grend við Joppe, árið 90 e. Kr., var að síðustu gert út um, hvaða rit mætti taka upp í þann flokk og hver ekki. Þá var safninu lokað, að því er gamla testamentið snertir.

Hverir voru nú mestu um það ráðandi, hverjar bækur teknar voru inn í ritsafn gamla testamentisins? Farísear og fræðimenn, einmitt sá flokkur þjóðarinnar, sem Jesús háði alla baráttu sína við, hafnaði honum og kenningu hans og krossfesti hann. Er það nú ekki fremur ástæðulítið að ætla, að þeir hafi verið innblásnir menn í nokkurum sérstökum skilningi? Var eigi öldin þeirra hin mesta andleysis og — trúleysisöld? Er það af oss kristnum mönnum heimtandi, að vér álítum ályktanir þessara manna óskeikular? Frá sjónarmiði nútíðarmanna, ekki síður en Lúters, á fyrsta Makkabea-bók margfalt betur skilið að teljast með ritum gamla testamentisins en Esterar-bók, og Jesú Síraks-bók fremur en Prédikarinn. Takmörkin voru ekki greinileg á postulatímanum jafnvel. Það sést bezt á því, að Júdasarbréf og 1. Pétursbréf vitna í Enoks-bók og bera fyrir sig spádóm eftir þann forföður sjálfan. Enoksbók var eins konar gyðingleg opinberunarbók og að sumu leyti merkileg, þó næsta fáránleg sé. Júdas vitnar í annað apokryfiskt rit: Himnaför Móse. Jafnvel Páll postuli vitnar í Opinberunarbók Elíasar (1. Kor. 2,9).

Hið sama er að segja um nýja testamentið. Rit þess eru tækifærisrit. Bréfin eru ritin í ákveðnum tilgangi, sem bundinn er við ákveðinn stað og sérstakar ástæður. Elzta guðspjallið, Markúsar-guðspjall, er samkvæmt gamalli erfisögn ágrip af ræðum, er Pétur flutti í Rómaborg. Lúkas reit guðspjall sitt til þess að lærisveinn af göfugum ættum, sem hann var að fræða um kristindóminn og búa til skírnar, betur gæti fest í minni munnlega kenningu hans. Á þenna hátt urðu hin þrjú samstofna guðspjöll til. Síðar bættust Jóhannesarritin við. Það væri ekki sögunni samkvæmt, að tala um nokkurt nýja testamenti um lok 1. né um byrjan 2. aldar. Allan þann tíma voru kristnir menn nýja testamentislausir. Jafnvel síðast á 2. öld hefir ritsafn nýja testamentisins ekki fengið neina endilega mynd. Í mörgum biblíum þeirra daga var Hebrea-bréfið hvergi að finna, né heldur Jakobs-bréf, né 2. Péturs-bréf. Á hinn bóginn

voru þar ýms önnur fornrit, eins og t. d. fyrsta Klemensarbréf, Barnabasarbréf, Hirðir Hermasar og Kenning hinna tólf postula. Katólsk kirkja viðurkennir ýmsar aðrar uppsprettur trúarþekkingarinnar en heilaga ritningu; hún bindur sig alls ekki við biblíuna eingöngu. Hún viðurkendi snemma sýnir heilagrar Birgittu og fleira þess konar. Og nú eiga kappsamlegar ágreinings-umræður sér stað í katólskri kirkju um það, að hve miklu leyti unt sé að telja sýnir Katrínar frá Emmerich trúanlegar og telja þær eins konar viðbæti við frásögn guðspjallanna um æfi Jesú og Maríu meyjar. Það var baráttan við Gnóstíka, sem þrýsti kristnum mönnum til að lýsa nýja testamentisritin hinar einu og sönnu heilögu ritningar. En það var ekki fyrr en á 4. eða 5. öld, að sú aðgreining var nokkurn veginn til lykta leidd. Rómverska kirkjan katólska áleit það mál ekki útkljáð á 16. öld, en tók það fyrir á kirkjuþinginu í Trident (1546). Það hrópaði anathema sit — bölvaður sé — yfir hverjum þeim, sem ekki vill játa allar bækur, sem í Vulgata standa, hinni latnesku biblíuþýðingu. En þar eru apokryfisku bækurnar svo nefndu allar, og var helgi þeirra um leið gerð jafn-mikil og annara bóka gamla testamentisins. Kristnum mönnum kemur því ekki saman um enn þann dag í dag, hvað sé heilög ritning og hvað ekki. Elzti listinn yfir biblíuritin, Muratori-brotið svo kallaða, sem menn ætla að sé frá því um 200 e. Kr., telur upp tvö bréf, er ranglega voru eignuð Páli, Laódíkeu-bréf og Alexandríubréf, og höfundurinn telur tvær Opinberunarbækur: „Af Opinberunarbókum viðurkennum við að eins Jóhannesar og Péturs, sem nokkurir af vorum mönnum vilja ekki láta lesa í kirkjunni.“*) Í lúterskum löndum eru apokrýfisku bækurnar vanalega í hverri biblíu, þó Brezka og erlenda biblíufélagið neiti þeim um þann heiður í útgáfum sínum. Þegar um biblíuna er hugsað frá sjónarmiði þess, hvernig ritsafnið er til orðið, kemst innblásturs-hugmyndin í nokkurum sérstökum skilningi alls ekki að. Það er álit kirkjunnar sem sker úr um,

---

*) Apocalypse etiam Johanis et Petri tantum recipimus quam quidam ex nostris legi in ecclesia nolunt. En ekki eru menn ásáttir um merkingu þessara orða og álíta að eitthvað hafi fallið burtu. Sbr. Theodor Zahn: Kanon Muratori Realencyclop. f. protestantische Theologie und Kirche, IX (1910) bls. 796—806.

hver rit eiga heima í biblíunni og hver ekki. Og það álit hefir oft verið nokkuð af handahófi, því verður ekki neitað. Enda hefir verið út um þetta gert á tímum, er andagáfurnar hafa verið í þagnargildi í kirkjunni, og leiðtogarnir oft og einatt verið að vinna kristninni hið mesta mein. Spurningunni um, hvort nokkurt helgirita-safn sé eiginlega til, svarar einn helzti trúfræðingur vorra tíma á þessa leið: „Í rauninni mæla þessi rit (biblíu-ritin) með sér sem áhrifamest í trúarlegu tilliti, eins og þau rit, sem mest ‚halda Kristi fram' og þau, sem sterkustu lífsvakningarnar hafa runnið frá, bæði í lífi einstaklinganna og í sögu kirkjunnar."*) „Enginn postuli, ekki einu sinni öldungurinn Jóhannes, kvað á um helgirita-safnið. Ekkert ákveðið helgiritasafn var til, er katólsk kirkja komst á fastan fót skömmu eftir miðja aðra öld. Ekkert ákveðið helgiritasafn leiðbeindi ritningalestri hinna 318 feðra, sem voru á kirkjuþinginu í Níkea."**)

**90. Textarannsóknin.** (ii.) Saga bibliutextans sýnir með óyggjandi rökum, að kenningin um bókstafs-innblástur er blátt áfram óvit. — Ef textinn hefði haldist óbrjálaður frá því hin helgu rit fyrst voru færð í letur, væri það í raun og veru stærra og yfirnáttúrlegra kraftaverk en flest önnur, sem biblían kann frá að segja. Enda vita nú allir, sem vita vilja, að harla langt er frá að svo sé. Elztu handrit nýja testamentisins sýna, að þar er orðamunur á mörg-þúsund stöðum. Svo langt er frá því, að handritunum beri saman. Þar eru innskot, sem auðsætt er að bætt hefir verið inn í textann, til þess að styðja einhverja eftirlætiskenningu og nú hafa verið algerlega numin burtu. „Á tveim fyrstu öldunum urðu nálega allir hinir ólíku leshættir nýja testamentisins til og var meiri hluti þeirra breytingar á textanum, sem gerðar voru af ásettu ráði, margar til að bæta málið og allmargar til að hlynna að einhverri eftirlætis trúarkenningu (1. Tím 3,16; Hebr. 2,9; Jóh. 1,18)"**) Í 17. kap. Matteusarguðspjalls leita menn nú árangurslaust að 21. versi

*) Theodor Häring: Der christliche Glaube (Dogmatik) 1906, e. útg. 1913, I, 288—289. **) Caspar René Gregory: Canon and Text of the New Testament (Internat. Theol. Library), 1907, bls. 292. ***) Ernst von Dobschütz, Strassburg, Religion & Ethics, II, 593.

í síðustu útgáfunni. Það hefir blátt áfram verið felt úr. Þar stóð í eldri þýðingunni: „En þetta djöflakyn verður ekki út rekið nema með bæn og föstu.“ Því hefir einhver afritari bætt inn í beint eftir Mark. 9,29. Sömuleiðis vantar 11. versið í 18 kap. „Því að til þess kom mannsins son, að hann frelsaði það, sem tapað var“, sem bætt hefir verið inn í textann eftir Lúkasi (19,10). Hjá Markúsi er 16. vers í 7. kap. felt úr og sömuleiðis 44. og 45. vers í 9. kapítula. Í 15. kap. sama guðspjalls er 28. versið felt úr: „Rættist svo það, er ritningin segir: með illvirkjum er hann talinn.“ Tala hinna fyrstu lærisveina er 70 eftir einum leshætti, 72 eftir öðrum (Lúk. 10,1). Sú tala er eflaust miðuð við hugmynd Gyðinga um tölu heiðingjaþjóðanna, sem þeir ýmist álitu að væri 70 eða 72 talsins. Samkvæmt eldri biblíuþýðingunni prédikar Jesús eftir freistinguna í samkunduhúsunum í Galíleu. Samkvæmt nýju þýðingunni prédikaði hann í samkundunum í Júdea (4,44); þar eru tveir leshættir hvor gegn öðrum. Hjá L ú k a s i stendur eftir einum leshætti, að röddin af himni hafi sagt, er hann var skírður: „Þú ert minn elskaði sonur, í dag gat eg þig;“ eftir öðrum „á þér hefi eg velþóknan“ (3,22). Og er fyrri leshátturinn að líkindum réttari; honum er fylgt í nýjustu og beztu biblíuþýðingum þýzkum, þó hinum hafi verið fylgt í meginmáli nýju þýðingarinnar íslenzku.

Eftir einum leshætti kemur Jósef til Betlehem með Maríu „heitkonu sinni“, eftir öðrum stendur, að hann hafi komið með „Maríu eiginkonu sinni“ (Lúk. 2,5). Og er síðari leshátturinn tekinn upp í síðustu þýzkar þýðingar og álitinn frumlegastur af þremur ólíkum, sem þarna er um að velja. Skilja allir, hve mikla þýðingu þetta hefir fyrir kenninguna um meyjarsonernið. Samkvæmt hinum eldri biblíuþýðingum vorum spurðu lærisveinarnir: „Viltu, Herra, að vér bjóðum eldi að falla af himni og tortíma þeim, eins og Elías gjörði?“ (9,55). Í nýju þýðingunni eru orðin: e i n s o g E l í a s g j ö r ð i feld burt, eftir betur studdum leshætti. Og í svari frelsarans eru þessi orð feld burtu í nýju þýðingunni: „Þér vitið eigi, hvers anda þér eruð. Því mannsins sonur er ekki kominn til að tortíma lífi manna, heldur til að frelsa það (9,56). Samkvæmt sumum elztu handritum vantar í innsetningarorð kveldmáltíðarinnar: s e m f y r i r y ð u r e r g e f i n n ....

fyrir yður úthelt (22,19, 20). Eftir þeim leshættinum, sem mörgum þykir nú líklegastur, hafa innsetningarorð kvöldmáltíðarinnar hjá Lúkasi upphaflega að eins verið svo: „Og hann tók brauðið, gjörði þakkir, braut það og gaf þeim og sagði: Þetta er líkami minn." Svo hafa þýzku nýja testamentisþýðingarnar það nú, þær síðustu og vönduðustu. Öllu hinu er slept: „Sem fyrir yður er gefinn; gjörið það í mína minningu. Og á sama hátt tók hann eftir kvöldmáltíðina bikarinn og mælti: Þessi bikar er hinn nýi sáttmáli í mínu blóði, sem fyrir yður er úthelt", af þeirri ástæðu, að sum elztu handritin hafa þau orð alls ekki. Í sambandi við þetta má taka fram, að langflest gömul og góð handrit Markúsar-guðspjalls enda á orðunum: „því að þær voru hræddar" (Mark.16,8). Allan síðara helming 16. kapítulans vantar í beztu handritin, og hann er greindur frá meginmáli guðspjallsins í síðustu biblíuþýðing vorri með bili, til þess að sýna þetta. Þessi kafli allur (v. 9 20) er yngri og bætt við guðspallið á 2. öld, af því það þótti nokkuð endaslept. Til er annað niðurlag guðspjallsins, miklu styttra, sem menn ætla að sé frá 4. öld. Og jafnvel 3. niðurlagið þykjast menn hafa fundið. Þegar þess er gætt, að hér er um elzta guðspjallið að ræða og að í þessum kafla eru orðin: „Farið út um allan heiminn og prédikið gleðiboðskapinn allri skepnu. Sá, sem trúir og verður skírður, mun hólpinn verða, en sá, sem ekki trúir, mun fyrirdæmdur verða," skilst öllum hve mikilvægt atriði það er, að þetta niðurlag Markúsarguðspjalls er síðari tilbúningur, jafn-mikið og á því hefir verið bygt. Ef til vill verður þessu niðurlagi alveg slept í útgáfum nýja testamentisins eftir vora daga. — Í frásögn Lúkasar um grasgarðspínu frelsarans vantar þessi orð í beztu handritin: „Þá birtist honum engill af himni, sem styrkti hann. Og er hann var í dauðans angist, baðst hann enn ákafar fyrir; en sveiti hans varð eins og blóðdropar, er féllu á jörðina" (Lúk. 22,43. 44). Um Pílatus sögðu eldri biblíuþýðingarnar: „En hann varð að gefa þeim einn bandingja lausan á hverri hátíð" (23,17), en létu þessa grein standa í svigum; nú er henni algerlega slept, af því hún er óekta innskot. Meira er um það vert, að orðin: „En Jesús sagði: Faðir, fyrirgef þeim, því að þeir vita ekki hvað þeir gjöra" (23,34) vanta í sum elztu handritin hjá Lúkasi. Eftir áreiðanlegasta leshætti segir ræn-

inginn ekki við Jesú: „Minst þú mín, þegar þú kemur í ríki þitt", eins og stóð í eldri þýðingunni, heldur „þegar þú kemur í konungsdýrð þinni" (23,43), eins og nýja þýðingin sýnir. Í frásögn Lúkasar um upprisuna vantar málsgreinina: „Hann er ekki hér, en hann er upprisinn" (24,6) í sum elztu handritin. Síðar í sama kapítulanum vantar: „Og er hann hafði þetta mælt, sýndi hann þeim hendur sínar og fætur" (24,40) í sum beztu handritin. Sömuleiðis þessi orð: „En Pétur stóð upp og hljóp til grafarinnar, og er hann gægðist inn, sá hann líkblæjurnar einar; og hann fór heim og undraðist það, sem við hafði borið"(24,12). Getur öllum skilist, hve mikilvægt þetta er í sambandi við kenninguna um hina „opnu gröf". Versið er felt úr nýjustu þýzkum þýðingum. Í frásögn Lúkasar um himnaförina eða uppstigninguna vanta orðin: „og varð uppnuminn til himins" í sum elztu handritin. En það er einmitt þau orðin, sem kenningin stendur eða fellur með (Lúk. 24,51). Og rétt á eftir orðin: „tilbáðu hann", sem vitaskuld hafa mikilvæga merkingu (24,52). Mönnum ætti að geta skilist af þessu, að margar eru misfellur á texta Lúkasar-guðspjalls. Texti J ó h a n n e s a r-guðspjalls er betur varðveittur. Þó kannast allir við, að sagan um hórkonuna á ekki heima í guðspjalli þessu, enda er hún nú látin standa milli sviga, til þess að öllum skuli það augljóst (Jóh. 7,53-8,11). Í málsgreininni: „Og þó hefir enginn stigið upp til himins, nema sá sem niður sté af himni, mannssonurinn, sem er á himni" sleppa sum elztu handrit síðustu orðunum: „sem er á himni" (3,3). Í eldri þýðingunni stóð: „Sá, sem þveginn er, þarf ekki að þvost nema á fótum" (13,10). En í nýju þýðingunni, sem þar fylgir ábyggilegasta leshætti,, stendur að eins: „Sá, sem laugast hefir, þarf ekki að þvost." Orðunum „nema á fótum" alveg slept, af því þau standa að eins í sumum handritum. — Síðasti kapítuli Jóhannesar-guðspjalls er greinilegur viðbætir, sem gerður hefir verið af öðrum höfundi nokkuru síðar. 24. versið í kapítulanum talar um eftirlætis-lærisveininn sem höfund guðspjallsins. En næsta vers á undan ber einmitt vott um að hann er dáinn. „Höfundurinn getur ekki hafa borið vott um eigin dauða sinn."*) Í síðustu biblíuþýðing vorri standa þessi orð 4. guð-

*) W. Heitmüller: Das Johannes-Evangelium. Die Schriften des Neuen Testaments 1908, II, 856.

spjallsins milli sviga: „Sem biðu vatnsins hræringar. Því engill drottins sté við og við niður í laugina og hrærði vatnið. Sá, sem þá fyrst fór ofan í, varð heill heilsu, hvaða veiki, sem að honum gekk“ (Jóh. 5,4-5). Í flestum nýjum þýðingum eru þau alveg feld úr, því þau standa ekki í beztu handritunum og eru bersýnilegt innskot. Einhverjum, sem afritað hefir guðspjallið, hefir fundist ómissandi að bæta þessu engils-undri alþýðutrúarinnar inn í textann.*) — Jóhannesar-guðspjall og bréfin þrjú, sem bera nafn hans, eru látin standa síðast allra bóka nýja testamentisins í sumum þýzkum útgáfum, á eftir Opinberunarbókinni, eins og nokkurs konar seinni viðbæti við nýja testamentið. Í Postulasöguna lætur nýja þýðingin þessi orð vanta í meginmálið, samkvæmt beztu útgáfum textans: „En Filippus sagði: Ef þú trúir af öllu hjarta, er það heimilt. En hann svaraði og sagði: Eg trúi að Jesús Kristur sé guðs-sonurinn“ (Psts. 8,37). Í 24. kap. sömu bókar vantar part af 6. versi, 7. versið og framan af 8. versinu, þessi orð: „og vildum hafa dæmt hann eftir lögmáli voru, en Lýsías hersveitarforingi kom þá að og þreif hann með miklu ofríki úr höndum vorum og skipaði ákærendum hans að fara til þín.“ Svo er að síðustu staðurinn í 1. bréfi Jóhannesar, þar sem slæðst hafa inn úr latnesku þýðingunni, Vulgata, orðin þessi: „Í himninum: faðirinn, orðið og heilagur andi og þessir þrír eru eitt. Og þeir eru þrír, sem vitna á jörðunni“ (1. Jóh. 5,8). Einhver hefir viljað styðja þrenningar-lærdóminn betur með þessu innskoti; hann hefir haft hugboð um, að sú kenning hefði fremur lítinn stuðning í nýja testamentinu. — Auk þessara lengri kafla er orðamunur á mörg-þúsund stöðum í handritunum. Þeir, sem fást við að skapa sem fullkomnastan texta, verða stöðugt að vera að velja og hafna, eftir því sem þekkingin bendir þeim. Ósjaldan er því haldið fram, að orðamunur og innskot sé svo óverulegt, að naumast sé þess virði að fá sér til tals. En dæmin, sem tilfærð hafa verið hér að framan, sýna, að það snertir hinar allra-viðkvæmustu kenningar, sem álitnar hafa verið sáluhjálparatriði, eins og kenningin um meyjarsonernið, kenningin um sakramentin, kenningin um eilífa útskúfan. Samt sem áður er óhætt að segja, að

*) Sbr. Breiðablik VIII, 1—2 h.: Nútímaguðfræðin og hreinskilni í trúarefnum.

alt þetta haggar alls ekki að neinu leyti gildi nýja testamentisins. En kenningunni um bókstafs-innblástur hrindir það algerlega, svo engum, sem þekkir texta-rannsóknina að nokkuru, getur til hugar komið að halda henni fram. Að halda dauðahaldi við hana, ber vott um stakasta þekkingarleysi á ásigkomulagi textans.

91. **Gamla testamentis-textinn.** Hafi forsjóninni ekki þóknast að vernda texta nýja testamentisins frá að brjálast á ýmsa lund, jafn-miklu máli og þar er að skifta, er næsta ólíklegt að ætla, að svo hafi fremur verið með gamla testamentið. Því halda þó sumir fram, vegna þess að gamla testamentis-handritunum ber miklu betur safan. Er þá mikil áherzla á það lögð, hve ant fræðimenn Gyðinga létu sér um textann, og hvílíka nákvæmni þeir við höfðu til þess að varðveita hann sem bezt. Hún var svo mikil, að hún var bæði barnaleg og brosleg. „Það vill stundum til að hesthúsdyrunum er lokað með sterkum lási eftir að hestinum hefir verið stolið."*) Það var einmitt þess konar varkárni, sem fræðimennirnir við höfðu. Textinn hafði brjálast stórkostlega, áður en þeir fóru að við hafa svona mikla gætni í meðferð hans, sem ekki var fyr en á dögum Massóretanna svo nefndu, er unnu sín miklu störf að varðveizlu textans frá því á 5. og þangað til á 9. öld. Elztu handrit, sem til eru af nýja testamentinu, eru frá aldamótum 4. og 5. aldar e. Kr. En elztu handrit, sem til eru af gamla testamentinu, eru miklu yngri. Spámannakódexinn í Pétursborg er frá 916 e. Kr. Og elzta handrit af allri bibliunni á sömuleiðis heima í Pétursborg og er frá 1006 e. Kr. Drög til hebreska textans má rekja til annarar aldar e. Kr. Hvílíkur óratími þá er liðinn frá því að þetta orð fyrst varð til. Spámaðurinn Amos flutti sitt erindi um miðja 8. öld f. Kr. Það er ekki minna en 1666 árum áður elzta handritið varð til, sem vér nú eigum. Hve miklum stakkaskiftum textinn getur hafa tekið allan þann tíma. Hugsum um örlög Gyðingalýðs allar þessar aldir: Fall Norðurríkisins kring um 720 f. Kr. Fall Suðurríkisins og Jerúsalem-borgar, og herleiðingin til Babý-

---

*) Arthur S. Peake, professor við háskólann í Manshester: The Bible, its Origin, its significance, and its Abiding Worth, London 1913 bls. 80.

lon í byrjan 6. aldar f. Kr. Ofsóknirnar hræðilegu á Makkabeaöldinni, þegar leitast var einmitt við af öllum mætti að eyða hinum helgu ritum þjóðarinnar. Önnur eyðing Jerúsalemborgar. Sextíu-ára uppreistin, sem kend er við Bar-Kochba. Og allar þær hörmungar, sem yfir þjóðina dundu í kristnum sið og bókmenta-fjársjóðu hennar, er skoðaðir voru fjöregg hennar, og þess vegna leitað að með mestu áfergju. Urðu þá úrræðin fyrir Gyðingum þau, að þeir földu — fálu í jörðu og ætluðu sér að finna, er ofsókninni linti, en glötuðu svo algerlega. Á þann hátt hefir margt fémætt farist, sem fólgið hefir verið í jörðu á stríðstímum. Á þann hátt ætla menn að urmull handrita af gamla testamentinu hafi glatast og að handritunum, sem vér nú eigum, beri svo vel saman, af því að þau séu öll eftirrit af einu eða tveimur, sem varðveizt hafi. Fyrr á tímum þykjast menn þess fullvísir, að leshættir handritanna hafi verið mjög ólíkir. Það sýnir meðal annars fimmbókarit (Mósebækur) Samverja, sem til er. Samanburður sýnir þar eigi færri en 6000 ólíka leshætti; eru sumir þeirra bersýnilega réttari. Þá er líka Sjötíumanna-þýðingin gríska; hún sýnir þetta enn betur. Menn vita fullri vissu, að textanum hefir oft verið breytt eftir geðþótta fræðimannanna. Með Gyðingum sjálfum hefir sú sögn gengið í arf, að hinir eldri fræðimenn hafi af ásettu ráði breytt átján stöðum í gamla testamentinu, þar sem þeim fanst lotningunni fyrir guðdómnum misboðið, eða orðin misskilningi undirorpin. Mannanöfnum var breytt, er þau létu seinni tíðar mönnum illa í eyrum, eins og Esbaal og Meribaal (1. Kron. 8,33,34). Esbaal merkir: Baals maður, og Meribaal, sem var sonur Jónatans: Baals hetja. Í öllum þeim nöfnum, sem dregin eru af Baal, er átt við Jahve, guð Ísraelsmanna, en ekki Baal Kanaaníta. En seinni tíðar menn skildu það ekki og hneyksluðust á því. Þeir breyttu því Esbaal í Ísbóset, smánar maður (2. Sam. 2,8) og Meribaal í Mefibóset, smánar auki(?) (9,6). Þegar jafnvel nöfnum á sonum frægra manna, eins og Sáls og Jónatans, var breytt af ásettu ráði, fer menn að gruna, að fleiru kunni að hafa verið breytt. Þegar vér berum saman Samúelsbækur, Konungabækur og Kronikubækur, — eða samstæða kafla (2. Kon. 18,13—20, 19 og Jesaja 36—39; 2. Sam. 22 og Sálm. 18; Sálm. 14 og 53), þar sem langt mál hefir verið tekið orðrétt

eftir eldra riti og fléttað inn í annað yngra, verðum vér varir við mismun svo mikinn, að hann getur ekki verið af öðru sprottinn en því, að textinn hafi brjálast. Textinn, sem Sjötíumanna-þýðingin, Septuaginta, var gerð eftir, hefir verið mörgum öldum eldri en sá texti, sem Massóretarnir*) studdust við. Sjötíumanna-þýðingin (LXX) virðist hafa verið fullger fyrir Krists burð. Hún er mjög ólík hebreska textanum, sem vér nú eigum, að mörgu leyti. Ósjaldan er auðsætt, að hún er réttari, en líklega er það samt oftar, að hún reynist ónákvæmari og lengra frá hinu rétta. Þetta verður stór-merkilegt atriði, þegar þess er gætt, að margir af höfundum nýja testamentisins vitna í gamla testamentið eftir Sjötíumanna-þýðingunni, en ekki eftir hebreska textanum. Tilvitnanir í gamla testamentið, sem fyrir koma í ritum nýja testamentisins, hafa mönnum talist 275. Þeir, sem þetta hafa athugað, segja, að „53 af þeim sé þannig, að hebreska gamla testamentinu, Sjötíumanna-þýðingunni (LXX) og nýja testamentinu ber saman. Í tíu stöðum hefir LXX verið leiðrétt og sett í samræmi við hebreska textann, 37 sinnum tekur nýja testamentið upp ranga þýðingu úr LXX, án þess að leiðrétta. Í 76 stöðum hefir rétt þýðing í LXX verið afbökuð, svo að hún kemur ekki heim við frumtextann, og loks er 99 tilvitnanir, sem komu hvorki heim við LXX né hebreska textann.“**) Þetta eitt út af fyrir sig er nóg til þess að fella kenninguna um bókstafs-innblástur algerlega. Það sýnir berlega, að nýja testamentis-höfundarnir hafa álitið nóg að gefa efnið, en alls eigi verið bundnir við bókstafinn. Til dæmis um þessa ónákvæmni í tilvitnunum má nefna staðinn hjá Matteusi (2,6): „Og þú Betlehem, land Júda, ert engan veginn hin minsta meðal höfðingja Júda; því frá þér mun koma höfðingi, sem vera skal hirðir lýðs míns, Ísraels“. Orð þessi eru tekin úr spádómsbók Míka (5,1), en vikið við á ýmsan hátt. Matteus fer eftir Sjötíumanna-þýðingunni; en þar sem hann hefir *land Júda*, stendur þar *hús Efrata*. Þar sem Matteus talar um *höfðingja*, stendur þar *þúsund*, — munur, sem hljóðstafatáknin hebresku valda. Ennfremur stend-

---

*) Fræðimennirnir, sem meðal annars settu hljóðstafatáknin. Orðið merkir: meistari erfikenninganna. **) Séra *Magnús Jónsson*: Biblían óskeikul og innblásin. Breiðabl. VIII, 29. Styðst hann við Toy's Quotations, sem er ágæt heimild.

ur í hebreska textanum: Þá mun hann standa og halda þeim til haga í krafti Jahve. En Sjötíumanna-þýðingin hefir ranglesið, og þar stendur: Hann mun standa og sjá og drottinn mun halda hjörð sinni til haga í krafti. Í stað þess nú að koma með þetta, vitnar Matteus í aðra ritningargrein, sem hvorki stendur í bók Míka, né í nokkuru spámannariti, heldur í 2. Samúelsbók (5,2) og á þar við Davíð konung: Þú skalt vera hirðir þjóðar minnar Ísraels (sbr. 1. Kron. 11,2). „Munurinn milli hebreska textans, Sjötíumanna-þýðingarinnar og guðspjallsins á þessum stað, er nægilegur til að gera að engu allar kenningar um bókstafs-innblástur.“*) Oft verðum vér þess varir, að vér höfum hið upprunalega orðalag hvorki fyrir oss í hebreska textanum, né heldur í nokkurri þýðing. Orð, sem í margar aldir hafa verið álitin eftir spámenn, sagnaritara eða sálmaskáld, guðlega innblásin og með öllu óskeikul, geta þannig oft verið rangfærslur einhvers afritara.‘ Þetta er vitaskuld ekki í svo stórum stíl, að það raski tilfinnanlega gildi bibliunnar, en það skilur ekki eftir heila brú í kenningunni um óskeikula biblíu. „Þegar guð skapar hnot, lætur hann ekki hnotarskelina vera aðalatriðið, heldur kjarnann.“**)

**92. Eiginhandarritin (autographa).** Sú trú er næsta aum og veigalítil, sem ekki þolir að heyra sannleikann, né þorir að afla sér þekkingar á honum, eða lendir í dauðans angist, þegar einhver rangfærsla í textanum verður uppvís; þá er oft gripið til þess óyndisúrræðis að segja: ‚Þó sá texti, sem vér eigum, bæði af gamla testamentinu og hinu nýja, kunni að vera gallaður og ekki sem nákvæmast að segja um hann, að hann sé óskeikull, má það þó með sanni segja um frumhandritin.‘ Með frumhandritum hlýtur að vera átt við eiginhandarrit höfundanna, ef menn á annað borð vita, hvað þeir eru að segja. Því elztu handritin, sem vér eigum, eru ekkert nálægt því að vera frumhandrit. En þessi eiginhandarrit hefir enginn nútíðar maður augum litið. Þau eru glötuð fyrir mörgum tugum alda.

---

*) The variations between the Hebrew, the Septuagint and the Gospel in this passage are sufficient to disperse all theories of literal inspiration. Prófessor W. F. Slater: St. Matthew. Century Bible. **) Gregory: Canon and Text of the Testament, bls. 294.

Elztu drög til bókmenta Ísraels eins og t. d. Debóru-ljóð álíta menn að kunni að vera frá 1200 til 1000 fyrir Krist. Jahvista-ritið frá 850 f. Kr., Elóhista-ritið frá 750 f. Kr. Spámannarit þeirra Amos og Hósea frá 750 f. Kr. Jesaja frá 740 til 700 o. s. frv. Esterar-bók, sem yngst er talin af ritum gamla testamentisins frá 150 f. Kr. Og sumt af Sálmunum enn yngra. Samkvæmt þessu eru svo sem 2000 ár milli þess, sem elzt er í gamla testamentinu og elzta handritsins, sem vér eigum; og 1100 ár milli þess, sem yngst er. Það kemur oss að litlu haldi að segja,: ‚Eiginhandarritin voru þó vissulega óskeikul'. Enginn veit, hvernig þau hafa litið út. Vér vissum margt, sem vér vitum ekki nú, ef vér hefðum þau fyrir oss. En fyrir þúsundum ára eru þau gengin veg allrar veraldar. — Til þessa óyndisúrræðis greip forseti kirkjufélagsins vestur-íslenzka, séra Björn B. Jónsson, þegar hann lét þessi ummæli fyrir rétti fara sér um munn: „Þegar eg tala um guðs orð eins og það er opinberað í kánóniskum bókum, er vitaskuld átt við frumhandritin og þýðingar, sem gerðar hafa verið eftir þeim."*) Sá hefir nú mest af frumhandritum að segja! Að grípa til þeirrar staðhæfingar, er eins og þegar druknandi maður hygst að bjarga sér með því að grípa um hálmstrá. Kenningunni um óskeikula biblíu bjargar ekkert milli himins og jarðar. Samkvæmt þessum og þvílíkum staðhæfingum eigum vér einmitt ekkert guðsorð, enga innblásna og því síður óskeikula biblíu. Tilganginum með óskeikult eiginhandarrit hefði ekki getað orðið náð, nema með því að varðveita það óskeikult til daganna enda. Og jafnvel það var ekki nóg. Honum hefði ekki verið unt að ná, nema með óskeikulum biblíuþýðingum og óskeikulum biblíuskýringum. En ekkert af þessu hefir forsjóninni þóknast nokkuru sinni að gefa mönnum. „Í hve litlu samræmi við trúna og hve vesöl krafan verður um, að guð hljóti að hafa gefið oss heilaga ritningu, óskeikula í hverju smáatriði! Kristindómi einstaklingsins, með tilliti til guðlegrar forsjónar, verður þetta „hlýtur" ekkert annað en vantrú. Og ekki er það á annan veg með kirkjuna."**) Alt hér á þessari jörð er skeikult og fallvalt. Það er alt háð „Forvandlingens lov", til þess að tala með Henrik Ibsen.

*) Framb. pr. bls. 302. **) Theodor Häring: Der christliche Glaube, e. útg. I, 302.

93. **Einstök rit.** (iij.) Biblíurannsóknirnar hafa sannað, að saga hinna einstöku rita biblíunnar mótmælir því eindregið, að bókstafsinnblástur geti átt sér stað. Hér að framan í kaflanum um sögu biblíurannsóknanna er í rauninni alt tekið fram, sem þarf þessari staðhæfingu til stuðnings. Það er eigi eins og álitið hefir verið, að rit biblíunnar hafi öll verið færð í letur í einu af þeim höfundum, sem þau eru eignuð. Fæstar af bókum biblíunnar eru eftir þá höfunda, sem þær hafa verið taldar eftir, en flestar eftir öldungis ókunna höfunda, sem enginn kann nein deili á. Biblíuritin bera þetta með sér sjálf. Flest eru þau margskeytt saman af ýmsum höfundum og á ýmsum tímum .Nú vitum vér, að Móse er ekki höfundur Móse-bókanna, heldur eru ritin, sem bera nafn hans, saman tekin af mörgum ókunnum höfundum, sem uppi hafa verið á ýmsum tímum. Margar aldir líða milli þess, að hið elzta, sem í þeim er, er fært í letur og þangað til hið yngsta verður til. Eins og tekið er fram hér að framan er álitið, að elztu drög, eins og ýmsar sagnir, bardagaljóð og söngvar, sem fléttað er þar inn, hafi til orðið á tímabilinu frá 1200 til 1000 f. Kr., Jahvista-ritið kringum 850 f. Kr., og Elóhista-ritið einni öld síðar. Fimta bók Móse er álitið að færð sé í letur á dögum Manasse og ‚kemur út' um 621 f. Kr. ef svo má að orði komast. Prestaritið — 3. Mósebók o. s. frv. — samin á árunum milli 500 og 450 f. Kr. En fimmbókaritið alt í þeirri mynd, sem vér eigum það nú, þar sem öll þessi drög og fornrit eru fléttuð saman, kringum 400 f Kr. Svona er því farið með fimm fyrstu bækur biblíunnar og hið sama á sér stað með mikinn meiri hluta af ritum hennar. Mjög fá fornaldarrit eru til vor komin í þeirri mynd, er þau fyrst höfðu, heldur aukin og breytt alla vega. Og það á sér ekkert síður stað með biblíuritin en hver helzt önnur fornrit. Spámannaritin eru alls ekki ritin af spámönnunum sjálfum, heldur lærisveinum þeirra. Þau eru alla vega skeytt saman og sumir kaflar þeirra miklu yngri en aðrir. Eins er því farið með guðspjöllin og nýja testamentisritin flest. Bréfin kunna að vera helzta undantekning, og þó ekki öll. Fjögur helztu Páls-bréfin kannast allir við, að sé réttilega honum eignuð, sömuleiðis fyrra Þessaloníku-bréf og Filippi-

bréfið; síðara Þessaloníku-bréf og Kolossubréf kannast nú margir við að hann muni eiga, en hvergi nærri allir. En Efesusbréfið og bréfin til Títusar og Tímóteusar álíta menn nú alls ekki eftir hann, enda virðast þau bera það með sér. Almennu bréfin eru nú alls ekki álitin eftir þá höfunda, sem þau eru eignuð. Fyrstu drög til guðspjallanna álíta menn nú að verið hafi safn af ræðum eða orðum*) Jesú, sem glatað er. Markúsarguðspjall sé elzta guðspjallið. En þeir Matteus og Lúkas byggja aftur rit sín á Markúsi og þessari glötuðu heimild, ásamt öðrum fleiri heimildum. Postulasagan er sett saman af ýmsum heimildum og höfundum, Opinberunarbókin sömuleiðis og Jóhannesar-guðspjall. Ekkert rýrir þetta gildi ritanna í raun réttri. Og tekið er þetta fram hér einungis til að segja frá satt og rétt, hvernig þeir menn nú á tímum, sem varið hafa öllu lífi sínu til að rannsaka þessa hluti, álíta að þessu sé farið, en alls ekki til að varpa neinum skugga á sanngildi biblíunnar. En það er Kristur sjálfur, og sú guðsþekking, sem mennirnir öðlast með honum. „Höfundar gamla testamentisins gefa enga bendingu um, að þeir hafi verið í nokkuru sérstöku ástandi, þegar þeir færðu í letur, jafnvel ekki við þau sjaldgæfu tækifæri, þegar þeir nefna guðs boð sem ástæðu fyrir ritstarfi sínu (t. d. 2. Mós. 24, þegar Móse reit lögmálið á steinspjöld, og Jes. 8,1). Á hinn bóginn bera þeir vott um, að þeir hafi hver um sig starfað af sjálfsdáðum með því að nefna til dæmis eldri heimildir, sem þeir hafi notað, eins og þegar vitnað er í bók hinna réttlátu (Jós. 10,13; 2. Sam. 1,18). Í nýjatestamentinu er einn einasti staður (Opinb. 19,9 nn), þar sem talað er um guðlega skipan til að skrifa, og það sem höfundurinn segir þar um sjálfan sig í samhenginu, að hann hafi fallið niður og talað, kemur vissulega ekki heim við þessa skýringu. Páll er þess fullvís, að hann hafi ekki einungis andann yfirleitt í sérstökum mæli, heldur kemur líka fram með ákveðin ummæli í nafni drottins (1. Kor. 7,10), en setur ekki fram neina kröfu um, að rithöfundsstarfsemi hans sé með nokkuð sérstökum hætti það augnablik, sem hann færir það í letur. Bein sönnun gegn þessari ströngu innblásturskenningu er tvímælalaus vitnisburður Lúkasar um alvarleg bókmentastörf (1. 1 nn) við

*) LOGIA, Redequelle (Q).

að safna efni og raða niður, og hefir hún ávalt krafist sérstakrar íhugunar. Slíkir eru vitnisburðir höfundanna sjálfra.“*)

Frá sjónarmiði kenningarinnar um bókstafsinnblástur þrýstir sú spurning sér fram: Hvað er það þá, sem í raun og veru var innblásið? Eru það ritin, sem vér nú eigum, eða voru það heimildarritin, sem hinir síðustu höfundar studdust við og fléttuðu saman og gerðu ýmsar breytingar á? Eg býst við að flestir bókstafstrúarmenn svari: Ritin, eins og vér nú eigum þau. En svo framarlega sem guðs andi hafi gefið höfundunum „efnið og orðin“, eins og rétt-trúnaðar-guðfræðin gamla staðhæfði, hví skyldu þeir þá hafa gert sér það ómak að fara að grúska og rannsaka í nokkurum eldri heimildum? Ef Lúkas var sannfærður um, að heilagur andi mundi gefa honum alt, sem hann þyrfti að vita, hví var hann þá að gera sér það ómak „að rannsaka alt kostgæfilega frá upphafi“, sem „margir höfðu tekið sér fyrir hendur að færa í sögu“ (Lúk. 1,1-3)? En sé aftur komist að þeirri niðurstöðu, að það hafi verið heimildirnar, sem hafi verið innblásnar, verður það fáránlega fyrirbrigði uppi á tening, að opinberar skrár og skræður, sem höfundar Konungabókanna hafa notað, hafi verið innblásnar. „En hafi þær ekki verið innblásnar, hvernig geta þá bækurnar verið innblásnar orði til orðs, sem við þær styðjast?“**) Guðs andi, sannleikans andi, kann að hafa stutt höfundana og leiðbeint þeim að svo og svo miklu leyti. En þegar þeir fléttuðu orð og frásagnir eldri manna inn í rit sín, flutu þar með villur og gallar, er höfundana brast þekkingu til að vísa á bug. Enda skyldi ávalt eftir því munað af öllum, sem um þetta hugsa, að viðburðir og staðreyndir getur aldrei verið innblásið, heldur að eins skilningurinn á þeim og hin andlega merking þeirra. Það liggur í augum uppi, að það er hreint og beint óvit að ætla, að ættartölur Kroníkubókanna séu innblásnar, ekki sízt þegar þær reynast öldungis fjarri sanni og óábyggilegar. Eða að halda því fram, að tala stjórnarára einhvers konungs hljóti að vera laukrétt, vegna þess að hún styðjist við innblástur, — eða tilorðningartími einhverrar bókar. „Andstæðingar vorir segja, að það sé trúvillusök að taka söguna nokkuru sinni

*) Theodor Häring: Der christliche Glaube, e. útg. I, 270. **) Reinhold Seeberg: Offenbarung und Inspiration, e. útg. bls. 30.

fram yfir biblíuna. Ef fornleifar Austurlanda gefa oss sögulegar dagsetningar, högnar í stein eða letraðar á steinspjöld Babýloníumanna, viðburða, sem eru samtímis þeim, er sagt er frá í biblíunni, og þveröfugar við frásögn biblíunnar, mun nokkur mentaður maður geta fengið af sér að neita að taka frásögn fornleifanna góða og gilda? Sá tími er löngu liðinn, þegar sögulegir viðburðir voru sannaðir með því einu að vitna til biblíunnar."*) Annað eins er óvit svo mikið, að það er furða, að mannsandinn skuli nokkuru sinni hafa ratað út í svo herfilegar ófærur.

94. **Hin forna heimsmynd.** (iv.) Hin gamla og barnalega hugmynd um heiminn, sem allir höfundar biblíunnar höfðu sameiginlega með samtímismönnum sínum, og ekki hafði annað en þekkingarleysi við að styðjast, er ótvíræð sönnun þess, að um bókstafs-innblástur biblíunnar getur ekki verið að ræða.

Hugmynd fornaldarinnar um heiminn var, eins og kunnugt er, sú, að jörðin væri þungamiðja hans. Sól og plánetur gengi í kring um hana. Sjálf væri hún flöt. Himinhvelfingin væri eins og skál, sem hvolft væri yfir hana. Á henni væru hlerar, sem guð opnaði, þegar mikið regn kæmi og vatnsflóð. Fyrir ofan hvelfingu þessa væri bústaður guðs og heilagra anda. En niðri í jörðinni, undir yfirborði hennar, væri dánarheimar. Og niður af þeim væri bústaður illra anda, illur kvalastaður handa þeim, sem illa hefðu lifað. Þessi barnalega hugmynd um heiminn hélzt við lýði frá því úr fyrstu fornöld, út allar miðaldir og fram á tíma nýju sögunnar. Spekingurinn Ptolemeus, sem uppi var á annari öld eftir Krist, skýrði þessa heimsmynd rækilega eftir beztu þekkingartækjum samtíðar sinnar. Og sú skýring var álitin góð og gild, unz stjörnufræðingurinn Kópernikus, sem var Pólverji og samtímismaður Lúters (d. 1543), kom fram með þá skýringu, sem allir nútímamenn hafa tileinkað sér og gert hefir feikna-mikla byltingu í hugsunarhættinum. Hún er, eins og kunnugt er, í því

*) Hjálmar A. Bergman og Barði G. Skúlason: Appelants' Brief, bls. 108—109.

fólgin, að jörðin og pláneturnar snúist um sólina. Samkvæmt þekkingu nútímans er jörðin, bústaður mannanna, einn hinna lítilfjörlegri hnatta, sem hreyfast um himingeiminn. Og það sólkerfi, sem hún heyrir til, engan veginn hið eina, heldur eitt af ótölulegum grúa sólkerfa, og minna en mikill fjöldi þeirra. Hvar sem vér lesum í biblíunni, verðum vér varir við þenna skilning fornaldarinnar á alheiminum, sem von var. Önnur heimsmynd þektist ekki. Þegar vér lesum t. d. hinar stórbrotnu náttúrulýsingar Jobsbókar, verðum vér þess hvarvetna varir. Páll postuli hugsar ávalt um heiminn sem þrílyft hús. Og það er við því að búast, því svo var alment hugsað fram á 16. og 17. öld. Fyrst á 17. og 18. öld tileinkuðu hinir upplýstari menn með guðfræðingum sér nokkuð alment hina nýju skýringu á alheiminum, þrátt fyrir það, að hún brýtur algerlega bág við skilning biblíuhöfundanna í þeim efnum. „Heimur Páls postula er hinn gamli heimur .... Hin gamla barnalega heimslögunarskýring með þeirri aðgreining, sem hún gerði hinna efri og neðri bústaða, myndar ávalt bakhjarl hinnar trúarlegu sannfæringar hans.“*) Vér munum t. d. eftir hinni merkilegu frásögu postulans um hina dularfullu hrifning, sem fram við hann kom, „alt til þriðja himins“ (2. Kor. 12,2). Eg efast ekki um, að það sem fram við postulann kom þá, hafi verið eitthvað verulegt. En skilningur hans á því dularfulla fyrirbrigði er bundinn af skilningi hans á alheiminum. Samkvæmt Gyðinglegum hugmyndum voru himnarnir eiginlega sjö. Í hinum 4. var engillinn Mikael, fórnaraltarið og hin himneska Jerúsalem. Sjöundi himininn var bústaður guðs og þar var Paradís. Eftir eldri hugmynd voru himnarnir þrír og Paradís í hinum þriðja. Ef til vill er það sú hugmyndin, sem blandast hefir saman við frásögn Páls um það, sem fyrir hann kom. Og postulanum er ekki nóg, að hvert kné beygi sig fyrir nafni Jesú á himni og jörðu, heldur líka „þeirra, sem undir jörðunni eru“ (Fil. 2,10).

Þessa fornu heimsmynd og alt, sem henni fylgir, sköpun heimsins á sex sólarhringum og allar hinar fornu hugmyndir um tilorðning allra hluta, sem reynst hafa algerlega rangar, gengur guðlasti næst að eigna guði eða innblæstri frá honum.

---

*) Adolf Deissmann: Paulus. Eine kultur- und religionsgeschichtliche Skizze, Tübingen 1911, e. útg. London 1912, bls. 73.

Hvernig getur guð hafa blásið mönnunum hugmyndum í brjóst, hvort heldur um heiminn eða sjálfan hann, sem reynst hafa algerlega rangar? Sé nokkur hlutur vel til þess fallinn, að svifta nútíðarmanninn gersamlega trú hans á gildi biblíunnar, þá er það sú innblásturs-kenning, sem rígbindur hvern mann við bókstafinn, jafnvel þar sem hann brýtur bág við alla þekkingu nútíðarinnar á tilverunni, eins og hún birtist mönnum nú á dögum. Þeir eru næsta fáir meðal samtímismanna vorra, að undanteknum prestum kirkjufélagsins og heimatrúboðsmönnum, sem fá sig til að taka undir framburð prestsins Walper fyrir rétti: „Að svo miklu leyti sem heimspekilegar og vísindalegar rannsóknir nútímans brjóta bág við biblíuna á svæði jarðfræði, fornleifafræði, mannkynssögu, landafræði, líffræði og stjörnufræði, útskúfa eg þeim. Eftir mínu áliti hlýtur hver maður, sem trúir bókstafs- eða plenary-innblæstri biblíunnar, að útskúfa þeim.“*) Hið fáránlega við kenninguna um bókstafs-innblástur er einmitt í því fólgið, að sá sem henni fylgir, er um leið til þess knúður að hafna — eða útskúfa — allri þekkingu nútímans. Það er einmitt þekkingin á öllum sviðum, sem orðið hefir öllum kenningum um óskeikula biblíu algerlega til falls.

95. **Gyðingleg ritskýring og heimspeki.** (v.) Í nýja testamentinu koma fyrir gyðinglegar ritskýringar og heimspeki-hugmyndir, sem ekkert virðast hafa við að styðjast, og geta því ekki hafa fram komið fyrir innblástur.

Hér er engan veginn tilgangurinn að rekja þetta gegn um alt nýja testamentið. Það yrði mikils til of langt mál. Allir nýja testamentis-höfundarnir eru Gyðingar, nema Lúkas. Öllum er þeim ant um að sýna fram á, einkum og sér í lagi í sambandi við frelsarann og æfiferil hans, að öllum helztu æfiatriðum hans hafi verið spáð fyrir fram í gamla testamentinu. Matteus ritar guðspjall sitt beint í þeim tilgangi að sanna, að Jesús hafi verið Messías, með því að heimfæra upp á hann spádómana í gamla testamentinu. En þessum spádómum er þannig farið, að eigi verður oft og tíðum séð, að þeir standi

*) Abstract 279—280.

í nokkuru sambandi við atburðina, sem greint er frá í nýja testamentinu. Orð spámannanna eru alls ekki spádómar í þeim skilningi, sem álitið hefir verið. Þeir kunnu ekki að segja söguna fyrir fram, fremur en aðrir dauðlegir menn. Þeir tímar eru löngu liðnir, þegar menn trúðu því til dæmis, að ritningarstaðir, sem nefna Kýros Persakonung (Jes. 44,28; 45,1) með nafni, hafi verið færðir í letur mörgum mannsöldrum fyrir fæðingu hans. Menn eru hættir að byggja sannindi kristindómsins á spádómum og kraftaverkum, eins og eitt sinn var gert, því menn hafa látið sér skiljast, að frelsarinn hafi alvarlega varað við slíkum ytri sannanagögnum með þeim ímugusti, sem hann hafði á græðgi samtíðar sinnar í tákn og kraftaverk. Og ef spámennirnir hefðu séð fyrir hvern atburð í lífi frelsarans, eins og nýja testamentis-höfundarnir virðast hafa gert sér í hugarlund, er það víst, að þeir hefðu átt spádómsgáfuna á miklu hærra stigi en frelsarinn sjálfur. Til þess að geta sett orð spámannanna í samband við hina einstöku atburði, verða nýja testamentis-höfundarnir að beita gyðinglegri ritskýringaraðferð, sem fræðimennirnir tömdu sér, en er í raun og veru algerlega óleyfileg. Samkvæmt henni er unt að heimfæra hvað sem er upp á eitthvað annað. Heilbrigðir vitsmunir geta nú á dögum alls ekkert samband fundið milli orða Jeremia (31,15) um grát Rakelar yfir börnum sínum og barnamorðsins, sem frá er sagt í Betlehem (Matt. 2,17 n). Nútíðarmönnum með óbrjálaða skynsemi finst ekki, að meyjarsonernið fái neinn stuðning í orðum Jesaja: „Yngismær verður þunguð“ (7,14), bæði vegna þess, að þar ætti fremur að standa: „Ung kona verður þunguð“, eins og bent er til neðanmáls í biblíunni frá 1912, eða að eins „kona“ eins og stóð í útgáfunni 1908, — og svo líka vegna þess, „að staðurinn hjá Jesaja bendir mjög eindregið á samtímis viðburð og stendur alls ekki í neinu sambandi við Messías“.*) Tilvitnanir þessar ásamt ótal fleiri hafa ekkert sönnunargildi og geta ekki verið gerðar samkvæmt innblæstri, þar sem þær eru rangar. Sannleikans guð getur ekki hafa kent neinum manni að styðja mál sitt óleyfilegum sönnunum. Það er mannlegur ófullkomleiki og tímabundinn hugsunarháttur, sem þar á leik á borði.

---

*) Seeberg: Offenbarung und Inspiration. e. útg. bls. 28.

**96. Ritskýring og röklist Páls postula.** Lang-oftast fara nýja testamentis-höfundarnir eftir Sjötíumanna-þýðingunni í innvitnunum sínum í gamla testamentið, en ekki eftir hebreska textanum, þrátt fyrir það, hve ónákvæm hún er. Sjötíumanna-þýðingin var biblía Páls postula og samtímismanna hans. Gríska málið á bréfum hans dregur meiri dám af henni en nokkuru ritverki öðru.*) Ritskýringar-aðferð fræðimanna þjóðar sinnar hefir hann tileinkað sér, og hún leiðir hann ekki sjaldan afvega, svo hann misþyrmir textanum. Þegar Páll líkir þeim Söru og Hagar við hina tvo sáttmála, hinn gamla og hinn nýja (Gal. 4,22 nn), er það líking, sem engum nema Gyðingi hefði getað hugkvæmst, og vekur fremur ímugust í huga nútíðarmannsins, því veruleika-blæinn vantar. Líkingarskýringin (a l l e g o r e s e) var í miklu afhaldi einkum með grísku-mælandi Gyðingum. Hana hafði hinn mikli spekingur þeirra, Fíló, samtímismaður Jesú, lagt mikla rækt við og kent öðrum út frá sér. Samkvæmt líkingarskýringar-aðferð þessari voru persónur gamla testamentissögunnar gerðar að siðferðilegum hugtökum. Vegna þess að Páll postuli var Gyðingur og barn tíðar sinnar, notar hann þessa skýringar-aðferð, sem miklu illu hefir til leiðar komið og siðbótin loks nam úr gildi að mestu leyti, oft og tíðum með mestu óvarfærni. Fagnaðarerindinu heyrir hún alls ekki til, því frelsarinn notar hana aldrei. Andi Jesú Krists hefir því ekki blásið postulanum henni í brjóst, heldur gyðinglegur aldarandi. Í sögunni um Hagar og Ísmael finnur postulinn fólginn spádóm um Gyðinga og heiðingja, sem snúist höfðu til kristni. Ísak á að fyrirmynda heiðin-kristna menn, Ísmael gyðing-kristna. Hagar er gamli sáttmálinn, Sara nýi sáttmálinn.**) Sama er að segja um líkingu hans um klettinn, sem fylgt hafi feðrunum forðum í eyðimörkinni, og verið hafi Kristur (1. Kor. 10,4.). Jafn-sannfærandi og röksemdir Páls oftast eru, hafa þær ósjaldan lítinn eða engan sannfæringarkraft fyrir nútíðarmenn, af því þær eru bygðar á röngum og úreltum hugsunarhætti, sem ekki er unt að eigna guðs heilaga anda, nema fara með lastmæli. Eiginlega er það mjög óheppilegt að halda áfram að nota þá biblíu-kafla við guðsþjónustuna

---

*) Deissmann: Paulus, 101—104. **) Sbr. Johannes Weiss: Das Urchristentum, 1914, bls. 335.

í kirkjunni, sem ekkert bergmál finna í huga nútíðarbarnanna. Áhrif þeirra eru fremur til að vekja efasemdir, en til að styrkja trúna. Enda er það óþarft, þar sem nóg ætti að vera til af öðrum. — Í Galatabréfi leggur Páll afar-mikla áherzlu á eintölu orðsins afkvæmi. „Þar stendur ekki og afkvæmum, eins og margir ættu í hlut“ (Gal. 3,16). En hér er hann alveg á rangri leið og hangir í bókstafnum, sem deyðir, eins og fræðimennirnir. Hann fer eftir Sjötíumanna-þýðingunni, sem hér notar grískt eintölu-orð.*) En í hebreska textanum er notað fleirtöuorð, sem þýtt er: niðjar. Í orðunum: „Því að alt landið, sem þú sér, mun eg gefa þér og niðjum þínum æfinlega“ felst ekkert Messíasar-hugtak, hvort sem menn binda sig við fleirtöluna, niðjar, eins og hebreski textinn, eða eintöluna afsprengi,**) eins og Sjötíumanna-þýðingin hefir, sem kemur alveg í sama stað niður. Rökfærsla postulans fellur þarna um sjálfa sig og er bygð a röngum grundvelli.***) Honum hefði að líkindum alls ekki komið hún til hugar með hebreska textann fyrir framan sig. Hér getur eigi guðs anda verið um að kenna, heldur gyðinglegum fræðimanna-skýringarhætti, sem andi postulans er flæktur í. — Svo heldur hann áfram á sama stað og segir: „Sáttmála, sem fyrirfram var staðfestur af guði, getur lögmálið, sem kom fjögur hundruð og þrjátíu árum síðar, ekki ónýtt“ (Gal. 3,17). Þenna árafjölda hefir hann eftir Sjötíumanna-þýðingunni (2. Mós. 12,40), en ekki eftir hebreska textanum, sem á þessum stað ber ekki saman. Hebreski textinn segir, að dvalartími Hebrea í Egiptalandi hafi verið 430 ár. En gríska þýðingin þenur þessi 430 ár yfir alt tímabilið frá komu Abrahams til Kanaan til þess, er lögmálið var gefið. Það er tímabilið alt milli fyrirheitisins og lögmálsgjafarinnar. Ef sá Amrafel, sem um er getið í 1. Mósebók (14,9) er hinn frægi konungur Babýloníumanna, Hammúrabi, þá er álitið að hann hafi verið uppi um 2200 eða 2100 f. Kr. Sé Abraham

---

*) *σπερμα* svæði, afkvæmi, afsprengi. **) Afsprengi er fult eins gott og afkvæmi, þar sem það er ekki haft nema í eintölu. ***) Um þetta fer einn hinna ágætustu guðfræðinga nútímans, nýlátinn, sem þó ritar með mikilli lotningu um Pál postula, hörðum orðum og segir: „Die Auslegung des Paulus ist geradezu eine Erschleichung.“ þ. e. Með slíkri biblíuskýring aflar Páll sér sannana óleyfilega. Johannes Weiss: Das Urchristentum, 1904, bls. 332.

söguleg persóna, hefir hann þá verið samtímismaður hans. Brottförin frá Egiptalandi álíta menn nú að hafi verið kringum 1230 f. Kr.*) Milli tíma Abrahams og brottfararinnar verða þá 870 ár og munurinn á þessum tímareikningi eftir hebreska textanum og Sjötíumanna-þýðingunni 440 ár. Með því að reiða sig á þýðingu, en ganga fram hjá frumtextanum hebreska, hefir postulinn vilst með þenna tímareikning sinn svo mörg ár (440) frá hinu rétta. Sýnir það glögt, að innblásturinn hefir ekki komið honum þar að neinu haldi. Dregur þetta úr rökfærslunni hér á þessum stað, eins og ávalt, þegar bygt er á einhverri villu. Þessir kaflar úr Galata-bréfi hafa verið valdir til tveggja sunnudaga, sá fyrri á 13. sd. eftir trinitatis (Gal. 3,15—22 [afkvæmi — afkvæmum]), hinn síðari á 4. sd. í föstu (Gal. 4,21—31 [Sara — Hagar]), svo öllum eru þeir kunnugir. — Eins er með hinn alkunna stað (Gal. 3,13), þar sem postulinn segir, að Kristur hafi keypt mannkynið undan bölvan lögmálsins, með því sjálfur að verða bölvan fyrir oss, því að ritað sé: „Bölvaður er hver sá, sem á tré hangir.“ Þessi innvitnan í gamla testamentið er alveg rifin úr samhengi og notuð á allsendis óleyfilegan hátt. Orðin koma fyrir í tilskipan um greftran manns, sem hengdur hefir verið. Líkami hans má ekki vera náttlangt á trénu, heldur skal jarða hann samdægurs, til þess hann saurgi ekki landið. „Því að sá er bölvaður af guði, sem hengdur er“ (5. Mós. 21,23). Menn trúðu því, að á næturþeli söfnuðust illir andar saman utan um hræ þess, er hengdur hafði verið, og gerði alls konar spell og ósóma. Á þann hátt varð landið saurgað. Að þessi staður hafi nokkuð með Krist og krossinn að gera, kemur ekki til nokkurra mála. Það er aftur gyðinglegur hugsunarháttur, sem leiðir postulann af réttri leið. Eg þarf ekki að taka fram, að eftir kjarnanum er hann ávalt á réttri leið. Hann er í rauninni ávalt að prédika Krist og fagnaðarerindið. En hann klæðir oft hugsanir sínar í gyðinglega reifa, styður þær rökum, sem ekki eru kenningunni allskostar samboðin, en runnin upp hjá manninum Páli, sem gengið hefir í skóla fræðimanna-röklistarinnar, og styður oft mál sitt á óleyfilegan hátt, án þess sjálfur að vita.

*) Budde: Religion of Israel to the exile, 1899, telur brottförina frá Egiptalandi hafa átt sér stað c. 1250 f. Kr. Ártölin hér eru eftir S. R. Driver, enc. Britt. 1911.

Páll postuli, sem svo aðdáanlega lét sér takast að prédika Krist og hann krossfestan, sannar endalaust mál sitt með innvitnunum í gamla testamentið. En af því að hann er barn samtíðar sinnar, lætur hann sér ekki ant um að tilfæra orðin með nokkurri nákvæmni, heldur mjög af handahófi. Hvað eftir annað lagar hann orð gamla testamentisins í hendi sér eftir geðþótta, til þess að láta þau styðja það, sem honum þóknast. En með því hefir hann, sem er hinn lang-stærsti og dýrlegasti sannleiksvottur, sem guð hefir gefið heiminum eftir hérvistardaga frelsarans, óvart og óviljandi gefið kirkjunni fordæmi, sem orðið hefir næsta örlaga-þrungið. Í Rómverja-bréfi (10,8) vitnar hann til orðanna: „Nálægt þér er orðið í munni þínum og hjarta þínu“ (5. Mós. 30,14) og heimfærir þau upp á t r ú n a, þótt sérhver sem les þau í samhengi hljóti að ganga úr skugga um, að þau eru þar við höfð um að vinna verk lögmálsins, einmitt gagnstætt því sem postulinn lætur þau merkja. Stöku sinnum bætir hann líka inn í ritningargrein, sem hann vitnar í, til þess að byggja þá sönnun, sem honum liggur á, einmitt á þessari viðbót, eins og væri hún partur ritningargreinarinnar. Hann vitnar (Róm. 10,6 n) í orðin: „Ekki er það (boðorðið) uppi í himninum, svo að þú þurfir að segja: Hver ætli fari fyrir oss upp í himininn og sæki það handa oss og kunngjöri oss það, svo að vér megum breyta eftir því. Og það er ekki hinu megin hafsins, svo að þú þurfir að segja: Hver ætli fari fyrir oss yfir hafið og sæki það handa oss?“ (5. Mós. 30,12 n). En hann bætir inn í orðunum: þ a ð e r t i l a ð f l y t j a K r i s t o f a n og þ a ð e r t i l a ð f l y t j a K r i s t u p p f r á d a u ð u m algerlega frá sjálfum sér, því það er löng leið frá, að staðurinn standi í nokkuru sambandi við Krist. — Hann vitnar til orðanna í sköpunarsögunni: „Og þannig varð maðurinn lifandi sál“ (1. Kor. 15,45) á þessa leið: Þannig er og ritað: H i n n f y r s t i maður, (1. Mós. 2,7) A d a m, varð lifandi sál, h i n n s í ð a r i A d a m v a r ð a ð l i f a n d i a n d a; auðkendu orðunum bætir hann við frá sjálfum sér alveg eins og þau væru eftir höfund 1. Mós. Fer svo með þessi viðbættu orð eins og væru þau ritningarorð, sem þó er langt frá að sé. En það var ein af frumreglum fræðimannanna, að alt, sem þeir gæti dregið út úr einni ritningargrein, væri eins heilagt, jafn-heilagur sannleikur, og ritningar-

greinin sjálf. Sú regla bindur Páli, þessum sannleikselska manni, skýlu fyrir augu, svo þetta og annað eins, sem nú væri álitin óráðvendni, getur hann fengið sig til að gera með góðri samvizku. En samkvæmt guðlegum innblæstri getur það ekki verið. Eftirtektarverður er staðurinn í fyrra Korintu-bréfi (9,9) um uxana. Postulinn vitnar í grein í lögmálinu, sem segir: Þú skalt ekki múlbinda uxann, er hann þreskir (5. Mós. 25,4). Svo bætir hann við: „Hvort lætur guð sér ant um uxana?“ Það var gyðinglegur hugsunarháttur á seinni tímum, að álíta guði það óverðugt að hugsa um dýrin. Þetta og annað eins hlýtur að eiga við mennina, hugsar postulinn, og heimfærir það svo í sviphending upp á trúboðann, sem verður sé launanna. Þetta orð úr lögmálinu er gleðilegur vottur um mannúðartilfinningu gagnvart dýrunum. En postulinn snýr því gegn dýrunum og varpar um leið skugga á guðshugmyndina sjálfa, sem Jesús hafði hafið svo hátt með því að tala um kærleika guðs til spörvanna. Naumast er rétt að kenna þessi misgrip guðlegum innblæstri. — Þegar er Móse hafði verið uppi á fjallinu og tekið við lögmálinu, er sagt, að staðið hafi geislar af andlitshörundi hans (2. Mós. 34,29). Í latnesku þýðingunni, Vulgata, er þetta þýtt svo, að andlit hans hafi verið með h o r n u m. Álíta katólskir menn sjálfsagt, að svo hafi þetta verið; það sé sjálfsagt að trúa því eins og öðru, þar sem biblían sé innblásin. Út af þessum ritningarstað myndaðist svo hugmyndin fáránlega um Horna-Móse, sem séra Björn flaskaði svo herfilega á fyrir rétti,*) og gerði Michael Angelo ódauðlegan. Til þess að fólkið skyldi ekki fá ofbirtu í augu sér, dró Móse skýlu fyrir ásjónu sína. Páll postuli vitnar í þenna stað (2. Mós. 34,33) og segir, að þetta hafi Móse gert til þess að dylja Ísraelsmenn þess, að dýrð lögmálsins ætti smám saman að þverra eða: til þess að Ísraelsmenn skyldu ekki horfa á endalok ljóma þess, sem að engu átti að verða. En það er algerlega eigin tilbúningur hans. Ekkert þess háttar felst í orðunum. Páll lætur þau þarna merkja það sem honum sýnist. En það er ekkert annað en reglulegt fræðimannagjörræði, og er illa til fundið að kenna heilögum anda um.

Í nýja testamentinu er vitnað nokkurum sinnum til rita, sem síðan hafa nefnd verið svikarit (p s e u d e p i g r a p h a), og

*) Framburður presta bls. 304.

nota höfundarnir orð þeirra eins og þau séu jafn-góðar heimildir nýja testamentisritunum, þótt þau öll eða flest séu fremur fáránlegur samsetningur. Eitt af ritum þessum er Opinberan Elía, sem nú er glötuð, en Órigenes kirkjufaðir talar um. Í þetta rit sækir Páll postuli orðin: „Það, sem auga sá ekki og eyra heyrði ekki, alt það sem guð fyrirbjó þeim, er elska hann" (2. Kor. 2,9), og við hefir sama formálann og þegar hann vitnar í gamla testam.: „e i n s o g r i t a ð e r"; virðist hann hafa skoðað opinberan þessa heilagt rit. „Í nýja testamenti voru finst orðið ekki"*) — ekki í Jesaja, eins og álitið hefir verið. Í Rómverjabréfi eru tveir alkunnir staðir, sem postulinn fléttar inn með formálanum: „v é r v i t u m": „Öll skepnan stynur líka og hefir fæðingarhríðir alt til þessa" (Róm. 8,22), og skömmu síðar í sama kapítula: „Þeim, sem guð elska, samverkar alt til góðs," en svo flýtir hann sér að bæta við: „Þeim sem kallaðir eru samkvæmt fyrirhugan" (Róm. 8,28). Bæði þessi orð sækir postulinn út fyrir biblíuna, hið fyrra í gyðinglegt rit, a p o k r y f i s k t, hið síðara í grískt rit.**) Eins og bent hefir verið á, er vitnað í heilan hóp þessara svo nefndu svikarita í nýja testamentinu, eins og væru þau heilagar bækur, eins og t. d. Enoksbók, Himnaför Móse, Opinberan Elía og Himnaför Jesaja. Í þessu síðasta riti er sögn um, að Jesaja hafi verið sagaður sundur og þá sögn hefir höfundur Hebreabréfs bersýnilega í huga (Hebr. 11,37). Auk þess er vitnað í rit, sem heyrðu heiðnum bókmentum til. Það lítur út fyrir, að höfundar nýja testamentisins hafi álitið nokkurn veginn jafn-leyfilegt að leita orðum sínum stuðnings utan gamla testamentisins eins og í ritum þess. Á þeim tímum hafa þá líklega svikaritin svo nefndu verið álitin engu síður innblásin af öllum þorranum.

**97. Heimspekingurinn Páll.** Það er ekki einungis ritskýring postulans, sem er af öldungis mannlegum rótum runnin ,heldur hefir hann tekið heimspekihugmyndir í arf frá þjóð sinni, sem fremur eru gyðinglegt trúargrufl, en almenn sannindi. Vita-

---

*) Wilhelm Bousset: Schriften d. N. Test. II, 82. **) Johannes Weiss: Das Urchristentum, 1914, bls. 335. Þetta gríska rit nefndist H e r m e s T r i s g e m i s t o s eða H e r m e t i k a og var safn af 16 ritum, er gengu undir nafni heiðinglegs guðdóms, egipzka guðsins T h o t.

skuld getur þar verið um einhvern sannleikskjarna að ræða, en þann sannleikskjarna finnur enginn sér skylt að tileinka sér vegna innblástursins, heldur þá vegna þess, að hugmyndirnar sjálfar fá eitthvert meðhald í huga hans. Samkvæmt gyðinglegri heimspeki átti alt hér á jörðu að eiga fyrirmynd á himni, og hafa átt fortilveru þar á undan hinni jarðnesku tilveru. Vegna þessarar heimspekilegu skýringar á tilverunni finst Páli ekki nóg að gera ráð fyrir fortilveru Krists á himni sem hins andlega drottins og lávarðar, heldur varð einnig maðurinn Jesús að hafa verið til á himni, áður hann gerðist maður hér á jörðu (1. Kor. 15,47). Samkvæmt þessari gyðinglegu fortilveru-hugmynd átti söfnuður útvaldra, eða kirkjan, að hafa áður verið til á himni. Og Jerúsalem-borg á Gyðingalandi átti líka sinn á himni, að eins fegurri og fullkomnari. „Jerúsalem, sem í hæðum er, er frjáls, og hún er vor móðir“ (Gal. 4,26). Á hinum síðustu dögum mun hún stíga af himni ofan á dýrlegan hátt, niður á jörðina (Op. 3,12; 21,2). Á þann, sem stöðugur stendur í trúnni, skal þá verða skrifað nafn „hinnar nýju Jerúsalem, er kemur af himni ofan frá guði mínum“, segir Opinberunarbókin (Op. 3,12). Og Hebreabréfið segir hinum trúuðu, að þeir séu „komnir til Zion-fjalls, til borgar guðs lifanda, hinnar himnesku Jerúsalem, og til tíþúsunda engla, til hátíðasamkomu og safnaðar frumgetinna, sem á himnum eru skráðir“ (Hebr. 12,22). Sama er að segja um hugmyndina um dómsdag, þegar hinir trúuðu eiga að verða „hrifnir burt í skýjum til fundar við drottin í loftinu“ (1. Þess. 4,17). Þetta eru alt gyðinglegar hugmyndir. Vér getum nefnt það vísindi þeirra tíma. En þau eru nútíðarmanninum mjög erfiðar viðfangs og brjóta all-mjög bág við þekkingu vorra daga á heiminum og tilverunni og þær hugmyndir, sem sú þekking hefir framleitt. Þegar nú þess konar fornaldarvísindi verða fyrir oss í biblíunni, erum vér sannarlega ekki til þess skyldugir að skoða þau innblásin, og sáluhjálpar-atriði að trúa þeim. Það getur verið miklu stærra sáluhjálpar-atriði eða kristileg skylda, að trúa þeim ekki. Hugmynd sína um Messías urðu þeir Gyðingar, sem kristna trú tóku, að láta falla, því þeir sáu að hún var röng.

Að síðustu skal bent á þá hugsan postulans og annara höfunda nýja testamentisins, að lögmálið hafi ekki verið gefið

af guði sjálfum, heldur af englum. „Fyrir umsýslan engla er það til orðið, fyrir hönd meðalgangara“ (Gal. 3,19. Sbr. Post. 7,53. 7,38. Hebr. 2,2). Páll leitast við að sanna stundargildi lögmálsins með því að benda á, að það sé til orðið fyrir „umsýslan engla“, það sé þeirra verk, og styðst þar við gyðinglega hugmynd, sem fram kom seint á dögum gyðingdómsins. Þetta varpar nýju ljósi yfir orðin, sem margir þeirra, er biblíuna lesa, bundnir við bókstafinn, en enga sögulega þekkingu hafa og leggja svo mikla áherzlu á: „Guð sagði.“ Samkvæmt skilningi Gyðinga á síðari tímum, og þá líka samkvæmt skilningi Páls, var það ekki guð sjálfur, sem talað hafði, heldur meðalgangarar, miðlar; englaverur, sem báru boðskapinn á milli. Eftir þessu var gamla testamentið eiginlega ekki guðs orð, heldur englaboðskapur.

98. **Hálmurinn í jötunni.** (vi.) Í biblíunni, bæði í gamla og nýja testamentinu, verðum vér varir við goðsagnahugmyndir, leifar eldra og heiðinglegs átrúnaðar, sem fjarstæða er að festa nokkurn trúnað á, og sýna oss glögt, að kenningin um bókstafs-innblástur er óhæfa.

Áður en eg fer að leitast við að færa sönnur fyrir þessari setningu eða staðhæfing, skal eg taka fram, að ekkert orð, sem sagt verður í þessu sambandi, eða nokkuru sambandi öðru í þessari bók, er sagt til þess að rýra sanngildi biblíunnar eða kæla kærleika manna til hennar. Alt, sem hér er verið að taka fram, er að eins til þess sagt, að vér skulum skoða ritninguna og öll atriði trúar vorrar í sem sönnustu ljósi. Það er til þess sagt, að koma mönnum í skilning um, að Jesús Kristur, mannkynsfrelsarinn sjálfur, er hinn eiginlegi sannleikskjarni biblíunnar; ásjóna hans ljómar þeim mun bjartari til vor þar, sem vér metum alt annað minna. Biblíuna er að skoða sem reifana, er hann var færður í, eða jötuna, sem hann var lagður í, eins og Lúter hefir svo meistaralega að orði komist. Kærleikur vor til biblíunnar getur aldrei kólnað, því Kristur er þar. Hún geymir fyrir oss vitnisburðinn um hann. Kristur er drottinn vor og lávarður; hann er drottinn og lávarður biblíunnar. Hún er þjónn hans eða þræll, eins og Lúter hefir líka að orði komist. Ef vér hefjum biblíuna til guðlegra valda,

tökum vér þau völd af honum. Dýrð hans minkar að sama skapi, sem vér gerum dýrð hennar meiri. Vér drögum úrskurðarvaldið að sama skapi úr höndum hans, sem vér leggjum það í hendur henni, ef svo má að orði komast. Eg bendi hér á hálminn í jötunni, til þess vér glötum ekki gimsteininum. Eg bendi á sprekin og trjábolina, sem liggja í skóginum, til þess að sýna fram á, hve miklu dýrlegri askurinn og eikin er, sem vex í dag, en öspin, sem óx þar fyrrum.

99. **Goðsagnahugmyndir.** Í gamla testamentinu verða þær fyrir oss svo að segja í hverju riti. Enda er eðlilegt, að þar sé mikið af bernskuhugmyndum mannkynsins um guð og heiminn, þótt þær séu þar hreinni en í nokkurri annari fornaldarbók, og göfugri. Trúarhugmyndirnar hafa verið sameign fornaldarþjóðanna að miklu meira leyti en oss hefir hingað til skilist. Nú kemur biblíuskýrendum saman um, að sköpunarsaga fyrstu Mósebókar sé sköpunarsaga Babýloníumanna í annari mynd. Þar grisjar í söguna um alheimsdrekann, sem er kjarninn í sköpunarsögu þeirra. Þar er óskapnaðurinn eins konar vatnadreki, sem ljósguðinn Mardúk sneið í sundur; skóp hann jörðina úr öðrum helming drekans, en úr hinum himininn, á sama hátt og guð er látinn skilja á milli vatnanna fyrir ofan himinhvelfinguna og vatnanna á jörðunni. En Gyðingar hafa kunnað meistaralega að fara með sögn þessa; þeir hafa afklætt hana mestu af þeim goðsagnalegu umbúðum, er henni fylgdu. Á þann hátt gerðu þeir sköpunar-athöfnina svo veglega, að hún samsvaraði guðshugmynd þeirra. Þetta voru þeirra tíma vísindi, þeirra tíma skýring á gátunni um tilorðning heimsins. Hugmyndirnar, sem sköpunarsögunni liggja til grundvallar, eru því eigi framkomnar fyrir innblástur, heldur eru þær til Gyðinga runnar frá Babýloníumönnum. Enda er það eðlilegt, að þeir létu hugmyndir stærstu menningarþjóðar heimsins, er þeir kyntust þeim austur í Babýlon, hjálpa sér til að gera sér grein uppruna allra hluta. En þessi hugmynd Babýloníumanna um alheimsdrekann, vatna-ferlíkið, er í raun og veru sama hugmyndin og hugmynd forfeðra vorra í heiðni um miðgarðsorminn, enda hefir hún að líkindum fylgt þeim austan úr heimi.

**100. Himnadrotningin.** Á þetta væri nú naumast ástæða til að benda í þessu sambandi, væri það ekki fyrir þá sök, að hugmyndin um drekann, eða miðgarðsorminn, kemur enn þá miklu ljósara og greinilegar fram í síðustu bók biblíunnar, Opinberunarbókinni. Menn lesi og virði fyrir sér frásögnina í 12. kapítula:

„Og tákn mikið birtist á himni: kona klædd sólunni, og tunglið var undir fótum hennar, og á höfði hennar var kóróna af tólf stjörnum. Og hún var þunguð, og hún æpti í jóðsótt og kvaldist með fæðingarhríðum. Og annað tákn birtist á himni og sjá: Mikill dreki, rauður, er hafði sjö höfuð og tíu horn, og á höfðunum sjö ennidjásn. Og hali hans dró sjötta hlutann af stjörnum himinsins og varpaði þeim ofan á jörðina. Og drekinn stóð frammi fyrir konunni, sem komin var að því að fæða, til þess að gleypa barn hennar, þá er hún hefði fætt. Og hún fæddi son, sveinbarn, sem stjórna mun öllum þjóðum með járnsprota, og barn hennar var hrifið til guðs og til hásætis hans. Og konan flýði út á eyðimörkina, þar sem hún hefir stað fyrirbúinn af guði, til þess að menn ali hana þar, og þar skyldi hún haldast við í eitt þúsund tvö hundruð og sextíu daga. — Og stríð hófst á himni: Mikael og englar hans fóru að berjast við drekann, og drekinn barðist og englar hans. Og þeir fengu eigi staðist, og eigi héldust þeir lengur við á himni. Og varpað var niður drekanum mikla, hinum gamla höggormi, sem heitir djöfull og Satan, honum, sem afvegaleiðir alla heimsbygðina, — honum var varpað niður á jörðina og englum hans var varpað með honum.“

Í frásögn þessari sjáum vér, hvernig konan, sem klædd er sólinni og hefir kórónu á höfði með tólf stjörnum, er af ímyndunaraflinu sköpuð úr hugmyndinni um himnadrotninguna eða himnagyðjuna, austurlenzku og hinni kristilegu frásögn um Messíasar-móðurina. Þó Gyðingar væru eingyðismenn, þegar snemma á tímum, trúðu þeir samt tilveru heiðinna guða. Baal og Kemos voru guðir heiðingjanna, en Jahve var guð Ísraels. Víða í gamla testamentinu er talað um kvenlegan guðdóm við hlið guðsins Baal. Kvenguðdómur þessi er oftast í gamla testamentinu nefnd a s é r a. Meðan hæða-dýrkunin var við lýði, var útskorin trésúla reist annars vegar við altarið og nefndist hún a s é r a, af því að hún átti að tákna gyðjuna. „Ísraelsmenn gjörðu það sem ilt var í augum Jahve .... og þjónuðu Baölum og asérum“ (Dóm. 3,7. Sbr. 2. Kon. 21,3; 1. Kon. 15,13; 18,19).*) Manasse reisti Baal ölturu og lét gera Aséru

*) Sbr. H. J. Dunkinfield Astley: Prehistoric Archæology and the Old Testament, 1908, bls. 161 og 204.

(2. Kon. 21,3). Virðist aséran hafa verið kanverskur kvenguðdómur. En í helgiáletran einni til Hammúrabi konungs er hún nefnd: Brúður himnakonungsins.*) Jeremía spámaður talar um himnadrotningu, er dýrkuð sé með fórnarkökum og reykelsi (Jer. 7,18; 44,17 nn). En einmitt á þann hátt var gyðjan Ístar dýrkuð með Babýloníumönnum og oft nefnd þessu heiðursnafni: Himnadrotningin. Aséra, Ístar, Astarte virðist alt vera nöfn á sama guðdómi.**) Dómarabók nefnir hana Astarte blátt áfram (10,6). Á myndum er hún annað hvort látin vera með barn á armi eða þunguð. Fyrir því rennur þessi hugmynd um himnadrotning eða himna-brúður saman við hugmyndina um guðs móður. Enda gerðu listamennirnir Murillo og Dürer á miðöldunum myndir sínar af Maríu, Jesú móður, eftir þessari frásögn Opinberunarbókarinnar. Hugmyndin um konuna, sem flýa verður með nýfæddan son, kemur fyrir með Grikkjum. Drekinn Pýton ofsótti Letó, móður Appolló, er hún var jóðsjúk. En Sevs, sem var faðir sveinsins, er fæðast átti, lét Norðanvindinn flytja hana á náðir sjávarguðsins, Póseidon, sem barg henni upp á ey eina undan árásum Pýtons. Fjórum dögum eftir fæðing sína réð sonur hennar, Appolló, drekanum bana. — Líkingin er sláandi. Samt er sagan naumast til Gyðinga komin frá Grikkjum, heldur mun hún til þeirra runnin, eftir því sem ætlað er, frá Egiptum, sem sagt er að átt hafi sömu sögnina. Úr þessum sagnavef Opinberunarinnar sníður mannsandinn sér á miðöldunum sagnirnar mörgu um guðs móður, — Messíasarmóðurina. Hún er himnadrotningin austurlenzka í nýrri mynd. Erkiengillinn Mikael var verndarengill Gyðingalýðs og bústaður hans var samkvæmt Enoks-bók í fjórða himni, eins og áður er sagt. En allir voru himnarnir sjö. Hans er einnig getið í Júdasarbréfi. — Í sambandi við hugmyndina um fall Satans af himni, minnumst vér orða frelsarans. „Eg sá Satan falla af himni eins og elding“ (Lúk. 10,18), sem gyðinglegur hugsunarháttur leggur honum í munn, leifar af hugmynd Jobsbókar um, að Satan sé á himni, einn í ráðaneyti guðs. En að lokum átti hann að lenda í baráttu við erkiengilinn Mikael, eins og frá er sagt í Opinberunarbókinni og verða steypt niður af himni.

---

*) Die Rel. in Geschichte u. Gegenwart I. 724. **) Wir können sie Aschera, Astarte oder Ischtar nennen. Rel. in Ges. u. G. I, 725.

101. **Goðsagnaívaf.** Getur nokkurum dulist, að hér er um hreina og beina goðsögn að ræða, sem kristilegar hugmyndir eru fléttaðar saman við? „Hin gamla goðsögn (um drekann), sem í frásögninni varð fjörug og skáldleg eins og sjónleikur, er með Ísraelsmönnum heimfærð upp á Jahve, og hefir með aðgreining vatnanna í 1. Mós. 1. fengið svo að segja trúfræðilega mynd, þar sem nærri því allir goðsagnadrættir hafa verið skafnir af. En í alþýðuhuga hefir goðsögnin gamla haldið áfram að lifa, og í mörgum stöðum gægist hún fram í dagsbirtuna, bæði í hinum skáldlegu og spámannlegu ritum gamla testamentisins. Það er hið stærsta almættisverk Jahve, að hann í öndverðu yfirbugaði ferlíki undirdjúpsins eða fjötraði. En hugmyndin um, að það sé þó ávalt til, og muni enn þá einusinni birtast sem erfðafjandi guðs, er þó jafnframt við lýði. Einkum eiga menn þess von á hinum síðustu tímum. Að nýju gerir þá óskapnaðardýrið árás gegn guði, en þá verður því tortímt. Slíkri árás á himininn er nú líka höfundur Opinberunarinnar að lýsa. En drættir hinnar gömlu goðsagnar eru nálega horfnir, nema örlitlar leifar (að stjörnunum var sópað niður, baráttan milli vatnsins og jarðarinnar); alt hefir hér fengið nýja stefnu, nýja merkingu. Um fram alt er drekinn látinn jafngilda djöflinum. Einmitt á sama hátt gerðu seinni tíma skýrendur sögunnar um Paradísar-höggorminn með Gyðingum sér grein hennar. Hann var fyrst og fremst dýr, í mesta lagi illur andi, en þeir hugsuðu sér hann dulargerfi Satans. Á sama hátt á lesarinn hér að láta sér skiljast, að drekinn sé óvinur guðs, Satan sjálfur. En skýringin gengur enn þá lengra en þetta. Með Gyðingum á gamla testamentis-tíðinni verður það þegar altítt að tákna hið heiðinglega heimsveldi með goðsagnanöfnum og ummerkjum frum-höggormsins."*) Oftast er einhver sannleikskjarni fólginn í þessum gömlu goðsagnahugmyndum fornaldarinnar. Hugmyndin um konuna klædda sólinni hefir fengið eins konar upprisu í kenningu Fechners um sál hnattanna, sál jarðarinnar — andaverur, er alt eðli og líf hvers hnattar sé runnið frá, en séu aftur þjónustubundnar hinni æðstu veru.

---

*) Johannes Weiss: Schriften d. N. T. II, 650—651.

**102. Illir andar og englar.** Öllum er kunnugt um trú nýja testamentisins á illa anda. Til eru blýspjöld með rímuðum formælingum, sem varðveizt hafa til vorra daga úr heiðnum sið, frá fornöld Grikkja og Rómverja, þar sem fjandmenn eru „seldir á vald“ guðum undirheima. En einmitt á sama hátt „selur“ Páll postuli þá Hýmeneus og Alexander „Satan á vald“ vegna lastmæla þeirra (1. Tím. 1,20). Og á sama hátt ræður hann Korintumönnum til að „selja“ afbrotsmann einn „Satan á vald“ (1. Kor. 5,3-5) mjög hátíðlega. Eru eigi meiri líkur til að ætla, að Páll postuli hafi þarna talað sem barn aldar sinnar, heldur en að guðs andi hafi blásið honum þessum orðum í brjóst? Og er það eigi kristilegra? Páll er stöðugt að tala um hrekkjabrögð Satans. „Bæði einu sinni og tvisvar hefir Satan hamlað“ honum frá að koma til Þessaloníku (1. Þess. 2,18). Hann treystir því, að guð muni bráðum „sundurmola Satan undir fótum“ hinna trúuðu (Róm. 16,20). Enn þá er hann eftir hugmynd Páls „valdhafinn í loftinu“ (Efes. 2,2), sem „sældar“ jafnvel lærisveina Jesú „eins og hveiti“ (Lúk. 22,31). Satan, og illir andar sem hann hefir yfir að ráða, er valdur að sjúkdómum mannanna, t. d. flogaveiki (Matt. 17,15 n), blindu og málhelti (12,22), gigtveiki (Lúk. 13,16). Einkum er það brjálsemin og taugasjúkdómarnir, sem álitið var að stafi af því, að illir andar hafi brotist inn í sál eða líkama mannsins. Alt þetta nefna nútíðarbörnin hjátrú og hindurvitni, vegna margaukinnar þekkingar á sjúkdómsorsökum og heilbrigðis-skilyrðum. Þau fást alls ekki til að setja það í samband við nokkura innblásturs-hugmynd. Hér er ekkert undanfæri: Þetta er tímabundinn og takmarkaður skilningur mannsandans, sem hinir helgu höfundar eigi hafa neina undanþágu frá. Minna má í þessu sambandi á hina furðulegu kenningu Páls postula um, að konur megi ekki vera berhöfðaðar við guðsþjónustur *vegna englanna* (1. Kor. 11,10). Hann hugsar sér englana viðstadda guðsþjónusturnar, til að bera bænir safnaðarins á milli guðs og mannanna, því svo hugsuðu fræðimenn Gyðinga. Ástæðan til þess að konur verða að hylja höfuð sitt við bænir og guðsþjónustu, er samkvæmt hugmynd postulans hið fáránlega fyrirbrigði, sem sagt er frá í 1. Mósebók (6,2 nn.), að englarnir, „synir guðanna“, hafi orðið ástfangnir í dætrum mannanna og afleiðingarnar hættu-

legar. Til þess að þetta þurfi ekki að koma aftur fyrir, verða konurnar að hylja höfuð sitt við guðsþjónustur. Vitaskuld er sagan gamla að eins fáránleg þjóðsaga, runnin úr heiðni, og skýring postulans jafn-fáránleg fræðimanna-skýring. Sama er að segja um þá kenningu postulans, að karlmaðurinn að eins sé skapaður í guðs mynd, en konan í mynd karlmannsins (1. Kor. 11,7 nn.), sem haft hefir þau áhrif, að öll réttindi hafa verið í höndum karlmannanna fram á þenna dag, í kristnum löndum nærri því eins og heiðnum. Eitt af helztu ásteitingarefnum guðspjallanna eru frásögurnar mörgu um útrekstur illra anda eða djöfla úr mannssálunum.

103. **Heimsvættir.** Bent skal einnig á nýtt orðtæki, sem nú er komið inn í nýja testamentið íslenzka með þýðingunni frá 1912. Það er orðið h e i m s v æ t t i r.*) Kemur orðið fyrir í tveimur ritum Páls: Gal. 4,3 og Kól. 2,8.20. Áður var sama gríska orðið þýtt með s t a f r ó f h e i m s i n s, sem öllum var óskiljanlegt. Þessar heimsvættir eru ímyndaðar andaverur frumefnanna, sem þjóðtrúin hefir skapað. Þær eru hvað eftir annað nefndar í Opinberunarbókinni, svo sem englar vindanna (7,1), eldsins (14,18), vatnanna (16,5) og sólarinnar (19,17). Það er vitaskuld sama trúin og vér verðum varir við með forfeðrum vorum, er þeir töluðu um l a n d v æ t t i r, eða náskyld henni. Opinberunarbókin heldur fram þessari heimsvætta-trú sem einhverju sjálfsögðu. Páll vill ekki að kristnir menn séu þrælbundnir við slíkan hégóma. Hvorttveggja getur ekki verið innblásið. Opinberunarbókin er að mörgu leyti merkileg. Hún bregður upp mynd af heimi trúarhugmyndanna í fyrstu kristni og sýnir samruna þeirra. Í henni eru goðsagnahugmyndir utan úr heiðingjaheiminum, svo að segja úr öllum áttum. Fyrir því er það rit slíkur furðulegur glitvefur eldri og yngri trúarhugmynda og verður að eins skilið frá því sjónarmiði. — Að síðustu skal bent á sögnina í Júdasar-bréfi um erkiengilinn Mikael, sem átti í orðasennu við djöfulinn um líkama Móse. Það er gyðingleg þjóðsögn og alþýðutrú, sem kirkjufeðurnir, Alexandríu-Klemens og Órigenes, segja oss, að staðið hafi í „Himnaför Móse“, einni af svo nefndum Opinberunarbókum

*) *τα σεοχεῖα τοῦ κὸσμου*, á þýzku: Elementargeister, Weltelemente.

Gyðinga. — — — Alt eru þetta í raun og veru smámunir, sem ekki hagga gildi ritningarinnar hið allra minsta, en þeir hrinda algerlega þeirri kenningu, sem fundin hefir verið upp af mönnum, til að styðja með gildi hennar, að hverju orði og hverri setningu sé bókstaflega að trúa, vegna guðlegs innblásturs. Á svæði trúarlífsins á sama baráttan sér stað milli hugmyndanna og á öðrum svæðum. Þær trúarhugmyndir halda velli í þessari baráttu, sem hæfastar eru. Þetta, sem hér er sagt, eru að eins fáeinar bendingar um þann trúarheim, sem nú er genginn til grunna, en nýja testamentið geymir þessar leifar af, og sá heimur trúarhugmynda, sem vér nú lifum í, hefir risið upp af.

104. **Innblásturs-kenning kirkjufélagsins.** Auk þess, sem hér hefir verið sagt, mætti ótal mörgu bæta við, en eg læt hér staðar numið. Það mætti t. d. koma með langan lista af beinum villum, bæði úr gamla testamentinu og hinu nýja. En það hefir svo oft áður verið gert, að þess er engin þörf. Þegar það er haft í huga, sem fram er tekið hér að framan, kemur engum það á óvart. Hver sú innblásturs-kenning, sem fram er haldið til þess að tryggja villuleysi biblíunnar, er ósönn og óverjandi með öllu.*) Að halda henni fram, er að verja grundvöll trúar sinnar með ósannindum. Enda á sú óhappa-kenning beinan þátt í svo miklu af þeim ósanna kristindómi, sem hvarvetna verður vart. Í sambandi við deiluna meðal vor Íslendinga er það næsta eftirtektar vert, að menn hafa ekki treyst sér til að kannast við kenninguna um bókstafs-innblástur, en klætt hana ýmsum dulargerfum. Í deilunni vestan hafs hefir kirkjufélagið neitað því hvað eftir annað, að bókstafs-innblástur og plenary-innblástur sé hið sama. Engum manni hefir samt enn tekist að gera skiljanlegan greinarmun á plenary-innblæstri og bókstafs-innblæstri, hvorki fyrir rétti né annars staðar, hvorki í kirkjufélaginu né utan þess. Öðrum þræði kvarta lögmenn kirkjufélagsins yfir því, að andstæðingar þeirra geri engan greinarmun þessara tveggja innblásturs-skýringa, en hins vegar kannast þeir við, að munurinn sé enginn með því að segja: „Hinar þrjár framantöldu innblásturs-kenningar (þ. e. ósjálfráður, bókstafs og plenary-innblástur) eru gjörsamlega og raunverulega líkar í þessu, að það er ekki

*) Sbr. Ekkert við að styðjast. Breiðablik IV, 134—137.

leyfilegt neinum einstökum meðlim lúterskrar kirkju samkvæmt einni eða neinni þeirra að hafna eða lítilsvirða nokkurn hluta biblíunnar, vegna þess, að hann sé ekki fyllilega og fullkomlega (plenarity) innblásinn."*) Í framburði sínum segir séra Björn Jónsson: „Ég held að það sé skilningur innblásturskenningarinnar fremur en nafnið, sem henni er gefið, sem vér kirkjufélagsmenn leggjum áherzlu á."**) Að öll ritningin sé guðs orð, áreiðanlegt og innblásið, eins og yfirlýsing kirkjuþings 1909 tók fram — „það kalla eg fullkominn innblástur", segir séra Björn. Þó játar hann í sömu andránni: „Aðrir geta kallað það öðrum nöfnum."***) Sú skilgreining var gefin fyrir rétti af séra Kristni og er á þá leið, að hún orkar engra tvímæla. Við hana var kannast af séra Birni,†) sem laukrétta framsetningu á kenningu kirkjufélagsins í þessu efni, og er hún því prentuð orðrétt hér á eftir: „Ég er skilgreining séra Kristins Ólafssonar á plenary-innblæstri samþykkur." Kirkjufélagið nefndi kenningu sína p l e n a r y-innblástur. Orðið er enskt og þýðir f u l l k o m i n n. Að hverju leyti fullkominn? Svo fullkominn, að hver frásögn og hver staðhæfing hlýtur að vera nákvæmlega rétt. Með öðrum orðum: Innblásturinn er svo fullkominn, að aldrei getur um nokkura villu verið að ræða. En það er nákvæmlega það sama og bókstafs-innblástur. Það heiti hefi eg því gefið hér í þessari bók öllum þeim innblásturs-tegundum, sem koma eiga í veg fyrir nokkura sem helzt villu í biblíunni. Orðið p l e n a r y hefir aldrei verið notað í sambandi við innblásturs-kenninguna í lútersku kirkjunni, í öllum þeim umræðum, sem út af henni hafa orðið. Aftur hafa endurbættu kirkjurnar, kalvínstrúarmenn, einkent kenningu sína þessu lýsingarorði. Þeir hafa ávalt, frá því á dögum siðbótarinnar og fram á þenna dag haldið fram strangari innblásturs-kenningu en lúterska kirkjan. Á kenningu endurbættu kirkjunnar var frá upphafi meiri lögmálsblær, gamla testamentisblær, en á kenningu lútersku kirkjunnar.††) Í öllum löndum hafa menn með lútersku nafni barist gegn þeim lögmálsfjötrum, sem fagnaðar-

---

*) Lögmenn kirkjufélagsins B r i e f bls. 11, f. 42. **) Framb. presta bls. 301. ***) S. st. bls. 301. †) S. st, bls. 299. ††) Í eina slíka bók eftir kalvínskan mann, B a s i l M a n l y: The Bible Doctrine of Inspiration, sótti séra Björn B. Jónsson fyrirlestur sinn: Guðlegur innblástur heilagrar ritningar. Aldamót 1899, IX, 40—71.

erindið er fært í með þessu móti. Hér verður þá hið fáránlega uppi á teningi, að lúterska kirkjan í Ameríku seilist í þessu efni út fyrir eigin endimörk sín og inn á skilningssvið kalvínsku kirkjunnar, sem hún annars hefir svo megnan ímugust á, og að kirkjufélagið íslenzka lætur togast þangað líka. Með því er vitaskuld lútersku kirkjunni afneitað og lútersku nafni, sem menn þó leggja svo afar-mikla áherzlu á.

**105. Plenary-innblástur.** Frá þessu sjónarmiði var það í rauninni hepni, að deilan vestan hafs lenti í málaferlum. Fáir hefðu að líkindum trúað, að það gæti átt sér stað nú í byrjun 20. aldar, að til væri sá skilningur á biblíunni, sem fram kom við málareksturinn. Séra Kristinn Ólafsson tók þar af öll tvímæli í framburði sínum fyrir rétti í Pembína, sem vér setjum hér lesendum vorum til fróðleiks, nákvæmlega eins og orðin féllu, tekin jafnótt af vörum prests og lögmanns (Hjálmars A. Bergmans) um leið og þau voru töluð:

„Spurning: Trúið þér frásögn biblíunnar um, að Jósúa hafi skipað sólinni að standa kyrri og að hún hafi gjört það? Trúið þér því, að höfundur þeirrar greinar hafi verið innblásinn? Svar: Já. — Sp.: Og að guð standi í ábyrgð fyrir þessum ummælum biblíunnar? Sv.: Já. — Sp.: Og að þau séu sönn? Sv.: Já. — Sp.: Ef nú stjörnufræðin sýnir, að sólin er fastastjarna, mynduð þér samt sem áður segja, að nauðsynlegt sé að trúa þessu? Sv.: Já. — Sp.: Álítið þér, að sólin snúist kring um jörðina? Sv.: Eg felst á það í biblíunni. Eg skil það alls ekki. Eg felst á það af því sem það er þar. — Sp.: Myndi ekki samkvæmt kenningu yðar sá vera *trúvillingur*, sem eigi tryði því? Sv. Jú, ef hann hafnaði nokkurum ummælum biblíunnar. — Sp.: Fluttuð þér eigi fyrirlestur á kirkjuþingi 1909, þar sem þér sögðuð, að það væri drotni sjálfum eigi ósamboðið, að hafa viðleitni með að takmarka þrælahald, án þess að nema það úr gildi? Sv.: Jú.— Sp.: Og kenning biblíunnar mun í þessu efni vera innblásin? Sv.: Já.— Sp.: Er ekki nauðsynlegt samkvæmt kenningu kirkjufélagsins um fullkominn innblástur, að trúa þeim ummælum í 2. Mósebók, að enginn geti séð guð og lifað? Sv.: Eins og höfundurinn ætlast til. — Sp.: Hvernig fáið þér samrýmt þau ummæli ummælunum í 1. Mós., þar sem tekið er fram: „Abraham sá guð". Og sömuleiðis greinina í 2. Mós. 33,11: „Og drottinn talaði við Móse augliti til auglitis, eins og maður talar við mann." Sv.: Eg er ekki við því búinn að ræða alla biblíuna. — Sp.: Er leyfilegt að spyrja yður, hvort þér trúið því að bæði ummælin séu innblásin? Sv.: Já, í samhenginu. — Sp.: Væri það *trúvilla* að trúa þessu ekki, samkvæmt innblásturskenningu yðar? Sv.: Já. — Sp.: Trúið þér því, að samtalið, sem frá er sagt í 18. kapítula 1. Mós. hafi átt sér stað milli Abrahams og drottins?

Sv.: Já. — Sp.: Munið þér efnið í þeirri samræðu? Sv.: Eg held eg viti við hvað þér eigið. — Sp.: Var eigi drottinn á leið sinni til að eyða Sódómu og Abraham á ferð með honum? Sv.: Jú. — Sp.: Var eigi Abraham að tala máli íbúa Sódómu, til þess að þeim yrði ekki fargað? Sv.: Jú. — Sp.: Vissi eigi drottinn, fyr en hann kom þangað, hve margt þar var af fólki hans? Sv.: Jú, hann vissi það. — Sp.: Ber þó ekki frásögnin hitt með sér? Sv.: Sumir draga það af henni. — Sp.: Þarf að skýra frásögnina á einhvern veg, til þess að geta trúað henni? Sv.: Eg trúi frásögninni. — Sp.: Munið þér eftir frásögninni um ríka manninn í helvíti og Lazarus í faðmi Abrahams? Sv.: Já. — Sp.: Munið þér ástæðuna, sem var gefin fyrir því, að Lazarus gat ekki komið ríka manninum til aðstoðar? Sv.: Það var djúp svo mikið á milli. — Sp.: Munið þér eftir 26. versi 16. kap. Lúkasar: „Og auk alls þessa er milli vor og yðar mikið djúp staðfest", — munið þér eftir því? Sv.: Já. — Sp.: Trúið þér því að þetta sé svo að skilja, að enginn á himnum fái komist yfir til hinna lægri bústaða og enginn frá hinum lægri stöðum fái komst til hinna? Sv.: Já. — Sp.: Munið þér eftir frásögn Jobsbókar um djöfulinn, sem kom fram fyrir drottin, og ræddi við hann um að freista Jobs, til að reyna trú hans? Sv.: Eg man eitthvað í þá átt. — Sp.: Er þá nauðsynlegt að trúa því, samkvæmt kenningunni um fullkominn innblástur, að þessi tvens konar ummæli rekist ekkert á, að enginn á himnum fái að komast til hinna lægri bústaða? Sv.: Já. — Sp.: Og að djöfullinn fái samt komist frá hinum lægri heimkynnum til himins, til að ræða þar málefni við drottin? Sv.: Eg gæti gefið yður betri ástæður. — Sp.: Þegar verið er að eiga við fólk annarar trúar, er það þá ekki svo sem að sjálfsögðu nauðsynlegt að fylgja kenningu biblíunnar í þessu efni? Sv.: Það er rétt að gjöra það, já. — Sp.: Það er ekki einungis rétt, heldur skylda allra góðra kristinna manna, er ekki svo? Sv.: Jú. — Sp.: Og allra góðra lúterstrúarmanna? Sv.: Já. — Sp.: Í 5. Mósebók 13. kap. 6. til 9. versi stendur: „Ef bróðir þinn,sonur móður þinnar, eða sonur þinn eða dóttir þín, eða konan í faðmi þínum, eða vinur þinn, sem þú elskar eins og lífið í brjósti þínu, ginnir þig einslega og segir: Vér skulum fara að dýrka aðra guði — þá er hvorki þú né faðir þinn hafa þekt, af guðum þeirra þjóða, sem kringum yður eru, hvort heldur þær eru nálægt þér, eða fjarlægar þér, frá einu heimskauti til annars, — þá skalt þú eigi gjöra að vilja hans, og eigi hlýða á hann, og þú skalt ekki líta hann vægðarauga, og þú skalt eigi þyrma honum, né hilma yfir með honum; heldur skalt þú drepa hann, þín hönd-skal fyrst á lofti vera gegn honum, til þess að deyða hann, og því næst hönd alls lýðsins." Það stendur hér, að ef bróðir þinn eða kona þín er þér ekki sammála í trúarefnum, þá skulir þú drepa þau. Hví breyttuð þér ekki við sakborninga samkvæmt kenningu biblíunnar? (Ekkert svar). — Sp.: Ef vér tökum gamla testamentið, séra Kristinn, hefir það nokkurs staðar meðferðis, svo yður sé kunnugt, kenninguna um eilífa útskúfan? Sv.: Ekki greinilega. — Sp.: Kom þá sú kenning fyrst til sögu með nýja testamentinu? Sv.: Það er margt í gamla testamentinu, sem bendir í þá áttina, en það er

ekki fullkomlega tekið fram. — Sp.: Svo hún er ekki fullkomlega tekin fram í gamla testamentinu? Sv.: Nei. — Sp.: Myndi ekki sá maður verða álitinn trúvillingur samkvæmt kenningu kirkjufélagsins, sem eigi tryði þessari ritningargrein, sem eg las rétt núna? Sv. Jú. — Sp.: Munið þér eftir staðnum hjá Malakí, þar sem drottinn hótaði að strá saur framan í prestana: Sjá, eg högg af yður arminn og strái saur framan í yður, saurnum frá hátíðafórnunum, og varpa yður út til hans." Munið þér eftir þeim stað? Sv.: Nei, eg man ekki eftir honum. — Sp.: Í Esekíel 4. kap. 12. versi stendur þetta: Skalt þú eta það sem byggkökur og þær skalt þú baka við mannaþrekk fyrir augum þeirra. Má maður ekki til með að trúa þessum stað eins og öðrum? Sv.: Jú. — Sp.: Og er það líka nauðsynlegt að trúa staðnum um Nóa og örkina? Sv.: Já. — Sp.: Og gera sér grein tungumálablendingsins í heiminum á þann hátt, sem það er gert í sögunni um Babels-turninn? Sv.: Já. — Sp.: Og frásögn 1. Móseb. um sköpunina á sex dögum? Sv.: Já. — Sp.: Og trúa sögunni um hvalinn, sem svalg Jónas? Sv.: Já. — Sp.: Og í 2. Móseb. er frásögn um, að drottinn hafi ætlað að leiða Ísrael á tiltekinn stað, en hafi í stað þess að fara með honum sjálfur sent engil sinn, af því hann óttaðist fyrir, að geta ekki stjórnað skapsmunum sínum? Munið þér eftir því? Sv.: Eg man ekki alla biblíuna. — Sp.: Eg ætla að lesa þenna stað í 2. Móseb. 33. kap. „Og eg vil senda engil minn á undan þér, og reka burtu Kanaaníta, Amoríta, Hetíta, Peresíta, Hevíta og Jebúsíta, — til þess lands, sem flýtur í mjólk og hunángi; því að eg vil ekki sjálfur fara þangað með þér, af því að þú ert harðsvíraður lýður, að eg eigi tortími þér á leiðinni. En er fólkið heyrði þenna ófögnuð, urðu þeir hryggir og enginn maður bjó sig í skart. Þá sagði Jahve við Móse: Seg Ísraelsmönnum: Þér eruð harðsvíraður lýður; væri eg eitt augnablik lengur með þér á leiðinni, mundi eg tortíma þér". Trúið þér þessu? Sv.: Já, jeg trúi því, en get ekki skýrt þessa hluti fyrir yður. — Sp.: Eg er eigi að biðja yður um neina skýringu. Einstaklingurinn hefir engan rétt, samkvæmt kenningunni um fullkominn innblástur, til að hafna nokkuru af þessu? Sv.: Nei. — Sp.: Eftir kenningunni um fullkominn innblástur, eins og hún var samþykt af kirkjufélaginu 1909, verður að skoða drottin eins og þann, er les fyrir hverja ritningargrein, er ekki svo? Sv.: Hún er þar samkvæmt vilja hans og tilgangi. — Sp.: Jafnvel þessi staður, sem eg einmitt nú benti á? Sv.: Já. — Sp.: Og fjöldi annara staða, er valdið hafa miklum ágreiningi? Sv.: Öll biblían"*)

Þessi kafli hefir verið prentaður hér orðréttur eftir réttarskýrsla hraðritarans, sem tók orðin jafnótt niður og töluð voru. Þessi hugsanaferill er sjálfsagt öldungis einstakur í trúarsögu þjóðar vorrar. Glögt og greinilega bera orðin með sér, hver tegund innblásturs-kenningar það er, sem kirkjufélagið hall-

---

*) Transcript, bls. 208—215.

ast að og samþykt var með yfirlýsingu þess 1909. Engum dylst, að það er hin frekasta bókstafs-innblásturs-kenning, sem nokkuru sinni hefir verið haldið fram. Forseti kirkjufélagsins, séra Björn, segir hiklaust: „Eg er skilgreining séra Kristins Ólafssonar á plenary-innblæstri samþykkur," eins og áður er tekið fram (bls. 187). Og allir þeir prestar, sem vitni báru í málinu af þess hálfu, tóku nákvæmlega í sama streng og könnuðust við framburð séra Kristins sem laukréttan. Séra Björn sagði í framburði sínum í Grand Forks, „að kirkjufélagið héldi sér ákveðið við plenary-innblástur heilagrar ritningar sem algerlega sannrar í öllum smáatriðum og fyllilega innblásinnar í öllum efnum.*) Hér er gömul guðfræði í algleymingi, sem mist hefir bæði ráð og rænu. Hér eru þær kenningar bornar fram fyrir rétti, að aflögðum eiði, sem gömul guðfæði er að leitast við að fastbinda menn við bæði austan hafs og vestan. Hér er okið, er þeir ekki vildu ganga undir, er mótmæltu á kirkjuþingi 1909.

Eg skýt því undir dóm íslenzks almennings, hvort þau mótmæli hafi verið um skör fram. Hlýtur ekki sá guð, sem gamla testamentið segir um, að hlægi, þegar mennirnir taka saman ráð sín gegn honum, að hlæja að slíkri guðfræði? „Hlýtur ekki guð að hafa hlegið, þegar hann skapaði apann, sagði barnið."**)

**106. Alt bygt á einni ritningargrein.** Hvernig er nú leitast við að styðja þessa kenningu? Menn skyldu ætla, að önnur eins kenning og þessi, sem býður öllum skilningi nútíðarmannsins á biblíunni og tilverunni allri byrginn, hefði við góð og gild rök að styðjast. Menn skyldu ætla, að biblían sjálf legði svo mikla áherzlu á hana, að hún gerði hana út af fyrir sig að sáluhjálparskilyrði. En langt er frá að svo sé. Kenningin um bókstafsinnblástur er þar hvergi. Hún er blátt áfram heiðinglegs uppruna, en tekin upp í trúarhugmynda-kerfi Gyðinga um leið og kenningin um guðlegt ritsafn kom fram með þeim. Biblían flytur engan veginn sjálf þessa kenningu, heldur hefir hún verið fundin upp án nokkurs verulegs stuðnings í biblíunni. Fyrir rétti, þar sem öllu virtist vera tjaldað,

*) Abstract bls. 106 f. 315. Sbr. Framb. pr. bls. 297. **) Lyman Abbott: Seeking After Good, 1910, bls. 118.

sem til var, var að eins bent á eina ritningargrein, þessari merkilegu kenningu til stuðnings. Það var þessi alkunna, sem svo er orðuð eftir gömlu þýðingunni: „Öll ritning er innblásin af guði“ (2. Tím. 3,16), en eftir nýju þýðingunni: „Sérhver ritning, sem innblásin er af guði“, og er þar bent á neðanmáls, að réttara væri ef til vill að orða þýðinguna svo: „Sérhver guðinnblásin ritningargrein“. Þá er einmitt mönnum sjálfum ætlað að finna hvaða ritning eða ritningargrein sé innblásin. Svo er eftir að vita, hvort þetta rit, sem þessi ritningargrein stendur í, er innblásið eða ekki. Langflestir álíta nú, að Tímóteusarbréfin séu ekki eftir Pál, heldur saman tekin af einhverjum ókunnum höfundi eftir hans dag og eignuð Páli, til þess að gefa orðum höfundarins meiri helgi. Þau eru að minsta kosti ólík Páli að mörgu leyti og miklu líkari Péturs-bréfum og Jakobs, líklega ekki saman tekin fyr en mörgum árum eftir dauða Páls, allra síðast á fyrstu öld eða fyrst á annari. En þá fer nú innblásturinn að verða næsta vafasamur. Jafnvel þó orðin séu hér látin eiga við rit, en ekki einstakar ritningargreinar, ber þó öllum saman um, að hér sé ekki átt við nýja testamentið, heldur að eins gamla testamentið.

„Ef þetta er eina heimildin til að segja, að biblían sé innblásin, setur það kirkjuna í þau fáránlegu spor, að verða að kannast við innblástur gamla testamentisins, án þess að heimta nokkura trú á innblástur nýja testamentisins. Auk þess var hugmynd þessi upprunalega bygð á rangri þýðingu þessarar ritningargreinar. Stað þenna var vant að þýða svo: „Öll ritning er innblásin af guði,“ þar sem mönnum kemur saman um nú, að rétta þýðingin sé: „Sérhver ritning, sem innblásin er.“ Að minsta kosti kemur þessum vitnum ekki til hugar að gefa í skyn, að lúterska kirkjan hafi nokkuru sinni samþykt nokkura sérstaka skýringu þessarar greinar, eða að nokkurt játningarritanna geri ráð fyrir, að þessi ritningargrein sé skilin sem yfirlýsing um fullkominn eða bókstaflegan innblástur biblíunnar. Samt hafa þeir séra Björn og séra Steingrímur það frábæra hugrekki, að segja þessum rétti, að ein málsgrein í bréfum Páls postula, rituð löngu áður en endilegt úrval hafði verið gert, að því er ritsafn gamla testamentisins snertir, og löngu áður en nokkur lét sig dreyma um, að nokkuru sinni myndi til verða nokkurt nýja testamenti, merki það, að öll biblían, eins og vér eigum hana nú, sé innblásin. Að halda slíku fram er meira en lítið barnalegt, þvert ofan í það, að hverjum sæmilega upplýstum manni er um það kunnugt, að beiskur ágreiningur átti sér stað í kirkjunni, áður en endilegt úrval ritsafnsins var gert. Efasemdir um, hvort kaflar úr Esekíel, Prédikarinn allur, Ljóðaljóðin, Esterar-bók og Orðskviðirnir ættu þar heima,

voru ekki niðurbældar, unz ályktan var gerð þessum ritum í vil á Gyðinga-samkundunni í Jabne eða Jamnía 90 e. Kr., og kirkjuþingið í Kartagó árið 397 e. Kr. samþykti að láta apókrýfisku bækurnar heyra ritsafni gamla testamentisins til. Páll postuli dó um 64 e. Kr., eða hér um bil 26 árum fyrir þingið í Jamnía, og öldum á undan kirkjuþinginu í Kartagó. Samt sem áður er réttur þessi beðinn að segja, að í þessu 2. Tímóteusar-bréfi, í málsgrein þeirri, sem til er vitnað (2. Tím. 3,16) hafi hann lýst yfir því, að bækur, er seinna voru valdar úr öðrum og samþyktar af kirkjuþingum, sé bókstaflega eða fullkomlega (plenarily) innblásnar af heilögum anda. Getur nokkurt vit verið í slíku? Að því er hinar apókrýfisku bækur snertir, var því spurnaratriði ósvarað, hvort þær væru innblásnar eða ekki, þangað til á siðbótartímum og ekki til lykta leitt fyr en löngu eftir dauða Lúters. Lúter dó 18. febrúar 1546. En 8. apríl 1546 skipaði kirkjuþingið í Trident þeim jafnhliða öðrum bókum ritningarinnar og lýsti bölvan yfir öllum, sem væru gagnstæðrar skoðunar; en með því var sýnt, að enn á þeirri tíð voru þau skoðuð sem einn hluti ritsafnsins. Standa bækur þessar jafnvel enn fram að þessum degi í biblíu rómversku, katólsku kirkjunnar. Ritsafn nýja testamentisins í þeirri mynd, sem það nú hefir, var gert út um á kirkjuþinginu í Laódicea 367 e. Kr. — nema hvað Opinberunarbókin varð út undan, — og staðfest á kirkjuþinginu í Kartagó 397 e. Kr. — sama kirkjuþinginu, sem tók apókrýfisku bækurnar inn í ritsafn gamla testamentisins. En að þessu leyti hefir þetta bókaval þess verið álitið rangt og dómur þess í þessu efni skeikull, og gerður ógildur af sakaraðiljum. Samt sem áður halda þeir séra Björn og séra Steingrímur því fram, að Páll postuli hafi átt við bækur, sem endileg samþykt var ekki gerð um fyr en eftir daga siðbótarinnar og eftir dauða Lúters, að því er mótmælenda kirkjurnar snertir, bækur, sem enn er ósamþykki um milli rómversku kirkjunnar katólsku og mótmælenda kirknanna. Til þess að dæma þessa fráleitu staðhæfing réttmæta, yrði þessi háttvirti réttur að skýra þessa ritningargrein, — segja hvað hún merkir og við hvaða rit hún á, og loggilda það sem réttan skilning þessarar ritningargreinar, sem bindur alla söfnuði í Norður-Dakota, því einungis ein skýring þeirrar ritningargreinar getur verið rétt. En með allri virðingu skal á það bent, að þessi háttvirti réttur hefir ekkert kirkjulegt lögsagnarvald, og það er ekki eitt af skylduverkum hans að skýra biblíuna."*)

**107. Innblásturs-kenning heimatrúboðsins.** Það var áður tekið fram, að í deilunni um biblíuna hefði enginn með þjóð vorri viljað kannast við kenninguna um bókstafs-innblástur sem sína kenningu. Kirkjufélagið vestur-íslenzka skaut sér inn undir enska heitið plenary eða fullkominn. En reynslan varð sú, að kenning þessi um fullkominn innblástur sýndi sig að vera

*) Hjálmar A. Bergman og Barði G. Skúlason: Appellants' Brief, bls. 86—88.

ein hin allra-frekasta bókstafs-innblásturs-kenning, sem nokkuru sinni hefir verið haldið fram í kristninni. Heimatrúboðið á Íslandi vill heldur ekki við hana kannast, og virðist eitthvert hugboð hafa um, að kenning kirkjufélagsins um fullkominn (plenary) innblástur kunni að vera eitthvað meira en lítið varhugavert. Í deilu við prófessor Jón Helgason út af trúmálahugleiðingum hans gerði S. Á. Gíslason, erindreki heimatrúboðsins danska, þessa yfirlýsing um innblásturinn:

„Eg fyrir mitt leyti hallast helzt að þeirri skoðan eða trú, að ritningin sé guðs orð í þeim skilningi, að guð hafi séð um alveg sérstaklega, á óskiljanlegan veg fyrir mig, að rétt væri skýrt frá í frumhandritum biblíunnar, en með því er alls ekki sagt, að allar hugsanir, orð og athafnir, sem skýrt er frá í biblíunni, hafi verið samkvæmar vilja guðs og því síður, að hvert orð ritningarinnar, eins og það er nú, hvort heldur á frummálunum eða í þýðingum sé ‚guðinnblásið'."*)

Hér er öllum augljóst, að hlaupið er undan merkjum hinnar gömlu innblásturs-kenningar kirkjunnar. Þegar um þessa innblásturs-skilgreiningu er hugsað, verður hún að engu og kemur að engu haldi. Hvert gagn er að því nokkurum manni, þótt einhver frumhandrit, eiginhandarrit höfundanna, sem aldrei hafa til verið eða glötuð eru fyrir mörgum öldum, hafi skýrt rétt frá og verið guðinnblásin, ef þau hafa brjálast svo og svo mikið í meðferðinni, þar sem einn afritari hefir tekið við af öðrum? Hverng á eg þá að vita, hvað er áreiðanlegt og guðinnblásið og hvað ekki? Verður þá ekki hver að fara eftir sínu höfði, þekking sinni og trúarvitund? Um hana má segja með prófessor Jóni Helgasyni: „Með þessari klúðurslegu kenningu er innblæstri ritningarinnar gersamlega hafnað." „Það er innblástur og ekki innblástur, en selst sem innblástur. Því hvaða innblástur væri það, sem einvörðungu væri fólginn í að sjá um, að rétt sé skýrt frá öllu í **frumhandritunum,** sem fyrir þúsundum ára eru að engu orðin og enginn veit nema verið hafi í verulegustu atriðum mjög svo frábrugðin þeim eftirritum og eftirrita-eftirritum, sem vér höfum nú á að byggja. Því að eins og herra S. verður sjálfur að játa, ‚þá ber elztu heimildum að texta biblíunnar engan veginn vel saman, enda þótt það sé sjaldan (þ. e. þó stundum) í mikilvægustu atriðum'. En jafnlítið vit er að kalla ritninguna, eins og hún er nú, guðs orð

*) Ísafold 1914. Sbr. Jón Helgason: Til andmælenda minna, bls. 64.

fyrir þá sök eina, að guð hafi séð um frumhandritin glötuðu, hafi ekki jafnframt verið séð um, að efni og innihald þeirra varðveittist óbrjálað í eftirritum til vorra tíma. Því einmitt með því að kalla ritninguna ‚guðs orð‘ og ‚guðinnblásna‘, vildu menn gefa í skyn, að ritum hennar væri treystandi í öllum greinum, en það játar hr. S. sjálfur, að ekki sé. Sé ritningin guðs orð að eins í þessum skilningi hr. S., liggur í augum uppi, að hún er ekki guðs orð, innblástur hennar enginn innblástur, en ‚selst sem innblástur‘ þeim, er ekki kunna að meta hlutina eins og þeir eru verðir.“*)

Gömul guðfræði er sjálfri sér lík bæði austan hafs og vestan. Fyrir rétti var gripið til sömu óyndisúrræðanna, þegar er verja átti málið og sanna trúvillu-kæruna miklu, með því að vísa til frumhandritanna. En það bætti ekkert úr skák. Seytjándu aldar kenningin er sjálfri sér samkvæmari, þrátt fyrir það, hve mikil fjarstæða hún er: „Að guð hafi með sínum heilaga anda útbúið höfunda biblíunnar, að alt, sem þeir hafa ritað, **sé algerlega rétt** og sé samþykt af guði, svo að alt, sem stendur í biblíunni, sé þar að hans vilja eins og hann sjálfur vildi segja það og sé því hans orð, talað upp á hans ábyrgð.“**) Þetta er vitaskuld óvitatal og óhæfa, þar sem hvert mannlega ófullkomið orð biblíunnar gerir með þessum skilningi guð að lygara. En það er sjálfu sjer samkvæmara en hin lokleysan.

---

*) Jón Helgason: Til andmælenda minna. Sérpr. úr Ísafold 1914, bls. 66—67. **) Séra Björn B. Jónsson: Aldamót IX, 1899.

---

IX

# TRÚARVITUNDIN

108. **Úrskurðarvaldið.** Menn hafa trúað á óskeikula kirkju og óskeikulan páfa, og mikill hluti kristninnar gerir það enn. Siðbótin gerði uppreist gegn þeirri trú og staðhæfði, að hvorki væri nokkur kirkja, kirkjuþing né páfi til í víðri veröld, sem ætti með nokkurum rétti einkenni óskeikulleikans. Þeim hefði öllum stórkostlega skjátlast. En án hins ytra úrskurðarvalds þóttust menn ekki geta verið. Einhvers staðar hlytu mennirnir að eiga óskeikulan dómstól, sem skorið gæti úr öllum andlegum ágreiningsmálum. Í stað óskeikullar kirkju og óskeikuls páfa kom óskeikul bók. Af 17. aldar guðfræðinni var biblían gerð að þessum óskeikula dómara í andlegum efnum. Þá kom fram kenningin um bókstafs-innblástur biblíunnar í algleymingi. Hún átti að tryggja mönnunum það, að úrskurðarvald biblíunnar væri öldungis óskeikult, með því að hvert orð væri af guði talað.*) Sú kenning var að öllu leyti uppfundin af mönnum, sem ætluðu, að svo hlyti það að vera, til þess að trúargrundvöllurinn yrði ekki ótryggur. Nú er þessi kenning hrunin til grunna eins og vér höfum séð, svo þar stendur ekki steinn yfir steini, vegna margaukinnar þekkingar á biblíunni sjálfri. Enda reyndist þessi eftirlætiskenning öldungis óhæf og gagnslaus og langt frá því að ná tilgangi sínum. Menn skýrðu ritninguna á eins margvíslegan hátt og skoðanir og stefnur voru margar. Ein skýringin stóð gegn annari. Út af ólíkum skýringum á orðum ritningarinnar urðu klofningar kristninnar

*) En um það úrskurðarvald má segja hið sama og Alanus frá Lille sagði á 13. öld um páfavaldið: Auctoritas cereum habet nasum; id est, indiversum potest flecti sensum.

fleiri og fleiri. Hún molaðist í smátt undir Juggernauts-vagni sinnar eigin innblásturskenningar um óskeikula bók. Villan, sem mannsandinn hafði þarna lent út í, varð hugsandi mönnum ljósari og ljósari. Sú spurning varð æ háværari: Eigum vér mennirnir nokkurn óskeikulan dómstól hér á þessari jörð? Er nokkurt fullveldi til í andlegum efnum, er sé þess um komið að skipa manninum, svo hann sé skilyrðislaust skyldugur til að hlýða? Það er hvergi nokkur maður né stofnan, er skipað geti mótmælum mannsandans í siðferðilegum eða vitsmunalegum efnum að þegja í nafni einhvers æðra fullveldis. Það er hvergi til nokkur trúarsetning, er sé undanþegin rannsókn, með því að fullvissa um að hún sé séreign trúarinnar (de fide).*)

Hvaða prófstein eigum vér mennirnir þá að nota til að finna sannleikann? Á hvern hátt verðum vér þess varir, að eitthvað er satt? Á þann hátt, að það fær meðmæli hinnar innri vitundar vorrar. Það, sem finnur bergmál í sálum vorum, og eignast þau meðmæli vors innra meðvitundarlífs eða samvizku vorrar, að vér föllumst á það og göngum því á vald, — það segjum vér satt að vera. Vér eigum í innra manni vorum dómstól. Það er einkaréttur hvers manns og heilög skylda að fara fram fyrir hann með hvert vafamál og láta hann skera úr. Með einlægum og sannleikselskum mönnum á öllum tímum virðist sú tilfinning vera almenn, að á slíkum mikilvægum úrskurðar-augnablikum hafi þeir ekki verið einir, heldur hafi andi þeirra verið studdur af öðrum æðri anda, — guðs anda, sannleikans anda. En ábyrgðin hefir hvílt á þeim sjálfum. Þeir hafa aflað sér allrar þekkingar, sem þeim var unt, á reynslu liðinna alda og reynslu samtíðar sinnar. Að afla sér slíkrar þekkingar, að svo miklu leyti sem hverjum einum er unt, er sjálfsögð skylda hvers manns. Í biblíunni er mikið af þeirri dýrmætu reynslu geymt og lagt oss upp í hendur, — þetta, sem bezt hefir reynst. Fram hjá því má vitaskuld enginn ganga. En þessa þekkingu verður hver maður sjálfur að sælda, prófa alt og halda því, sem eigin andi hans og vitund álítur gott samkvæmt kenningu postulans. Það má vera, að honum skjátlist á einn eður annan veg. Hve samvizkusamur sem maðurinn er og sannleikselskur, getur honum skjátlast, og það jafnvel þó

*) William R. Inge: Faith and its Psychology, 1910, bls. 103.

hann þykist eiga eitthvað af guðs anda í sálu sinni. Öllum mönnum skjátlast. Ekkert, sem heitir maður, er óskeikult. Mönnunum er ekkert óskeikult úrskurðarvald gefið hér á þessari jörð. En einlægur maður breytir eftir beztu sannfæringu um hvað rétt sé í hverjum hlut, unz hann lætur sér skiljast, að annað sé réttara. Hann er ávalt til þess boðinn og búinn að leiðrétta þá niðurstöðu, er hann eitt sinn hefir komist að, og veita því viðtöku, sem er sannara og réttara, hvenær sem hann fær tök á því. Sannleikurinn er ekki eitthvað, sem fellur niður í sálu mannsins fullskapað á einu augnabliki. Heldur er það að eins ofurlítið brot, eitt og eitt stjörnuhrap á hinum ómælilega stjörnuhimni, sem hann handsamar hvert skifti. Vér erum að eins á leiðinni til að eignast sannleikann, erum eins og börn, sem eru að læra stafrófið, þekkjum fáeina stafi, en eigum eftir að þekkja miklu fleiri. Eigum að eins fáein brot af sannleikanum, lifum til þess að bæta fáeinum við. Við þetta átti Lessing, þegar hann sagði, að ef guð almáttugur biði honum sannleikann í annari hendi og sannleiksleitina í hinni, mundi hann kjósa sér í þeirri hendinni, sem á sannleiksleitinni héldi. Til þess að geta eignast meira, þarf stöðug þrá að vera í sálum vorum, stöðug leit frá hinu minna til hins meira, — stöðug dómarathöfn að vera framkvæmd, þar sem valið er og hafnað, eftir því ljósi, sem vér höfum í oss. Í hvert skifti verðum vér sjálfir að segja oss, hvað sé sannleikur. Úrskurðarvaldið, dómstóllinn, sem vér ávalt að síðustu stefnum hverju vafamáli fyrir, er í eigin sálum vorum og hvergi annars staðar. Þegar vér látum aðra gera út um málið fyrir oss, erum vér enn þá ómyndug börn. Einungis með því móti að fella dóminn sjálfur og bera þá ábyrgð, sem því er samfara, verður maðurinn myndugur í andlegum efnum. Þessu er þannig farið á öllum sviðum mannsandans. Það á sér ekkert síður stað á sviði trúarbragðanna, sem um leið er svið samvizkunnar og siðferðisbaráttunnar. Úrskurðarvaldið er ávalt að síðustu í sálu hvers einstaklings. Mótmælendatrúin verður í þessu efni að síðustu lýðveldistrú, trúin á biblíuna einveldistrú. Mótmælendur trúa ekki á biblíuna, þegar þeir breyta eftir eigin kenningum sínum. En trúin á innblástur einstaklingsins er trú mótmælenda, — sú trú, að andi einstaklingsins, studdur af guðs anda, sé hið æðsta úrskurðarvald í öllum vafamálum. Og það er hug-

mynd biblíunnar um innblástur, — sú innblásturs-hugmynd, sem Páll postuli heldur fram (1. Kor. 12,4—12). Þegar hann talar um ‚greining anda' sem eina af hinum helztu andagáfum, á hann einmitt við að greina rétt frá röngu, satt frá ósönnu, vit frá óviti í andlegum efnum og kveða þann greiningar-úrskurð upp fyrir sjálfum sér og öðrum. Gáfu og rétt til þess hefir hver kristinn einstaklingur þegið eftir þeim mæli trúar og þekkingar, sem honum hefir verið gefinn. „Fyrir því er hugmyndin um, að nokkurt ytra úrskurðarvald heyri biblíunni til, hvarvetna að ganga úr gildi. Það verður ekki kristindóminum að tjóni, ef einungis viðurkenningin breiðist æ betur út um leið, um hið óumræðilega innra gildi biblíunnar sem óviðjafnanlegs leiðarvísis í trúarefnum og ótæmandi uppsprettu trúarlegs eldmóðs."*)

109. **Kristur og trúarvitundin.** Trúarbrögð mannanna eru öll umfangsmikil kerfi. En í þessum kerfum er ávalt einhver kjarni. Kerfin eru umbúðir, sem tíminn og sagan hefir vafið utan um. Kjarninn er lífsneistinn, sannleiksatriðið, sem þau geyma, — það sem styrkir manninn í baráttunni fyrir tilverunni, það sem gefur þeim gildi í lífinu. Þessi kjarni er þá um leið hið sannasta og bezta, er þeir, sem þeim trúarbrögðum fylgja, hafa komið auga á og tileinkað sér. Hæfileikinn til trúar er einn þáttur mannlegs eðlis. Hver heilbrigður maður finnur til þarfar að fullnægja þeim hæfileika. Sú fullnægja virðist í því fólgin að ganga hinu sannasta og réttasta, sem vér þekkjum, á vald, og laga líf vort eftir því. Kjarninn í hinum kristilegu trúarbrögðum er Kristur, — það sem hann var og það sem hann vildi, erindi hans alt hér á þessari jörð, líf hans, kenning og dauði. Það er hið sannasta, sem vér kristnir menn höfum komið auga á, — sannindi svo mikil, að vér köllum það opinberan, — guðlega opinberan. Það er hámark þekkingar vorrar í andlegum efnum. Það er lífskjarni trúar vorrar. Oss finst sannleikurinn sjálfur hafa komið til móts við oss í Kristi, sannleikurinn um það, hvernig oss beri að verja lífi voru, — sannleikurinn um það, hverju vér eigum að treysta, til þess að geta lifað eins og sannir menn. Guð

*) Ernst von Dobschütz, Strassburg, Encyclopaedia of Religion and Ethics II, 592.

og sannleikurinn verður eitt í huga vorum, því vér fáum ekki hugsað oss sannleikann í insta eðli sem persónulausa stærð. Fyrir því segjum vér þá líka: Guð kom til móts við oss í Kristi. Í persónu hans hafa þau sannindi til vor ljómað, sem hæst bergmál hafa fundið í sálum vorum, og eignast hafa eindregin meðmæli anda vors. Þar sem Kristur er, höfum vér fundið sjálfa oss og fundið guð. Í sambandi við hann hefir sannleikurinn náð á oss sterkustum tökum og fengið mest vald yfir oss.

Í allri hugsan vorri í trúarefnum verður því Kristur mælikvarðinn. Hann verður það hámark, sem vér dæmum alt annað eftir. Eða nákvæmara tekið fram: Það í sambandi við Krist, sem vér höfum tileinkað oss. Það er það „vaxtar-takmark Kristsfyllingarinnar“, sem vér höfum náð, til þess að tala orðum postulans (Ef. 4,13). En Kristur í oss er sama sem andi Krists í sálum vorum. Og andi Krists og heilagur andi verður þá nákvæmlega hið sama. Þetta er þá trúarvitund kristinna manna: Kristur lifandi og starfandi í sálum vorum, samvaxinn eðli voru, — hann sem sagðist verða með sínum til daganna enda. „Sá, sem er í mér, og eg í honum, hann ber mikinn ávöxt“ (Jóh. 15,5). Trúarvitund kristins manns er ávöxturinn, sem hann ber, þegar Kristur er í honum og hann er í Kristi. Trúarvitund Jesú, ef vér megum um hana tala, er ávöxturinn af samlífi hans við föðurinn. „Trúið mér, að eg er í föðurnum og faðirinn í mér“ (Jóh. 14,11). Og „sá, sem hefir séð mig, hefir séð föðurinn“ (Jóh. 14,9). Þetta nefndu þeir gömlu: T e s t i m o n i u m s p i r i t u s s a n c t i.

Út frá þessari trúarvitund sinni dæmdi frelsarinn um öll trúaróðul þjóðar sinnar. Og þetta, sem nefna má trúarvitund hans, er samfélag hans við föðurinn. Þegar hann bar hinar trúarlegu stofnanir þjóðar sinnar á þann mælikvarða, varð gildi þeirra næsta léttvægt, hve mikla hefðarhelgi, sem þær áttu í huga hennar. En hann hikaði sér ekki við, að setja þessa trúarvitund sína upp sem mælikvarða eða dómstól yfir öllum hinum heilögu stofnunum Gyðingalýðs. L ö g m á l i ð var hin æðsta og helgasta af þessum stofnunum. Líklega hefir engin þjóð átt jafnmikinn helgidóm og Gyðingar, þar sem lögmálið var. Hann leiddi lögmálið fram fyrir dómstól trúarvitundar sinnar — þetta, sem Gyðingar báru meiri lotningu fyrir en öllu öðru, —

og það varð léttvægt frammi fyrir þeim dómstól. „Þér hafið heyrt að sagt var við forfeðurna ...., en eg segi yður," segir hann hvað eftir annað í fjallræðunni. Hann hefir aðra vitund, sem er fullkomnari, og lögmálið bliknar og verður að engu eins og skuggi fyrir upprennandi sól. — Hvíldardagurinn var önnur heilög stofnan Gyðinga, svo heilög, að þeir naumast þorðu að draga andann á hvíldardegi eða hreyfa sig. Jesús vegur lögmálið um hvíldardaginn á vogarskálar trúarvitundar sinnar og segir: „Hvíldardagurinn varð til mannsins vegna, og eigi maðurinn vegna hvíldardagsins; svo að mannssonurinn er jafnvel herra hvíldardagsins" (Mark. 2,27, 28). — Musterið og musterisdýrkanina alla dæmdi hann eins og eitthvað, sem fallið væri öldungis úr gildi, þrátt fyrir þá guðlegu helgi, sem því hafði verið eignuð. „Sú stund kemur, er þér hvorki munið tilbiðja föðurinn á þessu fjalli né í Jerúsalem" (Jóh. 4,22). Á þenna hátt kendi hann eins og sá, sem vald hafði, en ekki eins og fræðimennirnir (Mark. 1,22). Það var ekki mikil furða, þó að það væri sagt. Því hann stefndi því öllu fyrir dóm trúarvitundar sinnar, — sinnar eigin frjálsu hugsunar frammi fyrir augliti föðurins, og sagði: Í hugskoti mínu, í sál minni hefi eg æðsta dómstólinn. Honum verður alt annað að lúta. Fyrir því fanst foringjum lýðsins að hann virða alla helgidómana vettugi og sýna þeim lítilsvirðingu. Og fyrir þetta hófust þeir handa og ofsóttu hann á allar lundir, unz þeim tókst að svifta hann lífi. Til hvers lét hann líf sitt? Til þess ekki sízt, að lærisveinar hans og alt það, sem heitir maður, mætti eignast þau dýrmætu einkaréttindi, ávalt og í öllum efnum að mega vega hvern helgidóm á vogarskál trúarvitundar sinnar.

Það er þetta, sem nefnt hefir verið samvizkufrelsi eða hugsanafrelsi í andlegum efnum. Meira og göfugra blóði hefir verið úthelt fyrir þá hugsjón en nokkura aðra. Hið göfuga ætlunarverk mótmælenda kirknanna og á sérstakan hátt lútersku kirkjunnar hefir verið í því fólgið að berjast fyrir rétti einstaklingsins til að beita dómgreind sinni (the right of private judgment) í trúarefnum. Það ætlunarverk er enn ekki af hendi leyst, og verður mannkynssögunni að líkindum jafnlangt. Nútíðarmanninum finst eigi lífið þess vert að lifa, svo framarlega hann sé sviftur þeim rétti.

**110. Gildi biblíunnar.** Þegar eg les biblíuna og hugsa um efni hennar, met eg þar alt samkvæmt þeim mælikvarða, sem Kristsvitund mín gefur mér. Meðvitund hvers manns segir honum, að í öllum efnum eigi hann einungis að gera sig ánægðan með hið æðsta. Velji hann eitthvað minna og lélegra en hið fullkomnasta, sem hann hefir komið auga á, er hann að taka niður fyrir sig og svíkja sjálfan sig. Trúarhugmyndirnar birtast oss í biblíunni á mjög ólíku þroskastigi. „Guð opinberaði sig fyrst (í náttúrunni) sem hinn sterka guð. E l, síðan birtist hann sem sá guð, er vakir yfir sáttmáls-sambandi (í lögmálinu), J a h v e, og að síðustu í sál Krists. Og síðan birtist hann hverjum trúuðum manni sem guð f a ð i r. Þetta er hið dularfulla og frjósama starf anda hans, sem iðjandi er í náttúrunni og hjarta mannsins. Þessum opinberunum guðs, sem hver hefir fylgt annari, hefir maðurinn í hvert skifti gefið það svar, sem hver þeirra blés honum í brjóst. Þegar guð birtist í mætti, svaraði maðurinn með fórnum og töfrasæringum. Þegar hann birtist í réttlæti, var honum svarað með friðþægingar-athöfnum og góðum verkum. Þegar hann birtist í kærleika, svaraði maðurinn með trúnni einni, það er að segja trúnaðartrausti og með því að gefa honum hjarta sitt skilyrðislaust."*)

Þegar kristinn maður les biblíuna með skilningi og þekkingu, hugsar hann með sér: Hinum lægri stigum opinberunarinnar h a f n a eg. Einungis hið æðsta, sem mér er gefið með Kristi, tileinka eg mér. Eg legg mér ekki á herðar vanþekkingu og barnalegar trúarhugmyndir fyrri alda. Þá byrði gæti eg ekki borið og vil ekki bera. Það sem Kristur hefir að bjóða, er mér sannleikur, af því það finnur bergmál í hjarta mínu og fær meðhald samvizku minnar. Gamla testamentið er mér þroskasaga trúarhugmyndanna. Að svo miklu leyti sem eg finn þar andardrátt trúarinnar er það mér til sáluhótar. Það sem þar stendur Kristi næst er kenning spámannanna og hið fegursta í trúarljóðum Ísraels. En innanum er ótal margt tímabundið og ófullkomið, sem ekkert á skylt við Krist. Bölbænum og hefndarhug hefir Kristur kent mér að vísa á bug. Eg finn skyldu mína að vísa því eins á bug, þegar eg verð þess var hjá

*) Auguste Sabatier: Les Religions d'Autorité et la Religion de l'Esprit. e. útg. London 1904. bls. 374. Viðurkend að vera bezta bókin, sem rituð hefir verið um úrskurðarvaldið í andlegum efnum.

einhverjum spámanni eða gyðinglegu sálmaskáldi, eða jafn vel í nýja testamentinu, eins og eg finn mér skylt að vísa því á bug hjá sjálfum mér eða öðrum í lífinu. Um biblíuna og gildi hennar hefir Kristur kent mér að dæma sem frjáls maður, en ekki eins og sá, er enn þrælkar undir einhverju lögmálsoki. Hann hefir kent mér að stefna öllu þar fram fyrir úrskurð Kristsvitundarinnar í sálu minni, og velja og hafna, eins og hún segir mér til.

Kristur er mér vegurinn, sannleikurinn og lífið. Öll játning mín um hann kemur fram í því orði. Það er játning allra trúaðra manna kristinna. Hann er hámarkið. Hann og fagnaðarerindi hans er mælikvarðinn. Í rauninni er það ekki eg sjálfur, heldur Kristur í mér, sem dæmir og úrskurðar. Sú „greining andanna", sem eg finn skyldu mína að gera, þegar eg er að lesa í biblíunni og þegar eg er úti í lífinu, er eiginlega hans verk í sálu minni. En þegar eg fer að hugsa mig um, er Kristur trúarvitundar minnar fremur sá Kristur, sem dýrlegur er orðinn og lifir og starfar í sannleiksbaráttu mannanna, heldur en sá Jesús, sem eitt sinn var hér á jörðu og guðspjöllin lýsa fyrir mér. Eg met mikils og fæ engan veginn án verið heimildanna, sem oss eru þar gefnar fyrir æfiferli hans hér á jörðu. Án hins ritaða orðs megum vér vitaskuld aldrei vera. Í því finnur trúarvitundin ávalt það sögulega bakhjarl og þá fótfestu, sem henni er lífsskilyrði. Án þess fer henni eins og flugdrekanum, sem kominn var hátt í loft upp og ætlaði sig til þess færan að komast enn hærra ef hann sliti taugina, er batt hann við jörðina. Hann gerði það, en í stað þess að komast hærra, féll hann beina leið til jarðar. Hin ritaða frásögn guðspjallanna verður oss ávalt óumræðilega dýrmæt. Hún er taugin, sem bindur trúarvitundina við jörðina og hinn sögulega umheim. En hún sviftir ekki trúarvitundina öllu frjálsræði, — veitir henni miklu fremur fulla heimild til að beita sér í allar áttir, eins langt og taugin nær. Sá Kristur, sem lifir í hjarta mínu, gefur mér fult frelsi til að dæma um einstök atriði þessara heimilda eftir því sem bezt samrímist því vaxtartakmarki Krists-fyllingarinnar, sem eg hefi náð. Hann gerir mér alls ekki að skyldu að dæma heimildir þessar jafn-góðar og gildar, en gefur mér fullkomið leyfi til að greina frá drætti, sem mér finnast ósannir og varpa skugga á Kristsmynd mína.

Um þá segi eg, að þeir tilheyri hinum tímabundnu umbúðum. Svo framarlega sem eg byndi mig algerlega við heimildir nýja testamentisins, þrátt fyrir mótmæli samvizku minnar, yrði nýja testamentið mér nýtt lögmálsok, sem eg þrælkaði undir. Þá yrði líka hugmynd mín um samverknað guðsandans og mannsandans, eða með öðrum orðum hugmynd mín um það, sem vér nefnum opinberan, sú, að hún sé kyrrstæð (static) og hafi verið gefin eitt skifti fyrir öll, en eigi á framþróunarleið (dynamic). En þar er einmitt vatnaskil gamallar og nýrrar guðfræði. Gömul guðfræði álítur, að guðleg opinberan sé gefin eitt skifti fyrir öll. Henni sé gersamlega lokið með nýja testamentinu og vér verðum að láta oss nægja áhrif hennar. En menn nýrrar guðfræði trúa á þann Krist, sem stöðugt er að leiða lærisveina sína í allan sannleika og lét vera að segja þeim svo margt á hérvistardögum sínum, sem þeir þoldu ekki eða voru ekki vaxnir að sinni. Frá þessu sjónarmiði kennir andi Krists trúuðum nútíðarmönnum að vega hin ýmsu ummæli nýja testamentisins og að velja og hafna, alt eftir því sem trúarvitund þeirra segir þeim. Í sambandi við æfiferil frelsarans er til dæmis sagt frá ýmsu, sem brýtur bág við trúarvitund margra kristinna manna, er eins og þröskuldur á leið þeirra og þeim er ekki með nokkuru móti unt að tileinka sér. Er þeim leyfilegt að hafna slíku? Svarið hlýtur að verða hiklaust já, þar sem þetta slítur þá engan veginn úr trúarsambandi við frelsarann, heldur gerir það einmitt öflugra og tryggara. Ef Kristur er þeim enn þá meir vegurinn, sannleikurinn og lífið eftir en áður, þá er það sjálfsagt. Vér trúum ekki á dauða bók eða dauðar bókmentaheimildir, hve mikils virði sem þær þó kunna að vera, en vér trúum á þann lifanda lávarð dýrðarinnar, sem talar í sálum vorum og samvizkum. Hann er æðsta úrskurðarvald í andlegum efnum. Hinn eilífi sannleikur sjálfur er hið æðsta úrskurðarvald.

111. **Sannleikans má engan dylja.** Kristnum mönnum ætti að vera allra manna annast um sannleikann. Á öllum sviðum er sannleiksástin sjálfsögð, enda einkennir hún þekkingarleit vorra tíma meira en nokkurt annað undanfarið tímabil. Hvergi ætti sannleiksástin að vera eins augljós eins og í sambandi við trúarbrögðin. En þar er svo oft hugsað sem svo: Það er ekki síður

skylda að dylja menn sannleikans en að segja hann. Í sambandi við trú vora hefir það einatt verið álitin skylda prestsins að dylja söfnuðinn alls þess, sem vakið gæti efasemdir um það sem álitið er rétt að trúa. En rétt-trúnaðurinn er sú trú, sem vér höfum tekið í arf. Er það rétt? Er sannleikanum nokkuru sinni ávinningur að því, að yfir honum sé þagað? Liggur það ekki í eðli sannleikans, að hans má engan dylja? Í þessu efni var Lúter hin mikla fyrirmynd eins og í mörgum öðrum. Hann gerði söfnuðinn að trúnaðarmanni sínum í prédikunum sínum í kirkjunni um fram flesta aðra. Hispurslaust kvað hann þar upp dóm sinn um þetta eða hitt rit biblíunnar, sagði álit sitt um efni þess og gildi og fór hörðum orðum um bæði eitt og annað trúaratriði, sem mönnum hafði verið heilagt áður. Svo breyta allir, sem ant láta sér um sannleikann. „Vér megnum ekki neitt gegn sannleikanum, heldur fyrir sannleikann“ (2. Kor. 13,8), segir postulinn. Í kirkjunni ætti hver prestur að skýra hverja frásögn og hverja ritningargrein eins og hann veit sannast og réttast. Annars fer hann ekki með sannleikann. Hann má ekki vera að fara í launkofa með neitt. Það er lélegur sannleiksvottur, sem það gerir. Einn hinna gætnustu guðfræðinga, sem nú er uppi á Þýzkalandi hefir nýlega sagt: „Að minni hyggju er það skylda allra einlægra sannleiksvina í leiðtogahópi kristninnar að láta söfnuði sína verða handgengna þeirri hugsan, að öll frásögn biblíunnar um Jesúm sé ekki sannsöguleg, svo eigi verði efast um.“*) Trúarvitund mannsins er í þessu sambandi næmleiki trúaðrar mannssálar til að greina satt frá ósönnu. Svo margir, sem tala um trú, kljúfa sundur trú og hugsan. Sú trú, sem rétt-trúnaðarstefnan heldur fram, er trú, sem hvorki vill né má hugsa. Henni er bannað að greina sundur í guðs orði. En um leið er trúnni bannað lífið sjálft. Trú þess manns, sem ekki fær að beita trúarvitund sinni, til að hugsa, aðgreina, velja og hafna, verður dauð trú, sem ekki er mikils virði. Hugsanafrelsið er heilög einkaréttindi trúarinnar og um leið lífsskilyrði. Eg ætla nú að benda á nokkur dæmi þess í æfisögu frelsarans, sem trúarvitund upplýstra kristinna manna nú á dögum þrýstir þeim til að kannast við, að sé ekki hafið yfir allan efa, heldur

*) Friedrich Loofs (Halle-Wittenberg): Wath is the Truth about Jesus Christ? Problems of Christology. New York 1913, bls. 124—125.

sé sagnkend hugarsmíð, sem blandast hafi saman við hina sannsögulegu frásögn viðburðanna í lífi hans.

112. **Meyjarsonernið.** Kenningin um fæðing Jesú af Maríu mey, án nokkurs mannlegs föður, hefir verið og er að nokkuru leyti enn brennheitt ágreiningsefni. Gömul guðfræði heldur því fram, að véfenging þeirrar kenningar kollvarpi öllum kristindómi. Hafi Jesús verið sonur Jósefs á sama hátt og aðrir menn eru synir feðra sinna, sé ekki unt að segja, að hann hafi haft neitt umfram aðra menn. Hann sé þá til dæmis ekki lengur syndlaus fremur en aðrir. Þó er ekki gott að sjá, hvernig kenningin um yfirnáttúrlegan getnað getur verið trygging fyrir syndleysi Jesú, nema með því móti að halda fram flekklausum getnaði Maríu um leið, eins og katólska kirkjan kennir. En sú kenning hefir ávalt verið álitin fjarstæða af mótmælendum. — Ný guðfræði heldur því þar á móti fram, að hér sé um aukaatriði eitt að ræða, sem eigi snerti sáluhjálp nokkurs manns. Aðal-atriðið sé að trúa því, að Jesús sé vegurinn, sannleikurinn og lífið (Jóh. 14,6), að hann hafi sýnt oss föðurinn (14,8) og komið oss í samfélag við hann, að „guð í Kristi sætti heiminn við sig“ (2. Kor. 5,19). Sannleiksástin hlýtur að þrýsta hugsandi kristnum mönnum til að vega ástæðurnar með og móti og gera sér grein þess, hvort þetta sé það stóratriði, sem álitið hefir verið. — Nútíðarmanninum er svo torvelt að fella sig við hugsanina um, að guð hafi verið til þess neyddur, þar sem Jesús átti í hlut, að breyta sínu heilaga náttúrulögmáli, sem lætur hvern mann vera fæddan af tveimur foreldrum. Þetta náttúru-lögmál er jafn-heilagt honum, sem setti það í skorður, en alls ekki syndugt og vanheilagt eins og fyrri tímar gerðu sér í hugarlund, vegna kenningarinnar um erfðasyndina, er þeir gömlu settu í samband við getnaðinn. Og þegar farið er að gera ljósan stuðninginn, sem hinn yfirnáttúrlegi getnaður hefir í nýja testamentinu, mun flestum sannleikselskum mönnum hljóta að verða ljóst, að hann er miklu veikari og vafasamari en þá grunaði. „Enginn staðhæfir, að vér getum fært oss í nyt í sama skilningi og sama mæli hina dularfullu fæðingu og mynd frelsarans. Vér getum það ekki, auk þess sem mikill hluti nýja testamentisins sjálfs veit ekkert um frásögnina um fæðinguna, sem vér tölum um: Páll prédikar Krist, krossfestan

og upp risinn; það er þar sem hann álítur að grundvöllur trúarinnar sé."*) Af öllum höfundum nýja testamentisins eru það að eins tveir, Matteus og Lúkas, sem kunna frá yfirnáttúrlegri fæðingu að segja. Allir hinir vita ekkert um hana, að því er séð verður. Og þessir tveir eru ekki þeir elztu. Í postulasögunni höfum vér leifar hinnar fyrstu kristnu prédikunar. Þar er ekki minst einu orði á meyjarsonernið. Í bréfum Páls postula ekki heldur, en það eru elztu rit nýja testamentisins. Engum var þó annara um en Páli að sannfæra menn með öllum þeim rökum, sem til voru, um guðlegan uppruna frelsarans, og gera nafnið hans öllum öðrum nöfnum æðra. Þvert á móti virðast þessi orð Páls helzt útiloka þessa hugmynd. Hann segir blátt áfram um Jesúm, að hann a ð h o l d i n u s é f æ d d u r a f k y n i D a v í ð s**) (Róm. 1,3, 4). Þessi ummæli „væri einstaklega óheppileg, ef Jesús hefði ekki komið inní þenna heim á vanalegan hátt."***) Svo bætir postulinn við: „En að anda heilagleikans kröftuglega auglýstur að vera sonur guðs fyrir upprisu frá dauðum." Hin mannlega hlið persónu hans er postulanum augljós, af því hann var af Davíðs-ættinni, hin guðlega hlið er honum augljós af upprisunni. Páll byggir ekki tign hins andlega eðlis Jesú á yfirnáttúrlegum getnaði, heldur á upprisunni frá dauðum. Ef honum hefði verið nokkuð kunnugt um kenninguna um meyjarsonernið og álitið hana einn hluta fagnaðarerindisins, myndi hann vafalaust ekki látið þess ógetið. Á öðrum stað segir postulinn: „Af þeim (feðrunum) er hinn smurði kominn að l i k a m a n u m til" (Róm. 9,5).†) Með öðrum orðum: Hann er fæddur á sama hátt og hver annar maður. Áherzlu-atriðið hjá Páli er hér, að hann, guðs-sonurinn, hafi staðið öldungis jafnt að vígi og allir aðrir. Enda er huggun fagnaðarerindisins einmitt í því fólgin. Þetta kemur enn betur í ljós þar sem Páll segir, að guð hafi sent son sinn „f æ d d a n a f k o n u, fæddan undir lögmáli" (Gal. 4,4). Orðtækið: fæddur af konu, er ávalt notað í merkingunni: fæddur á sama hátt og allir aðrir, eins og orðin: Maðurinn, af konu fæddur, lifir stutta stund (Job. 14,1). Í ræðu þeirri, sem Pétri er eignuð í

---

*) Theodor Häring: Der christliche Glaube (Dogmatik), e. útg. 1913, I, 211. **) ***Ἐκ σπέρματος Δαυίδ κατὰ σάρκα.*** ***) Lobstein: Die Lehre von der übernatürliche Geburt Christi, bls. 52. †) ***ἐξ ὧν (πατερων) ὁ Χριστός τὸ κατὰ σάρκα.***

postulasögunni, og haldin var á hvítasunnu, er hebreska orðtækið við haft um hann: Maður af ávexti lendar hans (Davíðs) (Post. 2,30. Sálm. 32,11). En það orð tekur fram náttúrlegan getnað eins greinilega og unt er.

113. **Guðspjöllin um meyjarsonernið.** Af guðspjöllunum er Markúsar guðspjall álitið elzt. Það er nú álitið að vera fært í letur um 70 e. Kr. eða næstu ár þar á undan. Þar er ekkert af frásögnum um barnæsku Jesú og ekkert, sem bendir til yfirnáttúrlegrar fæðingar. Eigi er heldur svo að sjá, sem nokkuð hafi verið um þetta í heimild þeirri, sem þeir Matteus og Lúkas leggja til grundvallar ritum sínum, jafnhliða Markúsi, og hafði að geyma ræðu Jesú. Jafnvel Matteusar guðspjallið segir um hann: „Er hann ekki sonur smiðsins? Heitir ekki móðir hans María og bræður hans Jakob og Jósef og Símon og Júdas? Og eru ekki systur hans allar hjá oss?" (Matt. 13,55). Lúkas segir frá því, að foreldrar hans hafi komið með hann í musterið, að faðir hans og móðir hafi verið undrandi yfir því, er sagt var um hann, að foreldrar hans hafi ferðast hvert ár til Jerúsalem á páskahátíðinni, og að móðir hans hafi sagt við hann: „Sjá, faðir þinn og eg leituðum þín harmþrungin" (Lúk. 2,27, 33, 41, 43, 48). Samstæðu guðspjöllin öll segja frá þeim atburði í lífi Jesú, að móðir hans og systkini komu og ætluðu að ná honum á sitt vald, þar sem hann var að kenna fólkinu, vegna þess þau héldu, að hann væri ekki með sjálfum sér ( Mark. 3,21, 31 nn. Sbr. Matt. 12,46 n. Lúk. 8,19 n.) Hvernig átti móðir hans að vera búin að gleyma því, sem fram við hana á að hafa komið, þegar í musterinu, og Jósef sömuleiðis? Hvernig stendur á, að enginn í fjölskyldunni virðist hafa um þetta vitað, hvorki fyr né síðar, eftir að Jesús var fæddur? Samkvæmt samstæðu guðspjöllunum þremur fær Jesús Messíasar-köllun sína við skírnina í Jórdan og með henni guðs-sonar tignina. En þá verður hinni skýringunni ofaukið, að hann hafi verið Messías eða guðs sonur vegna yfirnáttúrlegrar fæðingar. Hér eru tvær skýringar á sama atriði, sem eigi geta staðist hvor við hliðina á annari. Þegar vér virðum fyrir oss frásögur þeirra Matteusar og Lúkasar, sem postullega trúarjátningin byggir það á, að Jesús hafi verið getinn af heilögum anda og fæddur af Maríu mey, sjáum vér, að í

þessum fyrstu kapítulum eru tvær ættartölur Jesú, frásögur um fæðingu hans, atburði í sambandi við hana og eitt atvik frá uppvaxtarárum hans. Við nákvæma athugan verður flestum ljóst, að sögulegt gildi alls þessa er mjög vafasamt. Miklar líkur verða þá til þess, að þetta sé seinni viðbót, er gerð hafi verið í því skyni að færa enn fullkomnari sönnur fyrir guðlegum uppruna Jesú, og að þessi viðbót hafi verið gerð, þegar nokkur tímalengd var frá liðin, safnaðarguðfræðin var tekin að myndast og sagnir að vefjast utan um hin einföldu æfiatriði Jesú. Þessar líkur verða nokkurn veginn að vissu, þegar textarannsóknin sýnir, eins og hún gerir, að fyrstu kapítularnir í guðspjöllum þeirra Matteusar og Lúkasar, hvors um sig, sé síðari viðbót við hina eiginlegu guðspjallasögu. Um ættartölurnar má það segja, að þær mótmæli fremur yfirnáttúrlegum uppruna Jesú en staðfesti hann.*) Þær hafa báðar þann tilgang að sýna, að Jesús hafi verið af ætt Davíðs konungs, og þetta leitast þær við að sanna með því, að Jesús hafi verið sonur Jósefs. Þeir sem samið hafa þetta forfeðratal, virðast því ekkert hafa vitað um meyjarsonernið, heldur álitið Jósef föður Jesú. Hjá Lúkasi er sagt frá yfirnáttúrlegum getnaði að eins í tveim versum fyrsta kapítula (34. og 35.). En miklar líkur eru til, að þessi vers sé síðari skýring guðspjallamannsins. Hafa þá sögurnar úr barnæsku Jesú upphaflega alls ekki kunnað frá yfirnáttúrlegum getnaði að segja. Eftir leshætti tveggja gamalla handrita**) til dæmis, þar sem sagt er frá manntalinu, kom Jósef ekki með Maríu heitmey sinni til skrásetningar, heldur með Maríu eiginkonu sinni, eins og nýja þýðingin bendir á neðanmáls (Lúk. 2,5). Jafnvel í Jóhannesar guðspjalli er tvisvar um Jesúm talað sem Jesúm Jósefsson (Jóh. 1,46; 6,42). Virðist það gert beint til að mótmæla öðrum skilningi. Upprunalega hefir þá frásögnin verið sú, að engill hafi heitið þeim Jósef og Maríu syni, og að fyrsti ávöxtur hjónabands þeirra hafi verið Jesús. Þetta eitt út af fyrir sig, að sagt er frá getnaðarundrinu að eins á tveim stöðum (Matt. 1,18—25; Lúk. 1,34-35), og hvergi annars staðar í nýja testamentinu með einu

*) Johannes Weiss: Schriften d. n. T. I, 51: Denn die beiden Stammbäume bei Matt. 1,1 ff. und Luk. 3,23 ff. sind zwei unter sich verschiedene, künstliche, theologische Machwerke, die durch gelehrtes Schriftstudium hergestellt sind. Sie können die davidische Abstammung Jesu nicht beweisen, eher verdächtig machen. **) Sínaísýrl. þýð. og Itala.

orði að því vikið, sýnir, að hér er að eins um skýringu að ræða, en ekki sannsögulegan atburð, — skýringu, sem upp hefir komið tiltölulega seint í fyrstu kristni. Að líkindum hefir skýring þessi runnið upp í hópi þeirra, er verið höfðu heiðingjar, áður en þeir tóku kristna trú. Í heiðingjaheiminum var trúin á, að synir guðanna kæmu við og við fram í mannlífinu svo undur-sterk. Með því að tengja þá hugmynd við Jesús, var einmitt lang-auðveldast fyrir þá, sem aldir voru upp í heiðnum hugmyndaheimi, að gera sér og öðrum grein persónu Jesú. Hugmyndin um guðlegan getnað með konu var eiginlega fjarlæg hugsunarhætti Gyðinga. Þeir töluðu ávalt um Messías sem guðs son í líkingarfullri merkingu. Matteus byggir á spádóminum hjá Jesaja (7,14). En sá spádómur er fram kominn fyrir ranga þýðingu. Matteus hefir ekki hebreska textann fyrir sér; þar stendur: „Sjá, ung kona*) verður þunguð.“ En hann hefir grísku Sjötíumanna-þýðinguna fyrir sér. Og þar stendur: meyjan.**) Matteus villist þarna af réttri leið vegna þess hann fer ekki eftir frumtextanum, heldur eftir rangri þýðingu. Vegna þessarar röngu þýðingar, hafa orðin: „Getinn af heilögum anda, fæddur af Maríu mey“ komist inn í postullegu trúarjátninguna á 2. öld e. Kr. Orðin hjá Jesaja eru töluð Akasi konungi til hughreystingar. Hver hughreysting hefði getað í því verið, að 750 árum síðar ætti Messías að fæðast? Hér er því ekki átt við neitt slíkt, heldur samtímis atburð. „Áður Jesús fæddist, átti enginn von á, að Messías myndi fæðast af meyju.“†) Ein sterkasta bendingin um, að frásögnin um meyjarsonernið hafi ekki heyrt hinni upprunalegu kenningu til, er líka í því fólgin, að á 2. öld e. Kr. var flokkur gyðingkristinna manna uppi í Palestínu, sem hélt fast við lögmál Móse og sýndi sömu fastheldni við alt, er þeir höfðu tekið í arf frá hinum fyrsta söfnuði. Þeir héldu því fram eindregið, að Jesús væri sonur Jósefs og vildu ekki annað heyra. Það vitum vér líka fullri vissu, að ekki er kenningin um meyjarsonernið neinn hluti kenningar Jesú; aldrei vék hann einu orði í þá átt eftir guðspjöllunum. En þá er hún heldur ekki neinn

---

*) *haalmah* merkir ung kona, gift eða ógift. Þýð. frá 1908 kona. Í útg. frá 1912 er yngismær í meginmáli, en ung kona neðanmáls. **) LXX hefir *ἡ παρθενος* (ógift kona), meyjan. Út af þeirri röngu þýðingu hefir mikið spunnist. †) Professor F. W. Slater: Century Bible, St. Matthew, bls. 122.

hluti fagnaðar-erindisins. Og það eitt ætti að vera nóg til þess að koma í veg fyrir að láta sér til hugar koma, að víta það sem fráfall frá sönnum kristindómi, þó hægt sé að skoða ummæli guðspjallanna tveggja um þetta atriði sannsögulega frásögn.

**114. önnur dæmi.** Fleiri slík dæmi mætti nefna, þar sem trúarvitund kristinna manna nú á dögum bendir þeim til að hafna einstökum atriðum, sem blandast hafa saman við frásögn guðspjallanna um Jesúm. Nýrri guðfræði er ranglega borið á brýn, að hún hafni öllum svo nefndum kraftaverkum. Hún gerir það alls ekki. En hún skoðar þau fremur eins og góðfrægur og mikilsvirtur þýzkur rithöfundur, Matthias Claudius (d. 1815), sem á sinni öld varði kristindóminum gegn skynsemistrúnni og sagði um kraftaverkin: „Það sem í biblíunni stendur um hann (Jesúm), allar hinar dýrlegu sagnir og dýrlegu frásögur, eru í rauninni ekki hann sjálfur, heldur einungis vitnisburðir um hann, smá-bjöllur að eins á klæðnaði hans, en samt sem áður hið bezta, sem vér eigum á jörðu, og um leið eitthvað, sem í sannleika gleður og huggar, þegar maður heyrir þær og sér, að maðurinn getur enn orðið eitthvað annað og betra, en hann sjálfan grunar."*) Þetta var ritað 1774, þegar biblíurannsóknirnar lágu enn í vöggu; samt gat þessi höfundur talað um sagnir, um leið og hann er að verja biblíuna, einmitt í sambandi við Jesúm, án þess það hnekti trú hans hið allra minsta. Þeir, sem nú eru uppi á 20. öld, ættu vissulega að standa honum betur að vígi með að greina persónuna frá ‚bjöllunum' og ekki að vera ófrjálsari í trú sinni en hann. Nýrri guðfræði er fjarri skapi að tala um kraftaverkin, sem guðspjöllin segja frá, líkt og skynsemistrúin gerði á sinni tíð. Menn þeirrar stefnu sögðu, að kraftaverkin hefðu reyndar ekki gerst, en væri draumar. Jónas hefði dreymt, að hvalfiskur svalg hann. Adam hefði dreymt, að kona var sköpuð handa honum úr einu af rifjum hans.

---

*) Was in der Bibel von ihm steht, alle die herrlichen Sagen und herrlichen Geschichten sind freylich nicht er, sondern nur Zeugnisse von ihm, nur Glöcklein am Leibrock; aber doch das Beste, was wir auf Erden haben, und so Etwas, das einen wahrhaftig freuet und tröstet, wenn man da hört und sieht, dass der Mensch noch was Anders und Bessers werden kann, als er sich selbst gelassen ist. Werke IV, 133, 5. útg. 1838.

Hröfnunum (,o r e b i m'), sem færa áttu Elíasi fæðu, var breytt í hversdaglega Araba (,a r a b i m') með því að víkja tveim stöfum við (1. Kon. 17,6), göngu Jesú á vatninu í göngu hjá vatninu o. s. frv. Þá höfðu menn alls engan skilning á því, að frásögn, sem ber með sér að vera munnmæli, getur haft einhvern veruleika-kjarna. En ný guðfræði leitast við í hverjum hlut að gera sér ljóst, hvað fram hafi farið í raun og veru og hvað ekki. Þeim, sem segja frá, hættir við að ýkja, á öllum tímum. Gustaf Adolf fékk t v ö eða þ r j ú skot í handlegginn og brjóstið, þegar hann féll í bardaganum við Lützen 6. nóv. 1632. Til eru tvær frásagnir, ritaðar átta dögum eftir atburðinn, en ekki af sjónarvottum samt, sem segja, að hann hafi fengið þrjú sár af byssukúlum og tvo stingi. Í annari frásögn, sem heldur ekki er eftir sjónarvott og rituð 18. nóv., tólf dögum eftir bardagann, eru þessi tvö eða þrjú sár orðin sjö, — sex kúlusár og einn stingur. Enn þá er ein frásaga, sem ekki er heldur eftir sjónarvott og dagsett tveim dögum áður, en kann að hafa ljómandi ræðu eftir konunginn á andlátsstundu hans.*) Það er engin furða, þó eitthvað líkt hafi átt sér stað að einhverju leyti í sambandi við atburði í lífi Jesú. Og svona er það vafalaust með s u m a r frásögurnar um kraftaverk og undur í nýja testamentinu. Það er engin sannleiksást að kannast ekki við það. Eg ætla að nefna til dæmis frásöguna um Gadara-mennina — Matteus segir að þeir hafi verið tveir — og svínin, sem andarnir fóru í og ærðu, svo þau glötuðust niður fyrir þvergnípið í vatnið (Matt. 8,28). Söguna um, að þegar fé var ekki fyrir hendi, til að borga skatt, hafi Jesús boðið Pétri að fara og renna út öngli; myndi hann þá finna silfurpening mátulega stóran til að borga skattinn fyrir þá báða, í munni fyrsta fiskjarins, er hann drægi (17,27). Söguna um, að líkamir margra helgra manna hafi risið upp úr gröfunum eftir upprisu Jesú og verið á gangi fram og aftur um borgina, að fortjald musterisins hafi rifnað í tvent við andlát hans, jörðin skolfið og björgin klofnað (27,51—53). Skyldi nokkur verða betri lærisveinn hans, sem er konungur í ríki sannleikans, fyrir að trúa þessu? Hið sama er að segja um u p p s t i g n i n g u n a, fjörutíu dögum eftir upprisuna.

*) Sbr. G. Droysen: Die Schlacht bei Lützen. Forschungen zur deutschen Geschichte 1865, bls. 69—236. Eftir Loofs.

Frá þessum fjörutíu dögum er sagt einungis á einum stað í nýja testamentinu, postulasögunni (Post. 1,3—11). Fjórða guðspjallið virðist láta uppstigninguna fara fram rétt á eftir upprisunni (Jóh. 20,17). Hjá Páli virðist þetta tvent renna saman í eitt. Kristileg heimild frá því um 130 e. Kr., hið svo nefnda Barnabasar-bréf segir: „Vér höldum áttunda daginn (sunnudaginn) helgan með miklum fagnaði, því á þeim degi reis Jesús frá dauðum og steig upp til himna eftir að hafa birzt“ (Ep. Barnab. 15,9). — „Uppstigningin einmitt fjörutíu dögum eftir upprisuna er að eins helgisögn“ (Loofs). Frásögurnar hjá Lúkasi, bæði í guðspjallinu (Lúk. 24,43) og Postulasögunni (Post. 10,41), um steiktan fisk og um mat og drykk, sem Jesús hafði neytt með lærisveinum sínum eftir upprisuna, eru bersýnilega orðum auknar í meðferðinni. Þetta, og ýmislegt annað, sem nefna mætti, er eins og bjöllur, sem festar hafa verið á klæðnað frelsarans, til þess að tala með Claudiusi, með barnalegu ímyndunarafli þekkingarlítillar og auðtrúa alþýðu. Hann sjálfur er alt annað, og eftir því bjartari og dýrlegri, sem menn láta sér betur takast að meta þetta eins og það er.

115. **Hugsanafrelsið.** Í deilunni um biblíuna vestan hafs varð orðið „trúarvitund“, og hugtakið, sem það táknar, eitt meginatriði. Enda er það ekki svo mikil furða, þegar að er gáð. Því um leið og vér förum að gera oss grein þess, hvað í hugtakinu trúarvitund felst, verður oss þegar ljóst, að hér er ekki einungis um réttinn að ræða til að greina sundur í fylgsnum hugarins það sem vér föllumst á, af því að það öðlast samþykki anda vors, og hitt, sem vér getum ekki fallist á, vegna þess andi vor synjar því samþykkis. Hér er líka um réttinn að ræða til að láta þær hugsanir vorar í ljós, — gera þá niðurstöðu, sem vér höfum komist að, heyrinkunna. Hugsanafrelsið er ekki einungis fólgið í frelsinu til að hugsa og álykta í leyndum. Það er einmitt í hinu fólgið, að fá að koma fram með hugsanir vorar og skoðanir opinberlega og öldungis hindrunarlaust. Þess vegna er hugsanafrelsi og samvizkufrelsi eitt og hið sama. Samvizkan þrýstir manninum til að koma fram með þær skoðanir, sem myndast í sálu hans. Stærri hömlur er eigi hægt að setja persónufrelsi einstaklingsins en að banna honum, að láta í ljósi skoðanir sínar í andlegum efnum. Þá

er hann sviftur helgustu mannréttindum sínum. Meira ofbeldi er ekki unt að beita nokkurn mann en því. Samt var þetta gert á kirkjuþingi 1909. Þar var samþykt: „Kirkjuþingið neitar, að trúarvitund mannsins hafi úrskurðarvald yfir heilagri ritningu og megi hafna orðum hennar eftir vild.“*) Og séra Kristinn sagði fyrir rétti: „Samkvæmt kenningu minni um **plenary**-innblástur er dómgreind einstaklingsins alls ekkert svigrúm gefið til að velja og hafna í bibliunni og það er ekkert svigrúm til að beita dómgreind einstaklingsins við að ákveða, hverju trúa skuli eða ekki trúa.“**) Margfaldur misskilningur liggur hér til grundvallar. Það er herfilegur misskilningur að ætla, að sannleikanum, sem heilög ritning hefir meðferðis, sé í því nokkur minsti ávinningur að mönnum er sagt: Þessu mátt þú til með að trúa. Sannleikann verða menn að tileinka sér í fullu frjálsræði. Nauðungarjátning er engin játning. Nauðungar-játning er játning þrælsins, sem óttast að verða lostinn löðrungi, ef hann hefir ekki já á reiðum höndum. Meðan eg fæ ekki sagt já við einhverju fús og sannfærður, er engum ávinningur, að eg geri það samt nauðugur, til þess knúður af þrælsóttanum einum, þó eg sé sannfærður með sjálfum mér um hið gagnstæða. Eg læt þá misþyrma mínum innra manni og svifta mig allri sjálfsvirðingu. Kirkjuþingssamþyktin var því eitt hið mesta óvit og ein allra-stærsta óhæfa, sem höfð hefir verið í frammi. Það var einmitt þessari óhæfu, sem söfnuðirnir mótmæltu. Þingvallasöfnuður gerði það í þessu efni greinilegast: „Söfnuðurinn neitar því, að trúarvitund mannsins hafi ekki vald til að velja og hafna, þó um heilaga ritning sé að ræða, en í því valdi felst vitanlega úrskurðarvald.“***) Sá maður, sem yfirlýsinguna stílaði, heitir Gamalíel Þorleifsson. Hann skýrði þetta orðtæki fyrir rétti svo: „Það er skynsemin og samvizkan upplýst af trúnni.“†) Bæði yfirlýsingin og skýringin eru manninum til mikils sóma. Því hvorttveggja er laukrétt. Reynt var af prestunum, hverjum á fætur öðrum, að snúa út úr þessu orðtæki, sem algengt er á öllum málum, fyrir rétti, og snúa því upp í eitt-

---

*) Sbr. bls. 134 að framan. **) Abstract bls. 93, f. 275. Sbr. Framb, presta bls. 293 ***) Sbr. bls. 139. †) Abstract bls. 193, f. 576,

hvert óvit. Einn þeirra (Fossmark) þóttist þá fyrir réttinum hafa heyrt þetta orðtæki fyrsta sinni og kallaði það „hræðilegt“. „Ef það annars merkir nokkuð, merkir það vitund, sem hugur hvers manns hefir. Kristinn maður getur haft hana á dálítið hærra stigi en mannæta, því að enginn maður á jörðu er án trúar.“*) Séra Björn sagðist aldrei hafa dottið ofan á orðtækið trúarvitund (religious consciousness) í ensku ritmáli.“ Samt veit hann, að það merkir „meðfædda eðlishvöt mannsins til trúar.“**) Þessi ummæli prestanna gera þeim ekki eins mikinn sóma og yfirlýsingin og skýring hennar gerir leikmanninum. Því þau sýna bæði þekkingarleysi og blekkingarviðleitni. Orðtækið er alment í enskum bókum og tímaritum, einkum hin seinni árin. Að það hefir aldrei vakið eftirtekt þessara presta, sýnir að eins, hve lítið þeir hafa lesið. Þegar menn nú á 20. öld tala um trúarvitund á Þýzkalandi, Englandi eða í Ameríku, vita allir heilvita menn, að verið er að tala um trúarvitund kristinna manna, en ekki „íbúa Suðurhafseyja“***), eða blökkumenn í Afríku. Og þegar við Íslendingar tölum um trúarvitund vora, eigum vér ekki við trúarvitund forfeðra vorra í heiðni, heldur vora eigin trúarvitund, eins og hún er nú á dögum. Séra Jón Bjarnason hafði notað þetta orðtæki þegar 1874†) alveg á sama hátt og gert hafði verið í deilu þessari. Sjálfur var eg að því spurður fyrir rétti, hvort eg hefði notað orðtæki þetta fyr en í sambandi við deiluna, og mundi eg þá ekki í bili, að eg hefði notað það áður. En þegar á fyrstu prestsskaparárum mínum viðhafði eg það orð. Þeir prestarnir könnuðust við það fyrir rétti, að ef staðið hefði kristileg trúarvitund í yfirlýsingunni, hefðu þeir við það kannast sem réttmætt orð. Þá hefði yfirlýsingin ekki farið með trúvillu!††) En sannleikurinn er sá, að miklu réttara er að tala um trúarvitund en kristilega vitund. Mennirnir eru enn svo langt frá því að hafa tileinkað sér vitundarlíf Krists, að í ströngum skilningi er naumast kristileg vitund til.†††) Orðið trúarvitund bendir einmitt á eitthvað alment, sem allir þekkja.

---

*) Sbr. bls. 311. **) Bls. 327. ***) Brief 100. †) Nauðsynleg hugvekja bls. 40. ††) Brief 109. †††) There is strictly speaking no such thing as Christian consciousness. There is the human consciousness, operating with and operated upon by the impulse of Christianity. Edward Caldwell Moore, Harvard; An Outline of the History of Christian Thought Since Kant, 1912, bls. 10.

Trúarbrögðin eru ein hlið vors mannlega vitundarlífs,*) einn hluti reynslu vorrar. Þess vegna tölum vér um trúarvitund.

Séra Björn B. Jónsson lýsti því yfir fyrir rétti: „Yfirlýsingin ein af hálfu einstaklingsins í þá átt, að hann haldi fram og trúi á samvizkufrelsið í trúarefnum, er ekki trúvilla. En ef maður, sem notar þann rétt, hafnar til dæmis einni af kanóniskum bókum bibliunnar, víkur hann frá hinum viðurkendu kröfum.**) Orð þessi eru að mörgu merkileg. Fyrst og fremst er engin lútersk játning til sem kveður á um, hver rit réttilega heyri til ritsafni bibliunnar, þó séra Björn virðist halda að svo sé. Lúter skoðaði sig alls ekki bundinn í því efni af neinu tilliti til játninganna, eins og sýnt hefir verið. Hins vegar er hugsanaferillinn þessi: Þér er vel komið að hafa eins mikið samvizku- eða hugsanafrelsi og þér þóknast, en vei þér, ef þú notar það. Í bréfi til Garðarsafnaðar kemst séra Björn svo að orði um þetta: „Hver einstakur maður og hver söfnuður um sig hefir fylsta leyfi til að rannsaka ritninguna og helga skyldu til þess að fylgja þeirri niðurstöðu, sem hann af sannfæring aðhyllist. En verði eftir slíka rannsókn skoðanir manna gagnólíkar, svo þær geti ekki lengur samrímzt undir sömu lögum og og játningum, þá hlýtur alt frjálslyndi að benda til þess, og hvorug stefnan þrengi sér að hinni, heldur skilji þær vinsamlega og búi svo hvor að sínu."***) Samkvæmt þessu hefir enginn leyfi til að vera í kirkjufélaginu, né heldur getur hann verið þar með góðri samvizku hér eftir, er kemst að einhverri niðurstöðu um bibliuna, sem frábrugðin er þeirri, er kirkjufélagið hefir nú fastbundist með lögum og yfirlýsingum. Hann verður óðara að fara og búa að sínu einhvers annars staðar á jarðarhnettinum. Samt getur það komið fyrir að sagt verði við hann: Þú mátt hafa hvaða skoðanir, sem þér sýnist, en þú verður að þegja yfir þeim — fara með þær eins og mannsmorð. Á kirkjuþingi var mér hvað eftir annað gefið í skyn, að ef eg þegði eða lofaði að þegja, skyldi alt gott heita. Hve skamt frá þessu til þess að hugsa sjálfur og kenna öðrum að hugsa: Það má gera alt í laumi, ef það að eins

---

*) Religion is a form of consciousness. E. C. Moore, Harvard, An Autline of the History of Christian Thought Since Kant, 1912, bls. 6.
**) Sbr. bls. 328. ***) Sameiningin, ágúst 1909, bls. 178.

kemst ekki upp! Þessi óeinlægi kristindómur, þessi tvískinnungs-guðfræði, sem hvað eftir annað kom í ljós í sambandi við málaferlin og framkomu kirkjuþingsins í seinni tíð, er lang-raunalegasta fyrirbrigðið. Þegar þessi afskaplegi ofvöxtur er hlaupinn í rétt-trúnaðinn, verður það fyrirbrigði ávalt uppi á tening. Í nýlega rituðu katólsku æfisögusafni Borgía-ættarinnar standa þessi ummæli: „Alexander VI. verðskuldar guðrækilega aðdáun vora sem jarðneskur staðgöngumaður Jesú Krists. Guðrækni hans var blátt áfram, stöðug og sönn. Hann bar mikla lotningu fyrir guðs móður, blessaðri Maríu mey. Í heiðurskyni við hana skipaði hann fyrir um, að klukku skyldi hringt að sólsetri, sólrás og nóni fyrir engli Drottins (Angelus Domini) til endurminningar um holdtekjuna. Á dánarbeði sagði hann: Vér höfum ávalt borið einstaka ást til hinnar marg-helgu meyjar.“*) Enskur rithöfundur bætir við: „Þessi einstaka ást til guðsmóður kom meðal annars í ljós á þann hátt, að hann lét mála eina af hjákonum sínum sem guðsmóður með Jesúbarnið.“**) Hugsanin virðist vera sú: Þeim, sem er opinberlega nógu rétt-trúaður, honum er alt leyfilegt í laumi. Sá sem nógu rétt-trúaður hefir verið, getur orðið dýrlingur, þegar hann er dáinn, hvernig svo sem líf hans hefir verið. Þessari tvöfeldni, sem einatt verður áköfum rétt-trúnaði samferða, hefir danski spekingurinn Sören Kirkegaard (d. 1855) reist ógleymanlegan minnisvarða með dálítilli sögu. Hann segir: Um sænskan prest er sögð sú saga, að honum hafi orðið bylt við áhrifin, sem orð hans höfðu á áheyrendur, er allir flóðu í tárum, og er sagt, að hann hafi flýtt sér að hugga þá og mælt: Grátið ekki börn, það getur verið tilbúningur alt saman.“***)

---

*) Cronicles of the House of Borgia by Frederick, Baron Corvo. Eftir Inge: Fait and its Psychology, 1910, bls. 95. **) S. st. bls. 95. ***) Með orðum hans sjálfs: Om en svensk Præst fortælles, at han, rystet ved Synet af den Virkning hans Tale frembragte paa Tilhörerne, som hensvömmede i Taarer, der fortælles, at han beroligende sagde: Græder ikke, Börn, det turde være Lögn altsammen. Sören Kierkegaard Öjeblikket, nr. 6, 23. ágúst 1855: Samlede Værker, Köbenhavn 1906, XIV, 218.

---

# X

# TRÚARJÁTNINGAR OG KENNINGAR-FRELSI

---

**116. Trúarlög óhæfa.** Alt sem menn elska, láta menn sér ant um. Sannleikann hafa menn ávalt metið óumræðilega mikils, — einkum sannleikann í trúarefnum, þegar þeir hafa gætt sín. Þeir hafa látið sér svo ant um hann, að þeir hafa viljað fjötra hann við sig, til þess ekki að glata honum. Og þegar þeir hafa komið auga á eitthvert sannleiksbrot, hafa þeir hugsað með sér: Þessum sannindum verður að koma svo fyrir og búa svo um, að aldrei að eilífu breytist. Þetta hafa menn meðal annars reynt að gera með trúarjátningum. En sannleikurinn lætur sig ekki fjötra neinum ytri viðjum. Hann vill vera frjáls eign mannsins, eitthvað, sem maðurinn tileinkar sér andlega, nauðungarlaust. Þetta hefðu menn átt að vita. Það er tekið fram skýrt og skilmerkilega í nýja testamentinu þar sem sagt er: „Orð guðs verður ekki fjötrað“ (2. Tím. 2,9). Trúarjátningar hafa verið gerðar að lagaböndum. Gyðingdómurinn, sem kristnin er runnin af, er ein hin mesta lögmálstrú, sem fram hefir komið í mannkynssögunni. Öll þau trúarsannindi, sem hin ‚útvalda þjóð‘ hafði komið auga á, voru orðin að hörðum og óþjálum lagastaf. Jesús lifði og dó til að frelsa mennina undan lögmálsokinu. Hann lifði og dó til þess að brjóta niður og gera að engu hið ytra dómaravald lögmálsins. Í stað þess gaf hann fagnaðarerindið — úrskurðarvald samvizkunnar. Trúarsannindin eru ekki eitthvað, sem stendur fyrir utan manninn, eins og lögregluþjónn eða dómari, sem kúgar til hlýðni með ógnunum. En trúarsannindin eru eign hjartans. Mannssálin tileinkar sér þau og gengur þeim á vald með fögnuði. Og þau

sannindi, sem menn eittsinn hafa komið auga á og tileinkað sér, glatast ekki svo auðveldlega. Mannsandinn getur ekki án þeirra verið. Lagafjötrar eru að minsta kosti engin trygging. Jesús lagði alla áherzluna á gildi hinnar einstöku mannssálar. Guð og mannssálin, — það var kjarni kenningar hans, eins og bezt kemur fram í sögunni um hinn glataða son. Ríki sannleikans er lýðveldi. Öllum er þar ætlað að verða frjálsir. Fyrir því hafa lýðveldishugmyndirnar runnið upp og þroskast með hinum kristnu þjóðum. Einstaklingurinn á sjálfur að segja til um, hvað hann álítur sér vera fyrir beztu. Valdstjórnin á ekki að vera að ofan og utan, heldur að innan og neðan. Úrskurðarvaldið hefir runnið úr hendi konunganna í hendur höfðingjanna, úr höndum höfðingjanna yfir í hendur alþýðunnar. Nú er ætlunarverkið þetta, að láta hvern alþýðumann skilja: Þú ert konungur;*) úrskurðarvaldið er í þ í n u m höndum, ábyrgðin hvílir á þ í n u m herðum. Fyrr á tímum, þegar er stjórnin var öll að ofan, voru trúarjátningar gerðar að lagaböndum, — lögfestar sem eins konar hegningarlög, ef út af væri brugðið. Þeim var neytt upp á þjóðirnar af valdhöfunum, til að halda þeim í skefjum. Það var langt frá, að þær væru frjálsar játningar kristinnar alþýðu. Það átti að vera sannleikanum til tryggingar, svo að ekki yrði frá honum vikið. Hugmyndin var sú, að hægt væri að draga menn fyrir lög og dóm og svifta réttindum og embætti, ef menn hefðu aðrar trúarskoðanir en játningarnar. Þar áttu trúarsetningarnar að vera teknar fram allar saman, svo ljóst og greinilega, að ekki væri unt að misskilja. Öllum var gert að skyldu að þekkja þær og kunna og vera samþykkir. Því þær voru hver ein út af fyrir sig og allar í heild, nauðsynlegar til sáluhjálpar. Að minsta kosti mátti engum neita, jafnvel ekki hinum minniháttar. Hugmyndin um innblásin kirkjuþing kom þegar snemma til sögu. Hún var að minsta kosti jafn-gömul kirkjuþinginu í Níkeu og dögum Konstantínuss keisara. En hinir innblásnu feður**) beittu oft hnefunum óspart til að koma trúarsetningunum inn hjá hinum þverbrotnu. Þegar er andstæðingarnir voru orðnir mátulega þjálir, var gengið til atkvæða og meiri hlutinn láta ráða, hverju trúa skyldi, eða hvað skyldi vera

---

*) Sbr. L. P. Jacks: Democracy and Discipline. Hibbert Journal XI, des. 1912, bls. 2. **) ϑεοφοροι πατέρες.

álitið nauðsynlegt til sáluhjálpar. Á kirkjuþingi í Trident var stöðugt viðkvæði, að andinn kæmi í fjötrum frá Rómi. Klementísku hómilíurnar kváðu þann innblástur betri og ábyggilegri, er eigi stæði í sambandi við neitt hrifningar-ástand.*) Og sú skoðan varð ofan á. Jafnvel Ágústínus kirkjufaðir lagði svo mikla áherzlu á fullveldi kirkjunnar, að hann sagðist ekki trúa sjálfu fagnaðarerindinu, nema fyrir það að fullveldi kirkjunnar þrýsti sér til þess.**) Eitt sinn var því haldið fram af lúterskum guðfræðingum, að reglulegir páfatrúarmenn færu allir illa og mikill hluti fólks endurbættu kirkjunnar líka. Fyrir því var það ein af helztu skyldum landsstjórnarinnar að vaka yfir því, að menn viltust ekki frá hinni hreinu trú eða ‚hreinni kenningu'. Það varðaði sáluhjálp borgaranna og yfir henni áttu yfirvöldin að vaka. Einkum voru nákvæmar gætur hafðar á kennurum og prestum. Guðfræðin varð aðal-vísindagreinin. Hún stóð yfir öllum vísindagreinum öðrum. Það þurfti mikla þekkingu og mikinn vísdóm til að kveða á um, hvort hinn eða þessi gæti orðið sáluhólpinn, ef skoðanir hans voru ekki feldar við skoðanafjöl ríkisins. Þrýstingin, sem skoðanafrelsi einstaklingsins varð fyrir, var einkum mikil í sambandi við nautn kvöldmáltíðarinnar. Þess vegna var sagt: Sannur líkami og sannarlegt blóð við útdeilinguna. Aflausnin var sakramenti út af fyrir sig og gekk á undan, eins og þröngar dyr, sem allir urðu að ganga inn um. — Nú er þessi heimur genginn til grunna. Nú er stjórnin í öllum löndum farin að forðast að blanda sér inn í samvizkumál einstaklinganna. Ríkið tekst ekki á hendur sáluhjálp borgaranna. Sú skoðan hefir rutt sér algerlega til rúms, að menn verði ekki sáluhólpnir fyrir skoðanir. Guðfræðin er hætt að vera drotning í heimi vísindanna. Hún þakkar fyrir að fá að sitja þar við hlið margra systra. Hún hefir orðið að setjast við fætur þeirra og láta þær kenna sér. — Þess vegna eru trúarjátningar nú í minna gildi en áður. Mönnum hefir skilist, að það sé óhæfa að beita skoðanir manna ofríki, enda óþarft, því enginn verði hólpinn fyrir skoðanir, heldur með því móti að ganga hinum æðsta kærleiksvilja á vald. Sjálfir postular Krists höfðu ólíkar skoðanir. Engum nauðungartækjum var beitt til að leiða skoð-

*) ἄνευ ὀπτασίας καὶ ὀνείρων **) Ego vero evangelio non crederem, nisi me catholicae ecclesiae commoveret auctoritas.

anir þeirra saman. Þau voru þá ekki til. Játningar urðu ekki til fyrr en andagáfurnar voru gengnar til þurðar. Trúarskorturinn skapaði þær, — trúarskorturinn á sannleikann og sigurmátt hans. Menn treystu honum ekki nema með því að leggja á hann fjötur. Þess konar fjötrar hafa allar trúarjátningar reynst að vera. Engin tíð getur fundið svo fullkomin orð til að binda trúarsannindin í, að gildi jafnt á öllum tímum. Á andleysistímabilum í kirkjunni hefir mest áherzla verið lögð á játningar. Þær eru miklu fremur vottur vantrúar en trúar. Öll trúarlöggjöf er óhæfa og að eins til tjóns. Sannleikurinn er sjálffær. Hann þarf engar lagahækjur við að styðjast. Jesús sagði, að til væri einungis eitt boðorð — kærleikurinn. Það lögmál reit hann ekki í bók, heldur á hjörtu lærisveina sinna. Hann lifði í kærleika, — lézt í kærleika. Páll kom á eftir. Hann varð lærisveinn með því að brjóta af sér Farísea-fjötrana. Enginn hefir barist jafn-rösklega gegn lögmálsfjötrunum og hann. Honum er lögmálið dauði, andinn (= evangeliið) líf. Lögmálið máttvana, andinn almáttugur. Lögmálið þrældómur, fagnaðarerindið frelsi. Að vera frjáls maður í Kristi, var honum kjarni kristinnar trúar. Mörgum öldum síðar, þegar fagnaðarerindið hafði aftur verið gert að lögmálsoki og Farísea-trú, hóf Lúter af nýju baráttu Páls fyrir frjálsum kristindómi.

(i.) Guðs orð verður ekki fjötrað; öll trúarlög eru óhæfa og vantrú á mátt sannleikans og fagnaðarerindisins til að ryðja sjer sjálfkrafa til rúms og öðlast hylli og meðhald mannssálarinnar.

**117. Játningar leiðbeiningar, en ekki lagaboð.** Þetta skildi Lúter og tók fram skýrt og skorinort, þótt nú hafi þeir gleymt því, sem hæst hrópa nafn hans gegn skoðunum nútímans. Árið 1530 gaf hann út lista af ekki færri en fjörutíu setningum með fyrirsögn: „Þessar greinar ætlar dr. Martinus Lúter, prédikari hinna heilögu kirkna í Wittenberg, með guðs náð, að verja gegn öllu fylgiliði Satans og öllum hliðum helvítis.“*) Fyrsta greinin af þessum fjörutíu er á þessa leið: „Kristin kirkja

*) Folgende stück will D. Martinus Luther, der heiligen Kirchen zu Wittenberg Prediger, mit Gottes Gnaden erhalten, wieder die ganze Satans Schule und alle Pforten der Höllen. Erlangen útg. 31, 122.

hefir ekkert vald til að lögfesta nokkurar trúarsetningar, hefir aldrei gert það og mun aldrei gera það."*) Þessi ummæli Lúters komu fram löngu eftir að hann varð „óskeikull" (1523), eftir kenningu hinna rétt-trúuðu bræðra vorra. Og þau standa ekki ein, heldur eru að eins upptekning þess, er hann sagði í öðru sambandi bæði fyr og síðar. „Einn**) og sérhver kristinn maður hefir rétt til að dæma um kenninguna, svo mikinn rétt, að bölvaður sé hver sá, sem skerðir hann um hársbreidd. Kristur tekur ekki einungis réttinn fram, heldur skipar að dæma (um kenninguna), Matt. 7." Samþyktir kirkjuþinga voru honum einkum móti skapi. „Á skömmum tíma yrði þær að lögum og snörum fyrir sálirnar. Í fullu frjálsræði ætti einn söfnuður að fylgja annars dæmi."***) Eins og kunnugt er, var meginregla siðbótarinnar einmitt í því fólgin, að halda fram seint og snemma fullgildi ritningarinnar í trúarefnum. Hún var yfir öllum játningum og tilskipunum kirkjuþinganna. Hún ein hafði að geyma sannleikann til sáluhjálpar, eilífan og óbreytilegan. Hún var mælikvarði trúar og kenningar. Þær geta því alls eigi skoðast lagaboð. Kirkjunni er ekkert fullveldi gefið til að leggja slíka lagabyrði á samvizkur mannanna. Ef hún tekur sér það vald að setja játningar og samþyktir kirkjuþinga annað hvort ofar eða jafnhliða, hefir kirkjan raskað fullveldi ritningarinnar og hrundið þeirri meginreglu siðbótarinnar, að setja hana ofar öllu öðru. Að gera játningar jafn-gildar ritningunni og breyta þeim í kirkjulög, er því að afneita aðal-hugsjón siðbótarinnar. Fyrir rétti urðu líka prestarnir við þetta að kannast. Jafnvel presturinn Glenn játaði hiklaust, að játningarnar hefðu aldrei verið gerðar að lagaböndum í kirkjudeild sinni.†) Séra Kristinn neyddist til að játa: „Öll lútersk játning er á því bygð, að hverjum lúterskum manni sé heimilt að skýra biblíuna eins og honum þóknast."††) Þá eru nú ekki lagaböndin hættuleg, eftir því, og

---

*) Die christliche Kirche hat kein Macht, einigen Artikel des Glaubens zu setzen, hats nie gethon, wird es auch nimmer mehr thun. **) De doctrina iudicare pertinet ad omnes et singulos christianos .... ita, ut anathema sit, quis hoc ius uno pilo laeserit .... Non solum ius sed praeceptum iudicandi Christus statuit (Matth. 7). Contra Hinricum, regem Angliae, í júní 1522. Opp. var. VI, 441 n. ***) 17. nóv. 1524. Enders Briefwechsel V, 52 n. †) Abstract 282, Framb. pr. 321. ††) Abstract 87. Framb. pr. 290.

mann furðar, hvað þá sé eiginlega verið um að þrefa. Ekki sízt, þegar hann segir rétt á eftir: „Í hverju atriði, sem játningarnar ná ekki út yfir, hefir hver einstaklingur rétt til að játa eða hafna samkvæmt meginreglum lúterskrar kirkju.“*) Þau eru æði mörg, atriðin í biblíunni, sem játningarnar ná ekki út yfir, til dæmis innblásturinn, svo frelsið verður býsna mikið. Ritgerðin um söguritan Gyðinga, sem trúvillukæran á hendur mér var bygð á, var öll um atriði, sem játningarnar ná ekki út yfir.

Lúterska kirkjan hélt því heldur alls ekki fram í upphafi vega, að játningaritin ætti að skoðast óskeikul lagaboð, sem bindandi væru um aldur og æfi. Lúter kom það sízt til hugar, er hann samdi Fræðin til leiðbeiningar við barnakenslu í trúarbrögðum. Melanchthon kom heldur ekki til hugar, að Ágsborgarjátning hans væri óskeikul og ætti að gilda um aldur og æfi. Hann hefði þá ekki hvað eftir annað verið að breyta henni. Breytingarnar sýna einmitt, að hann var alt annað en ánægður með hana, og Lúter mun hafa verið miklu óánægðari með hana, en hann nokkuru sinni lét í ljós. Á það benda ummæli hans, sem tilfærð eru hér að framan. En Samlyndisreglan (Formula Concordiae) sýnir þetta bezt. Hún er yngst játningarritanna og var samin árið 1579 eða 80. Er hún með réttu talin ströngust og þrengst allra játninganna. Samt er þar tekið fram í formálanum svo greinilega sem orðið getur, að játningarnar væru ekki gerðar að neinu úrskurðarvaldi í kirkjunni á þeim tíma, sem þær komu fram. „Önnur rit gamalla eða nýrra kennara (þ. e. játningarrit), hverju nafni sem nefnast, skulu ekki vera álitin jafn-gild heilagri ritningu, heldur skulu þau öll látin lúta henni og eigi játuð á annan eða víðtækari hátt en sem vitnisburður um, í hvaða mynd eftir tíma postulanna og í hvaða stöðum þessi kenning spámannanna og postulanna hefir viðhaldist .... Hin önnur játningarrit og þau önnur rit, sem vér höfum minst á, hafa ekki dómaravald; því að sá heiður ber heilagri ritningu einni; heldur eru þau að eins vitnisburður um trú vora; þau skýra hana og sýna, hvernig hinar heilögu bækur hafa verið skildar og skýrðar í kirkju guðs í ágreinings-atriðum af þeim kennurum, sem þá

---

*) Abstract 87. Sbr. Framb. pr. bls. 290.

lifðu, og með hvaða rökum kenningar, sem brjóta bág við heilaga ritningu, hafa verið hraktar og áfellisdómur kveðinn upp yfir þeim.“*) Þetta orkar engra tvímæla. Hér er tvent tekið fram svo skýrt, að um það ætti enginn ágreiningur að vera: Í fyrsta lagi, að játningarnar hafi ekkert dómara- eða úrskurðarvald; í öðru lagi, að þær séu að eins vitnisburður um skilning þeirra manna, sem þá voru uppi, á kenningum bibliunnar, og þessum vitnisburði er ætlað að vera til leiðbeiningar.

(ii.) Kenningin um, að játningarritin séu bindandi lagaboð, er gilda eigi um aldur og æfi, brýtur algerlega bág við megin-kenningu siðbótarinnar um biblíuna og þann skilning játninganna sjálfra, að þær séu að eins vitnisburður um trúna, síðari tímum til leiðbeiningar.**)

**118. Allar játningar stór-gallaðar.** Til leiðbeiningar og hliðsjónar geta játningarnar verið og eiga að vera eins og hver önnur áreiðanleg, söguleg skilríki. En annað og meira geta þær ekki verið. Þær eru ófullkomin mannasmíð og hafa marga galla og annmarka. Þekkingarskortur og barnalegur hugsunarháttur tímans, sem þær urðu til á, setja sín ummerki svo að segja á hverja setningu þeirra. Álit þeirra í kirkjunni hefir verið miklu meira en þau eiga skilið og góðu hófi gegnir. Þrjú elztu játningarritin eru öll rangnefnd og öðrum eignuð en hinum eiginlegu höfundum, sem enginn veit hverir kunna að vera. Postullega játningin, sem stendur í barnalærdómsbókum vorum, er ekki eftir postulana. Í þeirri mynd, sem Lúter þekti hana og fléttaði inn í Fræðin, er hún ekki eldri en árið 500 e. Kr. Kjarni hennar er að líkindum frá 2. öld, en það er löngu eftir daga postulanna, og þeir eiga ekkert í henni. Hún telur upp viðburðina í lífi frelsarans, en nefnir ekki neitt atriði kenningar hans. Hún telur upp jafn-vafasamt atriði og niðurstigninguna til heljar. En hún minnist ekki á kenningu

---

*) J. T. Müller: Die symbolischen Bücher der ev. luth. Kirche, deutsch und lateinisch. 7. útg. 1890, bls. 517—518. Eftir latneska textanum.
**) Haraldur Nielsson: Trúarjátningarnar og kenningarfrelsi presta. Skírnir, 1908, bls. 211—236.

Páls um réttlætingu af trú. Hugmyndin um upp- og niðurstigning bendir á barnalegan hugsunarhátt þeirra tíma um skipulag alheimsins.*) Margt er þar annað, sem nú er vafasamt orðið, eins og til dæmis meyjarsonernið, sem mönnum skilst nú, að nýja testamentið eiginlega alls ekki haldi fram. Enn frekar á það sér stað með annað játningar-atriði: upprisu holdsins, þar sem átt er við það hold og blóð, sem líkami vor var gerður af hér á jörðu. Slíka upprisutrú fær nútíðarmaðurinn alls ekki tileinkað sér; hún brýtur bág við hugsunarhátt hans og þekkingu. En upprisu líkamans játar hann fúslega á sama hátt og Páll postuli virðist hafa gert. Játningin hefir þar beint vilst frá biblíunni. Elzta mynd postullegu játningarinnar , sem þekkist, er á þessa leið: „Eg trúi á guð föður almáttugan, og á Krist Jesúm, einkason hans, drottin vorn, sem fæddist af heilögum anda og Maríu mey, var krossfestur undir Pontius Pílatus og var grafinn, á þriðja degi reis hann frá dauðum, steig upp til himna, situr við hægri hönd föðurins, hvaðan hann kemur til að dæma lifandi og dauða; og á heilagan anda, heilaga kirkju, fyrirgefning syndanna, upprisu líkamans. Amen.“ Þessi játning halda sumir (t. d. Zahn), að notuð hafi verið í Efesus eins snemma og árið 130 e. Kr.**) Játninguna var forðast að færa í letur. Hún átti að vera einn af dularfullum helgidómum kristinnar trúar, sem heiðingjarnir máttu ekki með neinu móti fá vitneskju um.***) Svo að segja hver setning hennar var stíluð gegn einhverri villu; þess vegna var stöðugt verið að bæta við og breyta, og upprisa holdsins látin koma í stað upprisu líkamans.†) —Allar þrjár elztu játningarnar hafa verið nefndar almennar (ökúmenískar), til merkis um, að um þær hefði öll kristnin sameinast. Postullega játningin svo nefnda kemst líklega næst því að geta átt þá einkunn, en á hana þó ekki með réttu, að því er grísk-katólsku kirkjuna snertir. — Játningin, sem kend er við Níkeu og Konstantínópel, virðist alls ekki runnin frá kirkjuþingunum, sem haldin voru í borgum þessum árin

---

*) Sú viðbót við játninguna varð ekki til fyrr en í lok 4. aldar og var gerð í Aquileia. Herbert B. Workman: Christian Thought to the Reformation, 1911, bls. 96. **) George Park Fisher, Yale: History of Christian Doctrine (Internat. Theol. Library) 1899, bls. 71. ***) Disciplina arcani. †) Workman: Christian Thought bls. 96.

325 og 381, eins og álitið hefir verið. Saga hennar er öll í þoku. Frá því um 500 er hún notuð sem skírnarjátning í grísku kirkjunni. En árið 580 bætti kirkjuþingið í Toledó við orðunum „o g s y n i“ (filioque); en gríska kirkjan tók það óstint upp og hafnaði því með öllu sem mikilli villu. Þetta er eiginlega hin eina játning grísk-katólsku kirkjunnar, og hefir hún yfir henni vakað eins og sjáaldri auga síns, eins og bent var á hér að framan. Hinar játningarnar eru alls ekki af henni notaðar né viðurkendar. Níkeu-játningin svo nefnda er að efni til fléttuð saman úr grískri háspeki og grísku trúmála-þrasi, sem nútíðarmönnum er lítt skiljanlegt, og mjög ógeðfelt að svo miklu leyti sem skilst. Hún er ekkert annað en eitt af plöggum kirkjusögunnar. Mannsandinn nú á dögum finnur þar enga næringu, né hugsan sinni hvíld. — Þetta á sér þó enn freklegar stað um hina svo nefndu Atanasius-játningu. Hún er rangnefnd, eins og hinar tvær, og eignuð manni, sem ekkert á í henni. Hún á ekkert skilt við Atanasius kirkjuföður, og í þeirri mynd, sem vér eigum hana nú, einum fimm öldum yngri en hann. Fyrri partur hennar er frá 6. öld, en síðari parturinn frá 8. eða 9. öld. Hún er full af háspekilegum skýringum á hinu óskiljanlega eðli guðs. Hún gerir þrenningarlærdóminn að lögmálsboði. Hún gerir kenninguna um hin tvö eðli Krists að sáluhjálpar-skilyrði. Hún byrjar með því að taka fram, að hver sá, sem ekki trúi þessum háspeki-útlistunum, er hún hefir meðferðis, „muni vafalaust að eilífu glatast“. Um þrenningarlærdóminn segir hún: „Sá sem því vill hólpinn verða, verður að hafa þessa skoðan á þrenningunni.“ Hér er að eins um skoðan að ræða; þrenningarlærdómurinn er hvergi framsettur í biblíunni. Jafnvel þrenningarhugtakið kemur þar hvergi fyrir. Slík fásinna, að binda sáluhjálpina við skoðanir! Sú fásinna hefir orðið kirkjunni og kristninni til ómetanlegs tjóns. Hún endar með: „Þetta er hin almenna (katólska) trú. Og hver sem ekki trúir henni einlæglega og staðfastlega, getur ekki orðið hólpinn.“ Með þessum ógnunartilraunum hefir játning þessi einkent sig beinlínis ókristilegum ummerkjum og hugsunarhætti. „Í stað trúar á hinn lifandi Krist finnum vér að sett er flókin skýring á persónu hans. Þetta kemur fram í lökustu mynd í einstökum setningum játningarinnar, sem gengur þann dag í dag undir nafninu Atanasiusar-

játning, sem austurlenzka kirkjan ætíð hefir neitað að viðurkenna. Setningarnar, sem hér er um að ræða, virðast vera runnar frá Frönkum á miðöldunum.“*) Annar mikilsmetinn nútíðarhöfundur hefir sagt, að ummæli játninganna um guðdóminn hafi þau áhrif að gera guðshugmyndina sjálfa beint ósiðferðilega, þegar um hana er talað í afleiddum og kynlausum orðtækjum.**) Hún er bergmál af megnum og langvinnum deilum, sem áttu sér stað, og oft og einatt voru hégómamál. Deilurnar eru fyrir æva-löngu niður fallnar og bergmálið dáið. Orð þessara játninga fornkirkjunnar eru nútíðarmönnum lítt skiljanleg; þau finna svo sem ekkert bergmál í huga vorum.

Ágsborgar-játningin er nú sérkenni lúterskrar kirkju. Margt má henni svo sem að sjálfsögðu til ágætis telja. Hún er með ummerkjum Melanchtons, eins lærðasta og mannúðlegasta guðfræðings siðbótarinnar. Samt eru áfellisdómar***) hennar gegn sértrúarflokkum mikill mannúðarbrestur. En Ágsborgarjátningin átti upphaflega alls engin sértrúarjátning að vera, ekkert sérkenni nýrrar kirkjudeildar. Síður en svo. Hún átti miklu fremur að sanna tilverurétt landskirknanna ‚evangelisku‘, sem upp höfðu risið, innan vébanda sjálfrar hinnar katólsku kirkju. Hún sagði sem svo: Við höfum sömu trú, ágreiningurinn er að eins um fáeinar villur, sem hafa smeygt sér inn. Játningin tekur fram í 21. grein hvað rétt kenning sé, eða telur fram þær trúarskoðanir, sem báðum málsaðiljum sé sameiginlegar; en í hinum sjö, sem þar koma á eftir, eru ágreiningsatriðin talin upp, — villurnar,†) sem komnar séu inn í kenninguna. Brúin á milli þessara tveggja hluta játningarinnar er lögð með þessum orðum: „Hér er nálega öll aðalkenningin hjá oss, og í henni er ekki unt að finna neitt, sem víkur frá ritningunni, eða frá hinni almennu kirkju, eða frá rómversku kirkjunni, eftir því sem oss er kunnugt af rithöfundum. En þegar það er nú svo, dæma þeir menn óvægilega,

---

*) Herbert B. Workman (Westminster): Christian Thought to the Reformation, 1911, bls. 71. **) The tendency is to the de-ethicization of a Deity who can be described in terms abstract and neuter rather than personal and moral. A. M. Fairbairn: The place of Christ in Modern Theology, 1894, bls. 405. ***) Damnant Anabaptistas í 5., 9., 12., 17. grein, og improbant secus docentes í 10. †) Abusus mutati.

sem krefjast þess, að vér sém skoðaðir trúvillingar. En ágreiningurinn er um nokkurar villur, sem án nokkurrar verulegrar heimildar hafa brotist inn í söfnuðina“ o. s. frv.*) Af því Ágsborgarjátning vill einmitt sanna heimild fylgismanna Lúters til þess að vera óáreittir í katólskri kirkju, leggur hún alla áherzluna á hið sameiginlega í kenningunni, það sem öllum ber saman um. Hún gengur jafnvel svo langt í þessa átt, að í 10. gr. er kenningin um eðlisbreyting (transubstantiation) efnanna í altarissakramentinu með ásettu ráði fremur látin felast í orðunum en að hún sé lokuð úti. Það er líka þagað yfir mörgu, sem forðast er að nefna. Erfikenningunni katólsku er aldrei mótmælt, en þess frekari áfellisdómar feldir yfir endurskírendur og sakramentisfrábrigðinga. Ekkert af þessu var sannleikanum samkvæmt. Munurinn milli mótmælenda og katólsku kirkjunnar er miklu meiri en Ágsborgarjátning bendir til. Hún dylur fremur en játar. Þetta fann Lúter, og fann það betur og betur eftir því sem hann kynti sér ritið nákvæmlegar. Fyrst lét hann gleði sína í ljósi fyrir keisaranum og ríkinu yfir hinni „fyrirtaks fögru játningu“**). Þegar hún fyrst var send Lúter til yfirlesturs og umsagnar, endursendi hann kjörfurstanum hana 15. maí (1530) og skrifaði: „Eg hefi lesið varnarrit (apologia) meistara Filippusar yfir; mér fellur það býsna vel, og hefi ekki vit á að bæta það né breyta; það ætti heldur ekki við, því eg kann ekki að typla svo mjúkt og hægt.“***) En einmitt með þeim ummælum lýkur hann ekki eintómu lofsorði á játninguna. 29. júní reit hann Melanchton, sem þá hafði ritað nýjan formála, á þessa leið: „Fyrir mitt leyti finst mér vera slept meiru en góðu hófi gegnir.“†) Kemur þá í ljós það, sem hann átti við með hinni fyrri

*) Haec fere summa est doctrinae apud nos, in qua cerni potest nihil inesse, quod discrepet a scripturis, vel ab ecclesia catholica vel ab ecclesia romana, quatenus ex scriptoribus nota est. Quod quum ita sit, inclementer iudicant isti, qui nostros pro haereticis haberi postulant. Sed dissensio est de quibusdam abusibus, qui sine certa auctoritate in ecclesias irrepserunt. I. T. Müller. Symb. Bücher, 47. **) Confessio plane pulcherrima. ***) Ich hab M. Philipsen Apologia überlesen; die gefällt mir fast wohl, und weiss nicht daran zu bessern und zu andern, wurde sich auch nicht schicken; denn ich so sanft und leise nicht treten kann. Erlangen útg. 54, 145. Kjörfurstinn hafði sent Lúter játninguna til yfirlits 11. maí. Það frumrit er nú glatað. †) Pro mea persona plus satis cessum est in ista apologia.

umsögn sinni frá 15. maí. Enn þá ein umsögn er til eftir hann frá 21. júlí, þar sem það kemur enn betur fram, að hann var alt annað en ánægður: „Satan tórir enn, og hefir veitt því góða eftirtekt, hve mjúkgeng þessi vörn yðar er, og að hún hefir farið í felur með lærdómsgreinarnar um hreinsunareldinn, dýrlingadýrkan og einkum páfa-andkristinn.“*) Enda lögðu hrekjendur (c o n f u t a t o r e s) játningarinnar alla áherzlu á það, frá sjónarmiði katólskrar kirkju, að játningin væri ósönn. Fylgismenn hennar flytti marga villulærdóma, sem hún þegði um. Hún hefði orðið á alt annan veg og miklu bersögulli og sannari, ef Lúter hefði samið hana sjálfur. Það sýna bezt rit hans tvö: Á m i n n i n g  t i l  g u ð f r æ ð i n g a n n a,  s e m  s a m a n  e r u  k o m n i r  á  r í k i s d e g i n u m  í  Á g s b o r g, og A n d m æ l i  g e g n  h r e i n s u n a r e l d i n u m og bréf hans til Ágsborgar.**) Hafi Ágsborgarjátningin verið ófullkomin í augum Lúters, er engin furða þó hún sé það frá sjónarmiði nútíðarmanna. Hún gerir aflausnina að sakramenti og heimtar heimullega aflausn, sem nú er alstaðar lögð niður fyrir löngu. Kirkjufélagið vestur-íslenzka hefir jafnvel felt úr gildi þær litlu leifar af aflausn, sem helgisiðabókin gerir ráð fyrir; það hefir engar s k r i f t i r, né skriftaræðu. Hún kveður fyrirdæmingu upp um endurskírendur, vegna þess þeir höfðu von um, að óskírð börn geti orðið hólpin. En um leið styður hún þá ókristilegu skoðan, að óskírð börn glatist. Og í sambandi við þetta má minna á fyrirdæminguna, sem upp er kveðin í 17. grein yfir þeim, sem aðhyllast kenninguna um þúsundáraríkið, þrátt fyrir það, að Opinberunarbókin flytur hana berum orðum, — og kenninguna um eilífa útskúfan. Kenningin um erfðasyndina er tekin fram í 2. grein, og þar staðhæft, að hún steypi öllum í eilífa glötun, sem ekki verði endurfæddir fyrir skírn og heilagan anda. Þeim friðþægingarlærdómi eða þeirri skýringu kenningarinnar, sem 3. og 4. gr. hefir að bakhjarli, er nú af flestum hafnað, vegna þess að hann brýtur bág við fagnaðarerindið sjálft. Þeir, sem ekkert tilkall gera til rétt-trúnaðar nú á dögum, muna miklu betur reglu Schmal-

*) Satan ad huc vivit, et bene sensit apologiam vestram leise treten et dissimulasse articulos de purgatorio, de sanctorum cultu et maxime de antichristo papa. De Wette, Luthers Briefe IV, 110. **) Sbr. Friedrich Loofs, Halle, Leitfaden zum Studium der Dogmengeschichte 4, 1906, bls. 820—821.

kald-greinanna, en hinir rétt-trúuðu bræður þeirra, og kunna miklu betur eftir henni að lifa: Vér höfum aðra reglu, þá, að guðs orð eigi að vera grundvöllur trúarlærdómanna og ekkert annað, ekki einu sinni engill. Ekkert var fjær huga þeirra Lúters og Melanchtons en það, að Ágsborgarjátning ætti að vera bindandi lögmál fyrir komandi kynslóðir. Hún var til þess samin, að sanna tilverurétt þeirra trúmálaskoðana, sem hún flytur, innan katólsku kirkjunnar, og til þess að veikja þá sönnun ekki, breiðir hún yfir mismuninn og fer í felur með þær skoðanir, sem katólsk kirkja sízt gat þolað. Hún þegir um margt það, sem hún hefði átt að játa, ef hún hefði átt að vera sönn játning þeirra, sem hlut áttu að henni. „Játningin var samþykt ekki einungis vegna þess, sem fram var tekið, heldur líka vegna hins, sem slept var."*) Það spakmæli á sjálfsagt heima um allar játningar, en ekki sízt um um Ágsborgarjátningu. Melanchton hefði ekki stöðugt verið að breyta, ef hann hefði álitið játning sína fullkomna og óskeikula. Þegar Lúter var breytingunum andstæður, var það að eins vegna þess, að honum fundust þær ekki til bóta. Ekki er furða, þó frumrit að bókum biblíunnar sé glötuð. Bæði frumritin, hið þýzka og hið latneska, af Ágsborgar-játningu eru glötuð. Fyrsta útgáfa Melanchtons er frá 1531. Áður höfðu 12 útgáfur verið prentaðar. Með samanburði má komast nærri um, hver textinn hefir verið, sem lesinn var upp í Ágsborg 25. júní 1530.

Enn síður hefir Lúter til hugar komið, að Fræðin yrðu gerð að óskeikulli trúarjátningu. Þau áttu að vera leiðbeiningar við kenslu í kristindómi. Sú leiðbeining hefir sjálfsagt miklu góðu til leiðar komið, en fullkomin getur hún ekki heitið. Skýringin á sakramentunum er næsta ófullkomin og naumast rétt, enda hafa Fræðin breitt út þann skilning, að sakramentunum fylgi eins konar töfra áhrif, sem geri þau að sáluhjálparskilyrðum. Eins er kenningin um, að heilagur andi veki upp hina dánu á efsta degi. — Enginn fer nú lengur í játningarritin til að komast að raun um, hverju hann eigi að trúa, heldur að eins til að vita, hvað kent hafi verið. Fyrir margaukna þekkingu á guðs orði, manneðlinu sjálfu og heiminum, sem vér búum í, er

*) Sbr. Dómur Goss, bls. 353.

trúarvitund kristinna manna komin langar leiðir út úr trúarhugmynda-heimi játningarritanna, ekki einungis hinna þriggja frá fornöld kirkjunnar og miðöld, heldur einnig trúarhugmynda-heimi siðbótarinnar.

(iii.) Þó játningarnar hafi margt til síns ágætis, eru á þeim gallar og annmarkar svo miklir, að það er óvit eitt að telja þær óskeikular og óhæfa að leggja þær sem lagafjötur á samvizkur manna.*)

119. **Svá eru lög sem hafa tog.** Það er hugmynd frá barnæsku mannkynsins, að lög skuli gilda um alla eilífð. Medar og Persar létu þau fyrirmæli að sögn fylgja öllum lagaboðum sínum; þeim mátti aldrei breyta, þau áttu að gilda eins lengi og heimur stæði. Nú skilst mönnum, að slíkt var barnalegur hugsunarháttur. Síðari kynslóðir láta ekki fjötra sig. Þær breyta, þegar skórinn kreppinn og þörfin verður brýn. Lífið lætur eigi færa sig í fjötra. Og svo er annað. Um leið og lög eru gefin út, eru þau margvíslega skilin. Einn skilur þau á þessa leið; annar gerir sér ólíka grein þeirra. Það hefir átt sér stað um borgaraleg lög á öllum öldum. Það á sér ekki síður stað um trúarjátningar. Margar ólíkar merkingar hafa þar oft verið lagðar í sama orðið og miklar deilur risið út af. Frá því um lok 2. aldar áttu geysimiklar deilur sér stað út af þrenningarlærdóminum, þar sem menn skiftust í marga flokka út af ólíkum skilningi á orðinu guðs sonur, — deilurnar um einingu (monarchia) guðdómsins.**) Út af Níkeujátningunni svo nefndu risu deilur, sem stóðu yfir í marga mannsaldra, því menn skýrðu ummæli hennar á ýmsa lund og fundu margvíslegar merkingar í orðum hennar. Lúterskir guðfræðingar áttu í löngum og ströngum deilum, er stóðu yfir í tugi ára, út af merkingu Ágsborgarjátningar, eftir að Lúter var lagstur undir græna torfu. Engin furða þó þeir, sem nú eru uppi, eigi bágt með að skilja þessar játningar, sem til eru orðnar fyrir mörgum öldum, já, þúsundum ára. Hugtakið skapari himins og jarðar er nú orðið alt annað en

---

*) Jón Helgason: Prestarnir og játningarritin. Skírnir 1909, bls. 193—224. **) Sbr. Jón Helgason: Kristnisaga I, 148 nn. og Helgi Hálfdanarson: Saga fornkirkjunnar, bls. 188 nn.

það var fyrir seytján eða átján hundruð árum. Orðin: steig niður .... steig upp .... situr við hægri hönd .... mun þaðan koma, benda á úrelta heimsmynd, sem enginn nútíðarmaður lætur binda sig við. Að líkindum lögðu engir þeirra, er rituðu nöfn sín undir Ágsborgarjátningu, sömu merkingu í orðin. Enn þann dag í dag deila menn um, hvort leikmannastarfsemi sé bönnuð eða leyfð í 14. grein. Flestir kannast að sönnu við, að hún sé þar greinilega bönnuð. En fáeinir streitast við að toga orðin svo, að þeir geti sagt, að leikmannastarfsemi sé þar leyfð og játningin frá því sjónarmiði óskeikul. Svá eru lög sem hafa tog, sögðu forfeður vorir. Það er ofurefli að binda mannsandann við skilning eða skýringar einnar kynslóðar. Það er eins og frægur dómari í bandaríkjunum hefir sagt: „Þegar grundvallarlög frá átjándu öld mynda frelsisskrá stjórnar á tuttugustu öld, — verður þá að skilja og skýra almenn ummæli þeirra með vitsmunum átjándu aldar, í ljósi átjándu aldar ástæðna og hugsjóna? Bersýnilega ekki. Þetta væri að skipa mannkyninu að nema staðar á framfaraleiðinni, — að leggja ríkið á sann-nefndan Prokrustesarbeð.“*) Þeir, sem háreistastar kröfur gera um, að kirkja og og kennimenn sé færð í sem allra-sterkasta játningarfjötra, til þess allur kristindómur fari ekki um koll, heimta vanalega um leið, að lögð sé þeirra merking í játningarnar og engin önnur. Það er katólskur hugsunarháttur, en ekki lúterskur, — páfatrú, en ekki mótmælenda trú. „Með oss er enginn dómstóll, er gefið geti óskeikulan skilning í kenningarefnum.“**) Væri slíkur dómstóll eða úrskurðarvald til, yrði það ekki hjálp, heldur hindrun í sannleiksleitinni. Furðulegt fyrirbrigði má það kallast, að þeir sem mesta áherzlu leggja á það að játningar sé lagabönd, skoða sjálfa sig alls ekki af þeim bundna. Þeim virðist liggja það í léttu rúmi að breyta beint gegn játningunum sjálfir, bæði í kenningarefnum og kirkjusiðum. En geri aðrir það að einhverju leyti, er hrópað um óguðlegt athæfi landshornanna á milli. Sannleikurinn er nú sá, að enginn lifir eftir játningunum nú á dögum, hvorki í kenningu né öðru. Þær eru söguleg skilríki og annað ekki. Í öllum öðrum skilningi eru þær dauðar. Rétt-trúnaðarmennirnir austan hafs og

*) Winslow dómari í Wisconsin. Sbr. Appellants' Brief, bls. 246. **) Johannes Ording: Aandens tjenere, bls. 96.

vestan þegja um erfðasyndina, sem „dæmir seka og steypir í eilífa glötun öllum þeim, sem ekki endurfæðast fyrir skírn og heilagan anda“ (2. gr.). Þeir láta liggja í þagnargildi kenninguna um, að óskírð börn sé útilokuð frá guðs náð (9. gr.), sem vitaskuld merkir í sambandi við það sem fram er tekið um erfðasyndina (2. gr.), að þau „geti ekki orðið hólpin“. Þeir forðast að hampa mikið kenningunni um að Kristur muni, er hann kemur til dóms, fyrirdæma alla óguðlega menn, „til þess að þeir pínist um alla eilífð“ (17. gr.). Og hvers vegna fara sjálfir rétt-trúnaðarpostularnir svo að ráði sínu? Vegna þess að þessar og þvílíkar kenningar játninganna hafa orðið sjálfdauðar hjá þeim. Það eru lík, sem þeir sigla með í lestinni.

(iv.) Það er ofurefli (ultra vires) að binda skoðanir við bókstaf játninganna; menn togast á um merkinguna og enginn dómstóll getur skorið úr; kenningar deyja sjálfkrafa við ljós aukinnar þekkingar.

**120. Játningarnar hafa enga innblásturs-kenningu meðferðis.** Þegar lagagildi játninganna er haldið fram, er það einkum til að varðveita kenninguna um innblástur biblíunnar. Sú kenning var álitin nauðsynleg til að styðja fullgildi ritningarinnar. Kenningin um óskeikula biblíu er ekki nóg. Henni til stuðnings þarf að framsetja kenningu um óskeikular játningar. Seytjándu aldar guðfræðin áleit játningarnar ekkert síður óskeikular en biblíuna. Þær voru innblásnar ekkert síður en hún. Jafnvel orð Lúters voru innblásin. Seytjándu aldar guðfræðin setti játningarnar yfir biblíuna. Hana varð að lesa og skilja samkvæmt samanburði trúarinnar (analogia fidei). Þessi samanburður trúarinnar var einmitt játningarnar. Þær voru æðsti dómstóllinn, æðsta úrskurðarvaldið. Það heimtar rétttrúnaðurinn enn. Ef einhver ritningargrein er skilin svo, að hún brjóti bág við einhverja kenningu játninganna, þá er rangt skilið. En nú höfum vér fyrir oss það merkilega fyrirbrigði, að játningar kirkju vorrar hafa alls enga innblásturskenningu meðferðis. Og það er sjálfsagt vegna þess, að heilbrigð skynsemi hefir gefið höfundunum grun um, að hér væri um erfitt viðfangsefni að ræða. Það eru til þau efni, sem mannsandinn kinnokar sér við að skilgreina. Hann hefir hugboð um,

að það sé ofurefli. Sannleikur, réttlæti, kærleikur eru alt hug tök, sem eigi er unt að gefa einskorðaðar skýringar yfir. Eins með innblásturs-hugtakið. Það er játningum kirkju vorrar til sóma, að höfundar þeirra hafa leitt hesta sína frá að skilgreina það, eða gera tilraun með nokkura skýringu innblástursins; þær hafa allar mishepnast hrapallega og sett skringimark á þær, sem það hafa reynt. **„Það sem markar lúterska kirkju ákveðið lúterska, er játning kirkjunnar, og hvergi í Ágsborgarjátningu né nokkurri annari játningu lúterskrar kirkju er fram tekin nokkur sérstök innblásturs-kenning. Öll lútersk játning er á því bygð, að hverjum lúterstrúarmanni sé heimilt að skýra biblíuna eins og honum þóknast.“***) Þá játningu gerði séra Kristinn fyrir rétti. Og sömuleiðis þessa: **„Í grundvallarlögum kirkjufélagsins og trúarjátningum er engin sér stök yfirlýsing, er samþykki nokkura sérstaka innblásturs-skýringu.“**** — **„Lúterska kirkjan játar enga sérstaka innblásturs-kenningu sem kirkjudeild.“*****) Og að því er til kirkjufélagsins kemur, tók séra Björn fram: **„Kirkjufélagið hefir hvergi með nokkuru móti látið skjalfesta, að það játi nokkura sérstaka innblásturs-tegund biblíunnar. Það hefir ekki gert það með neinum grundvallarlögum né í nokkurri trúarjátningu sinni, en það var skilningur kirkjufélagsins.“**†) En kannast varð séra Björn við, að þetta hefði fyrst orðið skilningur kirkjufélagsins 1909, þegar yfirlýsingin var ger. „Eg veit ekki af neinni yfirlýsingu á undan yfirlýsingu Friðjóns Friðrikssonar 1909, þar sem þetta var tekið fram.“††) Og séra Kristinn segir: „Yfirlýsingin sem samþykt var 1909, var til þess að láta ótvíræðlega í ljós stefnu kirkjufélagsins, með tilliti til kenningarinnar, sem um var deilt, og til þess opinberlega að **fastbinda** kirkjufélagið kenningunni um p l e n a r y-innblástur.“†††) Þá fyrst væri það skjalfest orðið, að kirkjufélagið byndi sig við þá innblásturstegund, sem kölluð er plenary-innblástur. En við réttarhaldið í Grand Forks áræddu kirkjufélagsprestarnir þrír, sem vitni báru, þegar á átti að herða ekki að kveða á um kenningu sína um innblásturinn með meiri nákvæmni en það, að biblían sé

---

*) Abstract 87, f. 256—7. Framb. pr., bls. 290. **) Abstr. 85, f. 251—2. Framb. pr., bls. 289. ***) Abstr. 88, f. 259. Framb. bls. 290. †) Abstr. 116, f. 344. Framb. pr. bls. 299. ††) Abstract bls. 116, f. 345. Framb. pr. bls. 299. †††) Abstract bls. 88 f. 260, Framb. pr. bls. 291,

í heild sinni innblásin, sem er býsna ónákvæmt orðalag. Og um leið urðu þeir að kannast við, að engin sérstök innblásturs-skýring felist í grundvallarlögunum, hvorki kirkjufélagsins, né safnaðarins, né heldur í játningum kirkjunnar á Íslandi. Prófessor Ness áræðir ekki að segja meira um kenningu Sameinuðu kirkjunnar norsku en það, að hún „hallist að plenary-innblástursskýringunni". Aftur leyfir Fossmark sér að staðhæfa um sama félagið, að það hafi „bundist bókstafs-innblæstri". Hið sama segir Walper um Missouri-sýnóduna. En báðir viðurkenna, að grundvallarlögin og játningarnar hafi ekkert orð um þetta atriði. En þá fer nú grundvöllur kærunnar að verða nokkuð ótryggur. Fyrir því létu lögmenn sakborninga sér farast orð svo: „Vér dirfumst að segja, að þegar þessi réttur er beðinn að úrskurða, að játning kenningar, sem hvergi er með ákveðnum orðum fram tekin í nokkuru játningarriti kirkjunnar eða í grundvallarlögum, sé nauðsynleg, og að neitan þess að játa slíka kenningu sé trúvillusök eða fráfall frá trúnni, þá eru sakaraðiljar að biðja þenna rétt að gera það, sem enginn annar réttur í öllum hinum ensku-mælanda heimi hefir nokkuru sinni áður gert."*) Enn ótryggari verður grundvöllurinn, þegar þess er gætt, hve innblástursskýringarnar eða tegundirnar hafa orðið margar eftir þann tíma, að játningarnar lútersku urðu til. Innblásturs hugmyndin hefir verið klofin svo smátt, að ekkert er orðið eftir af henni. Menn berjast sín á milli um klofningana. Hver álítur sinn klofning hina einu og sönnu kenningu og fyrirdæmir hinar. Dómarinn telur upp: Bókstafs-innblástur, ósjálfráðan innblástur, andakrafts innblástur, útgeislunar-innblástur, innblástur að nokkuru leyti og persónu-innblástur, auk plenary-innblásturs.**) Samt sem áður eru til enn fleiri tegundir. Það er auðsætt, að hér er að eins verið að deila um skegg páfans, og slík deila verður ávalt hlægileg. Svo fer ávalt með kenningar, sem eru að deyja út. Þær uppleysast að síðustu og verða að engu.

Það hefir verið sagt, að málaferli út af innblásturs-kenningunni muni aldrei hafa átt sér stað, hvar sem leitað sé í heiminum. En ekki er það með öllu rétt. Málaferli áttu sér stað suður í Texas í Bandaríkjum ekki alls fyrir löngu út af inn-

---

*) Appelants' Brief bls. 113—114. **) Dómurinn, bls. 350.

blásturs-kenningunni og friðþægingarlærdóminum. Var það Baptistakirkjan þar, sem ætlaði að klekkja á einum presta sinna, dr. Fortune, fyrir kenningar hans í þessum efnum. Báðir málsaðiljar könnuðust við innblásturinn, eins og hjá okkur. Hæsti rétturinn í því máli komst svo að orði: „Dr. Fortune kendi líka, að biblían sé guðs innblásið orð, en hann trúði ekki bókstafs- og plenary- innblæstri ritanna, sem biblían hefur inni að halda, og því er haldið fram, að þessi skoðan sé ekki í samræmi við kenningar Baptista-kirkjunnar yfirleitt, né í samræmi við játninguna, sem Paris-Baptista-söfnuðurinn hafði játað.“. Út af þessari mótbáru tekur rétturinn fram: „Það er auðvelt að sjá, að ágreiningurinn er um skýringaratriði í sambandi við kenninguna. Játningin lýsir yfir þeirri sannreynd, að innblástur bibliunnar eigi sér stað og þeirri sannreynd, að friðþægingin sé hjálpræðis-meðal. Skýringarnar, sem þessar kenningar-sannreyndir hvíla á, geta verið skiftar skoðanir um.“ Dómurinn í þessu máli var einn hinn rækilegasti og bezt rökstuddi dómur, sem feldur hefir verið í sams konar málum.*) Séra Kristinn játar: „Í hverju atriði, sem játningar kirkjunnar ná ekki út yfir, hefir hver einstaklingur rétt til að játa eða hafna, samkvæmt meginreglum lúterskrar kirkju.“**) Og á öðrum stað: „Öll lútersk játning er á því bygð, að hverjum lúterstrúarmanni sé heimilt að skýra bibliuna eins og honum þóknast.“***)

(v.) Enganer unt með réttu að fá dæmdan fyrir trúvillu, eða brot gegn trúarjátningum kirkju vorrar sökum skoðana hans um innblásturinn, því að játningarnar nefna ekki innblásturs-kenninguna svo mikið sem á nafn.

**121. Kenningarfrelsið.** Það hefir verið sagt, og sú setning ætti engum manni úr minni að líða: „Eini óskeikuli vörður sannleikans er andi sannleiksástarinnar.“†) En í stað þess að treysta anda sannleiksástarinnar eða þeim tökum, er sannleik-

---

*) Sbr. Appellants' Brief bls. 113. **) Abstract 88. f. 259. Framb. pr. 290. ***) S. st. 87, f. 257. Framb. pr. 290. †) The only infallible guardian of Truth is the spirit of truthfulness. Sbr. M. Lloyd Thomas: What is Schism? Hibbert Journal, jan. 1911, bls. 379.

urinn hefir náð á samvizku mannanna og skynsemi, hefir verið leitast við að binda menn fasta við sannleikann með eiðum og lagafjötrum. Engir menn ættu að vera frjálsari í starfsemi sinni en þeir menn, sem beint hafa gert það að stöðu sinni, að vera sannleiksvottar, — bera vitni um sannleikann, mönnunum til hjálpræðis. Í mannfélögunum ætti sá skilningur að vera ráðandi, að það sé lífsskilyrði, að þeir menn, er segja eiga sannleikann í hverjum hlut, lúti að eins skipunum samvizku sinnar og láti ekki hrekjast úr leið frá sannleikanum af ótta fyrir mönnum, eða ótta fyrir embættismissi eða því að komast á vonarvöl. Samt sem áður hafa menn fundið upp prestaeiðinn. Þeir menn hafa verið fastast bundnir og reirðir, er mest lá á, að væri frjálsir og eðlilegt var að ætla, að mest væru bundnir af eigin samvizku sinni. Alt er þetta undur-ólíkt frelsaranum og anda fagnaðarerindisins. Í stórmerkri bók enskri eftir einn af helztu stjórnmálamönnum Englands, sem út var gefin fyrir rúmum fjörutíu árum, og oft er lesin í skólunum, er svo að orði komist: „Meðan mannsandinn leggur lengra út í nýja leit eftir nýju ljósi og fálmar með ákafa eftir nýjum sannindum, .... verða prestar kirkjunnar að vinna þess dýran eið nærri því áður en þeir hafa stigið yfir þröskuld fullorðinsáranna, að þeir vilji alls ekki leita neitt framar. Í raun og veru sverja þeir, að þeir vilji fram á síðustu stund trúa því, sem þeir trúa þá, áður en þeir hafa tíma til, hvort heldur að hugsa sjálfir eða fá að vita um hugsanir annara. Með öðrum orðum: Þeir vinna eið að því að lifa lemstruðu lífi.“*) Sýnir höfundurinn fram á, hve mikil hætta mannfélaginu sé af þessu búin. Vitaskuld bætir það úr skák, að eiðurinn, sem prestar hafa unnið að játningunum, hefir ekki verið tekinn í þessum stranga skilningi í mótmælenda heiminum. Hann hefir verið skoðaður eins og annar dauður formáli, sem ekkert tillit hefir verið tekið til í lífinu. Enginn getur t. d. unnið eið að því, aldrei að misskilja ritninguna eða játningarnar, því það getur öllum orðið öldungis ósjálfrátt. Enginn vinnur í rauninni eið að öðru en að kenna það sem hann eftir beztu samvizku álítur sannast og réttast. „Þeir, sem reiðubúnir eru að staðhæfa: Ef þú getur ekki rent niður öllum greinum játn-

---

*) Lord Morley: On Compromise.

inganna skilyrðislaust, hefir þú engan rétt til að vera í prestahópi kirkjunnar, — þeir menn tala frá sjónarmiði lægri hugsjóna, eins og menn, sem eigi hafa lesið neina mannkynssögu, eða hafa ekki skilið, þó þeir hafi lesið. Þeir heyra til félagi þeirra, sem trúa bókstafs-innblæstri og óskeikulli biblíu að því er mannkynssögu og vísindi snertir, — sem er hið sama og að segja, að þeir heyri til liðinni tíð, útkulnuðum hugmyndaheimi."*) Ósjálfrátt hefir þessi prestaeiður skapað hjá söfnuðunum og hjá þeim, sem fjarlægst hafa kristindóminn, það hneyksli, að prestar þori ekki að tala eins og þeir hugsa; þeir prédiki samkvæmt rétt-trúnaðarkröfunum í öllu, vegna þess að þeim sé fyrir það goldin laun og vegna þess, að annars myndi þeir verða sviftir embættisstöðu; í þessu styðjast menn við trúvillurannsóknir og málarekstur, ef eitthvað ber út af.**)

Enginn einasti nútíðarprestur er að öllu leyti samþykkur játningunum frá 16. öld, þó ekki sé farið lengra aftur í tímann. Þeim liggur öllum til grundvallar sú heimsmynd, sem lætur alheiminn vera eins og þrílyft hús. Enginn hinna rétt-trúuðu bræðra vorra hefir þá hugmynd um djöfulinn og veldi hans, sem fram kemur í játningunum. En það er að bera í bakkafullan læk að bæta dæmum við það, sem þegar hefir verið tekið fram. Í þessu efni eru menn nú orðnir fyllilega sannfærðir. Í Sviss eru öll kenningarhöft numin úr gildi; engin eið- eða heitbinding á sér þar stað.***) Í Svíþjóð er formálinn sá að „prédika eftir beztu þekkingu og samvizku",†) sem er nákvæmlega það, er eg hélt eindregið fram á kirkjuþingi í Selkirk 1908. Sú skoðan hefir rutt sér til rúms, sumpart fyrir dýrkeypta reynslu, sumpart fyri vaxandi þekkingu og sannleiksást, að það sé hið mesta hermdarverk að leggja nokkur höft á hugsanafrelsi prestsins, með því að fá hann dæmdan og gerðan rækan, þó hann komi fram með hugsanir, sem að einhverju leyti brjóta bág við gamlan rétt-trúnað. Á Þýzkalandi

*) Canon Danks: The Clergy, Conscience, and Free Inquiry. Hibbert Journal, jan. 1911, bls. 372. **) Sbr. Religion in Geschichte u. Gegenwart III, 2038. ***) Johannes Jacobsen Om symboler og Symbolforpligtelse, 1906, bls. 40. †) Biskupinn spyr: „Viljen I efter bästa förstand och samvete rent och klart förkunna Guds ord såsom det är oss gifvit i den heliga skrift och såsom vor kyrkas bekännelsesskrifter der om vittna?" Eftir S. Michelet: Om presteeden bls. 121.

hefir þetta samt komið fyrir nú hvað eftir annað, en mælzt svo illa fyrir, að slíkt atferli getur ekki átt sér langan aldur, þar sem kenningarfrelsið hefir svo lengi verið algert við háskólana. Vér Íslendingar erum nú svo langt komnir í þessu efni, að fullkomið kenningarfrelsi á sér stað hvarvetna með þjóð vorri, nema í kirkjufélagi Vestur-Íslendinga. Prestaeiðurinn gamli var afnuminn á Íslandi 1888 með ráðherraúrskurði. Prestaheit kom þá í staðinn, en einnig það er afnumið með konunglegri staðfestingu helgisiðabókarinnar nýju árið 1910. Það er nú látið nægja, að biskup brýni fyrir vígsluþegum frá altari, að þeir prédiki guðs orð, hreint og ómengað, svo sem það er að finna í hinum spámannlegu og postullegu ritum, og **í anda vorrar evangelisku lútersku kirkju.***) Sú áminning orkar engis tvímælis. Hún getur enga aðra merkingu haft en þá, að nú er kenningarfrelsi fullkomlega viðurkent á Íslandi. Prófessor Jón Helgason hefir rækilega sýnt fram á, að játningarritin, sem danska kirkjan hefir, hafa aldrei verið lögfest á Íslandi, þar sem „kristinna laga þáttur Dönsku laga Kristjáns V. (frá 1683) hefir aldrei verið formlega lögtekinn hér hjá oss.“**) Sömuleiðis, að prestaeiðurinn og eiðfestingin við játningarritin hafi verið lögleysa frá upphafi; kirkjuritúal Kristjáns V. frá 1685 hafi aldrei verið lögformlega innleitt á Íslandi, og sé bezta sönnun þess sú, að það hafi aldrei verið til á íslenzku. En þar var prestaeiðurinn fyrst lögboðinn. Hann hefir í þriðja lagi sýnt fram á, að einmitt með stjórnarskránni sé „öllu játningafargi (confessionalismus) létt af hinni íslenzku þjóðkirkju“, sem af ásettu ráði bindur sig við hugtakið „evangelísk lútersk kirkja“; merkir það svo sem að sjálfsögðu hið sama og sömu ummæli í grundvallarlögum Dana, sem þau eru beint tekin upp eftir. En þegar dönsku grundvallarlögin voru samþykt, reyndi enginn minni maður en Mynster, Sjálandsbiskup, að fá því til leiðar komið, að grundvallarlögin tæki Ágsborgarjátningu beint fram, en varð í minnihluta með þá breytingar-tillögu. Menn kærðu sig ekki um svo þröngt játningarband fyrir ríkið. Fyrir því er það mikil furða, að sumir prestar kirkjunnar á Íslandi virðast ekki vita, hvernig þessu er farið, og tala enn eins og kenningarófrelsið sé þar enn í

---

*) Helgisiðabók, Rvík 1910, bls. 109. **) Jón Helgason: Til andmælenda minna, bls. 37—38.

algleymingi. Það minnir ósjálfrátt á hestinn, sem hoppar, eftir að hnappeldan er dottin af. Það sýnir bezt, hve óumræðilega langt íslenzka kirkjufélagið vestan hafs er komið aftur úr og er algerlega fráskila orðið íslenzkri kristni, að um leið og kirkjan á Íslandi er laus úr kenningarhaftinu og algerlega frjáls, þá tínir það hnappelduna upp úr grasinu og snýr sem fastast um fót sér. En reynslan hlýtur að verða nákvæmlega sú sama og annars staðar. „Tryggingin, sem heitbindingin átti að veita, hefir reynst einskis virði. Heitið hefir alið hræsnina og aftrað framförunum, sem ávalt eru frelsinu samfara. Það hefir oft og tíðum gjört mennina, sem því voru bundnir, að beygðum áhuglitlum og ósjálfstæðum bókstafsþjónum, í stað þess að gera þá að glöðum, upplitsdjörfum og sjálfstæðum samverkamönnum guðs.“*) Orð prófessors Michelet í Noregi, sem áður eru tilfærð, koma ósjálfrátt í hugann; hann hefir verið öflugur forvígismaður kenningarfrelsisins með Norðmönnum. „Hinir íhaldssömu bræður vorir reiða sig ekki á mátt guðs anda. Ósjaldan getum vér freistast til að álíta, að kristindómurinn sé fremur trú á föður lyginnar en guð sannleikans. Því þegar lyginni og sannleikanum lýstur saman í baráttunni, trúa kristnir bræður fremur á sigur lyginnar en sannleikans. Einungis ef þeir fyrirfram geta bundið og reirt mátt lyginnar haldlausum mannafjötrum og festum — þá fyrst eru þeir svo djarfir að vona, að andi sannleikans kunni að verða margfjötruðum höfðingja lyginnar yfirsterkari.“**)

(vi.) Kenningarfrelsi presta og allra þeirra, sem fást við að kenna kristindóm, er sjálfsögð krafa kristilegs frjálsræðis og öldungis óhjákvæmilegt skilyrði þess, að kristindómsboðskapurinn verði ekki hræsni og kirkjan að fúlum stöðupolli.

**122. Útlegð eini kostur.** Því er stöðugt haldið fram, að samvizkufrelsi prests og safnaða sé alls ekki hnekt, þó menn sé skilyrðislaust bundnir við bókstaf bibliunnar og játningarritanna. Þegar prestur fari að flytja skoðanir og fylgja þeim, er brjóti bág við skoðanir þess kirkjufélags, er hann heyrir til,

---

*) Jón Helgason: Prestarnir og játningarritin. Skírnir 1909, bls. 224.
**) Sbr. bls. 26 að framan.

standi honum ávalt þau úrræði opin, að segja sig úr því kirkjufélagi,*) og halla sér þar að, sem hann finnur skoðanabræður, eða standa þá einn öðrum kosti. En þetta er bæði ókristileg og næsta hrottaleg hugsan. Hún er ókristileg um fram alt. Ekki vísaði frelsarinn neinum lærisveina sinna á bug sakir skoðana þeirra, sem þó voru bæði sundurleitar og ófullkomnar; hann rak engan þeirra út úr lærisveinahópnum, út í myrkrið fyrir utan. Og hún er feikilega hrottaleg. Hún er það sama af kirkjunnar hálfu og útlegðardómur af ríkisins hálfu. Það er sama óvitið og ef ríkið segði: Hér er borgaralegt frelsi; en ef einhver borgaranna fer að leggja einhvern annan skilning í grundvallarlög ríkisins en stjórnarvöldunum er geðfeldur eða halda skoðunum fram, sem ekki eru í stjórnarskránni, þá verður hann landrækur; hann verður að fara í útlegð, æfilangt, ef hann sér ekki að sér. Það mundi ekki þykja glæsilegir kostir. Í því ríki ætti alls ekkert hugsanafrelsi heima. Það væri verra en Rússland, þó oft hafi menn verið reknir til Síberíu vegna skoðana sinna. Það sem ættjörðin er fyrir manninn í borgaralegum efnum, er kirkjan í andlegum efnum. Það hefir eins mikinn sársauka í för með sér að verða að fara í útlegð frá kirkjunni, sem hefir verið manns andlega heimili, og verða að flýja í útlegð frá ættjörð sinni, — að minsta kosti eins mikinn, ef ekki enn þá meiri. Og svo mikið ofbeldisverk, sem það er að gera menn landræka vegna skoðana sinna í borgaralegum efnum, er það vissulega ekkert minna ofbeldisverk að þrýsta mönnum í útlegð vegna skoðana í andlegum efnum, sem enginn ætti að bera neinum ábyrgð á, nema guði sínum. Meira kúgunarhaft er eigi unt að setja á hugsanir manna og skoðanir. Saga kirkjunnar sýnir, að slíkar sóttvarnir í andlegum efnum hafa ávalt mishepnast. Þær geta að sönnu haldið annarlegum skoðunum úti um stund, en aldrei til lengdar. En það lamar andlega heilbrigði þess mannfélags, sem hlut á að máli, eins og það lamar að búa í loftlausu húsi. Og að litlum tíma liðnum streyma hinar landræku skoðanir inn yfir það, eins og óvígur óvinaher, og leggja landið undir sig. Megi nokkuð læra af sögu kirkjunnar, er það vissulega þetta. Hið kristilega er aldrei að reka í útlegð. Kirkjunnar mikla synd

---

*) Sbr. bréf til Garðar-safnaðar bls. 216. Sam. 1909 (ágúst) bls. 178.

og ógæfa er það, að hafa rekið í útlegð fjölda af beztgefnu börnum sínum. Hún á þar meiri fjölda og betra mannval en Rússland í Síberíu. Hvenær skyldi hún láta sér lærast þá kærleikslund, sem aldrei rekur í útlegð, og tileinka sér þá trú, sem ávalt treystir sannleikanum til að vinna sigur?

123. **Hreinskilni í trúarefnum.** Ekkert ætti að vera augljósara í fari kristins manns en sannleiksástin. Alla kristna menn ætti hún að einkenna, en einkum prestinn. Því miður er það ekki svo. Hve oft ástæða er til að dást að réttlætistilfinningu og sannleiksást jafnaðarmanna til dæmis, sem ekki vilja við neinn kristindóm kannast. Réttlætistilfinning og sannleiksást kirkjunnar verður sér oft herfilega til minkunar við samanburðinn. Guðfræði vorra tíma hefir það til síns ágætis um fram rétt-trúnaðarstefnuna, að hún þorir miklu betur að segja satt. Hún er er ekki einlægt að dylja og breiða yfir eins og gamla stefnan. Hún þekkir eðli sannleikans miklu betur. Hún kannast við, að það sem vér nefnum sannleik er að eins s k ý r i n g*) þess, meira og minna ófullkomin, sem fram við mennina hefir komið í andlegum efnum. Skýringin er góð meðan hún fullnægir kröfum mannsandans. En um leið og hún hættir að fullnægja, leitar hann að annari, sem betur fullnægir. Þetta á sér eins stað í andlegum efnum, trúarefnum. „Í framþróan trúarbragðanna finnum vér að trúarkenningar eru dæmdar ósannar, þegar þær verða andstæðar þeim þekkingarforða, sem fullvissa er fengin um.“**) Á þann hátt varð fleirgyðistrúin að falla fyrir eingyðistrúnni til dæmis, af því að hún kom í bág við þekkinguna á einingu alheimsins. Guðfræði nútímans kannast við, að öll guðfræði er að eins skýringartilraun á því, sem fram við mennina hefir komið í sambandi við framkomu Jesú Krists í mannkynssögunni. Hún veit: „Síðasta orð sannleikans verður ávalt eftir að tala.“***) En leitin að þeirri skýringu, sem fullnægi trúarþörf nútíðarmannsins er

*) George Galloway: T h e P h i l o s o p h y o f R e l i g i o n (Internat. Theol. Lib.). New York 1914, bls. 361. **) S. st. 362, samanber allan kaflann: T h e I d e a o f T r u t h i n R e l i g i o n, bls. 360—370. ***) Le dernier mot de la vérité restera toujours à dire. Alfred Loisy: Remarques sur le volume „Jesus ou le Christ“. Hibbert Journal, apríl 1910, blaðsíðu 487. Greinin er þar öll á frönsku, þó tímaritið sé enskt.

henni eina lífið. Hverjum áhugasömum presti þarf að vera það eina lífið, að leita þeirrar skýringar á kristindóminum er fullnægi trúarþörf hans sjálfs og safnaðarins. Áhuginn þarf að vera með viti: „Eldmóðurinn getur gert menn að heilögum mönnum; en hann getur líka gert menn að ofstækismönnum."*) Aðalatriðið er að temja sér að tala satt, — tala beint út úr sál sinni og gera söfnuðinn að fullkomnum trúnaðarmanni sínum. Söfnuðurinn þarf að fá að vita um, hvernig biblían nú er lesin og skilin af þeim mönnum, sem bæði trúa og þekkja, — mönnum, sem sameinað hafa þá fullkomnustu þekkingu, sem samtíð þeirra hefir til að dreifa, fölskvalausri trú á föður drottins vors Jesú Krists. Þá rís persóna Jesú Krists í dýrðarljóma — alt líf hans og kenning, — eins og afarhátt fjall upp í huga vorum um leið og þoku mannasetninganna og hindurvitnanna er blásið burt. Í því ljósi bið eg menn að lesa hvert orð í bók þessari. Eg bið lesendur mína að skoða hana orðsending frá þeim, sem verið hefir af alefli að reyna að sópa þeirri þoku burt úr huga sér, til þess að hann fengi að sjá frelsarann betur og fagnaðarerindið, sem hann flutti. Eg hefi álitið sjálfsagða skyldu að vera hreinskilinn og opinskár. Með því er sannleikanum bezt þjónað og honum, sem konungur er í ríki sannleikans. Hreinskilinn og opinskár var Lúter. Fáir hafa tekið honum fram í því. Það er hans mikla hrós, að hann var ekki myrkur í máli, þegar hann var að brjóta gamlar helgikreddur á bak aftur. Hann gerði það í kirkjunni beint frammi fyrir söfnuðinum. Hann gekk í prédikunum sínum í berhögg við alt, sem hann áleit kristindóminum hneisu. „Orðið skapaði himin og jörð og alla hluti; sama orðið mun líka skapa nú, og ekki við, aumir syndarar. Summa summarum, eg skal prédika það, eg skal tala það, eg skal rita um það, en eg vil ekki beita ofríki eða nauðung við neinn; trúin verður að vera af frjálsum vilja og nauðungarlaus, og við henni verða menn að taka án nauðungar. Að giftast, að leggja niður myndir, að gerast munkar og nunnur, að munkar og nunnur skuli yfirgefa klaustrin, að neyta kjöts á föstudögum eða neyta þess ekki, og annað þessu líkt, — alt þetta eru spurnaratriði til um-

*) L'enthousiasme peut fair des saints; il peut produire des fanatiques. S. st. bls. 479. **) Eftir Thomas M. Lindsay: Luther and the German Reformation, 1900, bls. 150—151.

ræðu, og skyldi ekki neinum bönnuð."**) Svo talaði Lúter við söfnuðinn og jós beint út úr hjarta sér sannfæringu sinni í hverjum hlut, reif niður hið gamla hrófatildur, oft og tíðum með nokkuð ómjúkum höndum, hvort sem líkaði betur eða ver. Með því sannfærði hann. „Það er hans orð, sem verður að hafa áhrif og ekki við. Því ekki held eg hjörtum manna í hendi mér eins og leirkerasmiðurinn heldur leirnum í sínum. Okkar ætlunarverk er að tala. Guð framkvæmir. Látum oss prédika. Hið annað heyrir honum til. Beiti eg ofbeldi, hverju kem eg til leiðar? Breyttu látæði, ytra yfirskini, svipbrigðum, tilgerð, hræsni. En hvað verður um einlægni hjartans, um trúna, um kristilegan kærleika? Alt vantar, þar sem þetta vantar; og fyrir alt hitt gef eg ekki svo mikið sem perustilk. Það sem við viljum, er hjartað, og til þess að ávinna það, verðum við að flytja fagnaðarboðskapinn; þá fellur orðið í dag í eitt hjarta, á morgun í annað og hefir þau áhrif, að hver um sig yfirgefur altarismessuna. Guð kemur meiru til leiðar en þú og eg og allur heimurinn til samans gætum reynt. Hann nær hjartanu; og þegar það er fengið, er alt unnið."*) Og svona fór það. Í fyrstu var kveldmáltíðarinnar neytt eftir gömlum hætti. Bráðum var sérstakt altari sett fyrir þá altarisgesti, sem neyta vildu bæði brauðs og víns. Og smátt og smátt fór það svo, að allir krupu við það altarið. Breytingin varð með friðsamlegum hætti. Þessi var aðferð siðbótarinnar miklu. Þessi þarf aðferð siðbótarinnar nýju að vera, ef hún á að verða eins blessunarrík bylting og hin fyrri var. En þá mega ekki prestarnir vera kjarklausir og myrkir í máli. Þeir verða að þora að rífa niður það, sem fúið er og ónýtt um leið og þeir byggja upp á sama hátt og Lúter. Þeir mega ekki vera vanans þrælar, og ekki hræddir. Þeir eiga mikið eftir að læra af Lúter að þessu leyti. Mikilsvirtur enskur prestur**) og ágætis prédikari, einn helzti maður í hópi enskra nýguðfræðinga, hefir í einu prédikanasafni sínu prédikan út af konunni, sem klædd var sólunni og hafði tunglið undir fótum sér og sagt er frá í Opinberunarbókinni (12,1—4), eins og talað er um hér að framan. En í stað þess að segja, að þetta sé gömul goðsagnahugmynd úr heiðingja-

*) Thomas M. Lindsay: Luther and the German Reformation, bls. 151.
**) Basil Wilberforce: New (?) Theology, London, 1909, bls. 274—286.

heiminum, sem þarna hafi fléttast saman við hughreystingarorð bókarinnar, lætur hann konuna tákna hið siðferðilega og tilfinningaríka manneðli, sólina kærleika guðs, tunglið trú, sem vinnur kærleiksverk; hið ófædda barn konunnar lætur hann merkja Kristseðlið, sem leynist með oss, og Mikael og engla hans í baráttu við drekann, hinar æðri hvatir vorar, sem eiga í baráttu við hinar lægri. Það er ekki nýguðfæði að mínu geði.. Mundi Lúter ekki hafa verið bersögulli um þessa hluti, ef hann hefði verið uppi nú á dögum. Mundi honum eigi hafa fundist þetta vera að tipla á tánum? Við erum lítið djarfmæltir í samanburði við hann. Hann hefði sagt blátt áfram: Þetta eru gamlar þjóðsögur og alþýðutrú, þó í biblíunni sé. Menn hinnar nýju siðbótar verða að læra sama tungutak og John Wycliffe og Húss og siðbótarmennirnir á 16. öld. Þeir voru morgunstjörnur nýrrar aldar og nýrrar siðmenningar og nýs trúarþroska. En nú eins og þá verða þeir að hafa óendilegan kærleika til brunns að bera, til mannfjöldans, sem litla þekkingu hefir, og fremur skilur og veitir viðtöku með hjarta en höfði.

---

## XI

# TRÚVILLUKÆRAN

---

**124. Trú, rétt-trúnaður, rangtrú, trúvilla.** Eg hverf nú aftur að hugtökunum, sem nefnd voru í upphafi bókar þessarar. Orðið trú er eitt af frumhugtökum mannanna. Það stendur jafnhliða öðrum eins hugtökum og sannleikur, réttlæti, von. Trúin er reynsla, sem fram kemur við manninn, þegar hann verður var við guð og snortinn af anda hans; hún er samlíf við guð í hjarta og samvizku, þegar vilji, tilfinningar og vitsmunir ganga guði á vald og nýtt lífsafl streymir inn. Trúin er líf og um leið lífsafl. Trú og trúfræði er sitt hvað. Trúfræðin er það hugmyndakerfi, sem mannsandinn skapar sér, út af þeirri guðsþekking, sem trúarlífið hefir veitt honum. Hún er algerlega árangur af starfsemi vitsmunanna, háð tímanum, er hún verður til á og andlegu þroska og þekkingar-stigi þess tíma. Þess vegna er guðfræðin stöðugt að breytast og taka nýjum og nýjum stakkaskiftum. — Orðið rétt-trúnaður (orthodoxi) er kirkjulegt orðtæki. Það hefir ekkert með þá trú að gera, sem fólgin er í lífssambandi við guð. Rétt-trúnaðurinn á alls ekkert við trúna sem lífsafl, hvorki hjá einstakling né kirkjudeild, heldur einungis við guðfræðilegt hugmyndakerfi, sem bundið hefir verið í ritað mál, — skjalfesta játning. Frá sjónarmiði rétt-trúnaðarhugtaksins eru trúarbrögðin safn eða kerfi af trúarlærdómum; það er alls ekki látið koma til greina að trúin er lífsafl fyrst og fremst. Rétt-trúaður er sá, sem með einhverjum hætti hefir bundist öllum þeim trúarlærdómum, sem viðurkendir hafa verið af einhverri kirkjudeild hans frá því hún fyrst varð til og teknir eru fram í játningum. — Andstæða rétt-trúnaðarhugtaksins er ekki trúvilla, heldur rang-trú.

R a n g-t r ú (heterodoksi) er sú trú, sem í einu eða fleiri atriðum víkur frá játningunni.*) Í aðalatriðunum er hún kristindóminum samkvæm; hún lætur sér ekkert síður ant um kjarna hans en rétt-trúnaðurinn, heldur oft og tíðum annara. Hún þolir ekki spennitreyju rétt-trúnaðarins, og álítur frelsi kristins manns í því fólgið, að sérhver hafi rétt til að gera sér grein trúaratriðanna eins og honum finst sannast og réttast, án tillits til þess, sem algengt er og orðið að venju og hefð. Sá, sem rangtrúaður er kallaður, vegna frábrigðilegra skoðana í einu eða fleiri atriðum, finnur vanalega sjálfan sig í samræmi við allan kjarna kristindómsins, en greinir þenna kjarna frá skelinni, sem mennirnir hafa myndað utan um hann. Tilkall sitt til að eiga heima í kirkjunni og kristninni byggir hann á þessu samræmi. Þrátt fyrir frábrigðilegar skoðanir frá því trúarkerfi, sem „rétt-trúuð" kirkja hefir lagt upp í hendur hans, gerir hann kröfu til að eiga andlegt heimilisfang í kirkjunni, sem enginn maður hefir rétt til að meina honum. Flestir helztu menn kirkjunnar hafa verið frábrigðingar í trúarefnum og að því leyti rangtrúaðir. Papías, einn hinna postullegu feðra á annari öld, var rangtrúarmaður, því hann hélt fram kenningunni um þúsundára ríkið. Ágústínus kirkjufaðir var rangtrúarmaður að því leyti, sem hann hélt fram fyrirhugunarkenningunni. Lúter var rangtrúarmaður með afbrigðum. — Hugtakið t r ú v i l l a (hæresi) er að þessu leyti sérstakt, að það er alls ekki bundið við ritaða játningu, eins og bæði hin hugtökin. Andstæða trúvillunnar er fagnaðarerindið sjálft. Rangtrúin verður ekki trúvilla fyr en hún er komin í fullkomna mótsögn við sjálfan kjarna kristinnar trúar og neitar hinum líknandi kærleika guðs. Trúvilla er neitan trúar. Trúvilla væri það að hafna öllu nýja testamentinu til dæmis, því um leið væri öllum trúarhugmyndaheimi kristindómsins hafnað. Sá maður, sem það gerði,, ætti ekki andlega heima í kristninni og mundi naumast gera tilkall til þess. Trú og trúvilla standa gagnvart hvor annari sem andstæður. Sá, sem neitar eilífri útskúfan, bregður út frá rétt-trúnaðinum og er að því leyti á kærleikslausu máli kirkjunnar rangtrúarmaður; en hann

*) Sbr. Heterodoksi betyder i den kirkelige Sprogbrug Afvigelse fra den af et Kirkesamfund vedtagne Lære, der betegnes som „Orthodoksi". Kirkeleksikon for Norden II, 421.

er það vegna fullkomnari skilnings á fagnaðarerindinu. Trúvillingur eða trúleysingi gæti sá einn kallast, sem neitar framhaldi lífsins eftir þetta; með því er eiginlega öllu hafnað, sem trúin felur í sér; en þau ljótu orð ætti aldrei að viðhafa. Sá, sem neitar upprisu holdsins, er rangtrúarmaður frá sjónarmiði rétt-trúaðrar kirkju. En sá, sem neitar upprisu holdsins, en játar upprisu líkamans, gerir það í nafni fullkomnari trúar en rétt-trúnaðarins. Hann gerir það í nafni nýja testamentisins, nafni Páls postula, sem talar um upprisu andlegs líkama, en ekki um upprisu þess holds og blóðs, sem líkama vorum fylgdi hér á jörðu. Í sögu kirkjunnar hefir rangtrúin svo nefnda oftar en hitt reynst rétt-trúnaðinum sannari. Hún er vottur lifandi trúar, sem brýzt úr fjötrum rétt-trúnaðarins og vanans til að bjarga lífi sínu. Svo var það með trú Lúters og siðbótarmannanna. Svo er það með trú kristinna manna nú á dögum, sem hafna rétt-trúnaðinum, til þess að trúin missi ekki lífið í brjósti þeirra og trúarhugmyndunum þoki áfram. Og fyrir því er svo komið, að það er hrós miklu meira að vera rangtrúarmaður heldur en að vera rétt-trúaður. Það sem eitt sinn var lof, er nú orðið last.*)

125. **Píslarvottur hugsanafrelsisins.** En á máli kirkjunnar hefir oft, hvað lítil frávikning sem er frá rétt-trúnaðarkröfunum, verið kölluð trúvilla. Kirkjan hefir álitið skyldu sína að vaka svo stranglega yfir rétt-trúnaðinum, að hún hefir oft gert hvern frábrigðing í trúarefnum að trúvilling. Fáum orðum hefir verið misbeitt jafn-mikið og orðunum trúvilla og trúvillingur; þau eiga ljóta og langa sögu. Þau hafa verið gerð eins hræðileg og unt hefir verið, með því að leggja þann skilning í þau, að það varði eilífa sáluhjálp mannsins, að víkja nokkuð frá hinum almenna skilningi í trúarefnum. Sá, sem dæmdur hefir verið trúvillingur, hefir um leið verið frádæmd eilíf sáluhjálp. Sjálfsagt hefir tilgangurinn verið góður (!), — sá, að gera það eins ægilegt og unt er að brjóta gegn valdi og kenningu kirkjunnar. Trúvillingar hafa verið píndir alls konar píslum og pyndingum og brendir á báli. Þegar þetta er

*) Sbr. P. T. Forsyth: Orthodoxy, Heterodoxy, Heresy and Freedom. Hibbert Journal, jan. 1910, bls. 321—329.

ritað, eru rétt 500 ár að kalla má síðan Jóhann Húss var brendur á báli 6. júlí 1415 sakir trúvillu, sem þó var að eins lítil frávikning í fáeinum atriðum. Og nú er allur mótmælendaheimurinn að minnast hans, hins ótrauða píslarvotts hugsanafrelsisins, og tjá honum lotningu sína fyrir ást hans á sannleikanum og trúmensku við hann. Hann var færður í fullan prestsskrúða og fenginn kaleikur í hönd. Svo var þetta alt smám saman tætt af honum með mörgum og hræðilegum formælingum. Hár og uppmjór hattur úr pappa var settur á höfuð honum; voru ferlegar djöflamyndir dregnar á hann og neðan undir stóð: „Þetta er erki-trúvillingur.“*) Merkastur er Húss sakir stöðuglyndis síns og sannfæringar-festu. Kirkjuþingið í Konstans vildi ekki að til þess þyrfti að koma, að hann yrði brendur á báli. Meðlimir þess ætluðu að gera sig ánægða með, að hann kannaðist við og beygði sig fyrir óskeikulum vísdómi kirkjunnar í mjög almennum og óákveðnum orðtækjum. „En Húss var af þeim málmi ger, sem hetjur eru. Hann vildi ekki beita samvizku sína neinum brögðum og var staðfastur í því að neita að slá nokkuru af sannfæringu sinni um sannleikann við ofurefli hins kirkjulega valds.“**) Hann stóð í sömu sporum og Lúter stóð hundrað árum síðar í Worms. Samvizkufrelsið var Húss hið helgasta mál; að nota það fult og óskorað væru heilög einkaréttindi hvers manns, og fyrir það bæri hann ábyrgð fyrir guði einum. Í þeim sporum standa mótmælendur þann dag í dag. Nú ljómar mynd Húss niður til vor gegnum fimm aldir, en myndirnar af böðlum hans eru nú álíka ferlegar í söguhimninum og djöflamyndirnar, sem þeir drógu á hattinn hans. Nú er hann, rangtrúarmaðurinn, orðinn rétt-trúarmaður. En þeir, rétt-trúnaðarmennirnir, að rangtrúarmönnum eða trúvillingum verstu tegundar. Því meiri trúvillu frá fagnaðarerindinu er ekki unt að hugsa sér en slíkt hermdarverk, framið í nafni Jesú Krists. Svo er gangur sögunnar. Eitt sinn voru siðbótarmennirnir örgustu rangtrúarmenn eða trúvillingar. Svo urðu þeir rétt-trúnaðarmenn og fóru að grýta hver annan trúvillingsnafninu. Nú eru flokkarnir orðnir svo margir og það, sem á milli ber, svo lítið, að þessi ljóti leikur er orðinn hlægilegur og máttvana. Það sem eitt sinn var ægilegasta

*) Hic est haeresiarcha! **) Ten Epochs of Church History. Walker: Reformation, IX, bls. 44.

heitið, sem hægt var að gefa, er nú orðið mesta sæmdar-nafn. Það er nú svo komið fyrir rétt-trúnaðarstefnunni, að því fylgir miklu meiri vansæmd að vera kallaður rétt-trúnaðarmaður, heldur en rangtrúarmaður.

126. **Biblían guðs orð.** Í nánu sambandi við þessi hugtök stendur orðtækið guðs orð, viðhaft um biblíuna. Það er orðin málvenja að nefna biblíuna guðs orð. En það er líka málvenja að nefna aðrar bækur, sem notaðar eru til guðræknisiðkana, guðsorðabækur. Sá hefir guðs orð um hönd, sem les sálm eða prédikan. Þegar sagt er að biblían sé guðs orð, er alls ekki við það átt, að hvert orð biblíunnar sé af guði talað. Því þar eru líka mörg orð, sem beint eru eignuð djöflinum eða illum öndum eða vondum mönnum. Og engum kemur til hugar að kalla þau ummæli guðs orð. Samkvæmt þeim skilningi, sem haldið er fram í þessari bók, skilningi nútímaguðfræðinnar, er biblían guðs orð að svo miklu leyti, sem orð hennar hljóma í innra manni vorum eins og guðs ræða til vor um velferð sálar vorrar, birta oss trúarreynslu mannanna, finna bergmál í sálu vorri sem orð komandi frá guði sjálfum með varanlegt lífsgildi og fá meðhald og meðmæli innra manns vors sem sannleikurinn til sáluhjálpar, augljós og dýrlegur í Jesú Kristi. Einungis það í biblíunni, er mælir svo með sér í innri vitund vorri eða samvizku, eins og væri það orð frá guði sjálfum, stílað beint til sjálfra vor, eins og heilög krafa eða boðskapur, sem andleg velferð vor og eilíf sáluhjálp er undir komin að vér tökum til greina og sinnum, fáum vér með nokkurum rétti kallað guðs orð í eiginlegum skilningi. Í víðtækri merkingu getum vér við haft það orðtæki um alt, er viðkemur trúarreynslu mannanna, eins og hún birtist hjá frelsara vorum Jesú Kristi. Í þessari merkingu höldum vér áfram að tala um biblíuna sem guðs orð. Hún er nútíðarmanninum það engu síður en fyrri tíðar mönnum, nýguðfræðingum svo nefndum engu síður en rétt-trúnaðarmanni, nema fremur sé. Því rétt-trúnaðarmönnum á öllum öldum hefir orð hennar verið eins konar töfraorð með ytra töframætti. Nútímaguðfræðin getur jafnvel sagt, að öll biblían sé guðs orð, þar sem öll rit biblíunnar að einhverju leyti fjalla um þá trúarreynslu mannanna, sem Jesús Kristur lyfti upp í æðsta veldi. En hún varast það vegna þess,

að því orðtæki hefir verið svo herfilega misbeitt í liðinni tíð, og látið merkja hvert einasta o r ð bibliunnar og óskeikulleik þess. Eg gæti vel þann dag í dag lifað í kirkjufélagi, sem hefði í grundvallar lögum sínum ákvæði um, að heilög ritning, það er kanoniskar bækur gamla og nýja testamentisins, sé guðs opinberað orð o. s. frv., þó eg heldur vildi taka þetta fram á annan veg. Því enginn maður með nokkurri þekkingu og öllum mjalla gerir þau ummæli að játningu sinni í þeim skilningi að hvert orð sé af guði talað og standi þar upp á ábyrgð hans, svo hann verði lygari, ef það sannast að sá texti, sem vér höfum, hafi færst eitthvað úr lagi. Það á hér aftur við: Svá eru lög sem hafa tog.

127. **Trúvillukæran engin alvara.** Þegar kirkjufélagið vestur-íslenzka hóf málaferli gegn einum úrgengnu safnaðanna til þess að svifta hann kirkjueign sinni og fá hana í hendur miklum minni hluta safnaðarins, sem kirkjufélaginu fylgdi að málum, var söfnuðurinn og um leið allir þeir, er mótmælt höfðu yfirlýsingu kirkjuþings 1909 og út af henni slitið sambandi við kirkjufélagið, kærðir um trúvillu. Söfnuðurinn var kærður um að hafa brotið grundvallarlög sín og með því broti fyrirgert rétti sínum til kirkjueignarinnar. Brotið var í því fólgið, að söfnuðurinn vildi ekki kannast við, að hann hefði lagt þann skilning í grundvallarlög sín, er þau voru samþykt, að hvert orð bibliunnar sé af guði talað og bókstaflega innblásið, þótt hann hefði játað bibliuna guðs orð, „eins og það er opinberað í hinum kanónisku bókum". Söfnuðurinn neitaði að hafa samþykt kenninguna um p l e n a r y-innblástur um leið og hann samþykti grundvallarlög sín. Kirkjufélagið staðhæfði aftur, að hann hefði einmitt samþykt þessa tegund innblásturs með safnaðarlögum sínum, þrátt fyrir það að hana hafði ekkert eyra heyrt og ekkert auga séð með Íslendingum á þeim tímum. Á þessu var trúvillu-kæran bygð og engu öðru. Fyrir þetta mikla brot átti nú að svifta söfnuðinn eign sinni. Hann átti að líða fyrir alla. Og á bak við hefir sjálfsagt verið sú hugsan hjá sumum, að fara eins með hina aðra söfnuði, er úr höfðu gengið, svo framarlega sem málaferlin gengi kirkjufélaginu í vil. Síðast og ekki sízt var tilgangurinn sá, að koma í veg fyrir að fleiri söfnuðir gengi úr kirkjufélaginu; þegar þeir sæi ófarir

Þingvalla-safnaðar, myndi þeir hugsa sig um. Með öðrum orðum: Þetta var notað eins og hvert annað kúgunartæki, til að beygja menn undir aga kirkjufélagsins og kenninga-skýring þess. En eiginlega vissu prestar kirkjufélagsins allir og vita þann dag í dag, að hér var alls ekki um neina trúvillu að ræða. Framburðurinn ber þetta með sér. Að Garðar klofnaði söfnuðurinn, þegar meiri hlutinn sagði sig úr kirkjufélaginu. Séra Kristinn, sem þá var prestur Garðar-safnaðar, myndaði annan söfnuð, sem hann kallaði Lúters-söfnuð, fjórum dögum eftir, af þeim minnahluta Garðar-safnaðar, sem dró taum kirkjufélagsins. Fyrir rétti í Pembina kannaðist séra Kristinn við, að engin ákvæði í lögum hins nýja safnaðar hefði verið á annan veg en í lögum Garðar-safnaðar, að því er kenningarefni snerti. „Eini ákveðni munurinn milli hinna tveggja safnaða, sem eg get munað eftir, var sá, að annar heyrði kirkjufélaginu til, en hinn ekki.“*) Er betur hægt að sanna, að hér var trúvillan að eins í því fólgin að slíta sambandi við kirkjufélagið? Fyrir því segir hann rétt á eftir: „Eg áleit þá trúvillinga, vikna frá lúterskri játningu, frá kristinni trú, frá lúterskri trú.“**) Hvers vegna? Að eins vegna þess að þeir höfðu sagt sig úr kirkjufélaginu. Eða með öðrum orðum: Trúvillan verður einungis í því fólgin, að þetta fólk sagði sig úr kirkjufélaginu. Enda voru málaferlin út af því, það er óhætt að segja. Sömuleiðis kannaðist séra Kristinn við samkvæmt réttarskýrslunni, að ástæðan til yfirlýsingar kirkjuþings 1909 hefði verð alt önnur en sú, að um trúvillu hefði verið að ræða.***) Eitt af hinum lærðu vitnum kannaðist við, að yfirlýsing safnaðarins um rétt trúarvitundar mannsins væri ekki trúvillusök, ef staðið hefði „kristileg vitund“, þó öllum heilvita mönnum liggi í augum uppi, að einmitt um slíka vitund er að ræða, en ekki um trúarvitun mannætanna.

128. **Alvöruleysið sýnt með yfirlýsingum.** Bezt kemur það í ljós, að kirkjufélaginu var ekki mikil alvara með trúvillukæruna í yfirlýsingu, sem birt var seint í september (23.) 1909

---

*) Framb. pr. bls. 280. **) Bls. 280. ***) Bls. 282.

og undirrituð af sjö kirkjufélagsprestum. Hún er á þessa leið:

„Út af misskilningi og rangfærslum, sem fram hafa komið í sambandi við það, hvernig með ágreiningsmál kirkjufélags vors var farið á síðasta kirkjuþingi, finnum vér undirritaðir prestar kirkjufélagsins, sem erum staddir á fundi í Winnipeg 16. sept. 1909, oss knúða til að leggja fram þessa yfirlýsing:

1. Vér mótmælum þeirri staðhæfing, að kjarni ágreiningsmálsins innan kirkjufélagsins sé bókstafsinnblástur ritningarinnar, sömuleiðis því, að kirkjuþingið hafi neitað réttmæti og gagnsemi trúaðrar biblíurannsóknar; en á þessu hvorutveggja segir Nýtt kirkjublað (15. ágúst þ. á.) að trúmálaágreiningurinn hér vestra leiki. Þó að tillögur séra Friðriks Hallgrímssonar í ágreiningsmálinu næði ekki samþykt á þinginu, þá var það alls ekki af því, að í þeim væri neitt það, sem kirkjuþingið gæti ekki samþykt, heldur eingöngu af þeirri ástæðu, að ef þær hefðu verið samþyktar eins og á stóð, þá hefði ekki komist að það, sem mönnum fanst aðal-efni ágreiningsins.

2. Að þeirri fjarstæðu, sem haldið hefir verið fram, að með samþykt kirkjuþingsins hafi síðasti árgangur Sameiningarinnar verið gjörður að trúarjátning eða talinn óskeikull, finst oss ekki orðum eyðanda frekar en gjört hefir verið.

Björn B. Jónsson. Friðrik Hallgrímsson. N. Stgr. Thorlaksson.
Jón Bjarnason. Kristinn K. Ólafsson. Hjörtur J. Leó.
Guttormur Guttormsson."

Ef kjarni ágreiningsins var ekki bókstafsinnblásturinn — hvað var hann þá? Ef hann var það ekki, hví snerust málaferlin um hann og ekkert annað? Þeir sem framburð prestanna fyrir rétti lesa, ætti að geta sannfærst um, hver kjarni deilunnar var. Er ólíklegt að þeim finnist það orka nokkurra tvímæla. Hann er varanlegur og óhrekjandi vottur þess, um hvað deilt var. Og ef hann var ekki einmitt bókstafsinnblásturinn, — hvað var hann þá? Þeim sjö kirkjufélagsprestum láðist að taka það fram. Þá er hitt atriðið: „réttmæti og gagnsemi trúaðrar biblíurannsóknar", — því þykjast þeir alls ekki hafa neitað með yfirlýsingunni. Það verður næsta furðuleg biblíurannsókn, þegar trúarvitund mannsins, þ. e. a. s. trú hans og þekking, er alls ekkert svigrúm gefið til að velja og hafna. Þetta tekur séra Kristinn fram berum orðum í framburði sínum: „Samkvæmt kenningu minni um plenary-innblástur er dómgreind einstaklingsins alls ekkert svigrúm gefið til að velja og hafna í biblíunni og það er ekkert svigrúm til að beita

dómgreind einstaklingsins við að ákveða, hverju skuli trúa og ekki trúa."*) Það er biblíurannsókn, sem fer í kring, eins og höfuðsóttarskepna; hún er óalandi trúvilla, ef hún kemst nokkuru sinni að annari niðurstöðu en þeirri, sem áður var.**) Út af ummælunum um Sameininguna er því lýst yfir, að það sé fjarstæða að árg. frá kirkjuþingi 1908 til kirkjuþings 1909 hafi verið gerður að trúarjátningu, skal það aftur tekið fram hér, að séra Kristinn kannaðist hátíðlega við það fyrir rétti, að yfirlýsinguna mætti skoða trúarjátningu.***) En eitt atriði þeirrar trúarjátningar er það, að í þessum tiltekna árgangi Sameiningarinnar hafi verið haldið fram réttmætri stefnu kirkjufélagsins. Hann hlýtur því að verða komandi kynslóðum fullgild heimild stefnu kirkjufélagsins á líkan hátt og játningarnar eru. Þegar kirkjuþing gerir hátíðlega yfirlýsingu um, að einhver bók hafi inni að halda laukréttar kenningar, verður sú bók játningar ígildi. Þess vegna eru kirkjuþing nú á dögum orðin varasöm í þeim efnum. Að minsta kosti er óhætt að segja svo mikið í ljósi þessara málaferla, að Nýtt kirkjublað hefir skilið ágreiningsefnin betur en þeir, þessir sjö prestar, hafa skilið sjálfa sig. — — Önnur yfirlýsing var gerð á kirkjuþingi 1910, sem vitnað er í hér að framan,†) þar sem það kemur enn betur í ljós, að á bak við trúvillukæruna er alls engin alvara. „Kirkjuþingið lýsir yfir hrygð sinni út af því, að einn af prestum kirkjufélagsins og nokkurir af söfnuðum þess skuli hafa sagt skilið við kirkjufélagið, út af samþyktum þeim, sem gerðar voru á kirkjuþinginu 1909. Þær samþyktir voru ekki gerðar í þeim tilgangi, að neinn prestur eða söfnuður þyrfti að skoða sig sem rekinn úr kirkjufélaginu, þrátt fyrir þann skoðanamun, sem fram hefir komið viðvíkjandi innblásturskenningunni, sé hún bygð á grundvelli trúarinnar um yfirnáttúrlega guðlega opinberan. Þetta kirkjuþing býður hlutaðeigendum að ganga í kirkjufélagið aftur til bróðurlegrar samvinnu í framtíðinni, og skorar á þá að taka þessu boði." Þetta er samþykt um leið og samþykt er að hefja málaferli gegn Þingvalla-söfnuði! Er það of sagt að segja, að af öllu þessu sé það augljóst, að engin

*) Framb. pr. bls. 203. **) Sbr. Bréf til Garðar-safnaðar. Sam. ág. 1909, bls. 178. Sbr. bls. 216 hér að framan. ***) Framb. pr. bls. 286. †) Sbr. bls. 147.

alvara sé á bak við trúvillukæruna, heldur að eins reynt að ná sér niðri á einum söfnuði, sökum þess að hann gekk úr kirkjufélaginu?

**129. Hæstaréttar-dómurinn.** Úrslitadómur var upp kveðinn í máli Þingvalla-safnaðar 12. des. 1914 fyrir hæstarétti Norður-Dakota ríkis. Voru dómararnir fimm þá búnir að hafa málið til íhugunar í níu mánuði. Þetta var fyrsta sams konar mál, sem komið hafði fyrir hæstarétt þessa ríkis og þótti því mikils um vert að vandlega yrði frá honum gengið vegna fordæmisins á ókomnum tímum. Varanlegt gildi slíkra dóma getur haft feikilega víðtæk og langvinn áhrif á afdrif sams konar mála öldum saman. En varanlegt gildi dóma fer eftir réttlæti þeirra. Eg vil nú í fáum orðum benda á þau atriði dómsins, sem eg geri mér í hugarlund að seinni tímar muni álíta réttilega skilin, samkvæmt sakargögnum og samkvæmt því sem í raun og veru hafði átt sér stað.

a) Að breyting hafi orðið á skoðunum kirkjufélagsins á tímabilinu frá 1885 til 1909 í kenningarefnum. Dómurinn sýnir fram á, að sú breyting hafi fram komið fyrir áhrif prestaskólanna hér í Ameríku, sem allir hinna yngri presta þess hafa fengið guðfræðilega mentan við. Breytingar í kenningarefnum koma yfirleitt frá prestaskólum. Þessi breyting hefir öll verið í þá áttina að hverfa frá hinni mildari rétt-trúnaðarstefnu 19. aldar og til hinnar afarströngu rétt-trúnaðarstefnu 17. aldar, sem lúterska kirkjan í Ameríku hefir fastbundið sig við. Séra Björn Jónsson, sem nú er forseti kirkjuféagsins, las guðfræði tvo vetur í Chicago, og það var hann, sem með tilstyrk hinna yngri presta kom því til leiðar, að grundvallarlögum kirkjufélagsins, sem áður höfðu verið í fullu samræmi við lög safnaðanna, og bundið sig við trúarstefnu kirkjunnar á Íslandi, væri breytt í samræmi við ákvæðin í grundvallarlögum General Council-manna, árið 1897, að því er játning snerti. Og séra Björn var sá, sem fyrirlesturinn flutti um innblástur ritningarinnar 1899, þar sem breytingin kom greinilega fram. Breytingin kom fram í algleymingi á kirkjuþingi 1909, þegar yfirlýsingin var samþykt. Deilan um biblíuna hafði orðið til þess að gera hana augljósa. Framburður prestanna

fyrir rétti, bæði kirkjufélagsprestanna og hinna annara, er óræk og varanleg sönnun þess, að þar er um aðra kristindómstegund að ræða en þekst hefir með þjóð vorri. Ummæli dómsins hljóta því að standa óhögguð í þessu efni á ókomnum tímum, því þau styðjast við sögulega staðreynd. Goss dómari tekur fram, að framburður prestanna „sanni þá staðhæfingu áfrýjenda að Missouri-sýnódan og General Council hafi þrengt hinar upprunalegu frjálslyndu trúarskoðanir norsku og íslenzku kirkjudeildanna, þar sem þau hafa komist í samband við þær með því að búa undir prestskap hin ungu prestsefni, íslenzk og norsk. Með þessu hafa sérfræðingarnir (prestarnir), einmitt með afstöðu sinni til innblásturskenningarinnar, óvart sannað, að sögulega eru líkindin þau, að kirkjufélagið íslenzka hafi smám saman orðið ófrjálslyndara fyrir framangreind áhrif en það var, þegar það var stofnað. Ef hægt er að segja að nokkuð sé sannað, verður að álíta að það sé þetta." Vilji einhverir á komandi tímum fá enn fullkomnari sönnun en þá sem dómurinn og málsgögnin leggja þeim í hendur, munu þeir bera saman fyrstu árganga Sameiningarinnar og þá síðari, ekki sízt þann á milli kirkjuþinga 1908 og 1909. Það er ágæt heimild, sú bezta sem til er. Þann samanburð er engum réttdæmum manni unt að gera, án þess að verða var við fjarska mikinn mun. Þess vegna fæ eg ekki betur skilið en kannast muni hiklaust við það á ókomnum tímum, að dómurinn hafi haft rétt fyrir sér í þessu.

b) Að kenningin um fullkominn eða plenary-innblástur bibliunnar, sem felur í sér algert villuleysi eða óskeikulleika biblíunnar, hafi ekki verið samþykt með safnaðarlögunum.

Því til sönnunar er nóg á það að benda, að trúin á óskeikula bók var ekki til með Íslendingum um þær mundir, að safnaðarlögin voru samþykt. Hugmyndin um óskeikula biblíu var þá ekki til meðal íslenzks fólks; hún var óþekt með öllu. Hún er nú kunnug orðin að eins fyrir þá baráttu, sem prestar kirkjufélagsins hafa haldið uppi fyrir henni og á hvergi bólfestu með þjóð vorri nema í kirkjufélaginu. Þangað hefir hún fluzt frá Missouri og General Council — þýzkum seytjándu aldar mönnum í guðfræði. Þar tekur Fisk dómari fram úrslita-

atriðið með spurningunni: „Var það tilgangur samnings aðilja þessara að samþykkja kenninguna um plenary-innblástur biblíunnar og gerðu þeir það með vilja og vitund?“ Hann svarar þeirri spurningu með hiklausu neii. Og mér kemur ekki til hugar annað en þeirri spurningu verði hiklaust svarað á sömu leið, eins lengi og íslenzk saga verður rituð. Með orðtækinu „biblían er guðs opinberaða orð“ var ekki átt við neitt annað en það, að hún sé áreiðanlegur leiðarvísir í sáluhjálparefnum. Hitt kom engum lifandi manni til hugar, að hún sé óskeikul í „jarðfræði, fornleifafræði, mannkynssögu, landafræði, líffræði og stjörnufræði“, eins og einn guðfræðingurinn komst að orði. Sú hugmynd hefir verið og er hrein og bein fjarstæða frá íslenzku sjónarmiði. Sú fjarstæða á hvergi griðland nema í kirkjufélaginu vestur-íslenzka og er þar innflutt öfgatrú.

c) **Söfnuðurinn, sem hér átti hlut að máli, hafði fullkominn rétt til að segja sig úr kirkjufélaginu.**

Kirkjustjórn er tvenns konar, eins og dómurinn tekur fram. Sumar kirkjudeildir hafa sambands-stjórnarskipulag (federated form of government); þar leggja söfnuðirnir alla stjórn í hendur löggjafarþings og æðstu embættismanna; jafnvel eignir safnaðanna ganga úr höndum þeirra í hendur kirkjufélagsins um leið og söfnuðirnir ganga inn; þar hefir enginn söfnuður rétt til að segja sig úr; hann verður að uppleysast og kirkjufélagið að sjá um eignina. Biskupakirkja metódista og kirkjudeild presbýtéra o. fl. hafa þetta stjórnarskipulag, sem myndað er eftir hugmynd ríkjasambands, þar sem hin einstöku ríki hafa ekki rétt til að segja sig úr sambandinu, eins og t. d. Bandaríkin. Og svona er skipulag katólskrar kirkju. — „Hin önnur tegund kirkjustjórnar er að eins bandalag eða allsherjar félagsskapur sjálfstæðra safnaða og er hver fyrir sig að meira og minna leyti sjálfrátt félag og að meira og minna leyti lauslega samantengdir, þótt þeir eigi eitt eða fleiri stjórnar- og ráðgjafarþing.“ Þessa stjórnarskipan hafa kongregazionalistar, baptistar og lúterstrúarmenn. Öllum ætti að liggja í augum uppi, hve miklu frjálslegra hið síðarnefnda stjórnarskipulag er. Samkvæmt hinu fyrra er söfnuðurinn ómerkileg stærð, en félagsheildin myndar kirkjuna. Þar er stjórnarvaldinu og valdsum-

boðinu úthlutað að ofan. Hið gagnstæða á sér stað í hinum síðarnefnda flokki, þar sem valdið er geymt söfnuðunum.“ Kirkjufélagið íslenzka hefir safnaðastjórn; kirkjuþing þess er ekki löggjafarþing, heldur að eins ráðgjafarþing. Hver söfnuður hefir rétt til að segja sig úr, hvenær sem honum þóknast. Fyrir því var úrsögn Þingvalla-safnaðar og allra safnaðanna, sem sögðu sig úr, góð og gild. Ummæli séra Jóns Bjarnasonar í ársskýrslu forseta á kirkjuþingi í Selkirk 1908 taka af öll tvímæli í þessu efni. „Vil eg þá nú afdráttarlaust lýsa yfir því, að eftir minni sannfæringu eigum vér sem kirkjufélag að styðja sérveldi safnaða vorra af öllum mætti. Félagsstjórnin á að láta hvern einstakan söfnuð sjálfráðan um eigin mál hans, svo að það geti aldrei komið til mála, að neinn safnaðanna liggi undir utan að komandi oki úr þeirri átt, skyldu-fjárkvöðum eða nokkuru þess háttar. Í reyndinni hefir nú kirkjufélag vort einmitt að mestu eða öllu lifað samkvæmt þessari hugsjón.“ Og þetta kirkjuþing gerði yfirlýsing í samræmi við það, sem séra Jón hafði tekið fram.*) Fyrsta atriði dómsins um úrgöngurétt safnaðarins hlýtur því að standast dóm sögunnar.

d) Að dómur kirkjufélagsins í máli Þingvalla-safnaðar, sem viðurkendi lítinn minnihluta löglegan söfnuð, en dæmdi alla hina trúvillinga, er brotið hefði gegn safnaðarlögunum og fyrirgert öllum rétti til eigna safnaðarins, hafi verið hlutdrægur og ógildur í alla staði.

Söfnuðurinn hafði sagt sig úr kirkjufélaginu á löglegan hátt með meiri hluta atkvæða nokkurum vikum fyrir kirkjuþing. Samt leggur minnihlutinn mál sitt fyrir kirkjuþing. Það höggur sundur hnútinn með því að dæma meiri hlutann sekan um trúvillu. Trúvillusökin var sú, að söfnuðurinn vildi ekki fallast á kenningu kirkjufélagsins um óskeikula biblíu, en hélt fram hugsanafrelsinu. Um þetta segir dómarinn: „Ef þessir sakborningar eru bundnir af þessari samþykt kirkjufélagsins, getur meiri hluti þessa ráðgjafarfélags, með því að virða vett-

*) Sbr. Sam., júlí 1908, bls. 137 og 138. Á móti þessari yfirlýsingu var herfilega brotið á næstu kirkjuþingum með grundvallarlaga-breytingum, sem meðal annars gera söfnuðunum ókleyft að ganga út úr kirkjufélaginu, nema með því að missa allar eigur sínar.

ugi eigin grundvallarlög sín og safnaða sinna, og með þessari einföldu aðferð, að lýsa yfir því um hvern söfnuð, er hann segir sig úr (með löglegri samþykt meiri hluta hans), að hann sé sekur um trúvillu, eða hafi brotið grundvallarlög sín, og með því að viðurkenna minni hlutann, hversu lítill sem hann er, — algjörlega gjört að engu úrsagnarrétt safnaðanna og þrýst söfnuðinum með slíkri samþykt í raun og veru inn undir kirkjulegt sambandsstjórnar-skipulag." Undirrjettardómarinn leit heldur ekki svo á, að hér væri um réttmætan dómsúrskurð að ræða. Hann tók fram, að yfirlýsing kirkjuþingsins væri ekki úrskurður, en tók við henni sem „mjög sannfæranda sönnunargagni, er benti í áttina til að sanna, að krafa sakar-aðilja væri rjettmæt." Hæstaréttardómurinn álítur aftur, að hún sé annað hvort „óleyfilegt sönnunargagn eða afgjörandi að öðrum kosti", og bendir á, að engar heimildir styðji þetta álit undirréttarins. Hlutdrægnin verður auðsæ, þegar það er tekið til greina, að hún er gerð einmitt í þeim tilgangi að höfða málsókn, til að svifta meiri hlutann kirkjueigninni, og kirkjufélagið gengst fyrir fjársöfnun til málskostnaðar. — Sú niðurstaða hæstaréttar, að yfirlýsing þessi hafi verið „greinileg hlutdrægni-yfirlýsing" og „óleyfilegt" réttargagn, hlýtur því að standast dóm sögunnar.

e) Að trúvillukæran hafi ekki verið á neinu bygð, og tilraunin til að sanna hana, hafi algerlega mishepnast.

Framburður prestanna fyrir rétti ber með sér, að jafnvel í lútersku kirkjunni í Ameríku á ekkert samræmi sér stað um innblásturskenninguna. Ekkert lúterkst kirkjufélag í Ameríku hefir bundið sig neinni innblásturs-skýringu með kirkjuþingssamþykt eða á annan hátt, nema íslenzka kirkjufélagið eitt. Og það gerir það fyrst með samþykt sinni 1909. Áður er kirkjufélagið jafn-óbundið í þessu tilliti og öll önnur lútersk kirkjufélög og ríkiskirkjur um allan heim. Öllum kom saman um, að hvorki í safnaðarlögunum né í kirkjufélagslögunum væri nokkur innblásturs-skýring. En þá var til þess gripið, að safnaðarlögin gerðu ráð fyrir (presupposed) einmitt þessari sérstöku innblásturs-skýringu, fullkomnum eða plenary-innblæstri. En hér féll einmitt sannanatilraunin um sjálfa sig. Dómurinn telur upp ekki færri en sjö innblást-

urs-skýringar og þó eru enn fleiri til. Allar þessar skýringar hafa eignast sérstök heiti. En þessi heiti eru viðhöfð hvert um sig í mörgum ólíkum merkingum af ýmsum kennurum, eins og forsetinn sjálfur varð að kannast við. Með hverjum rétti er hægt að segja, að einhver ein skýring af þessum sjö sé „ráðfyrirgjörð" í grundvallarlögunum, þegar engin er nefnd á nafn? Þær geta allar gert sama tilkallið með jöfnum rétti. Hverjum réttsýnum manni hlýtur að skiljast, að þar er einungis gert ráð fyrir „innblæstri" yfirleitt og engu öðru. Trúvillukæran fellur þarna um sjálfa sig. Og enn þá minna verður úr henni, þegar athugað er, að ekkert samræmi er í þessum trúvillu-mælikvarða hjá neinum þessara guðfræðinga. Prófessor Ness frá Sameinuðu kirkjunni norsku vill ekki segja, að hann, eða kirkjufélag hans trúi plenary-innblæstri. Hann vill ekki fara nær en það, að hann og kirkjufélag hans hallist að plenary-innblásturs-skýringunni. Fossmark segir, að sama kirkjufélagið hafi bundist **bókstafs**-innblæstri. Walper segir, að Missouri-sýnódan haldi fast við **bókstafs**-innblástur. Séra Kristinn og Ness þykjast hafna bókstafs-innblæstri. Fossmark og Walper halda honum jafn-eindregið fram. Glenn, prestur í Sameinuðu kirkjunni norsku, útskúfar ósjálfráðum innblæstri, en telur „kirkjudeild sína vera samþykka bæði plenary- innblæstri og bókstafs-innblæstri". — „Þegar sjö sérfræðingar eru kallaðir fram til að sanna, að plenary-innblástur biblíunnar hafi verið grundvallar-kenning lúterstrúar og þessa safnaðar óbeinlínis, sýna eins ljóst og þeir hafa gjört skort á samræmi meðal lúterskra kirkjufélaga, tilheyrandi jafnvel sömu kirkjudeild, þá er alls eigi unt að álykta, að kirkjufélagið íslenzka trúi nokkurri sérstakri, ráðfyrirgjörðri kenningu um plenary innblástur; og þar sem þetta eru sannindi í nálægri tíð, er eigi unt að álykta, að það hafi verið á annan veg fyrir tuttugu árum." — „Að maður, sem trúir sjálfráðum innblæstri, dæmir þenna söfnuð trúvilling frá lúterskri trú, merkir með öðrum orðum ekki annað, en að hann mundi dæma alla íslenzku kirkjuna seka um trúvillu, samkvæmt skilningi sínum á innblásturskenningunni. Einn sérfræðingurinn hikaði sér í reyndinni ekki við að staðhæfa, að þetta væri svo, og gerir allar mótmælendakirkjurnar, nema ef til vill kirkjudeild presbýtéra í raun og veru að únítörum. Hver sér-

fræðingur fellir dóm samkvæmt sinni sérstöku hugmynd um innblásturinn, unz sá, sem ólögulegastar hugmyndir hefir um sérstaka tegund innblásturs í bibliunni, .... veigrar sér ekki við að staðhæfa, að sakborningar sé trúvillingar, en játar þó í sama andardrætti, að þeir sé það ekki frekar en biskup lútersku kirkjunnar á Íslandi, höfuð íslenzku þjóðkirkjunnar." Þegar fáeinir menn eða lítið félag kærir allan heiminn um trúvillu, verður sú trúvillukæra hlægileg fjarstæða, máttvana óvitatal. Taka skal fram, þessu til skýringar, að presbýtérar voru undanskildir trúvillu únítara, að eins vegna þess að undirréttardómarinn var presbýtéri. Sá sem dómarinn segir að ólögulegastar hugmyndir hafi haft um innblásturinn er séra Kristinn. Við fyrra réttarhaldið í Pembina var alls ekki talað um neina sjerstaka ráðfyrirgjörða innblásturs-kenningu í játningunum. „Það er eftirtektar vert," segir Goss dómari, að alt til þessa (þ. e. í Grand Forks) sést ekkert orð, hvorki í kæruskjalinu né í framburðinum um þá staðhæfingu, sem nú kemur fram og dæmist rétt að vera af undirréttinum, þ. e. að grundvallarlög þessi **gjöri ráð fyrir og hafi verið samþykkt með ráðfyrirgjörðri trú á plenary-innblástur biblíunnar."** Þegar sakaraðiljum skildist að trúvillukæran væri að verða að engu í höndum þeirra, gripu þeir til þess úrræðis. Það var „einungis talið sjálfsagt eða ráð fyrir því gjört með öðrum orðum, að biblían sé innblásið guðs orð" (Fisk). Þessar ályktanir og athugasemdir dómsins eru sannarlega svo heilbrigðar og réttar, að standast munu dóm sögunnar.

f) Að innblæstri biblíunnar hafi alls ekki verið neitað af sakborningum, en því haldið fram, að hún sé nægilega (adequately) innblásin í sáluhjálparefnum, til þess að vera mönnum þar fullgild og ábyggileg leiðbeining.

Út af þessu atriði tekur dómurinn fram: „Sömuleiðis kemur séra Friðrik Bergmann af hálfu sakborninga saman við sakaraðilja um ‚að gjört sé ráð fyrir innblæstri ritningarinnar', en bætir við: ‚en það er alt annað en að halda því fram, að innblásturinn feli í sér hugmyndina um óskeikulleik eða villuleysi', og staðhæfir, að hver sá, sem hafni ‚innblæstri biblíunnar, sé ótrúhneigður maður'. Þessum úthrópaða erkitrúvilling, ‚kemur

þannig saman við forseta kirkjufélagsins um að ritningin sé innblásin'. Úr framburði mínum er þetta tilfært: „Innblástur biblíunnar er ekki hægt að skilgreina. Eg þekki engan, sem hefir getað skilgreint hann. Sjálfur hefi eg aldrei haft neina sérstaka innblásturs-skýringu. Eg trúi innblæstri biblíunnar, eg trúi því að hún sé innblásin, að svo miklu leyti, sem um trúarefni er að ræða. Nokkurir hlutar biblíunnar hafa engin trúarefni meðferðis og eg sé enga ástæðu til að segja, að þessir hlutar sé innblásnir. Þeir eru eins og hverir aðrir gamlir annálar og eg verð þar engis innblásturs var. En það er innblástur, sem gengur í gegn um allar bækur biblíunnar, að svo miklu leyti sem biblían boðar trú, — er sjálfur andardráttur trúarinnar. Eg trúi því ekki, að öll biblían sé innblásin. Eg trúi því ekki til dæmis, að ættartölur Kroniku-bókanna sé innblásnar." Og í þessu sambandi tók jeg líka fram: „Kristur er mælikvarði vor. Kenningin hans er mælikvarðinn. Með henni stöndum við og föllum við. Og með henni tökum við mál af öllum ummælum ritningarinnar. Ef eitthvað er styttra en sú mælistika, sem Kristur hefir gefið, er það um leið numið úr gildi og dæmt. Kristur kennir oss að vilja ekkert nema hið hæsta. Og hann hefir gefið oss hið hæsta." Mun ekki sú ályktan verða af þessu dregin, að trúnni á Krist og fagnaðarerindi hans sé lyft upp í æðra veldi um leið og trúnni á óskeikula bók er hafnað?

---

XII

# ÁVINNINGURINN

---

**130. Kristur, en ekki biblían, er grundvöllur trúar vorrar.**

(i.) Í rauninni er það ávalt óvit að hleypa andlegum málum fyrir dómstólana og hugsa sér, að úrskurður þeirra geri út um þau. Ágreiningurinn í andlegum málum jafnast einungis á þann hátt, að menn sannfærast smám saman um hvað sé réttast. Ósjaldan verður samt vit úr óviti á þann hátt, að ágreiningsmálin skýrast fyrir dómstólunum og dómsúrskurðir eru bygðir á svo haldgóðum rökum, að þeir öðlast meðhald hugsandi manna og hjálpa til sannfæringar um hið rétta. Er nú árangurinn nokkur af allri þessari deilu? Verður sannleikanum nokkur ávinningur að mótmælum þeim, sem hafin voru á kirkuþingi 1909 og málaferlin risu út af? Úr því verður vitaskuld tíminn og rás viðburðanna að skera. En þeir, sem hafa á því örugga trú, að því fylgi ávalt einhver ávinningur að segja sannleikann og standa við sannfæring sína, jafnvel þegar mest reynir á, efast ekki um að það reynist svo einnig í þessu efni. Yfirleitt hefir deilan um biblíuna orðið eitt hið mesta vakningarefni í andlegum efnum, sem upp hefir komið með þjóð vorri, bæði austan hafs og vestan. Andlegu málin, eilífðarmálin, taka nú miklu meira rúm í huga manna en var fyrir 1900; þau skipa þar nú eftir þessi fimtán ár miklu hærra sess en áður, á því er enginn vafi. Þeir, sem áður voru búnir að snúa bakinu við þeim, eru nú aftur farnir að finna til þess, að þar er auðlegð, sem mannsandinn má ekki án vera. Í þessu út af fyrir sig er hinn mesti ávinningur fólginn. Ætlunarverkið er nú í því fólgið, að halda þesum áhuga við og láta hugs-

anir samtíðar vorrar í sambandi við trúarbrögðin verða þjóð vorri eins frjósamar og unt er. Fagnaðarerindið á enn óumræðilega auðlegð í skauti sínu, sem heimurinn hefir alls ekki komið auga á, og umræðurnar um biblíuna hafa þegar sannfært fjölda manns um, að skilyrði eru fengin fyrir því, að Kristur og fagnaðarerindi hans ljómar nú fegurri birtu en áður inn í hugskot nútíðarkynslóðarinnar. Biblían er hætt að vera ok á herðum manna. Hún var eitt stærsta og óbærilegasta ok, sem mannsandinn hefir stritað undir meðan álitið var, að hvert orð hennar sé sama sem af guði sjálfum talað. Trúin á óskeikula bók breytir fagnaðarerindinu sjálfu í lögmálsok. — Nú er þetta ok numið burt. Í fullu frjálsræði má hver maður velja og hafna, eftir því sem orðið fær meðmæli og samþykki vors innra manns. Í fullu frjálsræði verður maðurinn að tileinka sér frelsissannindin og láta drottins líknanda kærleika fá vald yfir sér. Hér er ekki um minni trú að ræða, heldur um meiri trú. Nútíðarkynslóðin verður að finna, að guð kemur til móts við hana í Kristi, eins og menn fundu í fyrstu kristni. Baráttan um biblíuna hefir verið barátta um afokan mannsandans í fyrstu röð. Sá, sem biblíuna skoðar að eins opinberunarheimild, en Jesúm Krist sjálfan guðlega opinberan, er kominn jafn-langt fram fyrir þann, er álítur hvert orð biblíunnar talað af himnum ofan, og Páll postuli var kominn fram úr fræðimönnum samtíðar sinnar, í skilningi og þekkingu í andlegum efnum. Ávinningurinn er að þessu leyti feikna-mikill. Kristur er aftur drottinn og lávarður. Biblían er skósveinn, sem liggur við fætur hans. Oss er nú öllum ljóst, að það er hinn lifandi lávarður dýrðarinnar sjálfur, sem er grundvöllur trúar vorrar, en hvorki dauð bók, né dauður bókstafur.

**131. Trúarvitundin leidd í öndvegi, ekki rekin í útlegð.**

(ii.) Það, sem gert var á kirkjuþingi 1909, kemur aldrei aftur fyrir. Með yfirlýsingunni, sem gerð var, var kirkjufélagið klofið og tveim þúsundum manna hrundið út. Hvers vegna? Með henni er trúarvitund mannsins fyrirdæmd og rekin í útlegð. Hugsanafrelsið sjálft var gert að engu. Með henni var staðhæft, að trúaður maður með guðs anda í hjarta sínu megi ekki segja til um, hvað hann felst á og hvað hann getur ekki

fallist á af því sem í biblíunni stendur. Því var neitað, að úrskurðarvaldið sé í mannssálinni sjálfri, sem í andlegum efnum verður að velja og hafna eins og í öllum efnum öðrum. Með þessu er frjálsræði kristins manns neitað og kristindómurinn gerður að útvortis lögmáli. Annað eins óvit hefir aldrei verið framið í kirkjunni og það, að lýsa trúarvitund mannsins í bann. Því hún er Kristur í oss, sá mælir Krists-andans, er vér höfum eignast, sem á smátt og smátt að leiða oss í allan sannleika og vera vorum anda samstarfandi til daganna enda. Hún er guðsandi í mannshjartanu. Aldrei hefir henni áður verið neitað á neinu kirkjuþingi. Eg vona, að sá verði árangurinn af deilunni, mótmælunum og málaferlunum, að sú óhæfa komi aldrei framar fyrir í kirkju þjóðar vorrar. En að trúarvitund mannsins verði miklu fremur skipað í öndvegi og gefið fult svigrúm og úrskurðarvald í andlegum efnum. Til þess eru víti að varast.

**132. Kærleiksvilji guðs einn óskeikull, bókstafurinn ekki.**

(iii.) Í umræðunum og við málaferlin hefir það orðið deginum ljósara, að kenningin um óskeikula biblíu er ein hin mesta fjarstæða, sem hugsast getur. Hún leiðir út í allar þær trúaröfgar, er orðið hafa mönnunum að mestu fári í liðinni tíð. Sú kenning er miðaldakristindómur í algleymingi og hefir miðaldamyrkur í för með sér í trúarefnum, hvar sem hún nær sér niðri. Hún er í beinni mótsögn við alla menningu nútímans og henni fjandsamleg. Af umræðunum er fjölda manna orðið þetta skiljanlegt. En ekki verður það eins augljóst og skiljanlegt af neinu, sem fram hefir komið, eins og þeim framburði kirkjufélagsprestanna sjálfra og hinna annara guðfræðinga, sem báru vitni með þeim fyrir rétti og prentaður er hér í bók þessari. Sú guðfræði, sem þar kemur fram í glöggum og tvímælislausum dráttum, er eitt furðulegasta fyrirbrigði, sem unt er á að benda í andlegu lífi þjóðar vorrar. Enginn hefði trúað því, að svo afskaplegar trúaröfgar gætu átt sér stað með mönnum í kennimannlegri stöðu á 19. öld. En það, að þessar trúaröfgar urðu til þess neyddar að koma þarna fram í dagsbirtuna, berar og naktar, hlýtur að verða banamein þeirra. Og ef sagt verður: Það var ekki alvara; það var að eins gert til að bjarga málinu, þá verður það banamein þess kristindóms, sem svo

er óeinlægur. Hinn mikli ávinningur baráttunnar er í því fólginn, að kenningunni um óskeikula biblíu hefir verið ráðinn bani og um leið einn lakasti óvinur kristindómsins ráðinn af dögum; þeirri kenningu verður aldrei hér eftir haldið fram með þjóð vorri. Hún er úr sögunni. — En í stað hennar kemur vaxandi sannfæring um og örugg trú á eilífan kærleiksvilja guðs, mönnunum til frelsis frá öllu illu, sem hið eina óbrigðula eða óskeikula í allri tilverunni; sannfæring um og trú á það, að tilveran sé í kærleiksríkum föðurhöndum, þess föður, sem aldrei hrindi neinum frá sér, en dregur börnin sín stöðugt til sín með hinum frelsanda mætti sínum, — föður Jesú Krists.

**133. Fagnaðarerindið frjálst, ekki í böndum og lagafjötrum.** (iv.) Sama er að segja um hinar aðrar kenningar, sem deilt var um, játningarnar og kenningarfrelsið, og sagt var um kenninguna um óskeikula biblíu. Hér dylst engum skynsömum manni, að játningarnar geta ekkert annað verið, og hafa aldrei átt annað að vera en leiðbeiningar. Lagabönd verða þær aldrei upp frá þessu í huga þjóðar vorrar. Alls staðar með þjóð vorri, utan kirkjufélagsins, er það nú viðurkent. Í raun og veru er það viðurkent þar líka, en stendur þar á pappírnum, að þær sé lagafjötur eða tjóðurhælar, eins og annar dauður bókstafur. Það verður ekki eftir því lifað, fremur hér eftir en hingað til. Eins með kenningarfrelsi presta. Þeir munu eiga fult í fangi með að kenna eftir „beztu samvizku og sannfæringu", kirkjufélagsprestarnir, í framtíðinni. Prestaeiðurinn er afnuminn, prestaheitið úr gildi með þjóð vorri. Sá sem kenna á guðs orð, stendur með ábyrgð sína frammi fyrir guði einum. Það má skoða beinan ávinning deilunnar, að í meðvitund fólks vors eru játningarnar nú ekki lengur nein lagabönd, og presturinn stendur frjáls frammi fyrir söfnuði sínum með hjálpræðisboðskapinn. Nútíðarpresturinn er loks orðinn eins frjáls og Kristur og postular hans, að því er kenningarhöftin snertir. Og vonandi kemur það aldrei fyrir hér eftir í kirkju vorri, að nokkurum presti, sem standa reynir í stöðu sinni, eftir beztu samvizku og sannfæringu, að því er kenninguna og alt annað snertir, verði bolað út með einhverri kirkjuþingssamþykt.

**134. Kærleikur og umburðarlyndi, ekki kúgun og ofríki.** (v.) Enn er einn ávinningurinn ótalinn. Eg þykist þess fullvís, að aldrei í ókominni tíð verði einn lítill söfnuður lagður í einelti af heilu kirkjufélagi og málaferli hafin gegn honum, til þess að svifta hann eignum sínum. Sá leikur vona eg að ávalt í ókominni tíð verði álitinn svo ljótur, að aldrei verði endurtekinn. Í öllu þessu hefir sú tilhneiging gamallar guðfræði að beita ofríki, til að koma fram vilja sínum, orðið augljós. En um leið er dæmið þess eðlis, að það hlýtur að verða að varnaði þjóð vorri, eins lengi og hún kann að læra af reynslu liðins tíma. Frá þessu sjónarmiði voru málaferlin og alt sem stendur í sambandi við þau svo afar-raunaleg, mest vegna þeirrar hneisu, sem kristindóminum var gerð. En á hinn bóginn þurfti alt þetta fram að koma, til þess það yrði augljóst, hvað gömul guðfræði og sú kirkjulega stefna, sem hana hefir að lífsakkeri, ber í skauti sér. Hún er ekki úrelt orðin fyrir ekkert. — En í stað ofríkis og kúgunartilrauna, til að bæla skoðanir annara undir sig, kemur kærleikur og umburðarlyndi og skilningsviðleitni gagnvart frábrigðilegum skoðunum. Í stað hins óbærilega rétt-trúnaðargorgeirs kemur vaxandi viðurkenning þess, að mannleg þekking er í molum, og „að nú sjáum vér svo sem í skuggsjá í óljósri mynd". Vér lærum hver af öðrum og sannfærum hver annan í þolinmæði, eins og postular Krists gerðu, en beitum aldrei ofríki og hörku til að bæla niður skoðanir bræðra vorra.

*  *

*

Til þess ávinningurinn af þeim andlegu umbrotum, sem deilan hefir haft í för með sér, gæti orðið sem mestur og deiluefnin sem ljósust, hefi eg ritað bók þessa. Líklega hafa þau umbrot meira bitnað á mér en nokkurum öðrum og fyrir mig haft mest óþægindi í för með sér. En það er mér fögnuður að hafa fengið að bera. Það, sem eg kann að hafa of gert, vona eg að metið verði eftir ástæðum. Því, sem gert hefir verið á minn hluta, hefi eg þegar frá upphafi reynt að gleyma og burtrýma úr huga mínum. Með bróðurþeli og árnaðaróskum til allra, legg eg pennann frá mér.

Rússneska skáldið Feódór Dostoievskie lætur prestinn Zosima á einum stað segja: „Lífið hefir mikið mótlæti í för með sér fyrir þig, en sökum þess verður þú sæll, — og þú munt blessa lífið og fá aðra til að blessa það.“

Þau orð geri eg að mínum.



KIRKJA ÞINGVALLA-SAFNAÐAR.

# LÖGMENNIRNIR,

## ER MÁLIÐ FLUTTU FYRIR RÉTTI AF HÁLFU SAKBORNINGA

---

**Hjálmar Ágúst Bergman**
er fæddur 22. ágúst 1881 að Garðar í Norður-Dakota í Bandaríkjum. Faðir hans er Eiríkur Hjálmarsson Bergman, fæddur og uppalinn á Húsavík, en fluttist eftir fermingu inn í Eyjafjörð og þaðan til Ameríku árið 1873; sat hann á Dakota-þingi 1889 og varð fyrstur allra Vestur-Íslendinga til að vera kosinn til þings. Móðir Hjálmars er Ingibjörg Pétursdóttir Thorlacius frá Stokkahlöðum í Eyjafirði. Undirbúningsnám stundaði Hjálmar með eldra bróður sínum, Friðriki Pétri, í föðurgarði. En haustið 1896 innritaðist hann og þeir báðir í mentaskólann Luther College í bænum Decorah í Iowa-ríki. Gekk hann þar gegnum mentamáladeildina á fjórum árum og útskrifaðist þaðan með ágætum vitnisburði sumarið 1900 sem *Artium baccalaureus*. Næsta ár var hann með foreldrum sínum að Garðar og hafði á hendi skólakenslu. En haustið 1901 byrjaði hann lögfræðinám við ríkisháskólann í Grand Forks og útskrifaðist þaðan 1903 sem *Legum baccalaureus*. Fékk hann hærri einkunn en nokkur þeirra, sem með honum útskrifuðust og um leið Keefe-Davidson verðlaunin, sem úti eru látin í lögfræði-bókum. Haustið 1903 tókst hann lögmannsstörf á hendur í eigin nafni og einn síns liðs í bænum Grand Forks. En 1. apríl 1904 gekk hann í félag við annan lögmann, J. A. Sorley, Norðmann einn, sem lengi hafði gegnt lögmannsstörfum í Grand Forks. Með honum var hann þangað til í októbermánuði 1905. Þá sótti hann um að fá að ganga undir lögfræðipróf við Manitoba-háskólann og réðst til lögmannafélagsins Rothwell og Johnson, þar sem Íslendingurinn Thomas H. Johnson, sem nú er ráðherra opinberra mannvirkja í Manitoba, var yngri félaginn. Sumarið 1906 tók hann fullnaðarpróf í lögum við Manitoba-háskólann og fékk þar aftur L. L. B. lærdómsgráðuna. Árið 1908 tók hann prófið, sem lögmannafélagið heimtar og fékk leyfið til að flytja mál fyrir dómstólum landsins í desember sama ár. Var hann þá búinn að ná lögfræðiprófi við tvo ríkisháskóla, annan í Bandaríkjum, hinn í Kanada og hefir rétt til að flytja mál fyrir dómstólum beggja ríkjanna, sem ekki nema örfáir lögmenn hafa. Síðan hefir lögmannafélagið, er hann stendur í sambandi við, heitið Rothwell, Johnson og Bergman. Hann varð fyrstur allra Íslendinga til að flytja mál fyrir hæstarétti Kanada í Ottawa. Í októbermánuði 1909 flutti hann þar mál gegn einum frægasta lögmanni Kanada, F. H. Chrysler, og bar sigur úr býtum. Sumarið 1907 gekk Hjálmar Bergman að eiga ungfrú Emilíu Sig-

urbjörgu Johnsen, dóttur Jóns Jónssonar, Bárðdælings, bónda að Garðar, sem um eitt kjörtímabil var þingmaður Norður-Dakotaríkis. Hafa þau hjón síðan búið að 280 Balmoral str. í Winnipeg og eignast þrjú börn, eina dóttur og tvo sonu.

Þegar til málaferlanna kom við kirkjufélagið, áleit söfnuðurinn sjálfsagt að snúa sér til Hjálmars Bergman. Þótt hann ungur væri, maður tæplega þrítugur, trúðu menn engum fyrir málinu eins og honum fyrir allra hluta sakir. Enda tók hann það að sér og vann að því af kappi og áhuga svo miklum, að hann nærri því gekk fram af heilsu sinni. Vinnan var feikilega mikil. Málsgögnum sakborninga, löngum ritgerðum og blaðagreinum, varð hann að snúa á ensku. Varnarskjalið, sem er prentuð bók í tvennu lagi 290 bls. að stærð í stóru broti, reit hann að mestu leyti einn. Í þarfir málsins eyddi hann 35 dögum utan bæjar, fjarri skrifstofu sinni og heimili, gerði tvær ferðir til Pembina, sjö til Grand Forks og tvær til Bismarck. Enginn les varnarskjalið, án þess að verða þess var, hve vandað og sannfærandi það er, laust við allar öfgar, en alt tínt til, er verða má málstaðnum til stuðnings, bæði frá sögulegu og lagalegu sjónarmiði. Enda las hann á annað hundrað dómsúrskurði í sams konar málum, sem fyrir dómstólum hafa verið bæði í Bandaríkjum og Kanada og brezka ríkinu yfirleitt. Það ber vott um miklu meiri hugsana- og þekkingarþroska, en aldur höfundarins bendir til. Biblíuþekking sýndi hann við yfirheyrsluna í Pembina, sem enginn getur annað en dáðst að. Og varnarskjalið ber vott um þekkingu svo mikla í kirkjusögu og guðfræði, að furðu sætir, auk yfirgripsmikillar lagaþekkingar. Hann er líklega eini íslenzki lögfræðingurinn, sem lesið hefir hebresku. Vandvirknin og sannfæringarfestan er augljós á hverri blaðsíðu og óvenjulega glöggir vitsmunir. Óefað verður varnarskjalið álitið eitt hið vandaðasta, sem lagt hefir verið fyrir nokkurn hæstarétt, af þeim er um slíka hluti kunna að dæma.

Af þeim Íslendingum, sem vestan hafs eru fæddir, kann enginn eins vel að fara með íslenzka tungu, bæði í ræðu og riti, og Hjálmar Bergman. Hann er maður prýðilega máli farinn og jafn-vígur á tvær tungur. Um leið og úrskurður hæstaréttarins birtist, reit Hjálmar fulltrúum Þingvalla-safnaðar og tjáði þeim samfögnuð sinn út af unnum sigri. Tók hann fram jafn-framt, að hann teldi ekki til neinnar skuldar hjá söfnuðinum fyrir störf sín og afskifti af málinu, heldur væri sér það mikil ánægja að hafa getað orðið að liði, er svo mikið lá við, öldungis endurgjaldslaust.

## Barði G. Skúlason

er fæddur að Reykjavöllum í Skagafirði 19. janúar 1871. Voru foreldrar hans Guðmundur Skúlason og Guðríður Guðmundsdóttir frá Bjarnastaðahlíð. Árið 1876 fluttist hann með foreldrum sínum til Ameríku. Settust þau að í Nýja Íslandi við Winnipeg-vatn og voru þar þangað til 1880, er þau fluttust til Norður-Dakota og tóku sér bústað í grend við þorp það, er Mountain nefnist. Barði gekk í æsku á alþýðuskóla sveitarinnar, og varð þess snemma vart, að hann var óvenjulega vel gefinn og hneigður til bóknáms. Seytján ára gamall fékk hann leyfi til að gerast alþýðuskólakennari. Vanst honum þá fé til að innritast við ríkisháskólann í Grand Forks og byrja þar nám 31. október 1888. Varð hann að vinna fyrir sér á sumrum alla leið gegn um skólann. Árið 1895

útskrifaðist hann þaðan sem *Artium baccalaureus*, og sömuleiðis úr kennaradeildinni. Um leið og hann hafði lokið prófi í almennum mentum, tók hann að lesa lög og las af miklu kappi með fram kenslustörfum. Var hann um tíma á skrifstofum þeirra Templetons, dómara, og Tracy R. Bangs, lögmanns í Grand Forks. Í september 1907 gekk hann undir próf fyrir hæstarétti og fékk leyfi til að flytja mál fyrir dómstólum ríkisins. Tókst hann um leið lögmannsstörf á hendur í bænum Grand Forks í Norður-Dakota og gegndi þeim störfum með vaxanda frama þangað til í október 1911, er hann fluttist til borgarinnar Portland í ríkinu Oregon vestur á Kyrrahafsströnd. Er hann nú í félagi við tvo lögmenn aðra, Alfred E. Clark og Malcolm H. Clark, og er lögmannsfélagið *Clark, Skúlason og Clark* eitt hið nafnkendasta þar á ströndinni. Um leið og lögfræðideild var stofnuð við ríkisháskólann í Norður-Dakota árið 1900 varð hann kennari við lagaskólann og var það í tíu ár, unz hann fluttist vestur. Lengst af þeim tíma flutti hann fyrirlestra yfir löggjöf í sambandi við einka-félög, en við og við þó um önnur efni. Og hann var sá, sem stýrði æfingum lögfræði-nemanna í flutningi mála *(moot court)* við háskólann. Árin 1909 og 1910 sat hann á löggjafarþingi Norður-Dakota-ríkis. Þar var hann forseti dómsmálanefndarinnar, sem álitin er helzta þingnefndin.

Síðan Barði kom til Portland hefir hann reist sér þar prýðilegt hús í einni af undirborgunum og býr þar nú með konu sinni og tveim börnum. Íslenzku mannfélagi er það mikill bagi, að svo mætur maður býr afskektur, þar sem það fær ekki að njóta hinna ágætu hæfileika hans. Í sjón er hann einn af allra fríðustu Íslendingum og í raun bezti drengur. Fyrir rétti yfirheyrði hann lang-flest vitnin, bjó framburðina að öllu leyti undir prentun og sá um prentunina, sem er feikilega mikið verk, þar sem bókin er 454 bls. í stóru broti, með öllum málsskjölum. Frá því Barði var unglingur hefir hann verið sérlega frjálslyndur í trúarefnum og ávalt talað máli frjálslyndisins við hvert tækifæri. Að þeim Barða og Hjálmari hepnaðist flutningur málsins svo vel, var með fram vegna þess, hve báðir höfðu örugga sannfæringu um, að þeir hefði réttlátan málstað að verja. Ungur fékk Barði orð á sig fyrir mælsku, enda hefir það orð farið sívaxandi. Hann er einn þeirra manna, sem unun er á að hlýða, hvort sem áheyrendur eru samdóma eða ekki.

---

# FRAMBURÐUR PRESTANNA FYRIR RÉTTI

## 1. Séra Kristinn K. Ólafsson.

Fyrir héraðsrétti í Pembina, N. D. 27. til 30. marz (incl.) 1911.

Spurður af
*Birni B. Gíslasyni,*
lögmanni sakaraðilja.

Framburður hans, að unnum eiði, var á þessa leið:

Nafn mitt er Kristinn K. Ólafsson. Eg á heima að Garðar og þar hefi eg í rauninni alt af verið, nema þegar eg var í skóla. Foreldrar mínir voru fædd á Íslandi og komu til Wisconsin 1873 og til Norður-Dakota 1880 og hafa verið þar ávalt síðan. Eg ólst upp heima með foreldrum mínum og fékk tilsögn í trúarefnum samkvæmt lúterskri trú. Kennarar mínir voru foreldrar mínir, kennari minn í sunnudagaskólanum og séra Friðrik J. Bergmann, sem þá var prestur lúterska safnaðarins á Garðar. Eg held að eg hafi verið 7 ára gamall, þegar hann varð prestur þess safnaðar, og hann var prestur þar þangað til að eg var tvítugur maður. Eg var fermdur sem meðlimur lút. kirkju. Séra Friðrik var kennari minn áður. Eg gekk í sunnudagaskóla þegar hann var kennari. Þessi kensla fór fram á íslenzku. Áður en barn er fermt eftir lút. kenningu, er ætlast til að það læri utanbókar Fræði Lúters hin minni, læri biblíusögur, lesi töluvert í biblíunni og læri nokkura sálma í sálmabók kirkjunnar. Tilsögn í þessu fékk eg hjá séra Friðriki. Eg var á fjórtánda ári, þegar eg var fermdur. Eftir það gekk eg í alþýðuskólann, og var mér þá kent af þeim manni, sem nú er Brandur J. Brandsson, læknir, og séra Friðriki. Um þetta leyti stóð hann í sambandi við kirkjufélagið íslenzka. Mér er ekki kunnugt um neinn mismun á kenningu kirkjufélagsins um þetta leyti og kenningu þess um það bil, er málaferli þessi hófust. Eg fór í lúterskan s ý n ó d u-skóla í Decorah, Iowa, eftir ráðum séra Friðriks, og síðan stundaði eg nám við lút. guðfræðiskólann í Chicago. Eg var vígður 1904; síðan hefi eg verið prestur lút. safnaðarins á Garðar, og Þingvalla-safnaðar; sem prestur hefi eg heyrt kirkjufélaginu til og staðið í nánu sambandi við það og söfnuðina. Eg var kallaður til þessa safnaðar 1904. Rétt áður hafði honum verið þjónað af séra Hans Thorgrimsen og þar á undan af séra Friðriki Bergmann. Séra Friðrik var um þetta leyti varaforseti kirkjufélagsins. Þegar eg tók við söfnuðinum, heyrði hann kirkjufélaginu til; meðan eg var prestur þar, sendi hann á hverju ári erindreka á kirkjuþing. Að því er mér er kunnugt, hélzt það þangað til

um 1908 eða 1909, þegar ágreiningur þessi fór að byrja. Eftir því sem eg heyrði var óróleiki þessi í byrjan einkum sprottinn af umræðum um, hvor stefnan væri réttari, sú sem tímaritið Breiðablik, sem haldið var út af séra Friðriki, eða sú, er kirkjufélagið hélt fram. Þetta var 1908. Bylurinn skall á 1909. Fyrst kom það í ljós á fundi, sem haldinn var, er kjósa skyldi erindreka til kirkjuþings 1909. Eftir kosningu var því hreyft, hvaða stefnu þeir skyldi taka í deilunni, sem þá stóð yfir, milli ritstjóra Breiðablika og kirkjufélagsins. Aðaldeiluefnið var um úrskurðarvald biblíunnar öðrum þræði, og hins vegar, hvort játningar kirkjunnar væri lagabönd, bæði fyrir leikmenn og presta kirkjunnar, eða hvort þær væri að eins til leiðbeiningar. Breiðablik héldu því fram, að þær væri til leiðbeiningar en ekki lagabönd. Hins vegar hélt málgagn kirkjufélagsins því fram um úrskurðarvald biblíunnar, að biblían, kanonískar bækur heilagrar ritningar sé guðs opinberað og innblásið orð, og eina regla og leiðbeining til trúar. Hins vegar héldu Breiðablik því fram, að sum atriði ætti að vera numin úr biblíunni. Eg á við það, að samkvæmt Breiðablikum, skyldi eigi skoða biblíuna alla sem opinberað og innblásið guðs orð. Breiðablik halda fram málstað sakborninga, en sakaraðiljar halda fram stefnu kirkjufélagsins. Stefna Sameiningarinnar, málgagns kirkjufélagsins, var í samræmi við grundvallarlög kirkjufélagsins og safnaðarins, sakaraðilja. Stefna þeirra tveggja var hin sama að svo miklu leyti, sem eg veit. Eg varð þess fyrst var, að söfnuðurinn var að verða ósamþykkur á fundi 26. júlí 1909. Miklar umræður áttu sér stað um þetta leyti með meðlimum safnaðarins, sem eg tók þátt í. Eg átti tal við Guðmund Gíslason um þetta efni. Hann sagði þá, að hann héldi með kirkjufélaginu. Þingvalla-söfnuður sendi erindreka á kirkjuþing 1909. Fundur var haldinn 29. ágúst. Tilgangur inn var ekki tekinn fram í fundarboðinu. Eg var þar, og var mér tilkynt, að þjónustu minni skyldi verða lokið með þessum mánuði. Tvær ástæður voru teknar fram. Mér var afhent eftirrit af samþykt safnaðarins, sem þá var gerð. Eg heyrði ýmsa safnaðarmeðlimi láta í ljós skoðanir sínar um ágreininginn í söfnuðinum á fundum og utan funda. Til dæmis Friðrik Ólafsson og Vigfús Hansson. Friðrik Ólafsson ræddi málið við mig um þetta leyti. Hann gerði staðhæfingu eina til að svara spurningu, sem eg lagði fyrir hann. Eg spurði hann, þegar yfirlýsingin var borin fram — og hún var borin fram af honum — um það, hvort eg hefði vikið frá trúnni, sem játuð væri af söfnuðinum, þar sem eg skyldi yfirlýsinguna á þá leið. Hann svaraði spurningu minni ekki beint, en sagði að mismunandi skoðanir ættu sér stað í söfnuðinum. Enn fremur sagði hann á fundinum, er hann var spurður, hvers vegna fólkið, er héldi með kirkjufélaginu, hefði eigi verið látið vita um tilgang fundarins, að hann hefði ekki álitið það til neins að láta þá, sem fylgdu hinni úreltu stefnu félagsins, vita nokkuð um hann. Þessi Friðrik Ólafsson er sami maður og sá, sem bar hér á vitnapallinum í dag fyrir hádegi. Eg heyrði hann koma fram með ýms ummæli í þessari deilu í viðurvist minni á heimili Sigurjóns Gestssonar í önnur skfti. Við Sigurjón höldum, að embættismenn kirkjufélagsins hafi verið viðstaddir. Hann kvaðst fylgja nýrri guðfræði, eins og hann komst að orði, og að hann tryði því ekki, að heilög ritning væri innblásin. Fjórir af fulltrúunum og embættismenn kirkjufélagsins voru viðstaddir. Safnaðarfulltrúarnir eru sakborningar. Forseti, varaforseti, skrifari og gjald-

keri kirkjufélagsins voru þar. Fulltrúarnir höfðu verið kallaðir saman til fundar af embættismönnum safnaðarins samkvæmt umbeiðni frá embættismönnum kirkjufélagsins. Sigurjón Gestsson var viðstaddur. Á fundinum, sem sagði mér upp þjónustu 29. ágúst 1909, heyrði eg Albert J. Hansson segja í umræðum um tillöguna, sem fyrir fundinum lá, að hann væri þeirrar skoðanar, að meiri hluti biblíunnar, einkum gamla testamentið, sé ekki innblásið guðs orð, en hann vildi ekki láta gera prestinn rækan. Einstaklingar þessir, sem eg hefi nefnt hér, voru þá meðlimir Þingvalla-safnaðar. Síðasta skiftið, sem eg prédikaði í þeirri kirkju, var 15. maí 1910. Síðan hafa sakborningar haft umráð kirkjueignarinnar og þessir menn, sem eg hefi nefnt, eru í hópi sakborninga. Þeir hafa haft einn prest þar síðan, eða tvo. Annar þeirra var guðfræði-nemi, Þorsteinn Björnsson. Hann prédikaði þar nokkurum sinnum. Eg hlýddi á hann. Séra Lárus Thórarensen er nú prestur safnaðarins; eg hefi heyrt hann prédika. Eg heyrði Þorstein Björnsson prédika í þessari kirkju. — Spurning: Flutti hann kenningu kirkjufélagsins og játninga safnaðarins, eins og hún var þegar þér fóruð frá? — Eg er ekki viss um, hvort hann byrjaði að prédika áður eða eftir að söfnuðurinn gekk úr kirkjufélaginu. Hann gekk úr kirkjufélaginu 20. júní 1910. Eg heyrði hann ekki prédika þar áður. Eg man nákvæmlega orðin, sem hann viðhafði í einu sambandi. Hann hafði verið að lýsa, á hvern hátt guð hefði opinberast Móse á fjallinu, og þegar hann sagði frá því, eða lýsti því, sagði hann: „Trúi hver sem trúa vill! Íslenzka orðalagið felur í sér enn þá meira skop en þetta (hið enska). — Þetta var eftir að söfnuðurinn hafði sagt sig úr kirkjufélaginu, eða fremur eftir að söfnuðurinn hafði klofnað. Einhverir úr hópi sakaraðilja gæti hafa verið þar, en eg man það ekki. Eg man, að eg sá suma af sakborningum þar. Sakborningar leigðu þenna prest. Eg hlýddi á hann í Garðar-kirkju. Þessi séra Lárus Thórarensen var þá líka að prédika fyrir Garðarsöfnuð. Í prestakalli hans eru tveir söfnuðir, Garðar og Þingvalla. Eg held að hann prédiki einn sunnudaginn í þessari kirkju og annan í hinni. — Spurning: Áttuð þér samtal um guðfræðileg efni við þenna prest? Og hvar var það? — Einu sinni á heimili mínu. Einn eða tveir aðrir voru viðstaddir. Við vorum að tala um trúmál. Eitt af því sem hann sagði var það, að hann gæti ekki trúað meyjarfæðingunni, og að hann aðhyltist það, sem vanalega er nefnt kalvínsk kenning um altarissakramentið, að kveldmáltíðin sé einungis til endurminningar um pínu og dauða Krists. Hann er nú prestur sakborninga. Lúterska skoðanin í þessu efni er sú, að í brauðinu og víninu sé líkami Krists og blóð nærverandi; en kalvínska skoðanin er, að brauð og vín sé að eins tákn, til að minna á líkama Krists og blóð. Milli þessara tveggja flokka er skoðanamunur um úrskurðarvald biblíunnar að þessu leyti, að önnur hliðin heldur því fram, að biblían sé hin eina trúar-regla og að skoðanir mannsins í tilliti til alls í trúarefnum og í tilliti til biblíunnar sjálfrar, eigi að myndast af eigin kenningum biblíunnar. Þetta er hlið sakaraðilja og kirkjufélagsins. Hin hliðin heldur því fram, að sumt í biblíunni sé ekki opinberað og innblásið guðs orð, og að einstaklingurinn hafi rétt til þess að kveða á um það fyrir sjálfan sig, hvaða kaflar biblíunnar sé opinberað og innblásið guðs orð, og hvaða kaflar ekki. Það er hlið sakborninga. Eg hefi séð yfirlýsinguna, réttarskýrslu „A", sem samþykt var þegar er þeir þykjast hafa sagt sig úr kirkjufélaginu. Eg skil það

svona: Að einstaklingurinn hafi rétt til að velja í biblíunni milli þeirra kafla, sem innblásnir eru og þeirra, sem eru það ekki, að einstaklingurinn eigi að kveða upp dóm í þessum efnum. Í setningunni: „En í því valdi felst vitanlega úrskurðarvald" skilst mér, að einstaklingnum sé gefið vald til endilegs úrskurðar. Síðan eg tók við prestsembætti, hefi eg ekki á nokkurn hátt breytt til frá kenningu kirkjufélagsins og Þingvalla-safnaðar, sem eg þjónaði, og kenningar þessar hafa ekki breyzt síðan. Að því er kenningarefni snertir, eru grundvallarlög kirkjufélagsins og safnaðarins eins og þegar eg varð prestur. Bókstafs-innblástur biblíunnar skilst mér að merki sama og fyrirlestrar-skýringin, að biblían hafi verið lesin fyrir af guði, svo að þeir menn, er biblíuna rituðu, hafi einungis verið verkfæri, eins og penni í mannshendi. Kirkjufélagið og söfnuðurinn eru ekki bundin við þá skýringu af játingum sínum og kenningum. Það er ekki skoðan kirkjufélagsins. Mér skilst að fullkominn (plenary) innblástur biblíunnar sé það, að guðs heilagi andi hafi svo leiðbeint og stjórnað hinum helgu mönnum við að færa ritninguna í letur, að vér höfum sanna og rétta frásögn. Þetta er skýringin, sem kirkjufélagið hélt fram.

Gagnspurður af
*Hjálmari A. Bergman,*
lögmanni sakborninga,

Sem stendur er eg prestur safnaðar sakaraðilja; hefi verið prestur hans í nærri sjö ár. Eg hefi borið það, að 29. ág. 1909 hafi eg fengið tilkynningu um, að þjónustu minni skyldi lokið eftir sex mánuði. Eg veitti henni viðtöku en svaraði henni aldrei. Á fundi, sem haldinn var í janúar 1910, tók eg fram, að eg liti svo á, að tilkynningin, sem eg hafði fengið, ætti að teljast frá þeim degi, sem eg hefði veitt henni viðtöku, og ekki frá þeim tíma, að yfirlýsingin var samþykt. Eg lét söfnuðinn vita, að eg hefði veitt tilkynningunni viðtöku 14. nóvember og sagðist þjóna þangað til 14. maí. Eg sagði ekkert um að fara frá. Fundargerningur þess fundar var gerður af Sigurjóni Gestssyni, einum af sakaraðiljum. Ef fundargerningurinn sýnir þessi ummæli, er líklegt, að þau sé rétt. Þar sem mér hefir nú verið sýndur fundargerningur frá 8. jan. 1910, kannast eg við þau ummæli. Eg tilkynti söfnuðinum 8. jan. 1910, að prestsþjónustu minni í söfnuðinum yrði lokið 14. maí 1910 og eg prédikaði síðasta skifti 15. maí 1910. Eftir það skoðaði eg mig prest safnaðarins. Eg tilkynti söfnuðinum þá í nóvember, að enginn hluti safnaðarins hefði hafið nein andmæli gegn samþyktinni, þegar eg var beðinn að fara frá 29. ágúst. Og á meðan það hafði ekki verið gert, skoðaði eg það endilega samþykt, jafnvel þó mér fyndist ekki, að henni hefði verið komið í kring á löglegan hátt. En eftir þann tíma, eða um það bil sem eg var að fara frá, samdi minnihlutinn, sakaraðiljar þessa máls, skjal, þar sem sú skoðan var látin í ljós og því lýst yfir, að samþykt safnaðarins, þegar þjónustu minni var sagt upp, hefði verið ólögmæt eftir hans skoðan, og að þeir þess vegna skoðuðu mig prest safnaðarins. Og þar sem nú þessi hluti safnaðarins hafði tekið þessa stefnu, hlaut eg að kveða á um, hvor hlutinn hefði tekið rétta og sæmilega stefnu, og kvað eg svo á, að það væri minnihlutinn. Þessi tilkynning frá söfnuðinum var gerð í jan. 1910. Það var þegar eg tók tilkynninguna gilda, og tilkynti eg þá söfnuðinum, að eg myndi láta prestsþjónustu minni verða lokið 14.

maí 1910. Þessi ummæli minna hlutans komu fram sem næst þeim tíma að eg átti að hætta að þjóna söfnuðinum. Það var einhverntíma í maí 1910. Eftir að minni hluti safnaðarins kom fram með andmæli sín og gerði tilkall til að vera hinn rétti söfnuður, viðurkendi eg hann, og skoðaði sjálfan mig ekki skuldbundinn til að tilkynna hinum neitt. Andmæli þessi voru skrifleg og undirskrifuð af nokkurum safnaðarlimum og sýndu einmitt, hvaða ástæður gefnar voru af minni hlutanum og í hverju andmæli þeirra voru fólgin. Þegar minni hlutinn gerði þessi andmæli, félst eg á að verða prestur hans áfram. Minni hlutinn hafði þá enga embættismenn. Engir nýir samningar voru nauðsynlegir um framhald þjónustu minnar. Eg ber ekki á móti því, að meiri hluti safnaðarins hafði samkvæmt grundvallarlögum fullkominn rétt til að segja mér upp sem presti á löglegan hátt. Mér var sagt upp með meiri hluta atkvæða safnaðarmanna á fundi. Eg hefi séð af skýrslum, að söfnuður þessi var myndaður 1889. Frá því að hann var myndaður og fram á þenna dag, hefir hann ávalt haft sama prest og Garðar-söfnuður. Að því er mig minnir, var séra Friðrik J. Bergmann fyrsti prestur hans, og þegar hann fór sakir heilsubilunar, þjónaði séra Hans Thorgrimsen honum um stuttan tíma. Eg varð eftirmaður þeirra hjá þessum tveim söfnuðum og nú hefir söfnuður sakborninga og Garðar-söfnuður sama prestinn. Af sögusögn veit eg, að sá sem nú er prestur hins löggilta safnaðarfélags sakborninga, kom frá Íslandi og hefir þar fengið undirbúningsmentun í guðfræði. Eg hefi ástæðu til að efast um, að prestur hins löggilta safnaðarfélags sakborninga sé í samræmi við kirkjuna á Íslandi í kenningarefnum. Eg byrjaði að þjóna þessum tveim söfnuðum 1904 og hélt áfram að þjóna Garðar-söfnuði þangað til 1909. Þá sagði eg upp á safnaðarfundi 12. júlí 1909, þegar hann sagði sig úr kirkjufélaginu. Yfirlýsing hafði verið samþykt og áleit eg tilgang hennar vera það að hefja nýja stefnu og yfirgefa kirkjufélagið. Eg var viðstaddur. Eg álít ekki, að með þeirri yfirlýsingu hafi nokkur samþykt verið gerð til að andmæla kirkjufélaginu, að því er nokkur kenningarefni snertir eða biblíu-rannsókn. En af skýringu, sem af þessu var gefin af manninum, er bar hana upp á fundinum, skyldist mér hún fela það í sér, að söfnuðurinn væri að velja um hlið í deilumáli kirkjufélagsins og að hann væri að skipa sér í flokk gegn því með tilliti til kenningarstefnu. — Spurning: Yfirlýsing þessi felur ekki í sér neina umsögn í nokkurum kenningarefnum. Hún tekur einungis fram þau atriði, er fram komu á kirkjuþingi. Er ekki svo? — Svar: Eins og skýrt var af manninum, er tillöguna gerði. — Að því er umkvartan yfirlýsingar þessarar snertir, að rétti safnaðarins sé neitað til að færa sér í nyt nokkura biblíurannsókn, þá tók forseti kirkjufélagsins fram um leið, að þetta væri ekki réttmæt ástæða. Hann stóð þá upp og gerði þá staðhæfingu, að kirkjufélagið íslenzka hefði ávalt verið hlynt biblíurannsókn og stefna allrar lútersku kirkjunnar væri biblíu-rannsókn hliðholl, svo jafnvel þó Garðar-söfnuður hefði þá skoðan, að hann vildi færa sér biblíurannsókn í nyt, væri það alls ekki breyting á trúarstefnu af hans hálfu. Eg sagði ekki af mér prestsembætti einungis fyrir þá sök. Fundur þessi var 12. júní 1909 og var til hans kvatt til að ræða, hvort segja skyldi sig úr kirkjufélaginu eða ekki. Á þeim fundi hafði eg ekki séð yfirlýsinguna, sem lögð var fram á fundinum, og skýrði frá, hvers vegna söfnuðurinn vildi aðskilnað frá kirkjufélaginu.

Með öðrum orðum, eg hafði tekið þá ákvarðan í huga mínum, að segja af mér prestsembætti mínu, ef svo færi að söfnuðurinn segði skilið við kirkjufélagið, af því að eg skildi ástæður þar á Garðar fyrir fundinn ekkert síður en á fundinum. Eg mundi eigi hafa sagt af mér sem prestur Garðar-safnaðar, ef hann hefði gengið úr kirkjufélaginu án yfirlýsingar þessarar. Eg hélt ekki, að safnaðarlimirnir með samþykt yfirlýsingarinnar hefði breytt trú sinni svo mikið frá því sem var deginum áður. Uppsögn mín var skrifleg og tók fram í almennum orðtækjum ástæðuna til þess, að eg sagði upp. Þér hafið blaðið þarna. Aðalefnið er þetta: Að vegna þess, að eg hafi álitið, að eg hafi fengið nægilega tilkynningu frá söfnuðunum um, að kenningin, sem eg flutti, væri ekki meira hluta safnaðarins geðfeld, segi eg upp prestsembætti mínu með tólf mánaða fyrirvara, eins og heimtað var. Þetta var aðalefnið. Framsögumaður safnaðarins var sá Gamalíel Þorleifsson, sem vér höfum heyrt um, og hann er maðurinn, sem kom fram með tillöguna um, að ganga úr kirkjufélaginu. Flutti hann mjög snjalla ræðu, þegar hann bar hana fram, og þegar hann vék að sambandi prestsins og safnaðarins, bauð hann mér af hálfu meira hlutans að halda áfram sem prestur hans, þrátt fyrir skoðanamuninn. Hann sagði með öðrum orðum, að Garðar-söfnuður væri fús til að láta mig halda áfram sem prest þess safnaðar, án þess að heimta, að eg breytti trúarskoðunum mínum eða trúarjátningu í nokkuru atriði. Eg held eg hafi ástæðu til að efa, að það sem hann sagði eða bauð hafi verið einlægni. Skömmu eftir fund þenna ritaði eg grein, þar sem eg tók fram, að efninu til, að eg áliti það hugsanafræðilega rangt af Garðar-söfnuði að hafa mig sem prest eftir úrgönguna úr kirkjufélaginu. Og þegar eg vissi, að gerðar voru ráðstafanir til að kalla prest frá Íslandi, sýndist það ekki síður vera óeðlilegt (að eg væri prestur safn.). Eg skal segja yður hvernig á því stóð, að eg var þá viðstaddur. Eg var beðinn af fáeinum meðlimum Garðar-safnaðar að vera á fundinum og eg var þar og var veitt málfrelsi, og þegar málið um að kalla nýjan prest kom til tals, var bein spurning fyrir mig lögð af einum safnaðarlim um það, hvort eg vildi beita áhrifum mínum til að koma því fólki, er gengið hefði úr söfnuðinum, inn í Garðar-söfnuð aftur, svo að allur Garðar-söfnuður sameinaður hefði einn prest, annað hvort sjálfan mig eða einhvern annan prest frá kirkjufélaginu, og svaraði eg spurningu þeirri á þessa leið að efni til: Ef það hefði verið misskilningur af minni hálfu og því fólki, er fylgdi mér, að hugsa, að safnaðarfólkið, árinu áður, hafi ætlað að koma til leiðar nokkurri breytingu í trúarskoðunum í söfnuðinum, — ef það hefði verið misskilningur af okkar hálfu, og ef söfnuðurinn í raun og veru hefði ekki breyzt í kenningarefnum og vildi sleppa öllu nema því, að vera fráskilinn kirkjufélaginu, og sleppa yfirlýsingunni, — þá skyldi eg beita öllum áhrifum mínum til að koma fólkinu til að hverfa inn í Garðar-söfnuð aftur, og jafnvel þó sá söfnuður hefði sagt sig úr kirkjufélaginu, skyldi eg samt skoða hann á réttum trúar-grundvelli. Það var engin safnaðar-samþykt, sem gaf mér rétt til að álíta að breyting hefði orðið í kenningarefnum. Eftir fundinn 12. júlí 1909, fór eg heim. Í fundarlok bað eg minna hlutann á þeim fundi að staldra við nokkurar mínútur og var það gert. Nefnd var kosin til að kalla annan fund og til að íhuga, hvað bezt væri að gera. Og niðurstaðan á þessum öðrum fundi var sú, að við ákvörðuðum

að mynda nýjan söfnuð á Garðar. Nýi söfnuðurinn var myndaður þann 16. Sem prestur Garðar-safnaðar, lagði eg kapp á að fá þessa minni hluta meðlimi til að segja skilið við Garðar-söfnuð. Eg var á fundinum til að mynda nýja söfnuðinn, en þetta var alt gert innan fjögurra daga eftir að söfnuðurinn hafði gengið úr kirkjufélaginu, og eg ályktaði að þjóna þeim söfnuði og búa í prestshúsinu, sem Garðar-söfnuður lagði til, þótt það væri eign Garðar-safnaðar og eg væri launaður prestur hans. Þessi nýi söfnuður, sem eg myndaði á Garðar, Lúters-söfnuður, hafði ekki nein grundvallarlög með ákvæðum um kenningarefni ólíkum ákvæðum gamla safnaðarins, þegar eg þjónaði honum, eða þegar eg sleit sambandi mínu við hann. *Eini ákveðni munurinn milli hinna tveggja safnaða, sem eg get munað eftir, var sá, að annar heyrði kirkjufélaginu til, en hinn ekki.* Þegar eg sagði upp Garðar, tók eg fram í ræðu minni, að það væri ekki söfnuðinum til velferðar að eg þjónaði honum, sem hefði trúarskoðanir frábrugðnar mínum. Eg áleit ekki yfirlýsinguna, sem gerð var af Þingvalla-söfnuði og gerði mig rækan, byggja að eins á orðum mínum á Garðar, að úrganga safnaðarins úr kirkjufélaginu jafngilti að minni hyggju breytingu í trúarefnum. Friðrik Ólafsson getur hafa sagt, að eg hafi tekið það fram á Garðar-fundinum, að eg gæti ekki þjónað söfnuði, með skoðunum, ólíkum mínum, vegna þess hann gerði nákvæman greinarmun flokkanna. Eg man ekki, að það væri sérstaklega tekið fram á fundinum, þegar Þingvalla-söfnuður gerði mig rækan, að söfnuðurinn hefði sömu skoðanir í trúarefnum og Garðar-söfnuður, og þar sem eg hefði sagt, að eg gæti ekki þjónað Garðar, þá fylgdi það nauðsynlega, að eg gæti ekki þjónað Þingvallasöfnuði. Eg efast ekki um, að það hafi verið. Sé farið eftir sömu reglunni og eg fylgdi á Garðar, væri það óeðlilegt af fólkinu, sem nú er sakborningar, að láta mig halda áfram sem prest, eftir úrsögn úr kirkjufélaginu, þar sem eg álít, að þeir fylgi sömu trúvillunni og hinir. *Eg álít þá trúvillinga, vikna frá lúterskri játningu, frá kristinni trú, frá lúterskri trú.* Það hefði orðið undir yfirlýsingunni komið, sem samþykt var, hvort samvizka mín hefði rekið mig til að taka sömu ákvarðan um Þingvalla-söfnuð eins og eg gerði á Garðar, svo framarlega Þingvallasöfnuður hefði gert mig rækan, — segja skilið við söfnuðinn sem prestur. Það er alt annað að skera úr í ólíku tilfelli. Það er svo margt, sem blandast inn í málið. Maður er að binda sig við eitthvað, sem hann þekkir ekki, því ástæður eru ekki ávalt þær sömu. Svo framarlega sakborningar segði sig úr kirkjufélaginu eins og Garðar-söfnuður, var ástæða fyrir þá að ætla, að eg myndi segja upp. Þingvalla og Garðarsöfnuðir hafa ávalt haft sama prest í hér um bil tuttugu ár. Í þeim skilningi, sem eg hefi skýrt orðið fyrir yður, álít eg, að með því að samþykkja yfirlýsinguna um úrsögn úr kirkjufélaginu 12 júlí 1909, hafi meiri hluti safnaðarins gerst trúvillingar, þ. e. a. s. fólk, sem horfið hefir frá hinni lútersku trú. Eg hélt áfram að þjóna þessum trúvillinga-hóp (heretical crowd) á Garðar, þangað til í janúar 1910, og þennan tíma bjó eg í prestshúsinu, sem þessi trúvillingahópur átti, og hann borgaði mér kaup. Eg vissi, að margir í Þingvalla-söfnuði höfðu sömu skoðanir og Garðar-menn. Eg get gert grein afstöðu minnar. Eg býst við, að hver prestur hafi fólk í söfnuði sínum, sem ekki er í samræmi við stefnu kirkjunnar, en á meðan þessir meðlimir taka ekki fyrir að berjast á móti embættismönnum og stjórnendum kirkjunn-

ar, og vinna í samræmi við aðra, skoða eg það skyldu prestsins, að hjálpa þeim og leiðbeina ekki síður en hinum. Eg er nú að gera grein eigin afstöðu minnar. En þegar er þessir sömu meðlimir taka að veifa kylfunni til að berjast gegn kirkjunni, og gera alt til að sundra henni og hlynna að sérkenningum sínum, þá verður afstaða þeirra sérstök. Enn fremur getur hver maður haft siðferðilega vissu um eitthvað, sem hann hefir ekki sönnur fyrir, eins og þér skiljið sjálfur. Eg veit, að enginn maður, sem nokkuru sinni hefir gengið í Þingvalla-söfnuð, hefir gengið undir próf í trúarskoðunum. Við höfum ekki heimtað af fólki þessara safnaða, hvorki Garðar né Þingvalla, að ganga undir próf í trúarskoðunum. Eg mundi ekki vera því meðmæltur, að hverjum manni væri ávalt gert heimilt að gerast safnaðarlimur. Það hefir aldrei komið fyrir meðan eg hefi verið prestur, í hvorugum söfnuðinum, að þeim hafi verið neitað, sem óskað hefir eftir að verða safnaðarlimur. Mér er kunnugt um það sem annað sögulegt atriði, að fyrsti íslenzki söfnuðurinn eða prestakallið í landi þessu myndaðist 1875. Mér skilst, að sums staðar prófi djákni eða prestur safnaðarins í raun og veru hvern mann, sem gengur í íslenzkan söfnuð, hvort heldur á Íslandi eða í Ameríku, í trúarskoðunum hans. Á sumum stöðum er þetta einungis dauður bókstafur. Eg veit ekki til þess, að það hafi nokkuru sinni borið við, að nokkur maður hafi verið gerður rækur úr nokkurum íslenzkum söfnuði, vegna trúarskoðana sinna. Eg svara spurningunni um, hvort sakborningar þessir hefði verið góðir meðlimir Þingvalla-safnaðar þann dag í dag, ef þeir hefði haft þær skoðanir, sem eg veit nú að þeir höfðu, en hefði farið leynt með og ekkert spor til aðskilnaðar við kirkjufélagið stigið, eða til þess að gera mig rækan, og ef þeir hefði beint játað trúarskoðanir sínar fyrir mér, þá hefði eg gefið þeim þá skýringu, er eg hefi gefið fólkinu, sem hafði skoðanir, er eg áleit andstæðar trú kirkjunnar, að eg áliti betra fyrir þá, að heyra söfnuðinum ekki til, úr því skoðanir þeirra væri í raun og veru andstæðar söfnuðinum. Eg hefi sagt meira en einum það. Ágreiningur þessi í kirkjufélaginu hafði verið ræddur í söfnuðum mínum, bæði Þingvalla og Garðar á undan kirkjuþingi í júní 1909. Safnaðarmönnum voru þessi efni mjög mikið áhugamál. Þegar fundir voru haldnir sumarið eða vorið 1909 til að kjósa erindreka til kirkjuþings, kom þetta mál til umræðu. Eg held Garðar-söfnuður hafi látið í ljós skoðan sína með því að samþykkja yfirlýsingu, og gekk efni hennar í þá átt, að kosnum erindrekum skyldi annað hvort vera sagt að ganga úr þingsal eða segja sig af þingi, svo framarlega séra Friðrik J. Bergmann yrði gerður rækur úr kirkjufélaginu. Mér skyldist af öllum háttum þar, að skoðanir Garðar-safnaðar væri vilhallar þessum trúvillu-skoðunum. Yfirlýsing þessi var samþykt með meiri hluta atkvæða. Menn áttu von á, að einhver vandræði myndi verða á kirkjuþingi 1909, og báðum flokkum var jafn-hugleikið, að hafa erindreka kosna til kirkjuþings, er væri skoðunum þeirra meðmæltir. Á Garðar var yfirlýsing þessi samþykt um að gefa erindrekum þessi fyrirmæli, og erindrekar, sem vilhallir voru meiri hlutanum, en andvígir skoðunum mínum, voru kosnir. Í Þingvalla-söfnuði kom mál þetta til tals, þegar erindrekar voru kosnir til kirkjuþings. Þar var engin barátta og eg veit ekki til að menn skipuðu sér í flokka. Á fundi Þingvalla-safnaðar voru tveir erindrekar kosnir, vilhallir trúvillu-skoðununum, sem eg svo kalla. Mér skildist ekki, að þeir sem atkvæði greiddu

með yfirlýsingu Garðar-safnaðar, með fyrirmælum handa erindrekum til kirkjuþings 1909, væri þeir sömu og þeir, sem greiddu atkvæði með úrsögn úr kirkjufélaginu. Ágreiningurinn í kirkjufélaginu hafði verið umræðuefni um nokkurn tíma og eg vissi, að Garðar-söfnuður vissi, hvað hann ætlaði sér, með því að gefa erindrekum þau fyrirmæli, sem hann gerði. Eg leit á yfirlýsinguna að eins sem samúðarvott til þess manns, sem áður hafði verið prestur safnaðarins. Eg tók það svo sem ætlast væri til að yfirlýsingin væri fyrirvari þess, sem söfnuðurinn myndi gera, svo framarlega sem hann yrði ekki ánægður með samþyktir kirkjuþings 1909. Eg skoðaði þetta ekki nema fyrirvara frá fáeinum mönnum. Eg vissi, að sumir voru þessum trúvilluskoðunum meðmæltir. Eg gerði ekkert til þess að gera þá ræka úr söfnuðinum. Þeim var leyft að vera áfram meðlimir Garðar-safnaðar. Eg varð ekki var við að menn væri þessu jafn-vinveittir í Þingvalla-söfnuði, þó þeir væri það að nokkuru leyti. Sumir meðlimir þess safnaðar höfðu látið í ljós skoðanir sínar, og eg gerði ekkert til að þeir yrði rækir. Eg áleit skoðanir þessar gagnstæðar grundvallarlögum safnaðarins og kirkjufélagsins. Eg mótmælti því, á hvern hátt þeir létu skoðanir sínar í ljós í yfirlýsingunni og skoðununum sjálfum eins og þeim var kunnugt af orðum mínum við þá sjálfa og aðra. Í nýja söfnuðinum, sem eg hefi myndað, hefir hver einasti safnaðarmeðlimur sömu trúarskoðanir og eg, að svo miklu leyti sem eg veit. Á kirkjuþingi 1909 var yfirlýsing Friðjóns Friðrikssonar, réttarskýrsla sakborninga „2", samþykt með 49 gegn 23 atkvæðum. Þingvalla og Garðar-söfnuðir skildu það svo, að þessi yfirlýsing væri að efni vítaverð frá þeirra sjónarmiði, eins og það kom fram á fundum þeirra á undan kosningu erindreka. Eg efast ekki um, að einhver óánægja hafi verið með mig sjálfan í sambandi við þessa yfirlýsingu í söfnuðinum, en enginn kom nokkuru sinni til mín. Eg greiddi atkvæði með þeirri yfirlýsingu og var viðstaddur á fundinum, þegar hún var tekin saman. Hún var samþykt til að ítreka stefnu kirkjufélagsins, eins og hún kemur fram í grundvallarlögum þess, til að andmæla þeim árásum, sem hún hefir orðið fyrir. Hún mótmælti árásunum á kirkjufélagið. *Eg kannaðist við það, að eini tilgangurinn með samþykt yfirlýsingar þessarar var sá, að losast við séra Friðrik J. Bergmann úr kirkjufélaginu.* Eg lét það ekki í ljós við Benedikt Melstad. Þó nokkuru eftir að erindrekarnir hurfu heim aftur frá kirkjuþingi 1909, hér um bil mánuði síðar, kölluðu þeir til fundar 26. júlí 1909. Var tilgangur hans sá að skiljast við kirkjufélagið, og að ræða um hvaða samþyktir söfnuðurinn ætti að gera í tilefni af aðgerðum kirkjufélagsins. Á fundinum kom fram tillaga um, að söfnuðurinn skyldi segja sig úr. Umræður urðu um hana, en hún var aldrei borin upp til atkvæða á þeim fundi. Umræðurnar voru einkum um það atriði, hvort tillagan væri lögmæt, samkvæmt lögum og reglum fundarins. Það voru í raun og veru umræður um þingsköp, hvort tillagan væri þeim samkvæm. Ef eg man rétt, sagði forseti, að hún væri lögmæt.

Mér skildist, að í fundarlok 26. júlí 1910, eftir umræðurnar um fundarreglur, að Ólafur Ólafsson, einn af erindrekunum til kirkjuþings, vildi, að safnaðarsamþykt væri gerð í sambandi við yfirlýsing séra Friðriks Hallgrímssonar, sem feld var á kirkjuþingi. Eg breytti í þeirri trú, að tillagan væri ekki fyrir fundi. Eg spurði forseta, hvaða tillaga lægi fyrir fundinum. Tvær tillögur höfðu verið gerðar; ein um að

segja sig úr kirkjufélaginu, önnur um, að sýnt væri með atkvæðagreiðslu, hvernig menn stæði gagnvart kirkjufélaginu. Forseti kvað fyrri tillöguna liggja fyrir fundi og gerði eg þá tillögu um, að fundi væri slitið. Þegar eg bar fram tillöguna, má vera, að eg hafi tekið fram, að ekkert lægi fyri rfundi, þar sem tillagan væri ekki réttmæt, og að við skyldum því slíta fundi, en eg fylgdi fundarstjórn forseta. Eg er nú að tala um yfirlýsing Ólafs Ólafssonar, og þegar hann skar svo úr, að tillagan væri ekki fyrir fundi, lagði eg til að fundi væri slitið. Eg áleit að tillagan væri ólögmæt, þrátt fyrir úrskurð forseta, og hélt að það væri gott ráð að hætta þessu þrefi. Og eg hélt, að tillagan um að slíta fundi myndi binda enda á þetta þref. Sýni fundarskýrsla, að tillaga um að fundi væri slitið hafi verið samþykt, þá var eg sá sem kom fram með hana. Yfirlýsingin um að segja mér upp var samþykt á fundi 29. ágúst. Fundarskýrslan sýnir, að yfirlýsingin hefir eina grein inni að halda, sem réttarskjalið sýnir ekki, þar sem ástæða er gefin fyrir því að mér var sagt upp. Ein ástæðan var, að söfnuðurinn væri óánægður út af ráðríki mínu, einkum á síðasta fundi. Önnur ástæðan, sem gefin var, var það, að eg hefði sjálfur lýst yfir því, að eg gæti ekki þjónað söfnuði, er hefði trúarskoðanir, ólíkar mínum eigin. Mér skilst, að skoðanirnar sé tvær í kenningarefnum, — önnur sú, sem eg hefi, og hin safnaðarins. Eg held að önnur grein yfirlýsingarinnar hafi verið tilraun til að viðhafa nokkurn veginn sömu orð og eg á Garðar-fundinum, til að láta í ljós skoðanir safnaðarins. Eg hygg að sakborningar hafi ekki álitið að Garðar-menn hafi breytt nokkuð um trúarskoðanir. Eg vissi ekkert um það og vildi ekki þrátta um fremur en nokkuð annað, sem eg veit ekkert um. Eg veit ekki, hvort Garðar-menn hafa breytt um trú með því að segja skilið við kirkjufélagið. Eg var viðstaddur síðast á fundinum, sem haldinn var á heimili Sigurjóns Gestssonar, þar sem forseti, skrifari og féhirðir kirkjufélagsins og fjórir af fulltrúum Þingvallasafnaðar voru. Að svo miklu leyti sem eg veit, var fundurinn haldinn að beiðni kirkjufélagsins, svo að embættismenn þess gæti talað við embættismenn safnaðarins um hina nýgerðu safnaðar-samþykt. Á meðan eg var við, kom eg ekki fram með neina umbeiðni til safnaðarfulltrúanna um að taka yfirlýsinguna um burtrekstur minn aftur eða nokkurn hluta hennar. Eg er þess fullvís, að forseti kirkjufélagsins kom eigi fram með neina slíka beiðni. En skýrsla forsetans eða eins af embættismönnum safnaðarins á fundi í janúar (þá las eg fyrst skýrslu um hann) tekur fram, að árangur hins fyrra fundar hafi verið sá, að samið hafi verið eins konar skjal, þar sem þessum fyrsta kafla yfirlýsingarinnar hafi verið slept, og að það hafi verið látið ganga í kring milli fundarmanna; getur verð, að það hafi verið lesið, eg veit það ekki. Eg man ekki, að það væri lesið. Sýni skjal þetta, að menn hafa látið tilleiðast að draga eitthvað úr kærunni, var það ekki gert samkvæmt umbeiðni frá mér. Það var látið ganga í kring til undirskrifta til samþykkis því að fyrri kærunni væri slept. Yfirlýsingin um að gera mig rækan var samþykt á fundi 29. ágúst, 1909, og eg fékk tilkynninguna um að eg væri gerður rækur 14. nóv. 1909, og tilkynningin sem eg fékk hafði þessa ógeðfeldu grein ekki inni að halda. Enginn safnaðarfundur var haldinn milli 29. ágúst 1909 og 8. janúar 1910, svo eg veit, að engin samþykt hafði verið gerð af söfnuðinum til að nema brott þessa grein. Eg leit ekki svo á, að þeir sendi mér bréf þetta með tilkynningunni, til

þess að láta mig sleppa eins létt og unt var. Í prests-köllunar-bréfi mínu er ekki svo eg muni talað um neina skriflega uppsagnartilkynning. Eg hefi séð þetta skjal, mótmælin sem fram voru lögð frá minni hluta safnaðarins gegn því að eg væri gerður rækur. Eg studdi ekkert að því, að afla því undirskrifta. (Skjalið sýnt vitnum og lagt fram í réttinn sem réttarskjal „7".)

Ein af ástæðunum, sem gefnar eru í þessu réttarskjali „7" fyrir andmælunum gegn burtrekstri mínum er sú, að fundurinn, sem um hana fjallaði, hafi ekki verið réttilega boðaður. Að fundarboðið tiltók ekki, að tilgangurinn væri að koma burtrekstri prestsins til leiðar, var alls ekki ástæða og staðhæfingin um að fundurinn hefði ekki verið löglega boðaður ekki bygð á því. Að svo miklu leyti sem eg veit, er hún á því bygð, að í grundvallarlögunum er tekið fram, að til fundar megi boða með tvennum hætti, — annaðhvort af fulltrúum safnaðarins eða af fimm safnaðarlimum, sem biðja fulltrúana um að kalla slíkan fund. Nú er það vitanlegt, að allir fulltrúarnir höfðu ekki verið saman kallaðir eða við þá talað um þetta mál. Eg á við þenna fund; maðurinn, sem ekki hafði verið talað við, var enn fremur skrifari safnaðarins og var sá maður, sem grundvallarlögunum samkvæmt mátti vænta að ritaði fundarboðið, nema hann væri á einhvern hátt forfallaður. Eg held að tekið sé fram í grundvallarlögunum, að skrifari skuli gegna öllum skrifstörfum. Eg held því fram enn, að forseti gat ekki boðað til fundar nema til þess kvaddur af fulltrúunum. Eftir grundvallarlögunum á fundarboð að vera ritað af skrifara. Fundurinn var boðaður 29. ág. 1909, án þess borið væri undir Sigurjón Gestsson, en forseti safnaðarins var viðstaddur og margir af meðlimum flokks sakar-aðilja. Eg man ekki til, að nein andmæli væri hafin af þeirri ástæðu að fundurinn væri ólöglega boðaður, en eg man að mikill fjöldi meðlima tók þátt í fundinum án nokkurra andmæla. Frá næsta fundi 8. janúar 1910 eru engin andmæli bókuð í fundarskýrslu, að fundurinn hafi verið ólöglega kallaður eða eg verið ólöglega gerður rækur, og fyrstu mótmælin, er flokkur sakaraðilja gerði, eða nokkur safnaðarlimur, svo eg viti, voru ágreiningsummælin, sem fram komu í þessu skjali frá 22. maí 1910. Eg prédikaði fyrir söfnuðinum 15. maí. Enginn verulegur klofningur átti sér stað til þess tíma.

Eg þjónaði söfnuðinum öllum og var borgað fyrir þjónustu mína þangað til. Réttarskjal „7", plaggið, sem þér eruð rétt búinn að sýna mér, var fyrsta sporið, er stigið var af flokki sakaraðilja, til að takast safnaðarstarf á hendur. Síðan skjal þetta var látið ganga í kring, hefir flokkur sakaraðilja eigi viðurkent fulltrúana, sem kosnir voru á ársfundi í janúar 1910, sem fulltrúar safnaðarins. Hann viðurkennir ekki þessa fulltrúa sem embættismenn safnaðarins eða sem meðlimi hans. — Spurning: Fram að þeim tíma, að andmælin komu fram í maí 1910 — sýndu sakborningar, eða söfnuðurinn í heild, trúvillu sína í nokkuru nema því að segja yður upp þjónustu? — Svar: Það kom fyrir. — Sp.: Eg á við að því leyti, sem til opinberra kasta safnaðarins kom? — Sp.: Ekki nema það að mér var sagt upp. Eg ætlaði ekki að leggja málið fyrir hið rétta úrskurðarvald, — að söfnuðurinn hefði vikið frá trúnni, þegar hann sagði mér upp. Flokkur sakaraðilja fann mjög sárt til þess, um það leyti að hann neitaði að viðurkenna grundvallarlögin, að hann hafði önnur umkvörtunarefni en það eitt, er fram var

tekið í andmælunum, — að prestinum hefði verið sagt upp á síðasta fundi. Eg átti ekki tal við forseta kirkjufélagsins, í sambandi við þessar gerðir safnaðarins áður þetta var gert, um það, hvaða stefnu réttast væri að taka fyrir fylgismenn mína. Málið getur hafa verið nefnt í bréfum, sem fóru í milli okkar fyrir 14. maí. — Sp.: Ætluðuð þér að leggja þetta fyrir réttu úrskurðarvöldin, hvort söfnuðurinn hefði vikið frá trúnni, þegar hann sagði yður upp? — Sv.: Ekki með því að segja mér upp. — Sp.: Það sem eg er að reyna að komast fyrir er þetta: Ætluðuð þér ekki að leggja fyrir kirkjuþing trúvillu-kæru, þó þeir hefði ekkert annað gert en að segja yður upp í nóvember 1909? — Sv.: Eg hélt því fram, að um meira hafi verið að ræða en það. — Sp.: Jafnvel þó söfnuðurinn hefði ekki gert neitt frá 29. ágúst 1909, finst yður samt sem áður, að þér hafa nóg kæruefni til að heimila yður að leggja trúvillu-kæru fyrir kirkjuþing 1910? — Sv.: það hafði einungis verið einn safnaðarfundur, en ef þér hefðuð verið staddur þar, mynduð þér hafa heyrt marga skrítna hluti; allan þann tíma höfðu verið æsingar, — allan fundinn. — Sp.: Það sem eg á við eru framkvæmdir safnaðarins 29. ágúst 1909? — Sv.: Það og aðrar ástæður, eins og tekið er fram í skjalinu, sem hér er um að ræða. — Sp.: Var trúvillu-kæra yðar í því skjali, eða kæruskjal yðar í maí 1910 bygt á því, sem sagt var eða gert á fundi safnaðarins, eða á einhverju, sem gert var eða sagt af einstökum safnaðarlimum utan fundar, eða hvorttveggja? — Sv.: Það var að sumu leyti bygt á samþykt, sem gerð var 29. ágúst, þegar mér var sagt upp og kærurnar, er í því skjali voru, voru bygðar á umræðum á þeim fundi og við einstaklinga, sem á þeim fundi voru og utan þess fundar. — Sp.: En á kirkjuþingum finnið þér meðlimi, sem standa á fætur eða erindreka og láta í ljós sérskoðanir, sem þér hafið enga samúð með. Eg á við trúarskoðanir, sem látnar eru í ljós? — Sv.: Eg held það væri að réttu lagi vítavert og álitið sönnun þess, að kirkjufélagið væri að víkja frá trúnni. — Sp.: Myndi söfnuðurinn nokkuð geta skift sér af einka-skoðunum? Myndi söfnuðurinn hafa nokkuð með einkaskoðanir einstaklingsins að gera? — Sv.: Það væri undir því komið, hvað honum væri á hendur falið. — Sp.: Gerum ráð fyrir, að honum hafi alls ekkert verið á hendur falið? — Sv.: Það væri torvelt fyrir mig að svara því. — Sp.: Hverjum einstökum safnaðarmanni er aldrei sagt, hvað hann eigi að segja. Hvernig væri unt að láta söfnuðinn bera ábyrgð á einka-skoðunum hans? — Sv.: Eins og tekið var fram í ummælum mínum til yðar, að ástæðan væri, að þegar yfirlýsing er gerð, verður maðurinn, sem gerði hana, að ákveða merkingu hennar. Hvernig getum við vitað, við hvað þessir menn eiga, nema við trúum eigin orðum þeirra? — Sp.: Það yrði einungis orð einstaklingsins, sem fram kom með ummælin, er þér talið um? — Sv.: Orð einstaklingsins, frá honum sjálfum, myndi vera bending. — Sp.: Kannist þér ekki við það sem staðreynd, að það sem menn í raun og veru fyrst greiddu atkvæði um í ágúst 1909 var, hvort menn ætti að segja yður upp? Orðfæri yfirlýsingarinnar var ekki veitt nein sérstök athygli? — Sv.: Eg veit það ekki. — Sp.: Eins og eitt vitnanna bar, feldi kirkjuþingið með atkvæðagreiðslu 1909 þessa yfirlýsingu (yfirlýsingin er merkt „Réttarskjal 1“ í þessu máli): „Kirkjuþingið mótmælir öllum þeim guðfræðistefnum, sem beinlínis eða óbeinlínis afneita sannsöguleik þeirra grundvallar-atriða kristindómsins, sem fram

eru tekin í hinni postullegu trúarjátningu." Væri nú sanngjarnt að segja að kirkjufélagið hafi snúið baki við postullegri trúarjátningu með því að fella þessa yfirlýsingu með atkvæðagreiðslu? — Sv.: Eg held það sé ekki sannleikur. — Sp.: Álítið þér það sanngjarnt, að krefjast þess, að hver maður greiði atkvæði með sérhverju atriði, þegar hann greiðir atkvæði með einhverri yfirlýsingu? Ætlið þér að halda hverjum einstakling ábyrgðarfullum, sem atkvæði greiðir með einhverri yfirlýsingu, fyrir hverju orði þeirrar yfirlýsingar? — Sv.: Já. Eg man ekki til þess að nokkrir erindekar stæði upp á kirkjuþingi og tæki fram, að þeir væri óánægðir með yfirlýsingu Friðjóns Friðrikssonar, heldur að þeim geðjaðist hún betur en hinar aðrar og vildi þess vegna greiða atkvæði með henni. Eg man ekki að Gunnar B. Björnsson hefði þau ummæli, en eg man, að töluverðar umræður voru á kirkjuþingi um merkingu yfirlýsingarinnar, sem kirkjuþingið samþykti. Eg man að eg talaði um þessa sérstöku yfirlýsingu, „Réttarskjal sakborninga 1", þegar hún lá fyrir til umræðu. Eg talaði á móti henni, og svo skrifaði eg og þessir aðrir prestar undir opinbera yfirlýsingu, að í henni væri alls ekkert, sem við værum ekki samþykkir. — Sp.: Álítið þér ekki eins og að sjálfsögðu, að meðlimum safnaðarins hafi verið áhugamál að losast við yður, og hafi vitað, að færi þeir að gera breytingu, myndi atkvæði dreifast og málið ekki ná fram að ganga? — Sv.: Það kom fyrir seint á fundinum. Tilkynning mín til Garðar-safnaðar, þar sem eg sagði af mér sem prestur, kom fyrir seint á fundinum. Eg sýndi þá tilkynningu að eins einum, utan eigin fjölskyldu minnar — Brandi Brandssyni lækni um leið og eg var að ganga inn í kirkjuna, og eg sýndi séra Birni Jónssyni hana, forseta kirkjufélagsins. Eg hafði sterkan grun á, að söfnuðurinn vissi allur um efni yfirlýsingarinnar, bygðan á töluverðum líkinda-rökum. Af eigin persónulegri þekkingu veit eg það ekki. — Sp.: Hvaða rétt höfðuð þér, til að kæra fyrir eitthvað, sem gert var af sakborningum í júní 1910? þá höfðuð þér yfirgefið þá. Hvaða rétt höfðuð þér til umkvörtunar eða kæru á hendur þeim um, að þeir væri trúvillingar? — Sv.: Það var augljóst, að þeir sem voru að halda kirkjunni fyrir okkur, voru að berjast fyrir annari trú. Í yfirlýsingunni eða andmælunum frá 21. maí kærði eg sakborninga ekki um að flytja trúvillu-skoðanir. Eg kærði þá fyrir skoðanir, sem væri kirkjufélaginu andvígar. Á kirkjuþingi 1909 komu ákveðnar yfirlýsingar fram af hálfu beggja flokkanna í kirkjufélaginu. Minni hlutinn lagði skoðanir sínar fyrir þingið í yfirlýsingu, sem Gunnlaugur Pétursson lagði fram, og voru atkvæði greidd um hana. Þeir höfðu með öðrum orðum opinberlega látið í ljós trúarskoðanir, sem voru andvígar skoðunum kirkjufélagsins. Og þó kirkjufélagið gerði yfirlýsingu um, að enginn gæti orðið rækur fyrir samþykt kirkjufélagsins, eyddu töluvert margir prestar miklum tíma og bleki, til að skýra þetta. Mér skilst ekki að það vera hið sama og að segja manni að halda sér saman og alt skuli gott heita. *Erindrekarnir á kirkjuþingi og prestarnir, sem atkvæði greiddu með yfirlýsingu Friðjóns Friðrikssonar, gerðu játningu fyrir sjálfa sig og líka fyrir kirkjufélagið. Eg skil yfirlýsingu Friðjóns Friðrikssonar svo, að hún hafi verið ítrekan eða framsetning kenningarstefnu kirkjufélagsins, og eg býst við að hún sé að því leyti trúarjátning fólksins, sem greiddi atkvæði með henni, ef það vildi viðhafa það orð. Eg hefi ekkert á móti*

*því orðalagi. Eg neita ekki að hafa notað það orðtæki sjálfur.* (Réttarskjöl lögð fram.)

Eg hefi þegar sagt, að fram að 21. maí 1910, þegar minni hlutinn, flokkur sakaraðilja, lagði skjal þetta fram, „Réttarskjal sakborninga 7“, var eina safnaðar-samþyktin, er eg skoðaði sem vott um trúarbreytingu, samþykt yfirlýsingarinnar, þegar mér var sagt upp. Eg var sjálfur viðstaddur, eftir þann fund, og tók þátt í ársfundinum 8. janúar 1910, eða þar um bil, og þegar fulltrúar voru kosnir fyrir árið 1910, tók flokkur sakaraðilja þátt í fundinum og voru þeir jafn-margir tiltölulega og flokksmenn sakborninga. Safnaðarfulltrúarnir, sem þá voru kosnir, voru þeir fimm menn, er nefndir eru til sem fimm sakborningar í máli þessu. Eftir 21. maí 1910 gerði minni hlutinn ekkert til að gera flokk sakborninga rækan úr söfnuðinum. Hann hefir aldrei gert neitt í þá átt, en hann lýsti yfir því, að samkvæmt grundvallarlögunum yrði klofningur: Að hann sé hinn rétti söfnuður, en hinir ekki. Þetta er hið eina, sem flokkur sakaraðilja hefir gert, þangað til eftir kirkjuþing í júní 1910. Eg veit það eins og aðra sögu, að söfnuðurinn samþykti yfirlýsingu um að ganga úr kirkjufélaginu 5. júní 1910, og þegar úrsögn úr kirkjufélaginu fyrst kom til umræðu 26. júlí 1909 dró hvorki eg eða nokkur annar af flokki sakaraðilja efa á rétt safnaðarins til úrsagnar, samkvæmt grundvallarlögum og aukalögum. Við héldum einungis fram, að 3. liður 2. greinar grundvallarlaganna yrði að nemast úr gildi. Hafi sakborningar réttilega numið þann lið grundvallarlaganna úr gildi, samkvæmt grundvallarlögum og aukalögum, dreg eg engan efa á rétt þeirra til úrsagnar úr kirkjufélaginu. Með öðrum orðum, þegar 3. lið 2. greinar er kipt burt úr safnaðalögunum, þá er enginn hluti þeirra grundvallarlaga krenktur með úrsögn úr kirkjufélaginu. Eg sagði, að kirkjufélagið hefði æðsta vald til að skera úr um, hvort úrsögnin væri lögleg eða ekki, bæði með tilliti til kirkjufélagsins og safnaðarins. Eg byggi ályktanir mínar ekki einungis á lestri grundvallarlaga safnaðarins og kirkjufélagsins. Það er ekkert í grundvallarlögum kirkjufélagsins, sem kemur í veg fyrir, að söfnuðurinn segi sig úr, hve nær sem er, — ekkert sérstakt bann. Það er ekkert í grundvallarlögum safnaðarins, sem bendir til að félagsböndin milli kirkjufélagsins og safnaðarins skuli vera ævarandi. Sakaraðiljar vildu fá annan kirkjulykilinn í þeim tilgangi að halda fundi og guðsþjónustur, sem allir voru velkomnir til, undir þeirra umsjá. Flokkur sakaraðilja vildi ekki svo eg viti fá lyklana í þeim tilgangi að loka sakborninga úti. Eg man ekki til, að eg hafi nokkuru sinni átt tal við Einar Sigurðsson, þar sem eg hafi sagt, að sá væri tilgangurinn, og eg var aldrei við, þegar slíkt viðtal átti sér stað milli hans og nokkurs annars. Það, sem atkvæði voru greidd um 29. ágúst 1909, var málið um að segja mér upp eða ástæðurnar til þess. Þar sem sú tillaga var samþykt, félst söfnuðurinn á ástæður þær, sem þar voru gefnar, og sagði mér upp, og hafi einhver greitt atkvæði gegn þeirri yfirlýsingu, myndi eg halda, að hann væri minni kenningu meðmæltur — allir, sem á þá leið greiddu atkvæði. Eg hugsa að allir, sem atkvæði greiddu með yfirlýsingunni, sem gerð var í kirkjuþingi, hafi verið meðmæltir þeim staðhæfingum, sem þar voru gerðar. Eg hefi þegar sagt yður, að flokkur sakaraðilja gerir kröfu til að hafa sömu grundvallarlög og Þingvalla-söfnuður hafði, þegar ágreiningur þessi hófst. Engar breytingar hafa verið gerðar í

skilyrðum þess að gerast safnaðarlimir og engin frekari próf heimtuð í trúarefnum. Eg hefi þegar tekið fram, að yfirlýsing Friðjóns Friðrikssonar var í eðli sínu ítrekan trúarjátningar. Það má skoða hana framsetning trúar einstaklingsins, eða eins og framsetning á stefnu kirkjunnar. Að svo miklu leyti sem einstaklingur samþykkir trúarjátningu, skilst mér, að það sé vottur um, hverju hann trúir, og það, að gangast undir þessa trúarjátningu, miðar einungis til að taka fram, hvernig þeir skýri fyrir sér tilteknar kenningar biblíunnar. Í þessari yfirlýsingu Friðjóns Friðrikssonar, er viðurkenning á málgagni kirkjufélagsins, Sameiningunni, — stefnu hennar. Eftir því sem mér skilst stefna blaðsins, hefir Sameiningin ekki brotið grundvallarlög kirkjufélagsins, en hafði á hinn bóginn verið að kenna í samræmi við þau. Formálinn (að yfirlýs.) á að vera viðurkenning á stefnu blaðsins. Ritstjóri Sameiningarinnar var kosinn á hverju ári á kirkjuþingum og er séra Jón Bjarnason fyrsti forseti kirkjufélagsins og stofnari þess. Eg held að árið undan kirkjuþingi 1909 og til þess tíma hafi hann haft séra Björn B. Jónsson, forseta kirkjufélagsins, að meðritstjóra. Séra Jón Bjarnason var forseti kirkjufélagsins í 23 ár, eða frá myndun þess og til 1908 og séra Björn B. Jónsson hefir verið forseti síðan. Þau ár, sem hér er um að ræða, hefir ritstjóri Sameiningarinnar verið fyrsti forseti kirkjufélagsins og meðritstjóri hans hefir verið sá, sem nú er forseti kirkjufélagsins. Eg veit ekki, hvort nokkuð af því, er í Sameininguna hefir verið ritað, hefir fengið mótmæli af hálfu ritstjórnarinnar. Eg held ekki, að það hafi verið eðlilegt fyrir hvern alþýðumann að ætla, að skoðanir, sem fluttar voru í því málgagni, væri líka samþyktar, þegar stefna blaðsins var samþykt. Þegar eg samþykki blað, samþykki eg stefnu blaðsins, og stefna blaðsins er það, sem kemur í ljós í greinum þess. Eg man eftir grein eftir séra Hjört Leó, á árinu, sem um er að ræða, um það sem þar var nefnt blóðbaðið í Kanaan-landi. Séra Hjörtur hélt því fram, að blóðbaðið í Kanaan bæri að skoða sögulega staðhöfn, og að blóðbaðið hafi átt sér stað samkvæmt beinu boði eða samkvæmt vilja drottins sjálfs. Frásögnin í biblíunni, eftir því sem eg bezt man, talar um dráp fjölda karlmanna, kvenna og barna í stórhópum. Séra Hjörtur hélt því fram, að þessi athöfn hafi verið framkvæmd eftir skipan drottins og eigi að skoðast líknarathöfn. Grein þessi birtist í júní 1909, og fram að þessum tíma held eg ekki, að nein ritstjórnar-mótmæli hafi birzt gegn þessu áliti séra Hjartar í þessu tilliti. — Sp.: Var málgagn kirkjufélagsins, Sameiningin, að nokkuru leyti frábrugðið málgögnum annara lúterskra kirkjufélaga? Sv.: Eg þekki að eins fá blöð annara kirkjudeilda. — Sp.: Eg á við ábyrgð kirkjufélagsins fyrir ritgerðir, sem birtast í blaðinu, — var hún með nokkurum öðrum hætti? Sv.: Eg þekki ekki stefnu nokkurs blaðs nema af eftirtekt. *Eg kaupi að eins eitt blað annað en Sameininguna.* — Eg veit í raun og veru ekki, að það hafi ávalt verið regla ritstjóra Sameiningarinnar að neita um að taka grein í blaðið, nema með því móti að ritstjórinn væri henni samþykkur. Eg er ekki viss um nema hann kunni að hafa sagt, að hann vildi ekki ljá neinum greinum rúm í blaðinu, sem héldi fram nýrri guðfræði. Víst er um það, að síðustu fimm eða sex árin hefir engin grein birzt í Sameiningunni, sem haldið hefir fram nýrri guðfræði. Hver svo sem stefna blaðsins hefir verið, þá hefir þeirri reglu ávalt verð fylgt í

þessu efni. Þegar eg greiddi atkvæði með yfirlýsingu Friðjóns Friðrikssonar, var eg ekki samþykkur öllum greinum í blaðinu. Þegar við gengum undir þá trúarjátningu, skoðaði eg það ekki svo, að við bættum Sameiningunni inn í trúarjátningu okkar, en trúarjátningar eru skoðaðar sem lagabönd unz þær eru úr gildi numdar. Eg man líka eftir grein í blaðinu um bölbæna-Sálmana. Eg man hana ekki til fulls, en í aðalefni var því haldið fram í kirkju-málgagni þessu, að það drægi mikið úr áhrifavaldi biblíunnar, ef þessir bölbæna-sálmar væri ekki í henni, og að þessir bölbæna-sálmar sé í henni að ráðstöfun drottins sjálfs. Að því er innblásturs-kenninguna snertir, er úrskurður kirkjufélagsins sá, að biblían sé opinberað og innblásið guðs orð og eina regla og fullkomni leiðarvísir í líferni, trú og breytni. Kirkjufélagið heldur fast við plenary-innblástur. Með því á eg við það, að hinir helgu menn, er þeir færðu frásagnir biblíunnar í letur, hvort heldur þeir rituðu um hluti, sem þeir vissu af eigin reynslu, eða þeir rituðu eftir því sem þeim var leiðbeint, sögðu sannleikann. Sögulegar frásagnir eru líka innblásnar og líka aðrar frásagnir, utan takmarka sögunnar, í sama skilningi. Samkvæmt þeirri skýringu get eg vitaskuld ekki kannast við, að tvær umsagnir biblíunnar sé í beinni mótsögn hvor við aðra. — Spurning: Og vitaskuld gætuð þér ekki kannast við, að nokkur hluti gamla testamentisins geti verið numinn úr gildi, vegna þess að hann væri í mótsögn við eitthvað annað. — Svar: Spurningin veldur ruglingi, vegna þess að það eru einstök atriði í gamla testamentinu, er gilda áttu að eins um tíma og voru skrásett samkvæmt vilja og tilgangi guðs. Spurningin er villandi. Þar sem biblían tekur ekki fram með sérstökum ummælum, að tilteknar kenningar eða tiltekin lög sé að eins gefin um tíma, þá eru þau vitaskuld gildandi á öllum tímum. — Sp.: Og myndi eigi skilningur yðar á innblæstrinum hálfpartinn kollvarpast, ef vísindin sýna að það er lífs-ómögulegt, að sumir hlutir, sem um er talað í biblíunni, hafi getað borið við? Mundi það eigi geta raskað innblásturs-kenningu yðar? — Sv.: Eg held, að hver maður muni kannast við, að það eru margir hlutir í biblíunni, sem vísindin ekki geta fallist á. Svo þó innblásinn höfundur — innblásinn að guðs vilja — sýni, að hann hafi ekki haft þekkingu á náttúrulögunum, þá myndi það ekki breyta trú minni á innblásturs-kenninguna. *Í grundvallarlögum kirkjufélagsins og trúarjátningum, er engin sérstök yfirlýsing er samþykki nokkura sérstaka innblásturs-skýringu.* Það er einungis játning um guðs innblásið orð. Kirkjufélagið hefir skjalfest, að það trúi biblíunni, eins og tekið er fram í játningum þess. Í landi þessu eru fleiri en 20 deildir eða flokkar lúterskrar kirkju, sem kalla sig lúterskar og hafa þær Ágsborgarjátningu og biblíuna að grundvelli að svo miklu leyti sem eg veit. Þessar deildir væri ekki lúterskar í orðsins sögulegu merkingu, ef þær hefði það ekki. Eg hefi sjálfur tekið fram, að skoðanamunur eigi sér stað með mönnum um það jafnvel, hvað biblían kenni og hvernig eigi að skilja Ágsborgarjátningu. Það er þetta ,ímynda eg mér, sem skiftir lútersku kirkjunni í svo margar deildir. Skiftingin hefir líka aðrar orsakir, þjóðernisorsakir, en samt ekki um fullgildi biblíunnar, svo eg viti. Sameiningin, málgagn kirkjufélagsins, hefir borið biskupi Íslands trúvillu á brýn, eitthvað í þá áttina. Eg held eg muni, hvað séra Jón Bjarnason, ritstjóri Sameiningarinnar, sagði um ræðu biskupsins á Íslandi, þegar

hann tók biskupsvígslu. Eg man alls ekki að séra Jón Bjarnason kannaðist við það í grein þessari, að biskup Íslands sé góður lúterstrúarmaður. Þegar eg tek Sameininguna frá Nóvember 1908 og gæti að setningunni á bls. 259, sé eg að séra Jón Bjarnason hefir komist að þeirri niðurstöðu við að lesa þessa ræðu biskups, að þar sé *„ömurlegur heiðindóms bláþráður“*. Kirkjan á Íslandi er lútersk að nafninu til, að minsta kosti, og er ríkiskirkja. Sameiningin hélt því líka fram, að málgagn kirkjunnar á Íslandi flytti nýja guðfræði. Það er stefna kirkjunnar á Íslandi þann dag í dag. Það eru menn, sem rita töluvert, en eg held að meiri hlutinn sé á móti henni. Þeir, sem þessum skoðunum fylgja eru menn mikilsmetnir í kirkjunni. Einn af þeim er biskup kirkjunnar á Íslandi. Aðrir heldri menn eru Jón Helgason, forstöðumaður prestaskólans, og annar helzti kennarinn í þessum prestaskóla, séra Haraldur Níelsson. — Spurning: Hafa eigi allir þessir menn komið fram sem talsmenn nýrrar guðfræði svo nefndrar? — Svar: Eg fæ ekki séð að skoðanir biskups og forstöðumanns prestaskólans komi grundvallarlögunum nokkuð við. Sakborningar í máli þessu eru vafalaust samþykkir mörgum af skoðunum biskupsins á Íslandi. Eg álít þá ekki vel lúterska. Eg álít biskupinn ekki góðan lúterstrúarmann. Sakborningar eru ekki góðir lúterstrúarmenn með þeim skoðunum, sem þeir hafa, eftir nokkurum sönnum lúterskum mælikvarða. Þeir eru eins góðir lúterstrúarmenn og biskup kirkjunnar á Íslandi og eg ímynda mér eins og þessir tveir kennarar, sem nefndir voru. *Það sem markar lút. kirkju ákveðið lúterska, er játning kirkjunnar, og hvergi í Ágsborgarjátning né nokkurri annari játningu lúterskrar kirkju er fram tekin nokkur sérstök innblásturs-kenning. Öll lútersk játning er á því bygð, að hverjum lúterstrúarmanni sé heimilt að skýra biblíuna eins og honum þóknast.* Þegar Lúter brauzt út úr katólskri kirkju, hélt hann því fastlega fram, að páfinn hefði engan rétt þegar um skýringu biblíunnar væri að ræða, að biblían væri hið fullkomna úrskurðarvald fyrir kirkjuna að haga sér eftir, þvert ofan í páfann. Þá var engin lútersk trúarjátning til. Lúters stefna var, að hann hefði rétt til, án aðstoðar nokkurs manns annars, að fara í biblíuna og skýra kenningu hennar eftir henni. Og hann heimilaði þann rétt hverjum einstakling. Hver einstaklingur hefir réttinn til að fara í biblíuna og skýra samkvæmt hugmynd sinni um það sem rétt er, sem einstaklingur. En þegar margir einstaklingar sameina sig og mynda félög og samþykkja einhverjar trúarjátningar, þá eru þeir bundnir af þeirri játningu, eins lengi og þeir lifa í henni. Breyti þeir skoðunum, eru þeir skyldugir til að yfirgefa hana, en skjótast ekki undan henni. *Í hverju atriði, sem játningar kirkjunnar ná ekki út yfir, hefir hver einstaklingur rétt til að játa eða hafna, samkvæmt meginreglum lúterskrar kirkju.* Eg veit ekki til, að það hafi verið neinar ákveðnar greinir í biblíunni sem Lúter hafnaði sjálfur. Sakborninga ber ekki að dæma eftir Lúter, heldur eftir játningum kirkjunnar. *Lúterska kirkjan játar enga sérstaka innblásturskenningu, sem kirkjudeild.* Það var alkunna, að báðar skoðanirnar um innblásturskenninguna, hin nýja og hin gamla, komu í ljós og hafði verið haldið fram af meðlimum kirkjufélagsins fyrir 1909. Það voru skiftar skoðanir um innblásturinn, sem þá áttu sér stað með prestum kirkjufélagsins. Því var haldið fram af meðhaldsmönnum hins nýja skilnings, að samkvæmt lögum kirkjufélagsins hefði þeir

rétt til þessara skoðana. Yfirlýsingin, sem samþykt var 1909, var til þess að láta ótvíræðlega í ljós stefnu kirkjufélagsins með tilliti til kenningarinnar, sem um var deilt, og til þess opinberlega að fastbinda kirkjufélagið kenningunni um p l e n a r y-innblástur. Eg man, að þegar eftir samþykt yfirlýsingar Friðjóns Friðrikssonar, báruð þér, Hjálmar Bergman, fram yfirlýsingu, er þegar hefir verið framlögð, þar sem farið var fram á, að kirkjufélagið lýsti yfir því, að þetta ætti ekki að skilja sem burtrekstur nokkurs, sem fylgdu hinum nýju skoðunum. Enginn var gerður rækur, en meiri hlutinn staðhæfði, að yfirlýsing Friðjóns Friðrikssonar, fastnegldi kenninguna um innblásturinn. Sama daginn sem hún var samþykt, gengu erindrekar margra safnaða af þingi. Og samþykt þessarar yfirlýsingar Friðjóns Friðrikssonar hafði það í för með sér, að mikill hópur safnaða kirkjufélagsins hefir sagt sig úr því, eitthvað sjö eða átta 1909. Þegar ágreiningur þessi kom upp, voru milli fjörutíu og fjörutíu og fimm söfnuðir í kirkjufélaginu. Ef að skýrslan sýnir, að fækkað hafi í kirkjufélaginu eitthvað um tvö þúsund manns, þá er hún áreiðanleg.

Eg trúi frásögn biblíunnar um, að Jósúa hafi skipað sólunni að standa kyrri, og að hún hafi gert það, og eg trúi því, að höfundur þeirrar ritningargreinar hafi verið innblásinn og að guð beri ábyrgð á þeirri staðhæfingu í biblíunni, og að hún sé sönn. Sýni stjörnufræðin, að sólin sé fastastjarna og „gangi“ þess vegna ekki, myndi eg samt segja, að nauðsynlegt sé að trúa þessu. — S p u r n i n g: Haldið þér, að sólin snúist í kring um jörðina? — S v a r: Eg get ekki skýrt það. Eg felst á það í biblíunni. Eg skil það alls ekki. Eg trúi því, af því það er þar. Samkvæmt p l e n a r y-innblásturskenningu minni er sá maður trúvillingur, sem eigi trúir því; ef hann hafnar nokkurri staðhæfingu biblíunnar. Eg flutti fyrirlestur á kirkjuþingi 1909, þar sem eg tók fram, að það væri drotni sjálfum ekki ósamboðið, að takmarka þrælahald smátt og smátt, en afnema það ekki, og kenningin í þessu sambandi er svo sem að sjálfsögðu innblásin. Samkvæmt kenningu kirkjufélagsins um p l e n a r y-innblástur, er nauðsynlegt að trúa staðhæfingunni í 2. Mósebók eins og til er ætlast af höfundinum, að enginn geti séð guð og lifað. Eg trúi þeirri staðhæfingu allri og staðhæfingunni í 1. Mós. sem segir: „Abraham sá guð“; og sömuleiðis staðnum í 2. Mós. 33,11: „Og drottinn talaði við Móse augliti til auglitis“ að orðin sé innblásin í samhenginu, og að það væri trúvilla að trúa þessu ekki samkvæmt innblásturs-kenningu minni. Eg trúi frásögninni í 1. Mósebók, er segir frá eyðingu Sódómu, að hún sé innblásin, og að samtalið, sem lýst er í 18. kap. 1. Mósebókar, hafi átt sér stað milli drottins og Abrahams. Drottinn var á leið sinni til að eyða Sódómu og Abraham gekk með honum; var Abraham að reyna að miðla málum fyrir íbúa Sódómu, svo að þeim yrði ekki gjöreytt. Drottinn vissi áður hann kom þangað, hvað margt af fólki hans var þar. Sumir draga það af orðunum, að hann hafi ekki vitað það. Eg trúi frásögninni. Eg man hvað sagt er um ríka manninn í helvíti og Lazarus í faðmi Abrahams. Ástæðan, sem gefin er fyrir því, að Lazarus gat ekki komið ríka manninum til aðstoðar, var sú, að svo mikið djúp væri á milli. Eg man staðinn, Lúkas 16,26. Eg held að álitið sé, að hann merki, að enginn á himni geti farið yfir til hinna lægri bústaða, eða nokkur í hinum lægri bústöðum geti farið yfir til hinna. Eg man eitthvað í þá átt

í frásögunni um Job, að djöfullinn gengi fram fyrir drottin, til umræðu við hann um að freista Jobs, til að reyna trú hans. Það er nauðsynlegt samkvæmt kenningunni um plenary-innblástur að trúa því, að enginn árekstur sé milli þessara tveggja frásagna, að enginn á himni geti komist yfir til hinna lægri bústaða. — Spurning: Og að djöfullinn fái samt komist frá hinum lægri bústöðum til himins til að ræða þar málefni við guð? — Svar: Eg gæti gefið yður betri ástæður. Þegar verið er að eiga við fólk annarar trúar, er rétt að fylgja kenningum biblíunnar í þessu efni. Það er ekki einungis rétt, heldur skylda allra góðra kristinna manna, — allra góðra lúterskra manna. Sp.: Í 5. Mósebók 13,6—9 stendur: „Ef bróðir þinn, sonur móður þinnar, eða sonur þinn eða dóttir þín eða konan í faðmi þínum, eða vinur þinn, sem þú elskar, eins og lífið í brjósti þínu, ginnir þig einslega og segir: Vér skulum fara og dýrka aðra guði, — þá er hvorki þú né feður þínir hafa þekt af guðum þeirra þjóða, sem kring um yður eru, hvort heldur þær eru nálægar þér eða fjarlægar þér, frá einu heimskauti til annars, — þá skalt þú ekki gera að vilja hans og eigi hlýða á hann, og þú skalt ekki líta hann vægðarauga, og þú skalt eigi þyrma honum, né hilma yfir með honum; heldur skalt þú drepa hann, þín hönd skal fyrst á lofti vera gegn honum, til þess að deyða hann, og því næst hönd alls lýðsins.“ Það stendur hér: Ef bróðir þinn eða konan þín hefir aðrar skoðanir í trúarefnum en þú, þá skalt þú drepa þau. Hvers vegna breyttuð þér ekki við sakborninga samkvæmt kenningum biblíunnar? (Vitnið þagði). — Sp.: Væri ekki sá maður trúvillingur samkvæmt plenary-innblástursskenningu kirkjufélagsins, sem eigi tryði þeirri ritningargrein, sem eg nú las? — Sv.: Jú, guð notar það í þeim tilgangi. — Gamla testamentið hefir ekki meðferðis svo eg viti greinilega kenningu um eilífa útskúfan. Sú kenning var ekki innleidd af gamla testamentinu. Það er mikið í gamla testamentinu, sem bendir í þá átt, þó ekki sje það nákvæmlega tekið fram. Sp.: Munið þér staðinn hjá Malakí (2,3), þar sem drottinn hótað að kasta saur framan í prestana: „Sjá, eg högg af yður arminn og strái saur framan í yður, saurnum frá hátíðafórnunum og varpa yður út til hans.“ Munið þér eftir þessum stað? Sv.: Nei, eg man ekki eftir honum. Sp.: Í Esekíel 4,12 stendur þetta: „Skalt þú eta það sem byggkökur, og þær skalt þú baka við mannaþrekk fyrir augum þeirra.“ Má maður ekki til með að trúa þessum stað eins og öðrum? — Sv.: Jú. Það er líka nauðsynlegt að trúa sögunni um Nóa og örkina og gera sér grein tungumála-blendingsins í heiminum á þann hátt sem gert er í sögunni um Babel-turn og sögu fyrstu Mósebókar um sköpun jarðarinnar á sex dögum, og að trúa sögunni um hvalinn, sem svalg Jónas. — Sp.: Eg ætla að lesa þann stað í 2. Mós. 33: „Og eg vil senda engil minn á undan þér og reka burtu Kanaaníta, Amoríta, Hetíta, Peresíta, Hevíta og Jesbúíta, — til þess lands, sem flýtur í mjólk og hunangi; því að ekki vil eg fara sjálfur með þér af því að þú ert harðsvíraður lýður, að eg ekki tortími þér á leiðinni. En er fólkið heyrði þenna ófögnuð, urðu þeir hryggir og enginn maður bjó sig í skart. Þá sagði Jahve við Móse: Seg Ísraelsmönnum: Þér eruð harðsvíraður lýður; væri eg eitt augnablik með þér á leiðinni, mundi eg tortíma þér.“ Trúið þér þessu — tortíma þér? Trúið þér því? — Sv.: Já, eg trúi því, en eg get ekki skýrt þessa hluti fyrir yður. *Samkvæmt kenningunni um*

*p l e n a r y-innblástur hefir einstaklingurinn engan rétt til að hafna neinu af þessu. Hver ritningarstaður er þar samkvæmt vilja hans og tilgangi, jafnvel þessi ritningarstaður, sem þér hafið bent á, öll biblían. Eg sagði, að kirkjan á Íslandi og kirkjufélagið hefði sömu trúarjátningar. Kirkjufélagið var upphaflega myndað til þess að kenna í þessari heimsálfu lúterska kenningu, samkvæmt játningum kirkjunnar á Íslandi.* Kirkjan á Íslandi eða að minsta kosti mikill hópur meðlima hennar, að meðtöldum biskupi, hélt því fram, að trúarvitund einstaklings mætti einhverju ráða um, að velja og hafna sumum ritningarköflum. Eg hefi eigi séð þau ummæli biskups, að játningar kirkjunnar sé ekki lagabönd, en hefi séð ummæli hinna tveggja manna annara, sem þér nefnið. Þeir skilja það svo, að játningarnar sé einungis það, sem höfundar þeirra létu sér skiljast að biblían kendi. Þeir halda því fram, að kirkjan eins og hver önnur félagsheild, hljóti að vaxa og þroskast. Og hafi einstaklingurinn komist að þeirri niðurstöðu í ljósi rannsókna nútímans, að sum kenningar-atriði trúarjátninganna sé í mótsögn við biblíuna, þá beri honum að fara eftir biblíunni en ekki játningunni; væri hann samt sem áður góður lúterstrúarmaður. Eg hefi enga ástæðu til að ætla, að sakborningar máls þessa hafi gengið feti framar en biskup kirkjunnar á Íslandi, forstöðumaður prestaskólans á Íslandi og hinn annar kennari. Eg hefi ávalt viðurkent, að samkvæmt kenningum kirkjunnar á Íslandi eins og þær eru fluttar af biskupi, sé sakborningar góðir lúterstrúarmenn. Í fyrirlestri mínum um innblásturs-kenninguna hélt eg því fram, að biblían hefði skáldskap meðferðis. Eg átti ekki við skáldsögur. Skáldskapur hlýtur vitaskuld að vera innblásinn. Eg sagði, að einatt væri það ekki auðvelt að ákveða eðli tiltekinna biblíu-kafla, og að réttmætur og leyfilegur skoðanamunur geti átt sér stað í þeim efnum. Einstaklingurinn hefir ekki eftir minni kenningu réttinn til að beita eigin rannsókn sinni við þessar sérstöku ritningargreinar, sem leyfilegur skoðanamunur er um. Eg á við, að einstaklingurinn verði að dæma um, hvaða hlutar biblíunnar eru saga og hvað skáldskapur og hvað bein opinberan guðs. Til dæmis: Hver staðhæfing biblíunnar, sem byrjar með: „guð sagði“, á að skiljast bókstaflega eins og orð, töluð af guði sjálfum. *Samkvæmt kenningu minni um p l e n a r y-innblástur, er dómgreind einstaklingsins alls ekkert svigrúm gefið til að velja og hafna í biblíunni og það er ekkert svigrúm til að beita dómgreind einstaklingsins við að ákveða, hverju skuli trúa eða ekki trúa.* Eg man ekki að séra Björn Jónsson hafi nýlega ritað grein í málgagn kirkjufélagsins, þar sem hann hafi tekið fram, að það sé skylda hvers kristins manns lúterstrúar, að lesa biblíuna án tillits til nokkurrar kreddu eða játningar, jafnvel án tillits til postullegu játningarinnar, en það væri góð kirkjufélags-venja. Hann ætti ekki að skýra biblíuna eftir játningunum, og komist hann að þeirri niðurstöðu, að játningarnar skýri ekki guðs orð réttilega, ætti hann að hafna játningunum. — S p u r n i n g: Hefði hann þá engan rétt til að vera meðlimur lútersku kirkjunnar, ef hann skyldi komast að raun um, að sumar kenningar Ágsborgarjátningar sé ekki í samræmi við biblíuna, unz þeim hluta hennar hefði verið breytt? — S v a r: Eg hefi rétt til að gera alt sem eg gæti til að sýna, að þessi kenning væri ekki í samræmi við biblíuna og ef kirkjan féllist ekki á það með mér, myndi eg álíta það skyldu mína að ganga út úr kirkjunni. Eg væri þá ekki

lengur lúterstrúarmaður. Sem einstaklingur hefði eg rétt til skoðunar í þessu efni, þó eg væri ekki í meira hlutanum, en ekki sem meðlimur þess kirkjufélags. Lúter-College í Decorah er stofnan norsku sýnódunnar lútersku. Meðan eg dvaldi þar, fékk eg kenslu í trúarefnum tvær stundir hverja viku samkvæmt kenningarkröfum norsku sýnódunnar. Eftir að eg fór frá Lúter-College, fór eg til prestaskólans í Chicago, sem er óháð stofnan. Það hefir stofnskrá, sem tekur fram, að stjórnendur þess verði að vera meðlimir einhverrar sýnódu í General Council, sem er stórt félag, sem myndað er af smáfélögum, er kallast sýnódur. Sú tegund lúterstrúar, sem kend er við prestaskólann í Chicago, er General Council skilningurinn á lúterskri kenningu. Eg vil kannast við að það sé satt, að prestar kirkjufélagsins íslenzka, að tveim undanskildum, hafi allir stundað nám við prestaskólann í Chicago. Eg er ekki viss, en flestir þeirra hafa stundað nám þar. Séra Jón Bjarnason, stofnandi kirkjufélagsins, fékk guðfræði-mentan sína í kirkjunni á Íslandi. Eg hefi heyrt, að snemma á tímum bygðarlaganna íslenzku hér í landi, hafi kirkjudeila átt sér stað milli séra Jóns Bjarnasonar, fulltrúa íslenzkrar lúterstrúar og séra Páls Þorlákssonar, fulltrúa þeirrar tegundar lúterskunnar, sem norska sýnódan heldur fram. Eg get ekki borið um, hvort séra Jón Bjarnason hafi þá verið í samræmi við stefnu kirkjunnar á Íslandi. Þegar íslenzka kirkjufélagið var myndað, varð séra Jón Bjarnason forseti þess, en í játningarefnum held eg, að kirkjufélagið og norska sýnódan lúterska hafi verið í samræmi. Eg er ekki vitnisbær um skilning þeirra í þessum játningarefnum, en eg veit ekki um neinn verulegan mun. Mér er ekki kunnugt af trúfræðinámi mínu við lúterska prestaskólann, sem eg var í, að norska sýnódan lúterska sé miklu sterk-lúterskari en kirkjufélagið íslenzka gerði tilkall til að vera. Þegar íslenzka kirkjufélagið var myndað, var það í samræmi við játningarkröfur norsku kirkjunnar lútersku, að svo miklu leyti sem eg veit, og eru þær hinar sömu og kirkjunnar á Íslandi. Norska sýnódan kennir ekki svo eg viti, að samkvæmt Ágsborgarjátningu sé það sjálfsögð trúarsetning lúterskunnar, að enginn geti hólpinn orðið, án skírnar. Að því er snertir samræmi í kenningarefnum milli kirkjufélagsins íslenzka, norsku sýnódunnar og General Council, get eg að eins borið þetta, að játningargrunnurinn er sá sami. Eg held, að General Council hafi bætt við öllum játningarritunum, sem ekki eru samþykt af kirkjufélögunum norsku og íslenzku. Mér skilst, að þau hafi verið í fullkomnu samræmi frá byrjan, að svo miklu leyti sem játningarnar eða grundvöllinn áhrærir.

Frumspurður öðru sinni af
*Birni B. Gíslasyni,*
lögmanni sakaraðilja

Sá sem gerist meðlimur Þingvalla-safnaðar, verður að undirskrifa grundvallarlög safnaðarins, þegar hann gengur inn, og þau grundvallarlög fela í sér trúarkenningar og játningar kirkjunnar. Eg gaf 600 dollara til byggingar prestshússins á Garðar. Tvö hundruð dollara hafa fulltrúar safnaðarins fengið mér að gjöf, síðan eg fór. Eg var ekki öllu samþykkur, er birt var í málgagni kirkjufélagsins, Sameiningunni, sem meðlimur kirkjufélagsins. Greinir eftir aðra en ritstjóra blaðsins og skoðanir, sem látnar eru í ljós í þeim greinum, eru ekki skoðaður

vottur um stefnu blaðsins, jafnvel þótt þær sé teknar til birtingar. Sanna stefnan birtist í ritstjórnargreinunum. Játningar kirkjufélagsins lúterska eru ekki í mótsögn við biblíuna. Eg held ekki, að biskupinn ráði stefnu kirkjunnar á Íslandi. — Spurning: Á síðustu prestastefnu, sem haldin var á Íslandi 1910, prestastefnunni á Hólum, er haldin var af lúterskum prestum, — er það ekki staðreynd, að mikill meiri hluti hinna lútersku presta væri þá andvígir trúarstefnu biskups? — Svar: Jú, það var svo. Það var enginn trúarlegur munur á milli kirkjunnar á Íslandi og evangelísk lúterskrar kirkju; það hefir aldrei verið og er ekki nú. Af söfnuðunum, sem gengu úr kirkjufélaginu 1910, hefir Víkursöfnuður að Mountain greitt atkvæði með að ganga inn. Staðhæfingin í grundvallarlögum kirkjufélagsins og Þingvalla-safnaðar, að söfnuðurinn hafi sömu játningar og kirkjan á Íslandi, merkir, að hann hafi sömu játningarnar og kirkjan á Íslandi.

Gagnspurður öðru sinni af
*Hjálmari A. Bergman,*
lögmanni sakborninga.

Eg sagði, að á fundi lúterskra presta á Íslandi, hefði meiri hlutinn fylgt stefnu andstæðri biskupsins á Íslandi. Það var með tilliti til nýrrar guðfræði. Alt, sem eg veit um það, er það sem eg sá í blaðinu. Sjálfur hefi eg engan kunnugleik um það. Á kirkjuþingi 1909 bauð kirkjufélagið þeim, sem gengið höfðu út, að ganga inn aftur með tilteknum skilyrðum. Kirkjufélagð hefir skjalfest það síðan 1909, að það aðhyllist ekki bókstafsinnblástur. Sá skilningur hafði verið lagður í samþykt kirkjufélagsins frá 1909, að það hefði samþykt bókstafs-innblástur.

## 2. Séra Björn B. Jónsson.

Frumspurður af
*Birni B. Gíslasyni,*
lögmanni sakaraðilja,

Eg á heima í Minneota, Minn. Eg er íslenzkur prestur, og hefi söfnuð þar, sem heyrir evangelískri lút. kirkju til. Eg er forseti kirkjufélagsins íslenzka. Eg hefi verið prestur síðan í júní 1893. Hefi haft söfnuð í Lyon og Lincoln-counties í Minnisota-ríki. Hefi verið forseti kirkjufélagsins síðan júní 1908, eftirmaður séra Jóns Bjarnasonar. Kirkjufélagið íslenzka stendur ekki í neinu sambandi við kirkjuna á Íslandi. Í kirkjufélaginu eru ýmsir íslenzkir lút. söfnuðir í landi þessu. Það var myndað 1885. Hér um bil 35 eða 40 söfnuðir heyra því nú til. Það hefir eigin grundvallarlög og aukalög. Tilgangur kirkjufélagsins er að draga saman til samvinnu ísl. lút. söfnuði og að hafa yfirumsjón með trúarlegum störfum, sem þeir gera. Eg fékk tilkynningu um sundrung Þingvalla-safnaðar í sept. 1909. Þegar eg og skrifari og féhirðir heyrðum, hvernig sakir stóðu þar, sóttum við söfnuðinn heim í sept. 1909. Eg gerði embættismönnum safnaðarins orð að koma til móts við okkur á tilteknum stað. Fundum okkar þar saman á sunnudegi á heimili Sigurjóns Gestssonar í grend við Mountain. Fjórir embættismenn Þingvalla-safnaðar voru þar og einn eða tveir djáknar. Eg man eftir Ólafi Ólafssyni og Friðriki Ólafssyni, Kristjáni Krist-

jánssyni og Sigurjóni Gestssyni. Aðrir safnaðarlimir voru þar viðstaddir. Við skýrðum þeim frá, hvað við hefðum heyrt um þenna ágreining, einkum um fyrirætlan þeirra, sem birzt hefði í yfirlýsing einni á nýafstöðnum fundi, að segja presti upp þjónustu; hafði prestur þá ekki fengið neina tilkynningu opinberlega um neina slíka samþykt, áður safnaðarfundur hafði ákveðið að segja honum upp; við sögðum embættismönnum þessa safnaðar, að við værum komnir til að rannsaka samkvæmt opinberri skyldu okkar sem embættismenn kirkjufélagsins. Við tókum það fram, að þetta væri mjög alvarlegt mál, og að við hefðum mikinn áhuga á að skilja það rétt og koma málinu í betra horf, ef hægt væri. Þeir hefði komið fram með tvær kærur á móti prestinum í yfirlýsingunni, sem samþykt var á fundinum, sem haldinn hafði verið og við vissum um. Við álitum að önnur kæran yrpi mjög alvarlegum skugga á prestinn, þar sem hann væri kærður um ofstopa og ráðríki, og það einkum á einum fundi, sem nýlega hafði verið haldinn. Við skýrðum fyrir þessum embættismönnum, að það mundi verða einskonar brennimark á honum, ef þeir segði honum upp þjónustu á þenna hátt, að við óskuðum eftir að komast að, hvort þetta væri satt eða ekki; og við spurðum þá margra spurninga og þeir staðhæfðu ekki, að hann hefði sýnt ofstopa eða ráðríki nokkuru sinni, nema á þessum fundi. Þegar við spurðum þá frekar, gátu þeir ekkert annað tækifæri nefnt, og gerðu ekki. Svo gerði eg og hinir embættismenn kirkjufélagsins fyrirspurn um einstök atriði í sambandi við þessa kæru um ofstopa á fundi þessum, og þeir sögðu oss, að hann hefði verið falinn í beitingu þingskapa, sem þeir skoðuðu ofstopafulla. Og við gerðum fyrirspurn um þessa beitingu þingskapa og komumst að þeirri niðurstöðu, að fundarregla sú, er presturinn hefði beitt á fundi þessum, hefði verið vel til fundin og laukrétt. Og við áttum tal saman um þetta og urðum ásáttir um, að embættismenn kirkjufélagsins, sem þarna voru staddir, og embættismenn safnaðarins skyldi beita áhrifum sínum á safnaðarmeðlimi og láta strika þenna part kærunnar út. Og það varð að samningum. — S p u r n i n g: Eruð þér svo vel að yður í því, hvernig beitt skuli þingsköpum, að þér getið verið þess fullvís, að hafa ekki gert söfnuðinum rangt til? — S v a r: Já, eg held það. — Annað ágreiningsatriði fundum við að var þar kenningaratriði, og það var torveldara viðureignar. Þeir höfðu, að minsta kosti hafði söfnuðurinn, mikill meiri hluti, staðhæft í yfirlýsingu á fundi, er áður var haldinn, að þeir segði prestinum upp, af því hann hefði sagt, að hann gæti ekki þjónað söfnuðinum, eða söfnuði, sem aðrar trúarskoðanir hefði en hann sjálfur. Fórum við gaumgæfilega inn í þetta mál og tókum þátt í ótæmandi umræðum um ágreiningsefnið. Mismunur sýndist vera býsna afmarkaður og ekkert var látið liggja í láginni. Friðrik Ólafsson og Kristján Kristjánsson, sem borið hafa í máli þessu, voru viðstaddir. Ólafur Ólafsson líka, einn af sakborningum. Margt var sagt um úrskurðarvald biblíunnar. Friðrik Ólafsson var, eftir því sem mér skildist, foringi eða framsögumaður fulltrúanna. Eg man að hann sagði, að þeir væri fylgismenn nýrrar guðfræði. Eg man líka að hann sagði: „Við trúum ekki innblæstri biblíunnar.“ Eg man þetta einkum vegna þess, að eg sagði þá við hann: „Eg held þér séuð að fara nokkuð langt.“ Þessu tók eg einkum eftir. Hann tók ekki fram í mörgum atriðum, hvað hann áliti að væri ný guðfræði. Aðrir meðlimir, sem við-

staddir voru og heyra nú til sakborninga-flokkinum, gerðu enga undanþágu, er Friðrik Ólafsson staðhæfði, að þeir tryði ekki innblæstri biblíunnar. Eg get ekki munað orð annarra þar, en efnið var, að þeir voru fúsir á að tala um þessa nýju guðfræði í sambandi við biblíuna. Með nýrri guðfræði held eg að þeir eigi við, að biblían sé ekki fullkomlega innblásin í öllum pörtum. Eg vil segja, að ný guðfræði, að minsta kosti eins og þjóð vor, Íslendingar, hefir haft kynni af henni, er það, að fólk er að reyna að losast við eins mikið og unt er af kraftaverkum og hinu yfirnáttúrlega. Eg held að þjóð vor hafi ef til vill komist í kynni við nýja guðfræði í gegn um bók Campbells fremur en nokkuð annað. Eg held, að ný guðfræði miði að því, að afnema eins mikið og unt er af kraftaverkunum og hinu yfirnáttúrlega í biblíunni og trúarbrögðunum yfirleitt. *Kirkjufélagið heldur sér ákveðið við p l e n a r y-innblástur heilagrar ritningar sem algerlega sannrar í öllum smáatriðum og fyllilega innblásinnar í öllum efnum.* Fulltrúar þessa Þingvalla-safnaðar féllust þá þarna á, að beita áhrifum sínum við meðlimi safnaðarins, svo fyrsti hluti yfirlýsingarinnar um að segja presti upp yrði feldur burt. En við gátum ekki náð neinu samkomulagi um seinni partinn. Þeir vildu eigi fallast á að fella hann niður. Næsta vitneskja, sem eg fékk, var bréf frá nokkurum hluta Þingvalla-safnaðar —, bréf sem undirskrifað var af svo sem 40 meðlimum eða meir, sem andmæltu aðgjörðum meira hluta safnaðarins. Það var stílað til mín sem forseta kirkjufélagsins. Þeir 45, sem undir það skrifuðu, sakaraðiljar máls þessa og félagsbræður þeirra, það sem kallað hefir verið minni hluta flokkurinn í söfnuðinum. „Réttarskjal 7“ er skjalið, sem eg fékk. Eg lagði það með öðrum skjölum sem opinbert skjal kirkjufélagsins og svaraði manninum, er sendi það, því að þetta ætti að leggja fyrir kirkjuþing sem réttan dómstól. Þetta var í maí, held eg. Eg held bréfið hafi verið dagsett 21 maí. Eina opinbera skjalið sem eg fékk, held eg að hafi verið dagsett 6. júní. Það er þetta skjal, „Réttarskjal B“. — Sp.: Hvað gerðuð þér við það? — Sv. Eg lagði það skjal með öðrum skjölum kirkjufélagsins undir minni hendi. Og 9. júní, held eg, lét eg Ólaf Ólafsson, skrifara safnaðarins vita, sem þetta hafði sent. Ólafi Ólafssyni sendi eg bréf þetta, „Réttarskjal C“. — Sp. Hvað annað bar til í málinu, ef það annars var nokkuð? — Sv.: Næsta sporið var kirkjuþing í júní 1910. Eg var þar viðstaddur. Kirkjuþingið fékk andmæli, eða endurnýjuð andmæli þessu sinni, undirrituð af 45 meðlimum. Það skjal er „Réttarskjal S“. Eg gerði sakborningum máls þessa áður aðvart með „Réttarskjali C“. Það hefir meðferðis tilkynningu um, að mál þetta eigi að koma fyrir kirkjuþing í júní 1910. Kirkjufélagið fékk tilkynningu, „Réttarskjal T“, undirritað af Magnúsi Benjamínssyni og Ólafi Ólafssyni, í þá átt, að söfnuðurinn sendi ekki neina erindreka á kirkjuþing 1910. Málið var nú komið fyrir kirkjuþing og forseta, skýrslan og andmælin, sem sent hafði verið forseta kirkjufélagsins. Og hin önnur andmæli höfðu komið um þingtímann, með tilkynningu um úrsögn meiri hlutans. Var nefnd skipuð til að rannsaka málið. Skipun nefndarinnar sést á bls. 16 í „Réttarskjali M“ og á bls. 37 birtist skýrslan og samþykt kirkjufélagsins út af henni. Eg lét Þingvalla-söfnuð opinberlega vita um aðgjörðir kirkjuþings með því að senda honum „Réttarskjal E“.—Sp.: Gerði kirkjuþingið séra Björn, nokkura samþykt um ágreininginn í Þingvalla-söfnuði?—Sv.:

Já. — Sp.: Hvaða samþykt var það? Hafði kirkjuþing nokkuru sinni skorið úr í sams konar máli áður? — Sv.: Já. Það var í Selkirk-söfnuði, þegar séra Jón var forseti og séra Friðrik J. Bergmann varaforseti og gegndi forsetastörfum. Eg skrifaði í Sameininguna sem aðstoðar-ritstjóri og hefi haft það starf á hendi í þrjú eða fjögur ár. Engin ritgerð eftir einsatkling, sem tekin er í Sameininguna, er álitin neinn hluti af stefnu hennar. Stefna blaðsins er stefna ritstjórnargreinanna.

Gagnspurður af
*Barða G. Skúlasyni,*
lögmanni sakborninga.

Að svo miklu leyti sem eg man hefi eg nú talið öll þau skjöl eða skilríki, er samþykt kirkjufélagisns var gerð með tilliti til, í sambandi við ágreininginn í Þingvalla-söfnuði. Eg held að kirkjufélagið hafi gert opinberar samþyktir í sambandi við einstaka söfnuði. Samkvæmt því sem tíðkast hefir í kirkjufélaginu, gefur forsetinn árlega skýrslu, og þá gerir kirkjuþingið einhverja samþykt út af þeirri skýrslu. — Spurning: Er ekki lúterska kirkjan á Íslandi ríkiskirkja? — Svar: Svo hefi eg heyrt og lesið. — Sp.: Og þá er vitaskuld ekkert opinbert samband milli kirkjunnar á Íslandi og kirkjufélagsins íslenska í Norður-Ameríku? — Sv.: Nei. — Sp.: Sögðuð þér að trúarjátningarnar væri þær sömu? — Sv.: Mér skilst að játningar kirkjufélagsins vera þær sömu og játningarritin á Íslandi. — Sp.: Getið þér tekið fram, í hverju munurinn í trúarefnum er fólginn milli kirkjunnar á Íslandi og íslenzka kirkjufélagsins í Ameríku? — Sv.: Eg veit ekki til að það sé neinn munur. — Sp.: Ef til vill hefi eg ekki skilið yður rétt, en mér skildist, að þegar þér svöruðuð spurningu minni, á undan þeirri síðustu, væri framburður yðar sá, að kirkjan á Íslandi og kirkjufélagið í Ameríku sé ekki í samræmi í trúarefnum? — Sv.: Eg sagði það ekki. Þér spurðuð, eða viðhöfðuð orð í þá átt, hvert þau hefði sömu trú, vegna þess þau hefði sömu játningar? — Sp.: Eg vil spyrja yður, hvort nokkur mismunur í trúarefnum eigi sér stað milli þessara tveggja kirkjudeilda? — Sv.: Ekki frá játninga-sjónarmiði. — Sp.:Er nokkur munur í nokkuru tilliti? — Sv.: Eg veit það ekki. — Sp.: Eigum við þá að láta okkur skiljast, að enginn mismunur eigi sér stað í trúarefnum, að því er þér vitið, milli þessara tveggja heilda eða félaga? — Sv.: Eg sagði það ekki. — Sp.: Eg vildi þér vilduð segja, ef yður þóknast, hvaða ætlan þér hafið um, hvort nokkur munur á sér stað nú eða ekki, í trúarefnum, milli lútersku kirkjunnar á Íslandi og kirkjufélagsins, íslenzka lúterska, í Ameríku? — Sv.: Um það má eg ekki segja. Eg veit að kirkjufélagið og kirkjan á Íslandi eru á sama játningargrundvelli. Kirkjufélagið íslenzka var myndað 1885 og hefir ávalt verið óháð trúarfélag, og á engan hátt verið í sambandi við nokkurt kirkjufélag annað í landi þessu. Meðlimir íslenzka kirkjufélagsins í þessu landi hafa flestir fengið guðfræði-mentun sína á lúterska prestaskólanum í Chicagó og guðfræðiskóla General Council. Nokkurir söfnuðir, en ekki margir, hafa haldið sér í Ameríku um löng tímabil sem óháðir söfnuðir áður þeir gengu í kirkjufélagið. Þegar íslenzkur söfnuður lúterskur gengur inn í kirkjufélagið, breytist hann eftir mínum skilningi. Hann verður að lúta félagsheild kirkjufélagsins, eins og tekið er fram í grundvallarlögum kirkjufélagsins, en þau verður hver söfnuður að samþykkja um

leið og hann gengur inn í kirkjufélagið; á þann hátt verða grundvallarlög kirkjufélagsins lagabönd og söfnuðurinn er undir yfirumsjón og í lögsagnarumdæmi kirkjufélagsins. Allir söfnuðirnir, nema þeir sem inn í kirkjufélagið gengu um leið og þeir voru myndaðir, voru til sem óháðir söfnuðir, áður þeir gengu í kirkjufélagið. Enginn fulltrúi meiri hluta safnaðarins var viðstaddur þegar mál þetta var til meðferðar á kirkjuþingi, eða þegar nefndin samdi álit sitt um það. Meiri hlutinn var látinn vita með bréfi, sem eg skrifaði, að þetta mál yrði tekið fyrir, og að tækifæri yrði fyrir hann að láta frá sér heyra. Eg held að bréf þetta hafi verið lagt fram hér. — Það er satt, að kirkjufélagið eða embættismenn þess hafa látið sér mjög ant um málaferli þessi. Forseti, skrifari og féhirðir kirkjufélagsins eru hér, eða hafa verið hér að meira og minna leyti. meðan á réttarhaldi þessu hefir staðið. Málaferlin fara ekki fram undir umsjón embættismanna kirkjufélagsins. Engir samningar hafa verið gerðir um, að kirkjufélagið greiði nokkurn hluta málskostnaðar. Mér skilst, að skrifari hafi verið beðinn af lögmönnum, að koma með skjöl kirkjufélagsins. Forsetinn er hér samkvæmt beiðni lögmanna sakaraðilja. Eg held að gjaldkeri hafi einungis verið hér einn dag og að eins sem áheyrandi. Kirkjufélagið hefir lýst yfir því, að það haldi fast við fullkominn innblástur biblíunnar. Eg vil ekki að það sé skilið svo sem eg segi, að meðlimir þessa safnaðar hafi samþykt skoðanir Campbells, eins og þeim er lýst í bók hans, heldur að eins í sambandi við það, sem þeir sögðu, að þeir væri nýrri guðfræði hlyntir. Eg man, að það var sagt af Friðriki Ólafssyni, að hann héldi með nýrri guðfræði. *Eg er skilgreining séra Kristins Ólafssonar á plenary-innblæstri samþykkur. Kirkjufélagið hefir hvergi með nokkuru móti látið skjalfesta, að það játi nokkura sérstaka innblásturs-tegund biblíunnar. Það hefir ekki gert það með neinum grundvallarlögum né nokkurri trúarjátningu sinni, en það var skilningur kirkjufélagsins.* Eg veit ekki af neinni yfirlýsingu á undan yfirlýsingu Friðjóns Friðrikssonar 1909, þar sem þetta var tekið fram. Mér skilst sú yfirlýsing merkja að kirkjufélagið hafni rétti einstaklingsins til að hefja trúarhugmyndir sínar upp yfir heilaga ritningu. Hver sem hafnar nokkurum kafla ritningarinnar, gerir sig með því útlaga lúterskrar kristni. Þegar einstaklingurinn hefir fyrir sér guðs orð eins og það er í ritningunni og reynir að skýra það, til þess að skilja það, og nota sjálfur, er honum ekki, eftir kenningu kirkjufélagsins, bannað að nota hugsan sína og skilning, að því er merkingu ritningarinnar snertir. Verði ritningargrein fyrir honum, sem mannleg reynsla og vísindalegar ályktanir nútímans virðast brjóta algerðan bág við, getur hann ekki neitað innblæstri þess kafla eða nokkurs annars í heilagri ritningu. Kirkjufélagið leyfir hverjum manni ofurlítið svigrúm í skilningi þess og skýrngu, sem hann les í heilagri ritningu. Stofnandi lúterskrar kirkju, Lúter, var ekki skynsemistrúarmaður. Mér hefir ávalt skilist, að hann hafi samþykt hvern ritningarkafla sem innblásinn. Mér hefir skilist það af ritverkum hans. Það er engin kirkjufélagssamþykt í þá átt, að hver sem neiti að játa sérhvern kafla biblíunnar, verði trúvillingur frá lúterskri trú. Það hefir látið skjalfesta, að það neitar rétti einstaklingsins til að hefja eigin skoðan sína yfir heilaga ritningu, eða hafna nokkurum kafla hennar sem innblásnum. *Sú kenning kannast ekki við líkindi til þess, að villur hafi verið í frumhandritunum.* Einstaklingur,

sem í dag er að eiga við biblíuna og rekst á eitthvað af þessu, sem hann getur ekki skilið, er samkvæmt þessari skýringu til þess skuldbundinn að álykta, að þetta sé ekki hin rétta mynd frumhandritanna. — Sp.: Plenary-innblásturskenningin neyðir einstaklinginn til að trúa, eftir því sem mér skilst, að hve nær sem biblían segir, að drottinn hafi sagt svo eða svo, eða gefið eitt eða annað boðorð, hafi hann í raun og veru talað svo eða gefið það boðorð. Er það rétt? — Sv.: Ef drottinn talaði svo, þá talaði hann svo. Eg ímynda mér, að skoðan einstaklingsins eða skilningur myndi varpa miklu ljósi yfir það, þegar það er skýrt og skilið samkvæmt upphaflegri merkingu málsins. Kenningin leyfir rannsóknum nútímans að varpa hliðarljósi yfir. Það er engin kirkjufélagssamþykt um ritningarstaðinn, sem segir, að Jósúa hafi skipað sólinni að standa kyrri. — Sp.: Ef einn kunningi okkar í bændahópi hér í Vestur-Pembina-county, rekst á þenna ritningarstað, og í ljósi rannsókna nútímans segði við sjálfan sig, að hann hefði rétt til að hafna þessu sem einum hluta guðs innblásna orðs, myndi hann verða trúvillingur frá lút. trú, samkvæmt nokkurri samþykt eða yfirlýsingu frá kirkjufélagi yðar? — Sv.: Orðið trúvillingur hefir ekki verið viðhaft í þessu sambandi í nokkurri samþykt eða yfirlýsingu kirkjufélagsins. — Sp.: Gott og vel, svarið þér því nú. Myndi hann samkvæmt skilningi kirkjufélagsins í þessum efnum hætta að vera lút. kristinn maður? — Sv.: Eg get ekki gefið neinn ákveðinn úrskurð um það. *Eg veit ekki um neinn opinberan úrskurð kirkjufélagsins, þar sem bóndi á hlut að máli.* — Sp.: Þér skáruð þó ekki svona úr 1910, einmitt í þessu máli? — Sv.: Eg verð að segja, að hann eða hver annar maður hyrfi frá kenningunni um innblásturinn, sem játuð er. — Sp.: Er þá skilningur yðar á stefnu kirkjufélagsins sá, að það sé satt, að sólin hafi staðið kyr við þetta tækifæri í hlýðni-skyni við skipan Jósúa? Er það rétt? — Sv.: Eg get ekki svarað spurningunni með jái eða neii. — Sp.: Svarið henni á hvern veg sem yður sýnist. — Sv.: Eg vil taka fram, að í þessu efni um kyrrstöðu sólarinnar vitum við allir að orðin eru notuð eftir merkingu þeirra á þeim dögum. Þau merkja ekki endilega að sólin hafi orðið fyrir nokkurum áhrifum, eða að kraftaverk hafi verið framið, sem hafði þetta í för með sér. Það er hið sama og vér gætum sagt, að engin sólrás hafi verið. Það orðalag var notað í ritningunni, eins og vér gerum þann dag í dag. Þetta er nú einungis mín eigin skoðan, og kirkjufélagið ber enga ábyrgð á þessum ummælum. — Sex söfnuðir hafa sagt sig úr kirkjufélaginu síðan 1909 og nýlega hefir Morden-söfnuður sagt sig úr og úrsögn hans og þessara sex annara hefir verið viðurkend af mér.

---

Málið kom aftur fyrir rétt í Grand Forks, Norður-Dakota, 2. dag októbermánaðar 1911. Þá var séra Björn yfirheyrður á ný.

Gagnspurður af

*Barða Skúlasyni,*

lögmanni sakborninga.

Síðan er mál þetta var síðast fyrir rétti, hefir kirkjufélagið setið á kirkjuþingi. Það var haldið í Winnipeg síðastliðinn júní. Á því kirkjuþingi var það tekið til greina, að málaferli þessi væri fyrir dómstólunum, og það gerði þá samþykt, að skora á erindreka safnaðanna að gang-

ast fyrir frjálsum samskotum, sakar-aðiljum til aðstoðar við greiðslu málskostnaðar, þar sem þeir eru meðlimir kirkjufélagsins. Sérstök nefnd man eg ekki hvort kosin var í þessu máli. Eftir að eg hefi nú lesið á bls. 37 í Gjörðabók síðasta kirkjuþings í Winnipeg skal eg kannast við, að kirkjufélagið samþykti yfirlýsingu, þar sem það var sagt, að efni til, að það tækist á hendur, að veita sakaraðiljum liðsinni í máli þessu og mælti með því, að peningum væri safnað, eins og eg hefi tekið fram. Mér skilst, að sakaraðiljar þessa máls haldi því fram, að skilningur þeirra í þessum ýmsu ágreiningsatriðum, sé skilningur kirkjufélagsins. — Spurning: Eg ætla nú ekki að spyrja yður, séra Björn, um eigin persónulegar skoðanir yðar, en um það, sem þér vitið að er skilningur kirkjufélagsins í ákveðnum atriðum, — frá því sjónarmiði, að það sé skilningur sakaraðilja máls þess. Séra Björn, eru ýmsar innblásturstegundir eða kenningar viðurkendar með kristnum mönnum? — Svar? Get ekki svarað með já, eins og þetta er framsett. Tegundir og kenningar er sitt hvað. — Sp.: Sleppið orðinu tegund, séra Björn, og hugsið um orðið kenning að eins. — Sv.: Eg skal taka fram, að kristnir menn skoða þessa kenningu eins og svo margar aðrar kenningar kristinnar trúar frá ýmsum sjónarmiðum og skilgreina þær ekki allir á sama hátt. — Sp.: Eg held við séum ekki neinu nær. Svarið spurningum mínum eins blátt áfram og þér getið, séra Björn, ef yður þóknast. Er innblásturs-kenning til, sem nefnd er ósjálfráður (mechanical) innblástur biblíunnar? — Sv.: Eg held það sé nefnd tegund en ekki kenning. — Sp.: Er kenningin um ósjálfráðan innblástur biblíunnar viðurkend af lút. kirkju? — Sv.: Ekki eftir því sem eg skil ósjálfráðan innblástur. Mér skilst það vera innblásturs-tegund, þar sem því er haldið fram, að hinir helgu höfundar hafi glatað persónuleik sínum og sjálfvitund — hafi orðið eintóm verkfæri í hendi guðs, svo að þeir hafi orðið eins og penninn í hendi höfundar, en að persónuvitund þeirra ætti engan þátt í því er þeir rituðu. Þessi skýring er ekki sú viðtekna skýring eða kenning um innblástur í lút. kirkjunni. Eg hefi aldrei heyrt um innblásturs-kenningu, sem nær til hagganna og depil-hagganna. Eg get ekki sagt neitt um lestrarmerkin, heldur orðin. — Sp.: Eg held þér hafið þegar skýrt fyrir réttinum kenninguna um fullkominn (plenary) innblástur. Er það kenningin, sem kirkjufélagið heldur fram? — Sv.: Kirkjufélagið hefir aldrei viðtekið neitt guðfræðilegt heiti opinberlega í játningu sinni. Heitin plenary-, bókstafs- og andakraftsinnblástur eru einnig notuð í ólíkum merkingum af ýmsum kennurum, ef eg má taka það fram. Og eg held það sé skilningur innblásturskenningarinnar, fremur en nafnið, sem henni er gefið, sem vér kirkjufélagsmenn leggjum áherzlu á. Eg man eftir svo nefndri yfirlýsingu Friðjóns Friðrikssonar, sem samþykt var 1909 og minnist þessara: „Aftur á móti lýsir kirkjufélagið yfir því, að það haldi fast við þá játningu kirkjufélagsins, að öll ritning sé guðs orð, áreiðanlegt og innblásið.“ *Það kalla eg fullkominn innblástur. Aðrir geta kallað það öðrum nöfnum.* Eg veit ekki hvort kenningin eða innblásturs-tegundin, sem heldur því fram, að biblían sé að eins að nokkuru leyti innblásin, getur gjört tilkall til að kallast tegund, en það eru sumir, sem halda því fram, að biblían sé innblásin að eins að nokkuru leyti; sumir kaflar hennar. Sjálfur hefi eg samið og flutt fyrirlestur um þetta efni: Innblástur biblíunnar. Flutti hann á kirkjuþinginu í Hallson 1899. Eg held

að í fyrirlestrinum sé minst á þessa hugmynd um innblástur að nokkuru leyti (partial). Það er satt, að kirkjuþingið, sem um er að ræða, hefir aldrei samþykt biblíu-innblásturs-kenningu eða tegund ‚að nokkuru leyti'. Með innblæstri *að nokkuru leyti* á eg við þá tegund, að sumir partar biblíunnar sé innblásnir en aðrir ekki. Eg ímynda mér, að þeir, sem halda þeirri kenningu fram, hljóti að trúa því, að þessir partar kanóniskra bóka, sem þeir trúa, að sé innblásnir, hafi guðs orð að geyma, og að það sé ekki í hinum öðrum pörtum, sem þeir álíta ekki innblásna. Að því er snertir fullkominn biblíu-innblástur og rannsóknir vorra tíma, að það geti stundum rekist á, þá vil eg taka það fram sem persónulega skoðan mína, — mína persónulegu trú, — að eg álít ekki, að biblían og vísindin mundu nokkuru sinni rekast á, sé hvort um sig rétt skilið, en að ósamkvæmni sýnist koma fram vegna takmarkaðrar þekkingar mannsins á öðru hvoru. Það er mín trú. Takmörkuð þekking mannsins annað hvort á vísindum eða guðs orði (kemur því til leiðar). Frá sjónarmiði fullkomins innblásturs, hefir einstaklingurinn vissulega guðs orð í kanóniskum bókum. En sem einstaklingur verður hann að skilja það rétt, til þess að komast að réttri merkingu þess. — Sp.: Það er að segja, hann verður að beita rannsókn trúarvitundar sinnar við kanónísku bækurnar? — Sv.: Alls ekki. Kanónísku bækurnar eru algild og fullkomin trúarregla fyrir einstaklinginn, þegar hann er að leita að guðs orði. — Sp.: Beri hann þá saman opinberan guðs orðs í kanónísku bókunum og vísindalega rannsókn nútímans, er hann þá í nokkurum vafa um hvað sé guðs orð?—Sv.: Ekki um, hvað sé guðs orð. En mannlegur breyskleiki er svo mikill, að honum er torvelt að skilja hið óendanlega og hafa fullkomna hugmynd um guð. — Sp.: Einmitt. Hann verður að taka við opinberaninni, með eigin hugsan sinni og éigin vitund, er ekki svo? — Sv.: Kennng lút. kirkjunnar í þessu efni og trú mín er, að enginn maður geti af sjálfs dáðum eða eigin ramleik eða af sjálfum sér trúað, heldur sé honum einungis gefin náð til að gjöra það af guði, heilögum anda, gegn um orðið og sakramentin. — Sp.: Hver á að skera úr, þar sem einstaklingurinn á hlut að máli og hvorttveggja þetta er tekið til greina, hvort ósamræmi eigi sér stað? — Sv.: Guðs orð verður ávalt að skera úr fyrir trúaðan mann. — Auk hinna kanónísku bóka, sem gundvallarlög kirkjufélagsins og safnaðarins tala um, hafa nokkurar nýjar þýðingar af biblíunni apókrýfiskar bækur líka. Helgiritasafnið (kanon) eins og það er kallað, hefir fengið núverandi mynd við gagngerða og nákvæma starfsemi kirkjunnar. Sú saga er svo löng, að eg get ekki án þess að glöggva minni mitt við lestur í kirkjusögu sagt hana nú í bili. En eg get sagt það, að þessar kanónísku bækur, sem eru í biblíunni, hafa verið á ýmsum tímum valdar af kirkjunni út úr hópi annara bóka og svo verið hafnar og kornar til þeirrar tignar að vera guðs orð. Vitaskuld varð kirkjan að framkvæma þetta með mannlegri hugsan, er hún gerði þetta úrval. *Þegar eg tala um guðs orð, eins og það er opinberað í kanóniskum bókum, er vitaskuld átt við frum-handritin og þýðingar, sem gerðar hafa verið eftir þeim.* Það eru margar þýðingar frumritanna og margar almennar þýðingar biblíunnar og það er satt, að allar þessar mörgu þýðingar eru hver annari meira og minna ólíkar að orðalagi. — Sp.: Eg held eg haldi hér í hendi mér síðustu þýðingunni, sem gerð var af amerísku endurskoðunar-nefndinni 1901. Er það ekki satt, að sú endurskoðan sé

víða fráhverf og breytt frá hinni gömlu endurskoðan frá 1611, sem kend er við Jakob konung? — Sv.: Að máli og orðalagi er hún það vafalaust. — Sp.: Það sem eg er að reyna að komast að er þetta: Í allar þessar aldir hefir mannleg hugsan, með þessi frumrit fyrir sér, verið að leitast við að komast að sannmerkingu þeirra, og ýmsir menn hafa komist að ýmislegri niðurstöðu, að því er snertir orðalag að minsta kosti. Er það ekki satt? — Sv.: Við þýðinguna? — Sp.: já? — Sv.: Já, að því er til þýðingar kemur, eftir því sem mér skilst, er hún sömu lögum undirorpin og aðrar bækur. — Sp.: Og sömu breyskleikum og ófullkomleikum mannlegs anda og skilnings? — Sv.: Þýðingin, já. — Sp.: En samkvæmt kenningunni um fullkominn innblástur, sem kirkjufélagið fylgir, þá eru frum-handritin innblásið guðs orð? — Sv.: Og það er biblían á öllum málum. — Sp.: Ýmsum ófullkomleikum þýðinganna eftir frum-handritunum undirorpin? — Sv.: Já. — Engin kirkjufélags-samþykt hefir verið gerð um nokkura sérstaka þýðingu biblíunnar. Hið eina, sem það hefir gjört, er að reyna að fá nokkuð leiðrétt í síðustu biblíu-þýðing frá 1908, og hefir hafið andmæli gegn þýðingunni í sumum atriðum. .... Því var haldið fram, að sumar þýðingarnar væri ekki réttar. Kirkjufélagið eða nefnd vildi bera sig saman um þetta við endurskoðunar-nefndina á Íslandi og Brezka og erlenda bibíufélagið í London, sem gaf þessa endurskoðan ritningarinnar út. Og nefndin á Íslandi bauðst mjög vinsamlega til að veita bendingum frá oss viðtöku og baðst eftir þeim, enda hefir hún þær nú til íhugunar. Eg veit ekki vel hver árangurinn verður í þeirri útgáfu, sem nú er von. Hún á að koma út á komandi vetri, að mér skilst. — Sp.: Til þess nú aftur að tala um kenninguna um fullkominn innblástur og skilning kirkjufélagsins. Setjum nú svo, að meðlimur safnaðar, sem heyrir kirkjufélaginu til, lendi í stríði við kirkjufélagið út af því, hvort tilteknir kaflar biblíunnar sé guðs orð eða ekki. Eftir hverju verður farið, þegar skorið er úr þeirri þrætu? — Sv.: Mér skilst að spurt sé um einstakling í söfnuðinum og hvað kirkjufélagið þá mundi gera? — Sp. Já. — Sv.: Kirkjufélagið hefir felt þann dóm, að meiri hluti þessa Eyfjörð-safnaðar hafi vikið frá játningunum —— Setjum svo, að einhver meðlimur meira hlutans, sakborninganna í máli þessu, notaði sér réttinn, sem þeir gera kröfu til og hafni tilteknum köflum biblíunnar og að þetta mál komi fyrir Kirkjufélagið og það komi til þess kasta að skera úr um, hvort hann sé trúvillingur eða ekki, — þá verður úrskurðurinn með tilliti til biblíunnar sjálfrar. Í hversdagslegum efnum, vafamálum, sem fyrir kunna að koma aftur og aftur, — í ágreiningsefnum út af biblíunni, getur hvorki kirkjan né einstaklingurinn farið í frumhandritin. Þeir verða að nota þær endurskoðuðu biblíuþýðingar, sem eru á gangi. — Sp.: Ef einhver þessara sakborninga væri að nota réttinn til að velja og hafna, eins og þeir komast að orði, og skyldi segja, að eitthvað í þessari þýðingu frá 1901, skulum við segja, af kanóniskum bókum biblíunnar, sé ekki guðs orð eftir hans skilningi, yrði hann þá ekki dæmdur sekur um trúvillu vegna þess hann gæti ekki verið samþykkur þessari þýðingu kanónísku bókanna? — Sv.: Sem meðlimur kirkjufélagsins eða einhvers safnaða þess væri hann bundinn kanónísku bókunum, sem kirkjufélagið og söfnuðir þess hafa samþykt. — Sp.: Það er að segja þýðingunum, vitaskuld, og ekki frumhandritunum? — Sv.: Já, vissulega. — Sp.: Er það þá ekki satt, séra Björn,

að í öllum slíkum tilfellum verðið þér að fara eftir skýringum, sem mannsandinn hefir gert á guðs orði? — Sv.: Skýring á guðs orði, sem mannsandinn hefir gert, er ekki óskeikul og er ekki ábyggileg fyrir einstaklingana, skilji eg spurninguna rétt. — Sp.: Já, en alt sem þér hafið fyrir yður í fyrstu þýðingunni, skulum við segja, af frumhandrit unum var skýring, sem þessir þýðendur gerðu við guðs orð eins og það var í frumhandritunum? — Sv.: Já. — Sp.: Og alt, sem þér hafið fyrir yður í endurskoðaninni frá 1901 er skýring vitrustu manna, skulum við segja, og beztu þekkingar aldarinnar, sem gerð hefir verið við þessi ósénu handrit? — Sv.: Eg veit ekki, hvort vitrustu menn aldarinnar hafa fengist við þá sérstöku útgáfu, sem þér eigið við. — Sp.: Þetta er feluleikur. Því svarið þér ekki spurningum mínum? — Sv.: Eg er að reyna það. — Sp.: Setjum nú svo, að einhver þýðendanna hafi gert mikil misgrip í þýðingunni frá frumhandritunum á einhverjum mikilvægum biblíukafla og setjum, að einstaklingurinn komi fram og segi: "Eg nota rétt samvizku minnar til að hafna þessum kafla sem guðs orði." Yrði þá ekki um leið lýst yfir því, að hann væri ekki í samræmi við kirkjuna, sem viðtekið hefði þýðingu þessa sem trú sína? — Sv.: Réttur einstaklingsins til þess að rannsaka, hvort þýðingar sé réttar, hefir aldrei verið véfengdur. Eg þekki ekki gömlu þýðingarnar á 2. Mós. 34,29, sem þér bendið mér á í þýðingunni frá 1901, *sem tala um Móse, er hann kom með töflurnar ofan af fjallinu, og hafði ekki vitað af ,að hann hafði horn.* Og eg hefi aldrei heyrt, að Mikael Angeló myndasmiðurinn mikli, hafði gjört standmynd af Móse, er sýni hann *með hornum* og bygt það á þessum ritningarstað. — Sp: Setjum nú svo að þetta sé rétt, — að biblíuþýðing hafi sagt, að Móse hafi haft horn á höfði sér, er hann kom niður af fjallinu, og setjum svo, að einn þessara sakborninga, er hann notaði rétt sinn til að velja og hafna, hefði sagt: „Eg trúi þessu ekki. Eg held þetta sé ekki guðs orð. Væri hann þá ekki samkvæmt kenningum kirkjufélagsins og samkvæmt kenningunni um fullkominn inblástur, trúvillingur? — Sv.: Kirkjufélagið hefir ekkert sagt og ekkert gjört, sem gefur mér átillu til að svara, hvað gert yrði í slíku ímynduðu tilfelli, nema að svo miklu leyti sem eg hefi tekið fram, að hver maður hafi vissulega réttinn til að rannsaka, hvort rétt sé þýtt. — Sp.: Gefið þér samvizkufrelsi einstaklingsins nokkurt svigrúm í skýringu ritningarinnar? — Sv.: Við hvetjum til rannsókna textans og þýðinganna. En þegar búið er að ná fullri vissu um guðs orð og það hefir verið ákveðið kanóniskt, þá getur maður ekki hafnað því. — Sp.: Ákveðið kanóniskt af einhverju kirkjuþingi, er ekki svo? — Sv.: Ákveðið kanóniskt eftir þeirri reglu, sem farið var eftir, þegar kveðið var á um, hvað heyrði helgiritasafni biblíunnar til og viðtekið hefir verið allar þessar aldir. — Sp.: Við skulum láta þetta verða ljóst. Svo er eg búinn með það. Setjum nú að það sé satt, að gömul þýðing hafi verið í þá átt, að Móse hafi haft horn, og að rannsóknir nútímans og þekking hefði ekki breytt þeirri þýðingu þann veg sem hún nú er: „Geislar stóðu af andlitshörundi hans", eins og stendur í síðustu endurskoðan biblíunnar þann dag í dag. Setjum nú svo, að einn þessara sakborninga kæmi til kirkjufélagsins og segði: „Eg áskil mér réttinn til að hafna þessu sem eigi innblásnu guðs orði." Myndi hann ekki samkvæmt kenningunni um fullkominn innblástur í sama bili verða yfirlýstur trúvillingur? — Sv.: Eg get ekki svarað

spurningunni. Ef eg má bæta því við, þá gerir hún ráð fyrir ímynduðu tilfelli, svo langt frá öllu, sem nokkuru sinni hefir átt sér stað í kirkjufélaginu, að eg get ekki svarað. — Sp.: Ef við skoðum þetta, sem eg hefi nú verið að spyrja um, sem gott dæmi upp á aðra kafla biblíunnar, sem sumir menn með gagnrýni sinni segja að ekki sé guðs orð, getur nú nokkur samkvæmt kenningu kirkjufélagsins hafnað nokkuru af þessu sem eigi innblásnu og samt sem áður haldið áfram að vera lúterskur maður? — Sv.: Maður, sem hafnar nokkurum kafla ritningarinnar, yrði ekki álitinn lúterstrúarmaður.

Frumspurður annað sinn af
*Birni Gíslasyni,*
lögmanni sakaraðilja.

Eg veit ekki um neina lúterska kirkju, sem heldur fram kenningunni um ósjálfráðan innblástur, eins og eg skilgreini hann hér á vitnapallinum. Hún hefir aldrei verið játuð af kirkjufélaginu eða af nokkurum söfnuði þess, að minni vitund. Eg get sagt fullri vissu, að enginn ísl. lút. söfnuður í Ameríku hefir nokkuru sinni fylgt slíkri kenningu, og eg veit ekki um neina lút. kirkju, sem hefir að játningum almennu játningarnar, Ágsborgar-játningu og Fræði Lúters hin minni, sem hefir nokkuru sinni játað kenninguna um innblástur biblíunnar að nokkuru leyti (partial). Sú kenning hefir aldrei verið viðurkend í kirkjufélaginu. Lúterska kirkjan hefir fengið helgiritasafnið eða kanónísku bækurnar að arfi. Í lút. kirkjunni hefir ekki verið efast um rétt bókanna til að heyra helgiritasafninu til, og eg hefi aldrei heyrt, að um það hafi verið efast alla síðustu öld.

Kirkjufélagið hefir aldrei fyrirskipað söfnuðum sínum neina sérstaka endurskoðan ritningarinnar. Það hefir haft á móti sumum þýðingum. Það hefir aldrei bundið neina söfnuði sína. Það var sumum þýðingum útgáfunnar frá 1908 andstætt. Þýðing þeirrar útgáfu var gerð af Haraldi Níelssyni, prófessor við guðfræðisdeildina á Íslandi, sem var helzti þýðandinn og gerði mest af verkinu með aðstoð hinna kennaranna, biskupsins og annara. Eg veit ekki um neinar verulegar breytngar á þýðingum seinni ára, nema þessari nýju þýðingu frá 1908. Eg segi að mismunurinn á þessum ýmsu útgáfum sé að mestu fólginn í orðalagi og orðamun. Þýðingu þessari, sem þessi Haraldur Níelsson gerði, var andæft af kirkjufélaginu. Í ágreiningi þeim, sem upp kom í kirkjufélaginu 1909 var ekkert sagt um þessar biblíuþýðingar.

Gagnspurður af nýju af
*Barða Skúlasyni,*
lögmanni sakborninga.

Eg held ekki, að Missouri-sýnódan álíti, að hún fylgi kenningunni um ósjálfráðan innblástur. Það var sú tíð, að álitið var að þeir fylgdi þeirri innblásturs-tegund, en það sýnist sem þeir sé að gjöra það ljóst á síðari árum, eða hafi vilja á, og vilji ekki láta skoða það svo sem sé þeir fylgjandi ósjálfráðum innblæstri. — Eg tek eftir því, að í þessum fyrirlestri í Aldamótum 1899, bls. 63, á eg við það sem eg benti á fyrir litilli stundu, sem ríkjandi skoðan fyrir nokkurum árum, að þeir fylgdi þeim skilningi. Eg sagði þar að efni til, að þessi kenning væri að hverfa

og að í lút. kirkjunni hefði hún ekki verið viðtekin nema í einni deild hennar í Ameríku, Missouri-sýnódunni

### 3. Prófessor Ness,
vitni sakaraðilja.

Frumspurður af
*Árna B. Gíslasyni,*

Eg er fæddur í Noregi 1853. Fékk skólamentan að nokkuru leyti í Noregi, en að mestu í Ameríku. Eg var fermdur í lút. kirkjunni í Noregi. Fluttist til Ameríku 1872, til Jowa-ríkis. Gekk sex ár í latínuskólann í Decorah og þrjú ár í guðfræðisskólann í Madison, Wisconsin. Útskrifaðist frá Decorah og fékk vottorð um fullnaðarpróf í Madison. Eg heyri norsku Sameinuðu kirkjunni lútersku til í Ameríku. Guðfræðin hefir verið æfistarf mitt. Eg tók prestsvígslu 1883 og tók þegar við prestsembætti. Hefi verið prestur í 28 ár. Eg er forseti norska lúterska mentaskólafélagsins í Moorehead og kennari í biblíufræðum við þann mentaskóla. Á heima eins og stendur í Moorehead. — Spurning: Hverju heldur Sameinaða lúterska kirkjan fram um innblásturinn? — Svar: Sameinaða norska kirkjan lúterska hallast í áttina til kenningarinnar um plenary-innblástur, að því er innblásturs-kenninguna snertir. Plenary merkir fullkominn innblástur, — fyllilega innblásin; að ritningarnar sé fyllilega innblásnar. — Sp.: Leyfir kirkjufélag yðar meðlimum sínum að hafna köflum kanóniskra bóka ritningarinnar sem óinnblásnum? — Sv.: Nei. — Sp.: Álítur yðar kirkjufélag það fráhvarf frá játningunum? — Sv.: Já. — Eg hefi séð orðtækið „hugsanafrelsi“ (right of private judgment) í veraldlegum efnum. Frá lútersku sjónarmiði merkir það, að eg hafi rétt sem einstaklingur og mannvera, til að beita dómgreind minni og fella dóm um hluti á svæði mannlegrar skynsemi. Eftir þekkingu minni á kirkjusögu og þekkingu minni á Lúter, hélt hann því fram, að hann hefði rétt til frjálsrar rannsóknar, undir úrskurðarvaldi biblíunnar, eins og tekið er fram með eigin orðum hans á ríkisdeginum í Worms, þegar hann var krafinn sagna í þessu efni: „Nema eg sé sannfærður með ritningunni og ljósum og skýlausum rökum, get eg ekki tekið neitt aftur.“ Þar skipar hann sér undir úrskurðarvald guðs orðs, og það er meginregla hans. Hann hélt því aldrei fram, að rétturinn til að dæma um, hvað væri guðs orð, væri hið innra hjá honum, eða að hann eftir að ákveðið hafði verið um helgiritasafnið, gæti dregið vafa á ritvissu (authenticity) biblíunnar á nokkurn hátt. Hann hélt því fram, að allar hinar kanónísku bækur ritningarinnar, væri innblásið guðs orð og hið æðsta lögmál. Í formála að latnesku riti eftir hann, sem nefnist: Nauðsynleg og kristileg heiti, gerir hann þann glögga greinarmun: „Guðs orð eitt er og á að verða eini mælikvarðinn og reglan, sem ritverk engis manns ætti að skoða jafngild, en í öllum efnum lúta.“ Þetta eru ummæli Lúters um þetta efni. Helgiritasafninu er löngu lokið. Eg er handgenginn Ágsborgarjátningu, Minni fræðum Lúters og almennu játningunum. Þau gera ráð fyrir innblásturskenningunni, telja hana sjálfsagða; af þeirri ástæðu er ekkert um innblásturinn sagt í þessum skilríkjum. Það er alment játað í lúterskri kirkju, að gert hafi verið ráð fyrir þessu um biblíuna alla og að hún sé öll

innblásin. Þessar játningar gilda í Sameinuðu kirkjunni lútersku. — Sp.: Má eg spyrja yður, hvort þær eru skoðaðar lagabönd í þeirri kirkjudeild? — Sv.: Já. — Eg heyrði ummæli séra Friðriks Bergmanns í þá átt, að játningarritin í mótmælendakirkjunni sé álitin einungis leiðbeiningar en ekki lagabönd. Það er ekki hin rétta afstaða mótmælendakirkjunnar. Eg hefi aldrei orðið þess var í störfum mínum og reynslu sem guðfræðingur að slíku væri haldið fram af lútersku kirkjunni. Orðtækið trúarvitund hefi eg ekki orðið var við að mikið sé notað í guðfræðilegu máli. Eg skoða það naumast guðfræðilegt orðtæki. Trúarvitund — þar eru tvö orð fléttuð saman. Eg skoða það sálarásigkomulag, þegar hugurinn vaknar til vitundar um sjálfan sig og hlutina í kring. Það kalla eg vitund.. Þegar eg tengi trú við vitund, verður merkingin, að hugur minn vaknar til ákveðinnar hugmyndar um einhverja ákveðna hluti, sem eg gæti ímyndað mér að væri eitthvað fyrir ofan mig, eða hærra heldur en eg sem eg ber eins konar lotningu fyrir. Það verður þá trú mín eða trúarvitund. En gætið þér að, þetta álít eg að ekki snerti svæði kristindómsins. Það má tala um trúarvitund Kínverjans eða Búddatrúarmannsins, Múhameðtrúarmanns eða Afríkumanns, því mörg eru trúarbrögðin. Eg álít að kristileg meðvitund sé sérfræðilegt orð í kirkjunni. Eg mundi leggja áherslu á einkunnina k r i s t i n n fremur en t r ú. Það merkti þá að vöknuð meðvitund vaknaðs hugar sé nú vitandi um hluti í sambandi við Krist og kristindóminn, — veit eitthvað um þá, trúir eða játar að meira og minna leyti, — hafi kristilega meðvitund, sem leiðbeint er af því, sem þeir hafa þegið af Kristi. Eg veit að orðtækið 'testimonum spiritus sancti er notað í guðfræðibókum. Það merkir ekki hið sama og trúarvitund, hefir ekki líka merkingu. Það merkir hinn sjálfgilda vitnisburð guðs anda til mannsins. Orðtækið trúarvitund er hið gagnstæða, eitthvað í manninum, hugrænt. Biblían bindur Sameinuðu kirkjuna í landi þessu við trúarkenningar sínar. Sérhver söfnuður hefir grundvallarlög, sem skipa fyrir um trúarkenningar, og kirkjan líka. — Sp.: Eg ætla að lesa fyrir yður, prófessor Ness, 2. lið 2. greinar í grundvallarlögum Þingvalla-safnaðar: „Söfnuðurinn játast undir lærdóma heilagrar ritningar á sama hátt og lúterska kirkjan á Íslandi í trúarjátningarritum sínum.“ Hvað álítið þér að þetta merki sem guðfræðingur? Að minni hyggju merkir þetta, að Þingvalla-söfnuður játast undir sömu játningarrit og kirkjan á Íslandi og ekkert meir. Hér er yfirlýsing, sem samþykt var af meiri hluta Þingvallasafnaðar, og lögð hefir verið fram í réttinn, 5. júní 1910, þegar hann sagði sig úr kirkjufélaginu: „Söfnuðurinn neitar því, að trúarvitund mannsins hafi ekki vald til að velja og hafna, þó um heilaga ritningu sé að ræða, en í valdi felst vitanlega úrskurðarvald.“ Nú vil eg spyrja yður, hvort þér álítið, að söfnuður, er samþykti slíka yfirlýsingu, breytti í samræmi við trúarkenningu lúterskrar kirkju, er hefir þau játningarrit, sem eg hefi tekið fram? — Sv.: Nei, hann gerði það ekki. — Sp.: Breytti söfnuður með því að samþykkja slíka yfirlýsingu að yðar hyggju samkvæmt 1. lið 2. greinar í grundvallarlögum Þingvallasafnaðar, sem eg er rétt búinn að lesa yður? — Sv.: Ekki að minni hyggju. — Sp.: Álítið þér slíka samþykt fráhvarf frá trúnni af safnaðarins hálfu? — Sv.: Já. Sp.: Álítið þér slíka breytni fráhvarf frá trú allra lúterskra kirkna, sem hafa þessar játningar? — Sv.: Já. — Sp.: Væri söfnuður, sem álítur einhverja kafla kanóniskra bóka

ritningarinnar ekki innblásna, heldur ósanna og óáreiðilega, í samræmi við trúarjátning Þingvalla-safnaðar, eins og fram er tekið í grundvallarlögum hans? — Sv.: Nei. — Sp.: Viljið þér kalla það fráhvarf frá trú af safnaðarins hálfu? — Sv. Já.

Gagnspurður af
*Barða G. Skúlasyni.*

Lúter segir, að hann beiti einstaklings dómgreind sinni, háður biblíunni. Eg hefi ekki séð, að hann hafi komist svo að orði: „Bækur konunganna eiga það betur skilið, að þeim sé trúað en Kronikubækurnar." Veit ekki, hvort hann hefir komist svo að orði: „Mér er svo illa við Esterarbók, að eg vildi, að hún væri ekki til, því hún er of gyðingleg og hefir meðferðis heilmikið af heiðinglegum ósóma." Eg hefi ekki séð þetta eftir hann: „Job talaði þess vegna ekki eins og stendur í bók hans, en hefir haft þvílíkar hugleiðingar." — „Það er eintóm dæmisögu rökfærsla (a r g u m e n t u m f a b u l a e)." — „Það eru líkindi til að Salómó hafi samið og ritað bók þessa." Eg er ekki reiðubúinn til að neita því, að þetta standi í Borðræðum Lúters. Sp.: „Á þann hátt hefir orðskviðum Salómós verið safnað af öðrum, teknir af vörum konungsins, er hann mælti þau fram við borðið eða annars staðar. Og þeir orðskviðirnir hafa glögg einkenni, þar sem hátign konungsins og speki eru augljósust." Sagði hann þetta? — Sv.: Það eru mörg ár síðan eg las Borðræðurnar, og eg get ekki munað, að eg hafi lesið þetta. — Sp.: Sagði hann þetta um Prédikarann: „Þessi bók hefði átt að vera nákvæmari; það er of mikið af sundurlausu efni í henni; hún hefir hvorki stígvél né spora, en ríður að eins í sokkum, eins og eg, þegar eg var í klaustrinu. Salómó hefir þess vegna ekki ritað þessa bók, sem færð er í letur á dögum Makkabea af syni Síraks. Henni er eins og Talmud safnað úr mörgum bókum, ef til vill á Egiftalandi úr bókasafni Ptolemeus Evergetes konungs." Hafið þér rekið yður á þetta í borðræðum Lúters? — Sv.: Nei, eg hefi ekki séð það. — Sp.: Viljið þér segja, að það sé þar ekki? — Sv.: Nei, eg vil ekki segja það. — Sp.: „Jesaja hefir tekið alla list sína og þekkingu að láni frá Davíð, úr sálmunum." Hafið þér séð þetta í verkum Lúters eða í Borðræðum hans? — Sv.: Ekki svo eg muni. — Sp.: Viljið þér neita því, að það sé þar? — Sv.: Nei. — Sp.: „Móse og Davíð eru tveir stærstu spámennirnir. Það sem stendur hjá Jesaja er tekið frá Davíð og hinir spámennirnir fara eins að." Eg legg sömu spurninguna fyrir yður þessu viðvíkjandi. — Sv.: Eg get ekki munað, að eg hafi séð þetta. — Sp.: „Sagan um Jónas spámann er svo afskapleg, að hún er gersamlega ótrúleg." Hafið þér séð þessi ummæli eignuð Lúter? — Sv.: Nei, eg hefi ekki séð það. — Sp.: Viljið þér neita, að hann hafi komið fram með þau? — Sv.: Eg get ekki neitað því. — Sp.: „Að Hebreabréfið sé ekki eftir Pál postula, né eftir nokkurn postulanna, sést á 2. kap. 3. v. Það er eftir einhvern ágætlega vel lærðan mann, lærisvein postulanna. Það ætti ekki að hneyksla neinn, þótt í því finnist blendingur af við, hálmi og heyi." Kannist þér við þessi ummæli? — Sv.: Nei. Eg man ekki til að eg hafi heyrt, að Lúter segði þetta um Jakobsbréf: „Jakobsbréf álít eg, að sé ekki rit neins postula." Eg hefi lesið þetta: „Jakobsbréf er sannarlega hálmbréf í samanburði við þau sem eru sönn og göfugust rit nýja testamentisins, því það hefir engin evangelisk ein-

kenni." Eg hefi séð þetta: „Júdasarbréf er útdráttur eða eftirrit af 2. bréfi Péturs og fer með ummæli og sögur, sem ekki eiga heima í ritningunni." Eg veit, að í því bréfi er saga í þá átt, að djöfullinn og erkiengill hafi þrætt um líkama Móse, og eg veit, að sama Júdasar-bréf vitnar til apókryfiskrar bókar, Enoksbókar. Eftir þessu man eg ekki: „Í opinberunarbók Jóhannesar vantar mikið á, að eg geti skoðað hana sem spámannlegt eða postullegt rit. Eg verð þar ekki var við nokkurn snefil af, að heilagur andi sé frumkvöðull hennar." — Sp.: Nú, nú, ef það er satt, að þetta hafi verið skoðan Lúters um sumar bækurnar í ritsafni biblíunnar, viljið þér samt sem áður láta skjalfesta þann framburð yðar hér, að þér segið, að Lúter hafi ekki viljað nota samvizkufrelsi sitt í dómum sínum um ritninguna? — Sv.: Þér verðið að taka það til greina, um hvert leyti Lúter sagði þetta, og hvort hann stóð við þessi ummæli til dauðadags. Vissulega neytti hann samvizkufrelsisins, að svo miklu leyti sem vitnisburður biblíunnar leyfði. *En Lúter var ekki fullkominn maður, þegar hann yfirgaf katólsku kirkjuna.* Þegar þér lesið æfisögu hans, verðið þér þess var, hve hann þroskast. Mörg af ummælum þessum hafa verið afturkölluð opinberlega; hann vildi ekki standa við þau, og ráðlagði fólki að taka þau ekki gild, heldur skyldi það dæma um þau eftir guðs orði. Arthur C. Mc Giffert, prófessor í kirkjusögu við Union Theological Seminary í New York á við Lúter, þegar hann kemur fram með svofeld ummæli í nýlegri bók, þar sem hann talar um ágreiningsumræðurnar milli Marteins Lúter og Eck: „Einungis fyrir ljósri kenningu guðs orðs vildi hann beygja sig, og hann vildi lesa það með eigin augum, en ekki annarra. Í árás sinni á aflausnarsöluna hafði hann skotið máli sínu frá aflátsmöngurunum til páfans. Í Ágsborg frá illa upplýstum páfa til betur upplýsts páfa; skömmu síðar frá páfa til kirkjuþings. Þegar nú úrskurður kirkjuþings var tilfærður gegn honum, neitaði hann að láta hann binda sig og nam staðar við úrskurðarvald biblíunnar einnar. En jafnvel þetta var eigi endilegt. Hann hélt því fram, að jafnvel biblían sjálf verði að notast með glöggskygni, því ýmsir hlutar hennar kenna ekki kristileg sannindi. Í raun réttri setti hann í stað allra ytri úrskurðarvalda upplýsta samvizku kristins einstaklings. Biblíuna las hann sjálfur og tók ekki til greina kröfu nokkurs kirkjuþings eða nokkurs manns, um að lesa hana fyrir hann. Þó hann gerði sér það aldrei full-ljóst, og breytti sjaldan eftir, var þetta í meginefni réttur samvizkufrelsisins í trúarefnum, og í honum fólst fyrirheit um nýja öld." Eruð þér þessum ummælum samþykkur? — Sv.: Eg er fyrra partinum samþykkur, en get ekki sagt, að eg sé þeim ályktunum samþykkur, sem þessi höfundur dregur. Eg bar það, að játningarnar eru yfirleitt skoðaðar lagabönd í lútersku kirkjunni. Kirkjufélagið, sem eg heyri til, hefir samþykt almennu játningarnar, Ágsborgar-játningu og Fræði Lúters hin minni. Játningarritin eru vanalega kölluð symbola kirkjunnar. Bókin, sem eg las úr úrdráttinn, í sambandi við stefnu Lúters, var Samlyndisbókin, sem þér haldið nú í hendi yðar. — Spurning: Vitið þér, prófessor Ness, að þetta stendur á bls. 492 í þessari Konkordíu-bók, eftir að talað hefir verið um heilaga ritningu sem hinn eina dómara, reglu og mælistiku trúarinnar: „En hin önnur játningarrit og bækur (nefnd hafa verið: Hin óbreytta Ágsborgarjátning og Varnarritið, postulleg trúarjátning, Nikeu-játning, Aþanasíus-játning. Hin meiri og minni fræði

Lúters) — eru ekki dómarar eins og heilög ritning, heldur einungis vitnisburður og yfirlýsing trúarinnar, með tilliti til þess, hvernig á ýmsum tímum heilög ritning hefir verið skilin og skýrð í ágreiningsatriðum í kirkju guðs, af þeim, er þá voru uppi, og á hvern hátt gagnstæðri kenningu var hafnað og áfellisdómur feldur yfir hana. Kannist þér við þessa málsgrein? — Svar: Já. Orðið symbola á hér við játningar. Eg skal leyfa mér að taka fram, að ritningin er ekki skýrð eftir játningarritunum, en játningarritin eftir ritningunni. Ritningin er hæsta úrskurðarvaldið yfir játningarritunum. Eg er því ekki ósamþykkur, sem þér hafið tilfært úr formálanum að Samlyndisreglunni. Þar er réttilega tekin fram afstaða lút. kirkju í þessu efni, að því er þessa einkunn snertir, eftir því sem eg get munað. — Þá var þessi málsgrein á bls. 492 (ed. Jacobson) Konkordíubókarinnar lögð fram sem málsgagn af hendi sakborninga og málsgreinin þar rétt á undan: „Á þenna hátt er greinarmunur ger á helgum ritningum gamla og nýja testamentisins og öllum öðrum ritum, og heilög ritning verður eini dómarinn eða regla og mælisnúra, sem öll rit eiga og skulu verða aðgreind og dæmd eftir, eini prófsteinninn, er um það er að ræða, hvort þau sé góð eða ill, rétt eða röng." Lúterska kirkjan hefir hvergi, svo eg viti, opinberlega játað neina sérstaka biblíu-innblásturs-tegund. Eg held, að þessi tilvitnan úr 2. bindi af New International Encyclopaedia, bls. 586, þar sem talað er um áreksturinn milli vísinda og trúar í kirkjunni, komi sannleikanum mjög nærri: „Lúterska kirkjan er einstök kirkjudeild að þessu leyti, að ekkert játningarrita hennar, hvorki kveður á um ritsafn heilagrar ritningar, né skilgreinir innblásturinn." Eg veit, að ritningin talar um innblástur. Eg á fyrst og fremst við það, sem tekið er fram í 2. Tím. 3,16: „Öll ritning er innblásin af guði." Það er þögull skilningur í kirkjufélagi mínu, að játningar kirkjunnar sé lagabönd. Eg veit ekki um neina opinbera yfirlýsingu í því efni. Það hallast að kenningunni um plenary-innblástur.

Frumspurður öðru sinni af

*Árna B. Gíslasyni.*

Kirkjufélag mitt hefir ætíð haldið því fram, að það verði að játa alla biblíuna sem æðsta úrskurðarvald og guðs orð. — Spurning: Þér hafið rétt tekið fram, að kirkjufélag yðar hafi aldrei opinberlega lýst yfir því, að játningarnar sé lagabönd. Nú vil eg spyrja yður, hvort það sé alment og fullkomlega viðurkent, að játningarnar sé lagabönd? — Svar: Það er yfirleitt skilið svo og skoðað sjálfsagt. Árangurinn af neitan Lúters, að láta kirkjuþing eða páfa binda sig, var, að hann gekk úr katólsku kirkjunni. Eg held að hann hafi farið langan þroskaferil á æfi sinni í kenningarefnum, og að hann um það leyti, sem hann dó, hafi játað kanóniskar bækur biblíunnar sem guðs orð. Stefna lút. kirkjunnar nú á tímum er í samræmi við þá kenningu.

**4. Séra O. N. Fossmark,**

vitni sakaraðilja.

Frumspurður af

*Árna B. Gíslasyni.*

Eg er fæddur í Wisconsin-ríki 1853. Á heima í Grand Forks. Var prestur í 30 ár í Fergus Falls í kirkjufélagi norsku kirkjunnar í Ame-

ríku. Var við nám í 6 ár við Mentaskólann í Decorah, Jowa, og þrjú ár við þýzka prestaskólann í St. Louis. Fékk þar fullnaðarprófs-vottorð. Var prestsvígður 1878 og hefi varið öllu lífi mínu til guðfræði-iðkana og kenslu í lútersku kirkjunni. Kenningin um samvizkufrelsi merkir það í veraldlegum efnum, að hver maður notar heilbrigða skynsemi sína. En í andlegum efnum í kirkjunni merkir það, að einstaklingur hafi ekki rétt til að dæma eða vera dómari yfir guðs orði. Snemma á tímum, rétt þegar Lúter gekk úr katólsku kirkjunni, var stefna hans mjög sú sama og séra Friðriks Bergmanns, sem eg heyrði í dag mér til mikillar furðu. En eftir því sem Lúter varð eldri og gerði meira, varð hann auðmjúkari, og hann er hvað eftir annað sár yfir því í ritum sínum, að menn sé að vitna í borðræður hans, eða það sem hann hafði ritað á yngri árum, og vitnuðu ekki í það, sem hann hafði ritað á þroskaárum sínum, þar sem hann leiðrétti fyrri ummæli, og svo að segja tók þau aftur, eins og hann sjálfur komst að orði. Árum saman fyrir dauða sinn viðurkendi hann biblíuna sem æðsta úrskurðarvald og lögmál, og guðs orð. Stefna lút. kirkjunnar yfirleitt er í samræmi við þá stefnu. Norska sýnódan hefir þessi játningarrit: Almennu játningarnar, hina óbreyttu Ágsborgarjátningu og Fræði Lúters hin minni. — Spurning: Er litið svo á í kirkjudeild yðar, að rit þessi sé lagabönd, eða einungis til leiðbeiningar? — Svar: Það er hægt að gera grein fyrir því á þessa leið, að hver prestur í kirkjudeild vorri skuldbindur sig til, um leið og hann fær köllun frá söfnuði að kenna samkvæmt guðs orði og játningum norsku lút. kirkjunnar. Það er formið, sem fylgt er. Og auk þess hefir einn guðfræðikennara vorra ritað bók um bókstafs (verbal) innblástur biblíunnar fyrir mörgum árum. Hefir hún verið skoðuð laukrétt framsetning trúarinnar í þessu efni, eftir skilningi kirkjudeildar vorrar; hún hefir verið skoðuð það af fólki voru og jafnvel af Sameinuðu kirkjunni. — Sp.: Getið þér tekið efni hennar fram í stuttu máli? — Sv.: Efni hennar er í stuttu máli þetta: Að guð hafi ekki einungis innblásið hugsanir, sem í biblíunni eru, heldur hafi hann leiðbeint þeim mönnum, sem hann notaði eins og verkfæri, til að færa í letur hinar ýmsu bækur, svo mikið, að hann hafi hjálpað þeim til að gera rétt orðaval, svo að sérhver partur hennar er af kirkjudeild vorri skoðaður guðs orð; að biblían hafi ekki einungis guðs orð inni að halda, heldur sé biblían guðs orð í heild sinni. — Sp.: Viljið þér taka fram, hvort það er skilningur kirkjudeildar yðar eða ekki, að einstaklingurinn hafi sjálfur rétt til að leita guðs orðs, eða hafna því, eins og hann finnur það í biblíunni? — Sv.: Færi leikmaður í kirkju vorri að gera nokkurt tilkall til réttar til að velja og hafna á þenna hátt, væri honum ekki einu sinni veitt viðtaka eins og meðlimi upplýsts safnaðar, hvað heldur þá að slík stefna væri álitin þolandi í prestastéttinni. — Sp.: Myndið þér þá skoða þenna skilning hjá einum safnaðarmeðlim algert fráfall frá trúnni? — Sv.: Vissulega. — Eg kyntist í dag orðtækinu: trúarvitund. Mér liggur við að halda, að það sé fyrsta sinni, sem eg hefi heyrt þetta *hræðilega* orðtæki, sem svo mætti kalla. Ef það annars merkir nokkuð, merkir það að eins vitund, sem hugur hvers manns hefir. *Kristinn maður getur haft hana á dálítið hærra stigi en mannæta*, því enginn maður á jörðu er án trúar, því trúin, — skilgreining trúarinnar er svona: Hún er sambandið milli guðs og manns, og enginn maður er til á jörðu án þess samband sé á milli hans

og skapara hans. Eg held ekki að unt sé að segja, að orðtæki þetta hafi nokkura merkingu í sambandi við kenninguna um innblástur biblíunnar. Það er yfirleitt marklaust orðtæki. Eg álít, að orðtækið: Testimonium spiritus sancti, hafi alls ekki neina sams konar merkingu og hið annað, sem hér er um að ræða. Það hefir tvöfalda merkingu. Það merkir annað hvort vitnisburð heilags anda, og hann er fólginn í biblíunni; öll ritningin er vitnisburður heilags anda. Eða það merkir líka vitnisburð heilags anda í þessari opinberan biblíunnar í hjarta mannsins. — Sp.: Eg vil nú lesa yður yfir lýsingu, sem fram hefir verið lögð í réttinn og gerð var af sakborningum 5. júní 1910; hún er svo: „Söfnuðurinn neitar því, að trúarvitund mannsins hafi ekki vald til að velja og hafna, þó um heilaga ritningu sé að ræða, en í því valdi felst vitanlega úrskurðarvald.“ Breytti nú söfnuður, er samþykti slíka yfirlýsingu, eftir yðar áliti, í samræmi við trúarkenningu lút. kirkjunnar yfirleitt, sem hefir sömu játningarrit og áður er tekið fram? — Sv.: Slíkur söfnuður, er aðra eins yfirlýsingu samþykti, og þá, sem nú var vitnað í, yrði aldrei tekinn inn í vora sýnódu. Skilyrðislaust yrði honum neitað um upptöku. — Sp.: Væri söfnuður, er slíka yfirlýsingu samþykti, eftir áliti yðar að breyta í samræmi við 1. lið 2. greinar í grundvallarlögum Þingvalla-safnaðar, sem svo er orðaður: „Guðs orð eins og það er opinberað í hinum kanónísku bókum ritningarinnar, er hin sanna uppspretta og hið fullkomna lögmál fyrir kenningu, trú og hegðan safnaðarins.“ — Sv.: Nei. — Sp.: Skoðið þér slíka samþykt fráhvarf frá trú safnaðar, sem hefði þessi grundvallarlög? — Sv.: Já, hiklaust. — Sp.: Segið, hvort þessi grein grundvallarlaganna merkir það eftir yðar áliti, að kanónískar bækur ritningarinnar sé í heild sinni æðsta lögmál og innblásið guðs orð. — Sv.: Hún merkir það eftir mínu áliti, að þeir skoða biblíuna í held sinni eins og innblásið guðs orð. — Sp.: Væri söfnuður, sem áliti einhverja hluta kanónískra bóka ritningarinnar eigi innblásna, heldur ósanna og óábyggilega, í samræmi við trúarjátningu þessa safnaðar, eins og fram er tekið í þessari grein grundvallarlaganna? — Sv.: Nei.

Gagnspurður af
*Barða G. Skúlasyni.*

Þér getið nú sagt um, hvort þér eruð samþykkur því sem stendur í þessari bók eftir dr. Allen,*) fyrstu London-útgáfunni, á bls. 284 og 285; höfundurinn var prófessor við prestaskóla biskupakirkjunnar í Cambridge, Massachusetts: — „Sérstaka athygli vekur það, hvernig Lúter fór með biblíuna, af því undirniðri verður vart víðsýnni skoðunar á eðli og hætti guðlegrar opinberunar, heldur en síðar var alment haldið fram í siðbótarkirkjunum. Hann virðist vissulega hafa tileinkað sér í lifandi samhengi skoðanir, sem að ytri álitum virðast í mótsögn, og fram komu með evangelískum siðbótar- og dultrúarmönnum. Annars vegar heldur hann fram ritningunni eins og útvortis takmarkalausu úrskurðarvaldi, sem sönnu guðsorði, sem stofnskrá og grundvallarlögum kirkjunnar. Hins vegar hefur hann upp guðlega vitund mannsins eins og þann hæfileika, er kannast við og kemst að þeirri niðurstöðu, að ritningin sé frá guði. Biblían sé guðleg, af því

*) A. V. G. Allen: Samhengi kristinnar hugsunar; rannsókn á guðfræði nútímans, í ljósi sögu hennar.

hún sé skuggsjáin, sem reynsla mannkynsins speglast í á hæsta hrifningarstigi, undir áhrifum guðs anda. Ekkert ofurmagn gagnrýninnar getur haggað trú þess manns á ritningunni, er byggir lotningu sína fyrir henni á þeim grundvelli. Á þenna hátt verður að skýra sér Lúters feikna frjálsræði, er hann gagnrýnir efni biblíunnar, — frjálsræði og hugrekki, sem eftirmönnum hans var til mestu skapraunar, og reyndu að dylja og gleyma." Eruð þér þessum merka höfundi samþykkur? — Sv.: Vitaskuld er eg honum að nokkuru leyti samþykkur, þar sem hann í fyrra hlutanum talar um úrskurðarvald, — ótakmarkað úrskurðarvald biblíunnar. En það er auðsætt, að maðurinn, sem þetta hefir ritað, hefir fundið ummælum sínum heimild í síðari hlutanum í ummælum Lúters — í borðræðum hans og ritum frá fyrri árum. Hann hefir gleymt seinni ritum hans. Eg get nú ekki komið fram með neitt úr seinni ritum Lúters um þetta um fram það, sem vitnið Ness kom fram með. Ef það er nokkuð, sem Lúter barðist fyrir allan síðara hlut æfi sinnar, var það æðsta úrskurðarvald biblíunnar. Það er að segja, hann setti úrskurðarvald guðs heilaga orðs upp á móti úrskurðarvaldi páfans. Hann vildi fá að lesa biblíuna sjálfur, en eigi láta páfann lesa hana fyrir sig. Hann virtist hverfa til biblíunnar aftur. *Á yngri árum hans var afstaða hans gagnvart biblíunni sem guðs orði algerlega ólík því, sem hún var á seinni árum.* Eg er ekki samþykkur kafla þeim, sem þér lásuð vitninu Ness úr bók prófessors Mc Gifferts. — Sp.: Eg ætlta að benda yður á ummæli dr. Allens aftur í sömu bókinni, sem eg vitnaði til fyrir stundu síðan, á.bls. 284: „Dæmi þau, sem nú skulu tilfærð upp á biblíugagnrýni Lúters, myndi koma mönnum fyrir sjónir, ef ókunnugt væri um faðernið, líkust eyðingar-árásum skynsemi-trúarmanna nútímans. Með tilliti til fimm-bóka-ritsins, áleit Lúter það litlu skifta, hvort það væri ritað af Móse eða ekki. Hann talað um konunganna bók sem ágætt rit, — hundrað sinnum betra en Kronikubækur. Jeremía taldi hann spámann miklu síðri en Jesaja. Engin af ræðum spámannanna hefði verið færð í letur samtímis þeim, heldur hafi þeim verið safnað eftir á af lærisveinum þeirra og áheyrendum og á þann hátt hafi safnið myndast. Í Lúkasar-guðspjalli er písl frelsarans bezt lýst. En Jóhannesar-guðspjall er hið sanna og hreina guðspjall, helzta guðspjallið, af því það hefir meðferðis mest af orðum Jesú. Það er hinum guðspjöllunum miklu heldra, — hið einstaka, viðkvæma, sanna aðalguðspjall. Jafnvel bréf Páls postula hafa meira gildi en guðspjöll Matteusar, Markúsar og Lúkasar, því þau eru um trúna á Krist og hvernig hún réttlæti, þar sem guðspjöllin eru að mestu leyti um athafnir hans og kraftaverk. Í einu orði, Jóhannesar-guðspjall, bréf Páls postula, einkum bréfin til Rómverja, Galatamanna, Efesusmanna, fyrsta bréf Jóhannesar og Péturs, hafa meðferðis og kenna alt, sem nauðsynlegt er til að vita, jafnvel þó maður sæi aldrei neinar bækur aðrar. Lúter áleit ekki Hebreabréfið né Jakobs-bréf postullegs uppruna, og hinu síðarnefnda lýsti hann með því að nefna það hálmbréf, þar sem fagnaðarerindisins yrði ekki vart. Hann hafði mjög lítið álit á Júdasar-bréfi, og áleit það eins konar eftrrit af 2. Péturs-bréfi. Hann gat ekki fundið þess nokkurn vott í Opinberunarbókinni, að hún væri innblásin af heilögum anda. Ástæðurnar, er leiddu hann til að vísa því á bug úr helgiritasafninu, voru sýnirnar; óskiljanleiki þeirra var í beinni mótsögn við skiljanleik sannrar opinberunar. Margir kirkju-

feðranna hefði hafnað henni fyrir löngu. Kristi væri ekki lýst þar á þann hátt sem postula væri skyldugt að þekkja hann og kenna. Í samræmi við afstöðu Lúters til biblíunnar var líka skoðan hans á gildi kraftaverka. Eftir hans hyggju var gildi þeirra, sannleikanum í kenningu Krists til sönnunar, býsna lítið. Útvortis kraftaverk sagði hann eru epli og hnetur, sem guð gaf barnalegum heimi að leikfangi. Vér þurfum þeirra ekki lengur með." Eruð þér nú höfundi þessa kafla samþykkur í þessu efni? — Sv.: Nei, eg er það ekki. Það er satt, að Lúter benti á Jóh. 3,16 sem litlu biblíuna; og sagði, að þar væri alt, sem nauðsynlegt sé að trúa. Þér hafið fagnaðarboðskapinn eins og í hnotarskel í þessu eina versi. Eg neita ekki, að hann komst svo að orði, að kasta mætti burtu öllu öðru í ritningunni og samt hafa nóg til sáluhjálpar. Þann dag í dag er mikill munur milli kirkjufélags míns og kirkjunnar í Noregi, að því er snertir skýringu á nokkurum frumatriðum lúterstrúar. *Á hverjum hundrað árum breytist kristindómurinn. Ásigkomulag kirkjunnar í Noregi er feikilega grátlegt þann dag í dag. Mér skilst að kirkjan í Noregi sé í álíka grátlegu ástandi og kirkjan á Íslandi. Og sömu raunalegu sannindin eiga heima um kirkju Þýzkalands. Þar byrjar humbuggið hvert skifti. Svo fer það til Noregs, síðan til Danmerkur og að lokum yfir til Íslands, hér um tuttugu og fimm árum síðar. Biskupakirkja Metódista í Bandaríkjum er ekki og hefir aldrei verið lík minni kirkjudeild með tilliti til innblásturs-kenningarinnar. Allar endurbættu kirkjurnar hafa skynsemina fyrir leiðtoga sinn. Þær dæma um guðsorð eftir skynsemi sinni.* Þær játa það sem þeim finst skynsamlegt, og hafna því, sem þeim geðjast ekki. Biskupakirkja Metódista í Bandaríkjum þjáist af sama humbugg-inu og lúterska kirkjan á Þýzkalandi í þessu efni. Það má fara enn lengra og jafnvel segja, að þeir sé *fullfleygir Únitarar.* Margir þeirra hafna guðdómi Krists. Eg vil ekki segja neitt um Presbýtéra kirkjunnar í þessu landi í þessu efni. Eg veit að hún fylgir kalvínstrúnni bezt þeirra allra. Þetta humbugg er nokkuð, sem endurtekst hvað eftir annað, einu sinni á hverri öld. Það er ekkert nýtt. Það er upptugga í annari mynd, — það er alt og sumt. Kirkjufélag það, sem eg heyri til, hefir staðið stöðugt í sömu sporum síðan það var myndað fyrir 58 árum. Og í nálægri tíð er ekkert sem bendir til nokkurra breytinga hjá því að þessu leyti svo eg viti. *Kirkjufélag mitt og eg höfum aldrei breyzt í nokkuru kenningaratriði síðan það var stofnað 1858.* Eitt sinn áttum við engan prestaskóla sjálfir, svo við fengum leyfi til að senda þá, sem útskrifuðust af mentaskóla vorum, á prestaskóla Missouri-sýnódunnar. Kirkjufélag mitt hefir ávalt verið og er og verður ávalt, vona eg, í samræmi við Missouri-sýnóduna í kenningarefnum. Mín kirkja hefir blátt áfram samþykt játningarnar og viðurkent þær með því að samþykkja þær, og skilningurinn er yfirleitt sá, að þær sé lagabönd. Eg geri engan greinarmun orðtækjanna: „Guðs orð eins og það er opinberað í hinum kanónísku bóókum" og hins: „Kanónísku bækurnar eru guðs orð". Mér kemur orðtækið „trúarvitund" fyrir sem sviksamlegt orðtæki, viðhaft í þeim tilgangi að draga fólk á tálar, draga trúarvitund þess á tálar, en kristileg vitund er alt annað. Orðrétt merkir testimonium spiritus sancti vitnisburð heilags anda. Það merkir vitnisburð heilags anda í mannshjartanu. Það hefir tvöfalda merkingu. Það merkir annað hvort vitnisburð biblíunnar — eg á við það, að öll biblían hefir

vitnisburð heilags anda í sér fólginn, eða á hinn bóginn vitnisburð sama anda, gegn um guðs orð í hjarta mannsins.

### 5. Séra Kristinn K. Ólafsson,

vitni sakaraðilja, kallaður fram öðru sinni.

Frumspurður af

*Árna B. Gíslasyni.*

Eg fékk upphaflega tilsögn í trúarefnum hjá séra Friðrik J. Bergmann. Hann kendi mér, að öll biblían væri guðs orð. Hann sagði mér aldrei, að eg hefði rétt til að velja og hafna, þegar eg væri að fjalla um heilaga ritningu. Eg var sóknarbarn hans og eg heyrði hann aldrei kenna annað meðan eg var það. Eg var á kirkjuþingum með honum hvað eftir annað frá því eg varð prestur og þangað til hann sagði sig úr kirkjufélaginu. — Spurning: Þegar þér dæmið eftir þekkingu yðar á stefnu hans nú, að því er innblásturs-kenninguna snertir, viljið þér segja, að stefna hans sé nú sú sama og hún var, er þér voruð sóknarbarn hans. — Svar: Eg vil ekki segja, að hún sé hin sama. Eg vil segja, að stefna hans sé miklu lausari nú en þá. Eg hefi séð honum skipað í flokk nýrrar guðfræði, bæði af andstæðingum hans, og af þeim sem honum eru samþykkir, og eg skipa honum þar sjálfur. Hann er viðurkendur leiðtogi þess flokks, er hinir úrgengnu söfnuðir heyra til. Samvizkufrelsið merkir, að svo miklu leyti sem eg veit, rétt einstaklingsins, — þ. e. a. s. lagarétt einstaklingsins til að vera það, sem honum sýnist í guðfræðiefnum. Það heyrir trúarbragðafrelsinu til; trúarbragðafrelsi merkir rétt mannsins til að kjósa sér hvaða trú, sem honum þóknast. Eg álít, að ef einhver færði sér samvizkufrelsið í nyt svo freklega, að hann héldi fram skoðunum, ólíkum kirkjunnar, sem hann heyrir til, ætti hann ekki skilið að fá að vera í kirkjunni, samkvæmt lúterskum skilningi. *Eg er framburði tveggja síðustu vitnanna samþykkur, að því er til Lúters kemur. Með tilliti til þroska Lúters gildir það yfirleitt, að hann var á síðustu árum algerlega ólíkur því sem hann var, þegar hann yfirgaf rómversku kirkjuna. Eg skoða það almenna sögu, sem vér kennum í kirkju vorri, að um það leyti sem hann dó, viðurkendi hann alla biblíuna sem innblásið guðs orð og æðsta lögmál. Eg hefi lesið í sögunni, að hann játaði Jakobs-bréf, — að hann var sannfærður með tilliti til þess rits.* — Sp.: Eg ætla að spyrja yður, hver er stefna lútersku safnaðanna í Ameríku, að því er til játninganna kemur, eftir því sem þér bezt vitið? — Sv.: Kirkjan viðurkennir þær. Mér skilst, þegar einhver viðurkennir eitthvað, kannist hann við það sem skuldbinding. — Sp.: Voru játningarnar viðurkendar á þann hátt af kirkjufélaginu, áður en yfirlýsing Friðjóns Friðrikssonar var gerð? — Sv.: Eg veit, að þegar eg var prestvígður í kirkjufélaginu, var í prestaeiðnum ákvæði um, að eg lofaði að kenna í samræmi við guðs orð og játningar lúterskrar kirkju. Það er ekkert sérstakt í játningunum um innblástur, af því innblásturs-kenningin var ekkert ágreiningsefni, þegar játningarar voru samdar, og af þeirri ástæðu er hún álitin sjálfsögð, eða gert ráð fyrir henni, og var það bygt á skilningi þeirra, sem að játningunum stóðu, frá sögulegu sjónarmiði. — Sp.: Var það líka á því bygt, að það er kent í ritningunni, að hún sé innblásið guðs orð? — Sv.: Vissulega. — Sp.: Eg ætla að lesa yður 2.

Tím. 3,16: „Öll ritning innblásin af guði er nytsöm til lærdóms". Eg ætla að spyrja yður, hvernig þér gerið grein fyrir orða-sambandinu: „Öll ritning innblásin af guði"? — Sv.: Að minni hyggju stendur á sama, hverri þýðingu er fylgt, hvort heldur þeirri, sem er í hinni nýju biblíuþýðing, eða þeirri, sem stendur í hinni eldri, því samhengið sýnir að minni ætlan, að öll ritning á þar við gamla testamentið, svo hvorttveggja á við alt gamla testamentið. — Sp.: Eg ætla að spyrja yður, séra Kristinn, hvort orðin: „Biblían er guðs orð" og orðin: „Guðs orð eins og það er opinberað í hinum kanónísku bókum" merkja hið sama eða ekki eftir yðar skilningi? — Sv.: Fyrir mig hafa þau sömu merkingu. Með orðinu ritning er átt við allar kanónísku bækurnar, biblíuna eins og hún er. Orðtækið: guðs orð, merkir blátt áfram biblíuna, — alla biblíuna. Eg er framburði hinna annara vitna samþykkur um skilning yfirlýsingarinnar, er sakborningar gerðu og 2. greinar grundvallarlaganna. Söfnuður, sem slíka yfirlýsingu samþykti, breytti ekki í samræmi við trúarkenningar lút. kirkju yfirleitt. — Sp.: Breytti hann í samræmi við trúarkenningar Þingvalla-safnaðar, sem þessi grundvallarlög hefir? — Sv.: Nei. Þetta á eins við um kirkjufélagið. Eg álít það fráhvarf frá trú Þingvalla-safnaðar. *Að minni ætlan merkir I. liður 2. greinar grundvallarlaga Þingvalla-safnaðar, að kanóniskar bækur ritningarinnar sé í heild sinni guðs innblásið orð. Söfnuður, sem álítur að einhverir kaflar kanóniskra bóka ritningarinnar sé ekki innblásnir, heldur ósannir og óábyggilegir, er ekki í samræmi við játningarkröfur þessa safnaðar, eins og þær eru ákveðnar í þessari grein grundvallarlaganna.* Ekki breytti hann heldur í samræmi við trúarkenningar kirkjufélagsins.

Gagnspurður af
*Barða G. Skúlasyni.*

Eg skoða sakborninga frávillinga og ekki lúterska menn framar. Eg vona, að þeir sé kristnir. Eg er enginn dómari mannshjartnanna. Eg er tveim síðustu vitnum samþykkur um að fallast ekki á ummæli ýmsra höfunda, sem þér lásuð þeim. Eg gæti komið fram með heimild fyrir þeim ummælum, að Lúter á seinni árum breytti stefnu sinni, ef eg ætti aðgang að góðu lútersku bókasafni, en eg get ekki gert það hér. Eg get hvorki nefnt bók né bindi, — eg hef ekki lesið ritverk hans síðan eg fór frá prestaskólanum, og eg hefi hér alls ekkert. Aðrar heimildir eru Lúterska alfræði-orðabók þeirra Jacobs og Haas. Jacobs þessi er guðfræðingur, sem stendur í sambandi við General Council og hefir gefið út Konkordíu-bókina. Aðrar heimildir get eg ekki nefnt í bili. Játningarnar kenna ekki, að barnaskírn sé sáluhjálparsilyrði, heldur að skýrnin sé vanalegur farvegur hennar. Eg hefi ekki vikið frá þeim skilningi.

**6. L. O. Walper,**
vitni sakaraðilja.

Spurður af
*Árna B. Gíslasyni.*

Eg á heima í Grand Forks. Eg er prestur. Fékk undirbúningsmentan í Ft. Wayne, Indiana, og stundaði guðfræðinám í St. Louis, við Konkordíu-prestaskóla. Eg tók prestsvígslu 3. sept. fyrir sex árum og hefi verið prestur síðan. Kirkjufélag mitt trúir bókstafs-innblæstri.

Það er þýzkt kirkjufélag lúterskt, sem heyrir Missouri-sýnódunni til. Kirkjufélag mitt skilgreinir bókstafs (verbal) innblástur á þá leið, að hvert orð biblíunnar sé innblásið. — Spurning: Leyfir kirkjufélag yðar nokkurum einstökum meðlim að hafa þá skoðan, að sumir kaflar biblíunnar sé óinnblásnir, og samt sem áður að vera í kirkjunni sem góður og gildur meðlimur hennar. — Svar: Það leyfir ekki slíkt. Sá meðlimur þess kirkjufélags, sem slíku héldi fram, væri álitinn að hafa vikið frá trú kirkjunnar. Það er ekkert opinbert samband milli kirkjufélags míns og kirkjunnar á Þýzkalandi. Kirkjufélag mitt tekur ekkert tillit til Þýzkalands, þegar það kveður á um stefnu sína í kenningarefnum. Eg held eg viti hvað átt er við með orðtækinu samvizkufrelsi. Það merkir, að hver maður hefir rétt til að trúa eða trúa ekki hverju sem honum þóknast. Eg held það sé stefna kirkjufélags míns, og lút. kirkjunnar yfirleitt, að svo miklu leyti, sem mér er kunnugt. Eg held að Lúter hafi haldið fram hinu sama í þessu efni. Hann hélt því ekki fram, að færa mætti sér samvizkufrelsið í nyt til að hafna heilagri ritningu eða nokkurum parti hennar, og samt sem áður verið í trúnni. Eg get ekki sagt, að lút. kirkjan í heiminum sé í samræmi í kenningarefnum við stefnu Lúters á seinni árum. Kirkjufélag vort er í samræmi við þá stefnu. Eg held að lút. kirkjudeildirnar í Ameríku fylgi þeim skoðunum yfirleitt. Við höfum sömu játningarritin í kirkjufélagi mínu eins og söfnuður sá, sem hér er um að ræða. Prestar í kirkjufélagi mínu eru skuldbundnir til að kenna samkvæmt játningunum. *Játningarnar segja ekkert ljósum orðum um innblástur-kenninguna.* Lúterska kirkjan skýrir þenna skort á sérstökum ákvæðum skilríkja þessara um innblástur biblíunnar svo, að það hafi verið alment viðurkent, um það leyti er játningarnar voru samdar, að öll biblían sé guðs innblásið orð; var það bygt á þeirri skoðan, að alment var litið svo á í kirkjunni, að með spámönnunum hefði gamla testamentið lyktað; að nýja testamentið sé rit postula Krists. Eg skil 2. Tím. 3,16: „Öll ritning er innblásin af guði", merki, að öll ritningin sé innblásin af guði, — bókstafs-innblástur. Það er stefna kirkjufélags míns. Að svo miklu leyti sem eg veit, er sama stefnan tekin af lútersku kirkjunni yfirleitt í þessu landi. Að minni ætlan merkja orðtækin: „Biblían er guðs orð" og „ guðsorð eins og það er opinberað í kanóniskum bókum ritningarinnar" eitt og hið sama. Orðtækið trúarvitund merkir, að trúarvitund mannsins sé hugur þess manns, sem fræddur er af guðs orði. Eg held það mætti nota í sambandi við hvaða trúarbrögð sem væri. „Testimonium spiritus sancti" hefir gersamlega ólíka merkingu. Að minni ætlan breytti ekki söfnuður í samræmi við trúarkenningar kirkjufélags míns, né í samræmi við trúarkenningar nokkurrar annarar kirkju, sem hefði framangreind þrjú játningarrit, með því að samþykkja yfirlýsingu þá, sem hér ræðir um (frá 5. júní). Að ætlan minni getur ekki söfnuður, sem slíka yfirlýsingu samþykkir, verið að breyta samkvæmt 1. lið 2. greinar grundvallarlaga Þingvallasafnaðar. Eg álít slíka samþykt fráhvarf frá trú slíks safnaðar. Greinin í safnaðarlögunum merkir, að kanóniskar bækur ritningarinnar sé í heild sinni innblásið guðs orð. — Sp.: Væri söfnuður, sem héldi því fram, að sumt í kanóniskum bókum ritningarinnar sé ekki innblásið, heldur ósatt og óábyggilegt, í samræmi við játningarrit Þingvalla-safnaðar, eins og þau eru fyrirskipuð í grundvallarlögum hans?. — Sv.: Nei.

Gagnspurður af

*Barða G. Skúlasyni.*

Eg er ekki samþykkur þeim dr. Mc. Giffert og dr. Allen, ef að þeir segja, að Lúter hafi haldið fram samvizkufrelsi í trúarefnum, og krafist þess, að einstaklingurinn skyldi sjálfur skýra biblíuna, og að biblían hafi í raun og veru mikið inni að halda, eða nokkuð, sem sé í ókristileg kenning, eða ef þeir vitna í verk Lúters því til sönnunar, að hann hafi fært sér samvizkufrelsið í nyt, til að hafna heilum kanóniskum ritum. Og þar sem eg tel víst, að niðurstaða hins frakkneska höfundar, Michelet, sé hin sama, er eg honum ekki samþykkur. — Spurnng: Án þess að lesa yður nokkurn langan kafla úr æfsögu Lúters eftir Michelet, ætla eg að eins að benda yður á fáeina staði. Eg bendi yður nú á bls. 272, þar sem hann kemur með þessi orð eftir Lúter sjálfan: „Eg kannast hreinskilnislega við fáfræði mína í því, hvort eg skilji Sálmana eins og þeir eiga að skiljast. Eg efast samt sem áður eigi um, að þýðing mín hafi líkingu af þeim. Meðal þeirra, sem þá hafa þýtt, hafa sumir misskilið þá að þessu leyti, og annar að einhverju öðru leyti. Eg verð var við merkingar, sem Ágústínus tók ekki eftir; aðrir, sem eftir mig koma, veit eg vel að muni taka eftir mörgu, sem farið hefir fram hjá mér. Hver dirfist að staðhæfa, að nokkur hafi skilið einn sálm til hlítar? Líf vort er byrjan og áframhald, ekki fullkomnan. Sá er beztur sem mest nálgast andann. Það eru stig í lífi og framkvæmdum; hví skyldi eigi hið sama eiga sér stað með mannsandann. Postulinn segir, að vér séum fluttir úr einu ljósi í annað meira." — Um nýja testamentið sagði Lúter: „Jóhannesar-guðspjall er hið sanna og hreina guðspjall — hið helzta guðspjallanna, þar sem það hefir inni að halda mesta hlutann af ræðum frelsarans. Á sama hátt eru líka bréf Páls og Péturs postula betri heimildir en guðspjöll Matteusar, Markúsar og Lúkasar. Í einu orði sagt, Jóhannesar-guðspjall og fyrsta Jóhannesarbréf, bréf Páls postula, einkum bréfin til Rómverja, Galata og Efesusmanna, ásamt fyrsta Péturs-bréfi, eru til samans sá hluti nýja testamentisins, sem ljósast sýnir Krist, og hafa inni að halda og kenna alt, sem nytsamlegt er og nauðsynlegt að vita, jafnvel þó við aldrei sæjum aðrar bækur." — „Hann (Lúter) áleit ekki Hebrea-bréfið né heldur Jóh. Opinberun postullegs uppruna. Hann framsetti skoðanir sínar um Júdasar-bréf á þessa leið: „Því verður ekki neitað, að þetta bréf er annaðhvort útdráttur úr eða eftirrit af öðru almenna Péturs-bréfi. Orðtækin eru nærri hin sömu í báðum. Júdas talar í bréfi sínu um postulana sem hafandi verið lærisveinn þeirra, og eins og hann hafi ritað eftir dauða þeirra. Hann vitnar í ritningargreinar og talar um ástæður, sem hvergi eru að finna í ritningunni. Skoðan Lúters á Opinberunarbókinni er næsta eftirtektarverð: „Látum hvern mann dæma um þessa bók eftir því ljósi, sem í honum er, og eftir sínum eigin sérstaka skilningi. Eg vil ekki þrýsta skoðan minni um hana að nokkurum manni. Eg segi að eins það, sem eg hugsa um hana sjálfur. Eg skoða opinberanir Jóhannesar hvorki postullegar né spámannlegar." — Við annað tækifæri sagði hann: „Margir af feðrum kirkjunnar höfnuðu þessari bók; þess vegna hefir hver maður frjálsræði til að fara með hana eftir sínu eigin hugboði. Að því er sjálfan mig snertir, þá hefir ein einasta ástæða gjört mig ákveðinn í þeirri niðurstöðu, sem eg hefi komist að

um hana, sem er þessi, að hvorki er Kristur tilbeðinn í henni og eigi er hann heldur kendur þar eins og vér fáum að þekkja hann annars staðar." Þetta segir höfundurinn að sé innvitnanir í verk Lúters. Eruð þér nú ósamþykkur öllu þessu, sem eg hefi lesið? — Svar: Þér verðið að gæta þess, að Lúter var ekki upphaflega lúterskur í þeirri merkingu, er vér leggjum í orðið, en Lúter var upphaflega katólskur munkur, og við lestur biblíunnar — heilagrar ritningar — varð hann upplýstur; hann var alinn upp í katólskri kirkju og fyrir lestur heilagrar ritningar varð hann betur og betur það, sem hann var síðustu æfiár sín. Eg neita því ekki, að þessar innvitnanir sé teknar orðréttar eftir ritum Lúters. *Eg geri engan greinarmun milli bókstafs (verbal) og plenary-innblásturs. Það merkir, að hvert orð biblíunnar sé bókstaflega satt. Til dæmis, að Eva hafi verið gerð úr síðu Adams; að heimurinn hafi verið skapaður á sex dögum, tuttugu og fjögurra klukkustunda löngum hverjum; í stuttu máli, að öll ummæli biblíunnar í sambandi við landafræði, jarðfræði og líffræði sé bókstaflega sönn, og enn fremur að það sé sögulega satt, og að ef nokkur stjörnufræði er í biblíunni, þá sé hún líka sönn. Að sólin hafi raunverulega staðið kyr, til dæmis, að skipan Jósúa, og hið sama hafi máninn gjört, ef hann er nefndur þar.* Ef sakaraðiljar máls þessa eru góðir meðlimir kirkjufélagsins íslenzka og trúa fullkomnum innblæstri biblíunnar, þá eru þeir að mínum dómi svo sem að sjálfsögðu í samræmi við skoðanir mínar, sem eg hefi nú látið í ljós, og ef þeir eru það ekki, þá eru þeir ekki góðir Lúterstrúarmenn. Sérhver sá, er ekki trúir einhverju af þessu, hefir um leið hrundið sjálfum sér út fyrir vébönd lúterskrar kristni. Það er ekkert orð í kanónísku bókunum, sem eg skoða í nokkuru öðru ljósi en því, sem eg hefi varpað yfir þetta efni nú með framburði mínum. Hinir helgu höfundar voru innblásnir af heilögum anda, og heilagur andi valdi umbúðir hverrar hugsunar. Sú kenning nær ekki til lestrarmerkjanna í frumhandritunum. Það voru engin lestrarmerki né hljóðstafir, — í grískunni voru hljóðstafir í frummálinu. Í gömlu handritunum voru engir hljóðstafir og engin aðgreining atkvæða né orða. Táknunum, sem bætt var við á sjöttu öld, var einungis bætt inn til þess, að gera erlendum námsmönnum nám þessarar tungu auðveldara. Eins og upphaflega var ritað, til dæmis, höfðu menn fyrir sér stafina BRN, skulum við segja. (Ef ensku-mælandi maður hefði lesið úr þeim) hefði hann annað hvort lesið barn (hlaða) eða bairn (barn) eða hvað sem helzt annað, sem hægt var að gera úr því, með því að bæta við hljóðstöfum. Þeir bættu hljóðstöfunum við á sjöttu öld. Lærðu mennirnir, sem bættu þeim við, voru ekki að mínum dómi innblásnir af heilögum anda. Þessi lestrarmerki, sem þeir bættu inn, og tákna hljóðstafi, eru ekki innblásnir. — Ríkiskirkjan á Þýzkalandi er komin langt á undan öllum í þessum kenningar-efnum. Við höfum í tölu játningarrita vorra Samlyndisregluna og allar játningarnar, sem í Konkordíu-bókinni standa. *Að svo miklu leyti sem niðurstaða heimspekilegra og vísindalegra rannsókna nútímans eru á móti biblíunni á svæði jarðfræði, fornleifafræði, mannkynssögu, landafræði, líffræði og stjörnufræði, útskúfa eg henni.* Að mínum dómi hlýtur hver maður, sem trúir bókstafs (verbal) eða fullkomnum (plenary) innblæstri biblíunnar, að útskúfa henni.

Gagnspurður öðru sinni af
*Árna B. Gíslasyni.*

Eg skal taka það fram, að kirkjufélag vort trúir, að heilagur andi hafi notað einstaklingsgáfu höfundarins, þegar hann reit orð biblíunnar. Eg trúi því, að orðin hafi verið gefin höfundinum af heilögum anda.

**7. Hans J. Glenn,**
vitni sakaraðilja.

Frumspurður af
*Árna B. Gíslasyni.*

Eg á heima í Grand Forks. Eg er vígður prestur, norskur að ætt. Stundaði nám við St. Ólafsskólann og við guðfræðiskólann í St. Antonius-garði í St. Paul-borg. Eg hefi verið prestur í Grand Forks í eitt ár. Heyri sameinuðu lútersku kirkjunni til. Hún stendur ekki í félagsböndum við kirkjuna í Noregi, viðurkennir hana ekki á neinn hátt, en hefir sömu játningarritin, þau þrjú, sem talað hefir verið um hér. Samvizkufrelsið er réttur einstaklingsins til að velja það sem hann vill velja, eða hafna. Það er frjálsræði, sem öllum er gefið. Færi þeir sér það frelsi svo í nyt, að þeir hafni pörtum heilagrar ritningar, yrði þeir ekki álitnir góðir safnaðarlimir í minni kirkjudeild, né nokkurri annarri lúterskri kirkjudeild í landi hér, að svo miklu leyti sem eg veit. Kirkjudeild vor staðhæfir, að svo miklu leyti sem mér er kunnugt, að æðsta úrskurðarvaldið sé guðs orð. Eg veit ekki til þess að kirkjudeild vor hafi nokkuru sinni gert endilega yfirlýsingu um nokkura innblástursskýringu, en sú skýring, sem alment er fallist á, er sú, sem alment er nefnd p l e n a r y, en sumir kalla bókstafs (verbal) innblástur, en eigi ósjálfráður innblástur. Að minni hyggju merkir ósjálfráður innblástur þetta: Að guð fyrir heilagan anda sinn hafi beint lesið spámönnum og öðrum, sem voru verkfæri hans, hvert orð, er þeir skyldu segja, fyrir, og látið þá rita þau niður einmitt í sömu röð. — S p u r n i n g: Viljið þér nú segja hvað bókstafs eða p l e n a r y-innblástur er, eða hvort það er hið sama? — S v a r: Eftir því sem eg skil kirkjudeild mína í því efni er það þetta: að guð gaf þjónum sínum erindi sitt til mannkynsins og gætti þess með forsjón sinni, að orðin, sem þeir notuðu, væri rétt, svo ekkert skyldi sagt á annan veg en þann sem hann vildi, til að gefa mannkyninu reglu trúar, kenningar og siðferðis, en að hver einstaklingur fékk leyfi til að neyta síns eigin einstaklingseðlis sem verkfæri guðs, í mannlegum efnum, eg á við það, að guð tók hann ekki og hélt um hönd honum o. s. frv. — Eg skoða frásögurnar ávalt innblásnar. *Eg held, að Lúter hafi haldið fram fullkomnu samvizkufrelsi; hver maður getur valið um, hverju hann vill trúa eða ekki trúa,* en á yngri árum var hann ekki lúterskur í ályktunum sínum á tímabilinu á undan hinum alþektu lút játningum. Mig langar til að nefna eitt dæmi, ef eg má. Eg held það hafi verið á fundinum í Marburg. Þar komu þeir saman Zwingli, Kalvín og Lúter og reyndu til að sameina siðbótarflokkana. Aðal-ágreiningsefnið var kvöldmáltíðin, hvort líkami drottins væri verulega nálægur í kvöldmáltíðinni eða ekki með tilliti til orðanna: Þetta er minn líkami; þetta er mitt blóð. Zwingli og Kalvín neituðu sannri nálægð, Lúter hélt henni fram. Þegar hann var spurður, af hverri

skynsemis-ástæðu hann gerði þetta, sagði hann: Það er ekki skynsemi mín, heldur þessi orð: Þetta er líkami minn. Á þeim ritningarstað stóð hann og vildi ekki sameinast hinum, af því þeir voru honum eigi sammála um þetta. *Að svo miklu leyti sem eg veit, hefir aldrei nein opinber yfirlýsing verið ger til að gera játningarnar að lagaböndum,* en þær eru það í þessu efni. Til dæmis eru vanalega einhverjir prestar, sem eru að reyna að komast inn í vora kirkjudeild. Kirkjufélag vort velur þá nefnd manna til að prófa þessa menn, hvort þeir sé í samræmi við játningarritin. Ef þeir eru þeim samþykkir, er umsókn þeirra lögð fram og með henni mælt; ef þeir eru það ekki, er þeim synjað. Eg lít þess vegna svo á, að í verkinu skoði kirkjufélag vort þau sem lagabönd. *Að svo miklu leyti sem eg veit, er engin innblástursskýring gefin í þessum játningum.* Eg myndi segja, að kirkjan skoðar innblásturinn sjálfsagðan. Mér virðist orðtækið trúarvitund merkja þín trúarvitund eða mín. Eg vil segja, að það þýði ekki hið sama og testimonium spiritus sancti. Það skilst mér vera hinn sjálfgildi vitnisburður, sem guðs andi leggur annaðhvort í orðið eða einhvern hluta orðsins. Guðs orð og ritningin eru sömu merkingar og tákna alla biblíuna. Mér skilst að orðtækin: Biblían er guðs orð og: Guðs orð eins og það er opinberað í kanóniskum bókum biblíunnar, merki hið sama. Eg myndi skýra 2. grein grundvallarlaga Þingvalla-safnaðar svo, að hún merki, að í öllum efnum kenningar, trúar og siðferðis sé biblían eini og fullkomni leiðtoginn. Eg held þar sé ekkert átt við innblástur. Að minni hyggju breytti söfnuður, er samþykti slíka yfirlýsingu (eins og þá frá 5. júní) ekki í samræmi við kenningu lúterskra kirkjufélaga, sem þau játningarrit hafa, er vér höfum talað um; né heldur breytti hann í samræmi við 1. lið 2. greinar grundvallarlaganna, sem þér hafið lesið. Eg myndi álíta slíka samþykt fráhvarf frá trú safnaðarins.

Gagnspurður af
*Barða G. Skúlasyni,*
lögmanni sakborninga.

Ályktanir mínar eru dregnar af því sem eg álít að lúterska kirkjan kenni. — Spurning: Þegar þér talið um, að söfnuðurinn hafi brotið grundvallarlög sín, álítið þér sjálfsagt að þessi söfnuður hafi játast undir plenary-innblásturs kenninguna, er ekki svo? — Svar: Eg veit ekki til þess, að nokkur söfnuður hafi nokkuru sinni játast undir nokkura innblásturs-kenningu. En eg geri ráð fyrir því sem sjálfsögðu, að lúterskur söfnuður muni líta upp til guðs orðs sem dómstóls og myndi skoða biblíuna fullkomlega innblásna. Þegar eg er að athuga innblásturskenninguna, hugsa eg mér að eg hafi með plenary-innblástur að gera. Með bókstafsinnblæstri á eg ekki við ósjálfráðan innblástur, og heldur ekki þennan lauslega skilning, að guð hafi að eins gefið þeim erindið og látið þá fara sína eigin vegu, án tillits til annara hluta. Heilagur andi valdi ekki orðin, sem opinberunin er fólgin í. Í því efni er eg annarar skoðunar en séra Walper. Mín innblásturskenning heimtar að öllu sé trúað í biblíunni sem bókstaflega sönnu í efnum kenningar, trúar og siðferðis. Í efnum sögu, landafræði og slíkra hluta heimtar biblían ekki að hún sé skoðuð sem kenslubók. Eg er ekki að segja neitt um það, hvort eg trúi henni bókstaflega. Í vísindalegum efnum til dæmis, þegar vísindin hafa talað síðasta orð

sitt og komist að sannleikanum, og þegar guðs orð er skilið á þann hátt, sem guð ætlast til að það sé skilið, mun enginn árekstur verða. Samkvæmt vanalegri skýringu líffræðinnar á framþróuninni er uppruni mannsins rakinn aftur í gráa fornöld, hundrað þúsundir ára ef til vill, og þroskaferill hans er rakinn frá mjög lágum líftegundum. Og svo er mér kunnugt um frásögnina í 1. Mósebók um, hvernig maður og kona voru sköpuð. — Sp.: Hverja skýringuna á uppruna mannsins takið þér trúanlega? — Sv.: Eg kem nú að því sem eg sagði. Þegar vísindin hafa talað síðasta orð sitt og það er orðinn sannleikur í stað skýringar og þegar maðurinn skilur guðs orð eins og guð ætlaðist til að hann skildi það, verður held eg enginn árekstur milli þeirra tveggja, því þegar vísindin eru sönn vísindi, eru þau guðs orð og opinberanin er guðs bók. — Sp.: En hvað verður um bókstaf ritningarinnar eftir þeirri skýringu? — Sv.: Eg held ekki að neinn geti sagt, að sú skýring sköpunarinnar, sem nú er almenn, sé skilyrðislaust sönn. Eg á við þetta, að eg þarf ekki að trúa því til dæmis, að heimurinn hafi verið skapaður nákvæmlega á sex dögum. Eg álít að guð hefði getað gert það sem almáttugur guð, en það sýnir mér ekki, að hann hafi gert það nákvæmlega á sex dögum, tuttugu og fjögurra klukkustunda löngum hverjum fyrir sig, og eg veit ekki, hvort nokkur hefir rétt til að segja, að sköpunarsagan í 1. Mósebók bindi mann við það. — Eg vil ekki segja, að eg hafi slitið hugann alveg lausan frá bókstaf ritningarinnar. Eg mundi segja til dæmis, samkvæmt staðhæfingu Lúters í Marburg, að eg sé þar bundinn vð bókstafinn, af því það er efni trúar, kenningar og siðferðis. Eg held að orðið segi, að sólin og tunglið hafi staðið kyr að skipun Jósúa, því eg held, að guð hafi getað látið þau gera það. Eg held ekki að það felist endilega í þessu, að sólin hafi verið á hreyfingu kring um jörðina. Eg veit mjög vel að það segir að sólin hafi staðið kyr á himninum, en þar hverf eg aftur að því, að guð lætur manninn, sem er verkfæri hans, við hafa eigin orð sín. Eg trúi því, að guð hafi látið starf allra náttúrulögmála, sem maðurinn þekkir, í sambandi við gang sólar og tungls, hætta, þegar orð hans segir það. Eg vil segja, að sá maður, sem notar rétt sinn til að taka þetta í líkingarfullum, en ekki bókstaflegum skilningi, sé ekki vel lúterskur maður. Eg veit ekki, hvort eg trúi því, að guð hafi látið Adam sofna og tekið rif úr líkama hans og gert af því konu. Guðs orð virðist segja mér þetta, það er alt sem eg veit. Mér skilst ekki, að vísindin kenni neitt líkt þessu, en eg segi að líkindi sé til, að vísindin sé ekki komin að sannleikanum í þessu efni. — Sp.: Myndi maður, séra Glenn, sem í einlægni, guðrækni og auðmýkt, í ljósi vitundar sinnar, upplýstrar af heilögum anda — trúarvitundar sinnar — segði: „Eg finn mig knúðan til að hafna þessari frásögn um sköpun mannsins sem innblásnu guðs orði, myndi hann að yðar dómi hætta að vera lúterskur blásnu guðs orði, mundi hann að yðar dómi hætta að vera lúterskur kristinn maður? — Sv.: Ek held eg gegti ekki svarað þeirri spurningu, af því eg held, að ef hann væri guðrækinn maður, myndi sá tími aldrei koma, að hann segði: „Eg hafna henni". — Sp.: Það er, hafna henni ekki sem bókmentum, eða einum hluta bókmenta Gyðinga, en hafna því sem einum hluta guðs innblásinnar opinberunar til mannanna og sem sögulegum, líffræðilegum sannleik? — Sv.: Nei, eg held ekki að kristinn maður .... — Sp.: Gæti gert það? — Sv.: Nei, eg skal ekki segja

gæti gert það. Eg skal segja, myndi gera það. Því það eru sum úrlausnarefni stærri en hugur mannsins, og þó hann sjái einn partinn, hefir hann ekki rétt til að hafna. Þegar eg kem að úrlausnarefni, sem er mér of stórt, læt eg skynsemi mína hvíla og eg hvíli mig. — Sp.: Hugsum oss nú, að einhver maður geri þetta, hann hafni þessu; hann segi: „Eg fæ ekki trúað því, að þetta sé guðs innblásið orð eins og orðin standa þarna, eða að þetta sé sögulegur viðburður, og í þeim skilningi hafna eg þessu"; hugsum okkur nú að þetta geti komið fyrir, segið þér þá að hann myndi hætta að vera lúterskur kristinn maður? Eg vil fá yðar skoðan. — Sv.: Eg myndi segja, að væri hann vel lúterskur, myndi hann ekki hafna því. — Sp.: Og ef hann hafnar því, þá er hann ekki vel lúterskur? — Sv.: Eg vil ekki segja að hann væri ekki lúterskur, heldur segja að hann væri ekki vel lúterskur. Eg er ekki að draga takmörk þess að vera lúterskur. Það er ekki mitt að gera það. — Sp.: Mynduð þér segja, að hann hefði fallið frá grundvallaratriðum lúterskrar trúar? — Sv.: Eg myndi ekki gera neina staðhæfingu um það. Eg vil segja, að væri Lúter kominn þann dag í dag ofan til hinnar Sameinuðu lút. kirkju í Vesturheimi og segði hann að vér yrðum að kasta frá oss Jakobs- bréfi og hinum öðrum ritum, þá myndum vér ekki líta á hann sem vel lúterskan mann í okkar hópi.

### 8. Séra Níels Steingrímur Þorláksson, vitni sakaraðilja.

Frumspurður af
*Árna B. Gíslasyni.*

Eg á heima í Selkirk, Manitoba. Er fæddur á Íslandi 1857. Mentaður í þessu landi og í Noregi og Íslandi. Var við háskólann í Noregi í fjögur skólaár. Hefi enga guðfræðimentan fengið í þessu landi. Var prestvígður 1887. Ferðaðist til Íslands 1884. Var þá í sumarleyfinu tveggja mánaða tíma á Norðurlandi, nærri þeim stöðvum, er eg var uppalinn á. Mér skildist, að með tilliti til innblásturs-kenningarinnar væri kirkjan á Ísland óbreytt frá þeim tíma, sem eg var á Íslandi. Eg var uppalinn á heimili, þar sem mér var kent að skoða biblíuna í heild sinni guðs innblásið orð og hið sama var mér kent af prestinum, sem fermdi mig. Og mér skildist, að hver sem skoðaði hana í öðru ljósi, breytti gegn því sem vera ætti. Eg varð ekki neinnar breytingar var í þessu efni. Um það leyti, sem eg var fermdur, fanst mér aðalskilningurinn á biblíunni í kirkjunni á Íslandi vera sá, að hún sé guðs innblásið orð í heild sinni. Við kirkjuleg störf mín kyntist eg séra Jóni Bjarnasyni. Samband mitt við hann í guðfræðilegum störfum varð mjög náið. Hefi held eg lesið mest af ritum hans og hlýtt á hann í stólnum. Hefi verið með honum á kirkjuþingum. Hann fékk guðfræðimentan sína á Íslandi, var prestvígður þar og þjónaði sem aðstoðarprestur áður hann fluttist út 1873. Síðan hvarf hann aftur til Íslands og þjónaði þar fjögur ár, milli 1879 og 1883, held eg. 1884 hvarf hann aftur til Ameríku. — Spurning: Getið þér sagt mér, hver kenning hans var um biblíu-innblásturinn 1889? — Svar: Eg get ekki sagt, hver innblásturs-kenning hans var eða er, en get sagt, að hann trúði guðs orði, eins og það er opinberað í biblíunni — hið sanna guðs orð í heild sinni. Eg á við það, að hann hafi játað biblíuna alla sem

fyllilega innblásið guðs orð. Eg hefi fylgt sömu stefnu, og það er stefna, sem hann hefir ávalt haft síðan eg kyntist honum. Eg veit ekki til að kirkjufélagið hafi haft neina aðra stefnu. Eg var viðstaddur á kirkjuþingi 1909 og man eftir deilunni, sem þar átti sér stað. Hún var að nokkuru leyti um innblásturs-kenninguna. Erindrekar sakborninga máls þessa voru andvígir yfirlýsingunni, sem þar var samþykt af meira hluta kirkjuþings. Eg þjónaði Pembina-söfnuði og er partur af honum að ganga út. Eg kendi guðs orð þar eins og eg skil það og hefi látið í ljós hér. Meðan eg var þar, kom eigi fram nein óánægja með kenningu mína í þessu efni, eða með mig, þangað til skömmu áður en mér var sagt upp 1910 af nokkurum hluta safnaðarins. Eg þekki séra Friðrik Bergmann. Eg hefi skoðað hann leiðtoga andstæðinga-hreyfingarinnar, sem álitin hefir verið hið sama sem hreyfing nýrrar guðfræði, að nokkuru leyti að minsta kosti. Eg þekki skoðanir hans eins og hann hefir látið þær í ljós í ritum sínum, og er skoðunum hans jafnvel kunnugur í þessu efni fyrir tuttugu árum. Eg get ekki sagt, að hann hafi sömu skoðanir nú um biblíu-innblásturs-kenninguna og hann hafði áður. Hann hefir borist lengra og lengra burtu. Það byrjaði fyrir 10 árum. Skilningur minn á innblásturs-kenningu hans var þá, að hann kendi guðs orð í heild sinni, að ritningin í heild sinni sé guðs orð. Mér skilst hann ekki gera það nú. Samvizkufrelsið skil eg svo, að hver maður hafi frjálsræði til að velja og hafna eftir því sem honum þóknast. Góður lúterstrúarmaður getur ekki valið og hafnað hverju sem honum þóknast, og halda samt áfram að vera vel lúterskur og kristinn. Mér hefir skilist, að stefna Lúters í þessu efni hafi verið breytileg, unz hún varð föst. Hann fór töluvert langan þroskaferil. Hann efaðist um sum biblíuritin. Hann gekk svo langt, að hann hafnaði sumum hlutum ritningarinnar. Eg kannast við ummæli hans um Jakobs-bréf. Eg veit ekki, hver skoðan hans var um það bréf fyrir dauða hans. En eg hefi ávalt skilið það svo, sem hann styddist við guðs orð og að skoðanir hans um biblíuna hafi verið eftir sömu meginreglu og skoðanir lút. kirkjunnar yfirleitt. Mér er ekki kunnugt um neinn mismun á skoðunum Lúters um það leyti að hann dó og lút. kirkjunnar þann dag í dag. Eg hefi ávalt skoðað játningarnar lagabönd.—Sp.: Þér getið sagt, hvort það hafi verið skoðan kirkjufélagsins eða ekki? — Sv.: Mér hefr ávalt skilist að svo væri. Ástæðan til þess, að ekkert er sagt um innblástur í játningunum er sú, að játningarnar voru bygðar á biblíu-grundvelli, játuðu, að heilög biblía sé æðsta úrskurðarvald. En játningarnar hvíla á heilagri ritningu, og ráð var fyrir því gert að svo væri.. Það er gert ráð fyrir, að öll biblían sé innblásið guðs orð. Þetta er bygt á vitnisburði biblíunnar sjálfrar og drottins vors sjálfs. Eg á við staðinn í 2. Tím. 3,16, sem hér hefir verið vitnað til. Eg skýri hann svo, að hann merki, að öll rit gamla testamentis ritsafnsins sé innblásin. Orðtækið „guðs orð" er samnefni við r i t n i n g og merkir kanónísku bækurnar. Eg skal taka fram, að orðtækið: „Biblían er guðs orð", og þetta: „Guðs orð, eins og það er opnberað í hinum kanónísku bókum ritningarinnar" merkja hið sama. Mér hefir skilist, að þetta vera viðurkent svo og skilið af kirkju vorri. Mér hefir skilist, að trúarvitund merkja hina náttúrlegu eðlshvöt mannsins til trúar, — sem hver maður hefir. Það má viðhafa það við hvern mann, sem hefir eðlishvöt til trúar og trúarvitund. Orðtækið kemur mér ekki fyrir að vera óvanalegt, en fyrir mig hefir það þessa merkingu í för

með sér. Orðtækið: „testimonium spiritus sancti“ merkir sjálfgildan vitnisburð heilags anda gegn um ritninguna og alls ekki sama sem trúarvitund og hefir með því ekkert sameiginlegt. Eg hefi verið prestur íslenzkra safnaða lúterstrúar í landi þessu síðan að eg tók prestvígslu 1887. Eg skyldi það fullkomlega svo, að söfnuðirnir, sem eg hefi þjónað, á ýmsum tímum í landi þessu, hafi verið skuldbundnir til að vera í samræmi við játningar eða kenningarkröfur kirkjunnar á Íslandi, eins og tekið er fram í játningunum, sem samþyktar eru af kirkjunni á Íslandi. eins og líka söfnuðunum, sem eg hefi þjónað í kirkjufélaginu, sem eg heyri til. Mér hefir sannarlega fundist að eg hafa frjálsræði til að kenna hvað sem mér þóknaðist með tilliti til kirkjunnar á Íslandi. Það hefir aldrei verið neitt samband milli kirkjufélags vors og þeirrar kirkju. Eg er yfirlýsingunni kunnugur, er sakborningar samþyktu 5. júní 1910 og 1. lið 2. greinar grundvallarlaga Þingvalla-safnaðar. Söfnuður, er slíka yfirlýsingu samþykkir, breytti ekki að ætlan minni í samræmi við trúarkenningar lútersku kirknanna, er sömu játningarkröfu hafa og Þingvalla-söfnuður. Með samþykt slíkrar yfirlýsingar breytti hann heldur ekki í samræmi við 1. lið 2. greinar safnaðarlaga sinna. Mér virðist það vera fráhvarf frá trú safnaðarins að gera þá samþykt. Að mínu áliti merkir 1. liður 2. greinar, að kanóniskar bækur ritningarinnar sé í heild sinni innblásið guðs orð. Mér sýnist ekki, að söfnuður, sem álítur suma parta biblíunnar óinnblásna, heldur ósanna og óábyggilega, geti verið í samræmi við trúarkröfur Þingvalla-safnaðar eins og þær eru fyrirskipaðar í grundvallarlögunum.

Gagnspurður af
*Hjálmari A. Bergman,*
lögmanni sakborninga.

Mér virðist skilningur séra Friðriks Bergmanns vera sá sami og haldið er fram af sagborningum máls þessa. Mér virðist að skýring hans á innblásturs-kenningunni sé í samræmi við ummæli hans í ræðu og riti um það efni síðustu 10 árin. Eg held eg gæti sagt, að svo miklu leyti, sem eg skildi hann, að skýring hans á innblásturs-kenningunni, eins og hann gerði grein hennar hér, væri að efni til skýring, sem hann hefir verið að berjast fyrir sem leiðtogi þessarar hreyfingar í kirkjufélaginu. Eg er bróðir séra Páls Þorlákssonar, sem átti í deilu við séra Jón Bjarnason fyrstu ár hinnar íslenzku bygðar. Eg vil ekki segja, að séra Jón Bjarnason kendi í kirkjunni á Íslandi, að trúarvitundin væri æðsti dómarinn, og eg vil ekki neita, að hann hafi gert það. Séra Jón Bjarnason notar á íslenzku nákvæmlega sama orðið, sem við haft er í yfirlýsingunni, sem vítt hefir verið. Eg er ekki að halda því fram, að séra Jón Bjarnason hafi ekki réttilega gert grein fyrir skilningi kirkjunnar á Íslandi í erindi þessu, „Réttarskjal 511—A“ (Nauðs. hugv.), og heldur ekki að segja, að hann hafi gert það. Eg veit, að kirkjufélagið íslenzka var bygt á sama játningargrunni og átti sér stað á Íslandi, er það var myndað. *Kirkjufélagið var myndað í þeim tilgangi, að kenna lúterskan kristindóm, eins og hann var þá kendur á Íslandi, og samkvæmt játningunum og heilagri ritningu,* en ekki hverju sem tíðkaðist eða prédikað var og kent á Íslandi. *Fólk frá Íslandi vissi vitaskuld, hvernig játningarrit þessi voru skilin í kirkjunni á Íslandi* — að það var sami kristindómurinn, sem kendur var. *Mér er ekki kunnugt*

*um nokkurt ósamræmi nú sem stendur milli kirkjufélagsins íslenzka og norsku sýnódunnar.* Eg veit, að séra Jón Bjarnason hélt því fram, áður en kirkjufélag vort var myndað, að gagngerður mismunur ætti sér stað í aðal-kenningar-atriðum milli kirkjunnar á Íslandi og norsku sýnódunnar, og mismunurinn var í því fólginn, að sýnódan var ekki eins frjálslynd í kenningarefnum og kirkjan á Íslandi, — að hann áleit, að norska sýnódan væri of rétt-trúuð. En hann hefir tekið fram, að um þetta leyti hafi hann bæði verið áhugalítill í trúarefnum, og að stefna margra í íslenzku kirkjunni hafi verið vanakristindómur, en ekki andlegur kristindómur. Hann sá það betur og betur, eftir að hann kom til þessa lands. *Séra Jón Bjarnason var mjög frjálslyndur í kenningarefnum, þegar hann kom fyrst til þessa lands.* Eg vil ekki segja, að hann hafi verið álitinn af bróður mínum og norsku sýnódunni nærri því trúvillingur. Eg held að séra Jón hafi síðan kannast við, að hann hafi ekki verið í samræmi við kirkjuna á Íslandi í sumum greinum, að minsta kosti 1879. *Það hefir orðið breyting síðan á þessum fyrstu dögum á stefnu séra Jóns Bjarnasonar* í áttina til að verða andlegri, fastheldnari við guðs orð og játningar lút. kirkjunnar, *frá mínu sjónarmiði.* Eg segi ekki, að hann hafi látið hrekjast frá trúargrundvelli kirkjunnar á Íslandi, langt frá. Eg neita því. Eg get ekki sagt, að hann hafi fylgt fram skoðunum kirkjunnar á Íslandi 1879. Eg vil ekki gera hann ómerkan. *Eg held, að í deilu þessari við bróður minn, hafi hann haldið því fram, að hann væri sjálfur réttur fulltrúi stefnu kirkjunnar á Íslandi og að bróðir minn væri fulltrúi norsku sýnódunnar.* Eg get ekki sagt, hvort nokkur veruleg breyting hefir orðið á skilningi kirkjunnar á Íslandi í innblásturs-kenningunni síðan 1906. En eg get sagt þetta, að frjálslyndið á Íslandi hefir verið að vaxa meira og meira, eins og fram hefir komið hjá biskupinum og kennurunum við háskólann.

Frumspurður öðru sinni af
*Árna B. Gíslasyni.*

Eg get ekki sagt, að skilningur séra Jóns Bjarnasonar í þessu kenningaratriði um innblásturinn sé sami nú og þegar hann fór til Íslands 1870. Eg veit, hver skilningur hans var 1887. Eg var prófaður af honum og séra Friðriki Bergmann í innblásturs-kenningunni, og eg skrifaði ritgerð um innblásturinn. Í þeirri ritgerð kom eg fram með kröfu um fullkominn innblástur allar biblíunnar í heild sinni og séra Friðrik Bergmann var vel ánægður með. Eftir því, sem eg hefi litið á, er nú mismunur í kirkjunni á Íslandi að því er innblásturs-kenninguna snertir og stefnu hennar í því efni eins og hún var fyrir 25 árum. Frjálslyndið hefir aukist. Eg vil halda því fram, að mikil breyting hafi átt sér stað í þessu efni, einkum síðustu tíu eða fimtán árin. Mér skilst, að þeir menn, sem eg er hér um að tala, biskupinn og kennararnir, sé álitnir leiðtogar ný-guðfræði-hreyfingarinnar á Íslandi.

### 9. Séra Björn B. Jónsson,

kallaður fram öðru sinni sem vitni sakaraðilja.

Frumspurður af
*Árna B. Gíslasyni.*

Eg er fæddur á Íslandi. Kom til lands þessa 1876. Settist að á Gimli,

Manitoba. Séra Jón Bjarnason og séra Páll Þorláksson komu þangað hér um bil um sama leyti. Eg var fermdur af séra Jóni; hann bjó mig undir fermingu 1885. Eg hefi skoðanir mínar um innblásturinn frá honum. Og þessar fyrstu skoðanir mínar eru þær sömu og skilningur minn þann dag í dag, og það er að alt guðs orð, öll biblían, sé guðs innblásið orð. Eg hefi verið séra Jóni Bjarnasyni nákunnugur nærri ávalt síðan. Eg hefi starfað með séra Jóni að guðfræðilegum efnum og verið á öllum kirkjuþingum síðustu tuttugu ár; hann hefir verið á þeim flestum. Eg hefi oft átt samræður við hann um kenningarefni. Hefi lesið ritgerðir hans og heyrt hann í stólnum. Eg hefi aldrei heyrt hann anda frá sér neinu, er andstætt hafi verið skoðunum þeim, er hann kendi mér um innblásturinn. Eg er séra Friðrik Bergmann kunnugur. Hefi þekt hann síðan 1881. Hann var kennari minn í alþýðuskólanum þann vetur. Hann hefir verið reglulega á kirkjuþingum, síðan eg fór að vera þar, unz hann gekk úr kirkjufélaginu. Eg er kunnugur ritgerðum hans um kenningar-efni og hefi á ýmsum tímum átt viðtal við hann um þau efni. Eg hefi að eins við og við hlýtt á ræður hans í stólnum. — Spurning: Getið þér sagt, hver skilningur hans var á kenningunni um innblástur biblíunnar á þessum fyrstu árum kirkjufélagsins? — Svar: Eg held eg geti það. — Sp.: Þér getið sagt, hver skilningur hans var. — Sv.: Að minni hyggju var skilningur hans um þetta leyti sá, að hann hélt mjög stranglega fram fullkomnum innblæstri allrar biblíunnar. Byggi eg þetta að miklu leyti á fyrirlestri, sem hann flutti um það leyti sem eg tók prestvígslu, á sama kirkjuþinginu, sem hafði mjög ákveðin áhrif á mig þá, þar sem hann heldur fram mjög sterklega og ver hinn gamla skilning lútersku kirkjunnar um úrskurðarvald og gildi biblíunnar 1893. Í samvizkufrelsinu skilst mér felast meðskapaður réttur einstaklingsins til að skera úr fyrir sjálfan sig í öllum trúarefnum. Kæmist einhver, sem væri að færa sér samvizkufrelsið í nyt, að þeirri niðurstöðu, að hann gæti hafnað heilagri ritningu, yrði hann ekki velmetinn meðlimur lúterskrar kirkju, en hann hefir réttinn til að fara svo langt. Mér hefir aldrei skilist, að Lúter hafi haldið því fram, að maður gæti játað og hafnað í heilagri ritningu, eftir að hann hafði náð þeim þroska, sem lúterska kirkjan miðar við, þegar hún talar um hann sem föður sinn um fram aðra. Mér hefir ekki skilist, að hann hafi alla æfi haldið fram sömu skoðunum um innblásturs-kenninguna. *Mér hefir verið sagt, að hann, nokkuru eftir að hann yfirgaf katólska kirkju, hafi álitið að hafna mætti pörtum heilagrar ritningar. Og mér hefir verið kent, að hann hafi tekið mjög ákveðinni breytingu á efri dögum sínum. Eftir því, sem eg hefi lesið um þetta atriði, vil eg segja, að um það leyti sem hann dó, hafi hann játað innblástur allrar biblíunnar.* Að mínu áliti er skilningur lútersku kirkjunnar í Ameríku yfirleitt í samræmi við skilning Lúters á innblásturs-kenningunni um það leyti sem hann dó. Lúterska kirkjan gerir ráð fyrir og skoðar sjálfsagðan fullkominn innblástur biblíunnar, og er sá skilningur bygður á biblíunni sjálfri, 2. Tím. 3,16. Eg held það sé svona: „Öll ritning innblásin af guði", um þetta leyti bækur gamla testamentisins. — Sp.: Skýrið ofurlítið greinilegar, hvað þessi staður merkir, „öll ritning innblásin af guði". — Sv.: Alt helgiritasafnið, þau rit, sem menn hafa álitið að næði þessu hámarki, eru spámannlegs og postullegs uppruna; öll biblían eins og við tölum um

hana — *Eg held ekki, að eg hafi nokkuru sinni dottið ofan á orðtækið trúarvitund (r e l i g i o u s c o n s c i o u s n e s s) í ensku ritmáli. Það merkir meðfædda eðlishvöt mannsins til trúar.* Eg álít ekki að það eigi við um kristna menn að eins. Það merkir ekki hið sama og „testimonium spiritus sancti". Vitnisburður heilags anda er algerlega sjálfgildur (objective) og kemur frá guði, guðs heilaga anda, og ber vitni fyrir manninum, þar sem vitundin eða eðlishvötin hjá manninum er hans eigin, hugræn (subjektive). Guðs orð merkir biblíuna, heilaga biblíu, alla saman. Ritning merkir allar kanóniskar bækur biblíunnar. — Sv.: Eg ætla að biðja yður greina sundur þessi tvö orðtæki: „Biblían er guðs orð" og „guðs orð eins og það er opinberað í kanóniskum bókum biblíunnar. — Sv.: Eg fæ engan greinarmun þeirra gert. Eg veit hvað 1. liður 2. greinar merkir í grundvallarlögum Þingvalla-safnaðar. Eg er kunnugur yfirlýsingunni frá 5. júní 1910 og málsgreininni, sem byrjar svo: „Söfnuðurinn neitar, að trúarvitund mannsins" o. s. frv. — Sp.: Breytir söfnuður að yðar hyggju í samræmi við trúarkenningar hinna ýmsu lútersku kirkjudeilda, er þau játningarrit hafa, sem hér hefur verið vitnað til og Þingvalla-söfnuður hefur samþykt, með því að samþykkja slíka yfirlýsingu? — Sv.: Nei. — Sp.: Breytti söfnuður í samræmi við 1. lið 2. greinar í safnaðarlögum Þingvalla-safnaðar með því að samþykkja slíka yfirlýsingu? Sv.: Nei. — Sp.: Álítið þér slíka samþykt frávikning frá trú safnaðarins? — Sv.: Já. Að mínu áliti merkir 1. liður 2. greinar grundvallarlaga Þingvalla-safnaðar, að kanóniskar bækur biblíunnar sé í heild sinni innblásið guðs orð. Eg álít ekki að söfnuður, sem heldur því fram, að sumir partar kanóniskra bóka sé ekki innblásnir, heldur ósannir og óábyggilegir, sé í samræmi við trúarkröfu Þingvallasafnaðar. — Sp.: Álítið þér það glögga og skýra frávikning frá trú þessa safnaðar? — Sv.: Já. — Sp.: Álítið þér það fráhvarf frá öllum lúterskum kirkjum, er hafa þessi sömu játningarrit? — Sv.: Já. Það hefur ávalt verið minn skilningur, að séra Friðrik Bergmann hafi verið hlyntur breytingu á grundvallarlögum kirkjufélagsins, „Réttarskjal 501". Prófessor Mc Giffert er prófessor við Union Theological Seminary. Sá skóli er ekki í sambandi við neina kirkjudeild nú. Presbýtéra-kirkjan hélt honum uppi og stýrði honum áður, en hún hefir hætt að kannast við hann, sakir trúvillukenninga. Mc Giffert var prestur í Presbýtéra-kirkjunni, áður hann komst í samband við prestaskólann, en hann var kærður um trúvillu af Presbýtéra-kirkjunni fyrir einum fimtán árum, held eg, og er ekki prestur þeirrar kirkjudeildar nú, eftir því sem mér skilst.

Gagnspurður af
*Barða G. Skúlasyni.*

Eg er 41 árs. Kom frá Íslandi, þegar eg var sex ára. Séra Jón Bjarnason á heima í Winnipeg. Hann er annaðhvort 65 eða 66 ára gamall. Er ekki heilsuhraustur en starfsamur í þjónustu kirkjunnar; þjónar söfnuði í Winnipeg með einum 1000 meðlimum, stærsti söfnuður Íslendinga í Ameríku. Fyrirlestur séra Friðriks, sem eg benti á, var, held eg, lagður fram í réttinn. Hann var fluttur á kikjuþingi 1893. Eg skipa honum í flokk með nýguðfræðingum, og sömuleiðis biskupi og prófessorunum við guðfræðideildina á Íslandi. Eg skoða séra Friðrik Bergmann leiðtoga safnaðanna, sem gengið hafa úr kirkjufélaginu, að

söfnuði sakborninga meðtöldum. Það er torvelt fyrir mig að svara því, hvort eg álíti að hann hafi gefið verulega rétta skýringu skoðana sinna á vitnapallinum í máli þessu um innblástur biblíunnar. Eg verð að segja, að mér hefir stundum verið torvelt að fullvissa mig um stefnu hans, því mér hefir oft fundist hann óljós, og í umræðum vorum hér áður fanst mér hann stundum forðast aðalatriðin. Eg held að hann hafi nú talað ljósara en vanalega, þó eg verði að segja, að hann jafnvel nú hafi lýst skoðan sinni fremur óljóst, og að sumu leyti forðast aðalatriðin. Hann hefir komið fram með ummæli endrarnær, sem gengið hafa lengra en þau, sem hann kom með nú. Nokkurn hluta þess sem hann sagði, skildi eg, — nokkurn hluta skildi eg ekki. Mér finst skilningur hans vera sá, að í þeirri merkingu, sem orðið innblástur er notað í guðfræði, og ávalt hefir verið, trúi hann ekki á innblástur allrar biblíunnar. Eg skipa honum helzt í flokk þeirra, sem fylgja kenningunni eða skýringunni um innblástur að nokkuru leyti. Hugmynd hans um innblástur, eins og hún kom fram í framburði hans, eftir því sem mér skildist, er ólík hinni viðurkendu innblásturs-kenningu, eða innblæstri, sem eg hefi heyrt lýst af nokkurum guðfræðingi, eða veit til að sé gerð grein fyrir honum af nokkurum guðfræðingum lútersku kirkjunnar. *Yfirlýsingin ein af hálfu einstaklingsins, að hann haldi fram og trúi samvizkufrelsi í trúarefnum, er ekki trúvilla. En ef maður, sem notar það rétt, hafnar t. d. einni af kanóniskum bókum biblíunnar, víkur hann frá hinum viðurkendu kröfum.* Eg held að síðasta ameríska endurskoðan biblíunnar megi álítast rétt, og eg held líka að hina aðra þýðingu megi álíta rétta. Eg held að báðar merki í raun og veru hið sama, þar sem um 2. Tím. 3,16 er að ræða. *Það er mannkynssögu-atriði, að þó Lúter kunni að hafa fært sér samvizkufrelsið í nyt á yngri árum, til þess að hafna nokkurum kanóniskum bókum, þroskaðist hann þó svo, að hann á síðari árum játaði alla biblíuna sem innblásið guðs orð. Eg hefi ekki þá sögu hér.*

Frumspurður öðru sinni af
*Árna B. Gíslasyni.*

Hvort séra Jón Bjarnason er ferðafær eins og stendur, er undir því komið, hvernig ferðalaginu væri háttað. Hann hefir hjartasjúkdóm, sem er mjög hættulegur, og hann má ekki verða fyrir hugaræsingu.

## HÆSTARÉTTARDÓMARARNIR,

### ER DÓMINN FELDU

---

**Charles J. Fisk,** háyfirdómari,

er fæddur 11. marz 1862 í Illinois-ríki og er bóndasonur. Skólanám, bæði í almennum mentum og lögum, leysti hann alt af hendi í því ríki. Til Norður-Dakota kom hann 1886 og gengdi lögmannsstörfum í bænum Larimore, unz hann fluttist til Grand Forks 1. febr. 1889. Var hann þar í félagi við ýmsa helztu lögmenn ríkisins, eins og Cochrane dómara, Tracy R. Bangs og George A. Bangs. Árið 1896 var hann kosinn dómari í fyrsta dómsmálahéraði ríkisins. Þótti hann standa í þeirri stöðu með miklum sóma og vann sér svo mikla almenningshylli, að hann öðlaðist stuðning beggja stjórnmálaflokkanna jafnt við næstu kosningar 1900. Gagnstætt því sem áður hafði átt sér stað í ríkinu, studdu samveldismenn (repúblíkar) hann af alefli til kosninga, þó sérveldismaður væri, og sýndu með því, ef til vill fyrsta sinni í sögu ríkisins, að mannkosti og hæfileika ber að meta meira en flokksfylgi. Við kosningar 1904 var hann aftur kosinn héraðsréttardómari. Og tveim árum síðar, var hann með miklum meira hluta korinn hæstaréttardómari. Hafði þá verið undirréttardómari í tíu ár, og fengið mikla og margbreytta þekkingu á mönnum og málefnum. Hann er maður með háum hugsjónum, mikilli lagaþekkingu og víðtækri reynslu, þar sem hann hefir verið málaflutningsmaður í tíu ár, héraðsréttardómari önnur tíu ár og hæstaréttardómari í níu ár. Hann á heima í bænum Bismarck, sem er höfuðborg Norður-Dakota. Hann er fjörmaður og hvers manns hugljúfi, um leið og hann er hinn virðulegasti maður, er allir hljóta að bera lotningu fyrir. Hann varð háyfirdómari (Chief Justice) í janúar 1915.

**Edward T. Burke,** dómari,

er fæddur í bænum Minneapolis í Minnesota-ríki 5. nóvember 1870 og er af írskum ættum. Vann faðir hans fyrst á járnbraut, en gerðist síðan bóndi í grend við bæinn Fargó í Norður-Dakota, þar sem Edward ólst upp, og telur sér það ávalt til gildis, að hann sé fær um að inna öll bændastörf af hendi. Hann stundaði nám við alþýðuskólann í Fargó; miðskólanám leysti hann af hendi við háskóla Norður-Dakota, en háskólanám við háskólann í Minnesota í Minneapolis, þar sem hann tók fullnaðarpróf með lærdómsgráðunni Legum baccalaureus. Lögmannsstörf byrjaði hann í bænum Valley City í Norður-Dakota og var

um tvö kjörtímabil (4 ár) ríkislögsóknari í Barnes County. Um tvö kjörtímabil (8 ár) var hann héraðsdómari í fimta dómsmálahéraði ríkisins. Árið 1910 var hann korinn hæstaréttardómari. Á stjórnmálasviðinu aflaði hann sér mests álits meðan hann var ríkislögsóknari í Barnes County. Áður höfðu fylgismenn áfengissölu verið nokkurn veginn einir um hituna. En sem ríkislögsóknari hóf Burke baráttu fyrir löghlýðni og reglusemi og vegna frækilegrar frammistöðu í þeirri baráttu var hann korinn héraðsdómari. Frægasta málið, sem hann hefir ritað dómsúrskurð í, er málið, sem höfðað var af ríkinu gegn Armour, þar sem réttmæti ríkislaganna um hreina matvöru (Pure Food Laws) fékk rækilegan stuðning. Burke dómari er kvæntur og á þrjá sonu. Hann á margar jarðir og í sumarleyfunum er akuryrkjan bezta skemtan hans.

**Evan Benson Goss,** dómari,

sem ritað hefir hæstaréttardóminn í máli Þingvalla-safnaðar, er fæddur í Michigan-ríki 1872 og er bóndasonur. Hann var snemma settur til menta, og gekk í gegn um mentamáladeildina við háskóla ríkisins í Ann Arbor og síðan gegn um lögfræðideildina; hefir sá háskóli lengi verið álitinn einn allra-bezti háskóli Bandaríkja, að því er lögvísi snertir. Þaðan útskrifaðist hann sem Legum baccalaureus árið 1904. Næsta ár hélt hann laganámi áfram og varð meistari í lögum — Legum magister. Árið 1895 kom hann til Norður-Dakota og settits að í bænum Bottineau, þar sem hann varð fljótt helzti maður og eignaðist blómlega búgarða, um leið og hann rak lagastörf sín með miklum áhuga og aflaði sér hins bezta álits. Í stjórnmálum er hann samveldismaður (repúblíki), en Fisk dómari sérveldismaður (demokrati). Hann var ríkislögsóknari í Bottineau County um tvö kjörtímabil, frá 1896 til 1899. Lögmannsstörfum gegndi hann í Bottineau þangað til árið 1904. Þá var hann korinn dómari í áttunda dómsmálahéraði, sem þá náði frá Bottineau vestur til Montana og var tvö hundruð enskar mílur á lengd og sjötíu og fimm mílur á breidd, og er nú skift niður í þrjú dómsmálahéruð. Þegar hann varð héraðsdómari, fluttist hann til Minot þar sem héraðsdómurinn hefir aðsetur. Héraðsdómari var hann í sex ár, endurkosinn 1908. Fór álit hans sem dómara sívaxandi víðs vegar um ríkið og varð tilefni til þess, að hann var korinn hæstaréttardómari. Árið 1910 var hann korinn meðdómari í hæstarétti ríkisins og tók við því embætti í jan. 1911. Hann kvæntist 1898 Louisa J. Wright frá bænum Crystal í Norður-Dakota. Hann heyrir til biskupakirkju Metódista í Bandaríkjunum. Hann er kunnur fyrir að vera starfsmaður hinn mesti og eignaðist þegar snemma á árum bókasafn svo stórt í lögfræði, að til þess var tekið. Þekking, elja, skýrleikur vitsmunanna og næm réttlætistilfinning virðast vera þeir hæfileikar, sem aukið hafa álit hans sem hæstaréttardómara með hverju ári.

---

# HÆSTARÉTTARDÓMURINN

---

**Goss dómari:**

Þetta er málsókn að lögum, til að ná umráðum yfir kirkjueign og skjölum Hins ev. lút. Þingvalla-safnaðar, sem er löggilt trúarfélag. Félag sakborninga hafði verið til eins og löggilt safnaðarfélag frá myndan þess 1889, þangað til sumarið 1910. Árið 1909 varð sundrung vegna mismunandi trúarskoðana um innblástur ritningarinnar. Í maí 1910 sögðu sóknaraðiljar, meðlimir þessa félags, sig úr samvinnu að safnaðarmálum. Sakborningar, eða meiri hlutinn, vísaði presti sínum úr embætti og létu söfnuðinn ganga úr kirkjufélaginu, þrátt fyrir andmæli minni hlutans, sem það hafði tilheyrt árum saman, og löggilti hann síðan. Samkvæmt beiðni minni hlutans og án nokkurrar hluttöku meiri hlutans og tilkynningar, viðurkendi kirkjufélagið með yfirlýsingu minni hlutann, sem réttan söfnuð, og lýsti yfir því, að meirihlutinn hefði vikið frá hinni upphaflegu trú kirkjufélagsins og hefði með því brotið grundvallarlög Þingvalla-safnaðar. Minni hlutinn hóf þá mál þetta í nafni fulltrúa sinna og sakaði sakborninga og safnaðarfólk þeirra um, að hafa vikið frá hinni upphaflegu trú, sem trúarfélag þetta var myndað fyrir og átti að útbreiða. Þessu neita sakborningar.

Kviðdómi var afsalað. Kæran var dæmd sönn og dómur bókaður sakaraðiljum í vil. Sakborningar áfrýja.

Þau sérstöku atriði dómsins, sem nauðsynlegt er að athuga, eru einungis hið þriðja og fjórða. Hið þriðja hljóðar svo: „Að kenningin um plenary-innblástur biblíunnar sé ein af grundvallarkenningum lúterskrar kirkjudeildar.“ Hið fjórða er: *„að kenningin um plenary-innblástur biblíunnar hafi verið eitt af grundvallar trúaratriðum Þingvalla-safnaðar, þegar hann var myndaður og að grundvallarlög Þingvalla-safnaðar hafi þá og ávalt síðan gjört ráð fyrir og gjöri nú ráð fyrir þessari kenningu.“*)* Bæði þessi dómsatriði eru véfengd, er áfrýjað var, sem óstudd af fullnægjandi og réttmætum sannanagögnum.

Þegar kveða skal á um, hvort vikið hafi verið frá upprunalegri trú, verður fyrst að ákveða, hvaða trú það hafi verið, með sérstöku tilliti til kenningarinnar um plenary-innblástur, sem nú er staðhæft að hafi verið eitt atriði hennar, og fullyrt, að fráhvarf frá henni sé trúvilla. Kenningin um plenary-innblástur merkir meira en það, að ritningin sé innblásin. Americana Encyclopaedia (útg. 1914) 11. bindi, undir orðinu Inspiration og 13. bindi sama ritverks

---

*) Leturbreytingarnar eru allar dómarans.

undir Lutheran Church in America og Lutheranism. Nelsons Encyclopaedia, 6. bindi, Inspiration. Century Dictionary gefur þessa skilgreiningu yfir plenary-innblástur: „Við hvað er átt með plenary-innblæstri? Guðleg áhrif, fullkomin og nægileg til að ná markmiði sínu. Markmiðið, sem í þessu efni er náð, er fullkominn óskeikulleiki biblíunnar í sérhverri grein sem skrásetning staðhafna og kenninga, bæði að því, er hugsan og orðaval snertir.“ Sú skilgreining plenary-innblásturs er gefin af sérfræðingum, sem fram hafa verið kallaðir í þessu máli, að ritningin hafi verið færð í letur af mönnum, sem voru svo fullkomlega innblásnir, að hvað sem þeir rituðu, var orð guðs sjálfs og án villu. Af þessari kenningu er dregin sú ályktan, að engin mannleg vera hafi þess vegna rétt til að hafna nokkurum kafla biblíunnar, hins fullkomna verks guðs, sem skökkum eða villandi. Biblían liggur þess vegna fyrir ofan það svið, sem hugsanafrelsið nær til, að því er ritvissu og sannindi hennar snertir. Í þessu er kenningarkrafa þeirra fólgin, sem halda fram plenary-innblæstri. Á hinn bóginn *viðurkenna sakborningar að ritningin sé innblásin*, en halda fram, að hugsanafrelsið nái til alls í sambandi við heilaga ritningu, neita kenningunni um plenary-innblástur og staðhæfa, að plenary-innblástur hafi aldrei verið kenning, sem lögð hafi verið til grundvallar eða notuð á annan hátt, hvorki í félagi þeirra, né í lúterskri kirkju Íslands, sem það er runnið frá, og fullyrt er að það sé í samræmi við samkvæmt sjálfum grundvallarlögum þess.

Þetta leiðir hugann til að leita að skjalfestum sannanagögnum fyrir grundvallartrú þessa félags og móðurkirkjunnar á Íslandi, og þar næst til íhugunar um samband þess sem safnaðar við kirkjufélag þetta, úrsögn þess úr því og gildi samþykkta, er gjörðar hafa verið af kirkjufélaginu í þessu efni. Grundvallarlög safnaðarins eins og þau voru upphaflega samþykkt, eru á þessa leið:

**Grundvallarlögin nefna ekki plenary-innblástur á nafn.**

„1. grein. Nafn.

Nafn safnaðar vors er Þingvalla-söfnuður.

2. grein. Trúarjátning.

1. Guðs orð, eins og það er opinberað í hinum kanónisku bókum ritningarinnar, er hin sanna uppspretta og hið fullkomna lögmál fyrir kenning, trú og hegðan safnaðarins.

2. Söfnuðurinn játast undir lærdóma heilagrar ritningar á sama hátt og hin lút. kirkja á Íslandi í trúarjátningarritum sínum.

3. Söfnuðurinn skal vera í sambandi við hið lút. kirkjufélag Íslendinga hér í landi, sem fylgir sömu trúarjátning og hann.

5. grein. Réttindi.

1. Söfnuðurinn hefir vald til að skera úr og skipa fyrir í öllum safnaðarmálum. Afl ræður úrslitum á fundinum.

11. grein. Eignir.

Eignir þess safnaðar geta ekki gengið í annara hendur, nema söfnuðurinn ákveði það með tveim þriðju allra atkvæða. Sundrist söfnuðurinn, heldur sá hluti hans eigninni, sem heldur fast við þessi safnaðarlög.

13. grein. Lagabreyting.

Ekki verður lögum þessum breytt nema tveir þriðju atkvæða á safn-

aðarfundi samþykki breytinguna. Þó þarf hún að hafa verið borin upp og rædd á næsta fundi á undan. En fyrsta lið annarar greinar verður þó aldrei breytt."

Grundvallarlög kirkjufélagsins, að svo miklu leyti sem þau eru nauðsynleg til skilnings á deiluatriðunum, eru svo:

„1. grein.

Kirkjufélagið heitir: Hið evangeliska lúterska kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi.

2. grein.

Tilgangur kirkjufélagsins er að styðja að eining og samvinnu kristinna safnaða af hinni íslenzku þjóð í heimsálfu þessari, og yfir höfuð efla kristilegt trúarlíf hvarvetna þar sem það nær til.

3. grein.

Kirkjufélagið trúir því, að heilög ritning, — það er: hinar kanónísku bækur gamla og nýja testamentisins, — sé guðs opinberað orð og hin eina sanna og áreiðanlega regla fyrir trú manna, kenning og lífi.

4. grein.

Kirkjufélagið viðurkennir hinar almennu trúarjátningar kirkjunnar ásamt hinni óbreyttu Ágsborgarjátningu og Fræðum Lúters sem rétta framsetning og útskýring guðs heilaga orðs.

5. grein.

Kirkjufélagið skal hafa eftirlit með hinum einstöku söfnuðum sínum, að því er stjórn, kirkjusiði og hið ytra fyrirkomulag guðsþjónustunnar snertir. Einnig skal það annast hreinan og guðs orði samkvæman kirkjuaga til viðhalds og eflingar hinu heilaga kennimannsembætti, og ennfremur hafa umsjón yfir kristilegri breytni safnaða sinna og ganga eftir trúmensku presta og safnaða við trúarjátning þess.

8. grein.

.... Hann (forsetinn) skal skera úr ágreiningi, er upp kann að koma meðal safnaðanna og hafa umsjón á hendi með prestum og söfnuðum félagsins. Safnaðarmálefni, er samkvæmt eðli sínu geta heyrt undir kirkjuþingið, skulu þó borin þar upp til endilegs úrskurðar, ef hlutaðeigendur æskja samkvæmt 11. grein.

11. grein.

Kirkjufélagið hefir á ársþingum sínum æðsta úrskurðarvald í öllum kirkjulegum ágreiningsmálum, sem upp kunna að koma á millum safnaða þess eður innan þeirra.

13. grein.

Hver lút söfnuður Íslendinga í Vesturheimi, sem vill ganga í kirkjufélagið, verður: 1) að samþykkja grundvallarlög þess, 2) beiðast skriflega inngöngu í kirkjufélagið og 3) leggja safnaðarlög sín fyrir kirkjuþing til álits. Ef kirkjufélagið úrskurðar safnaðarlögin í samræmi við grundvallarlög kirkjufélagsins og samþykkir inntöku safnaðarins með tveim þriðju atkvæða viðstaddra þingmanna, er söfnuðurinn með því reglulega genginn inn í kirkjufélagið."

Það er eftirtektarvert, að hvergi í grundvallarlögum þessum er nokkur

sérstök umsögn um nokkura innblásturs-kenningu. Á 1. lið 2. greinar í grundvallarlögum safnaðarins og á 3. grein í grundvallarlögum kirkjufélagsins byggist sú staðhæfing sakaraðilja, að plenary-innblástur hafi verið grundvallarkenning svo fyllilega, að gert hafi verið ráð fyrir henni í þessum grundvallarlögum. Þetta var álitin staðreynd af undirréttinum.

Nú liggur fyrir að taka til umræðu stjórnarskipulag þessa safnaðar, að því er samband hans við kirkjufélagið snertir. Kannast er við, að söfnuðurinn varð til sem óháð félag, er stjórnað var samkvæmt grundvallarlögum þess og það skjal var þá sambandssamningurinn eða gildandi lög milli meðlimanna og safnaðarins. Bear v. Heasly, 98 Mich. 279, 57 N. W. 270, 24 L. R. A. 615.

Annar liðurinn um játningarnar tekur fram, að „að söfnuðurinn játist undir lærdóma heilagrar ritningar á sama hátt og hin lút. kirkja á Íslandi í trúarjátningarritum sínum". Þessir Íslendingar mynduðu þannig félagsskap sinn á sama trúargrundvelli og átti sérstað í móðurkirkju þeirra á Íslandi. Og um það ber framburði allra sérfræðinganna saman. Þetta þrýstir til að taka afstöðu lútersku kirkjunnar á Íslandi til íhugunar með tilliti til plenary-innblásturs-kenningarinnar, þar sem hún hefir mikil áhrif á skýringu þessara grundvallarlaga og það að komast að raun um trúargrundvöll þessa félags. Játaði sú kirkja þá kenningu, eða var hún óþekt og ótilgreind í trú hennar?

Það, sem sakaraðiljar heita á sem sönnunargagn, sem fullyrt er að bæði sé sérstaklega sannfærandi og afgerandi, er svo nefndur úrskurður kirkjufélagsins. Annaðhvort verður samþykt kirkjufélagsins að skoðast endilegur og afgerandi úrskurður kirkjulegs dómstóls, er valdsumboð hefir til að kveða á um spurnaratriðin í sambandi við plenary-innblástur og fráhvarf frá trúnni, eða að öðrum kosti verður hún að álítast yfirlýsing þess að öðrum málsparti ótilkvöddum (ex parte), heimildarlaus, máttlaus, ógild og öldungis óleyfilegt sönnunargagn. Annaðhvort var hún úrskurður að fullu og öllu og um leið afgerandi eða hún var alls ekki neitt. Atugas. við Mack. v. Kime 24 L. R. A. (N. S.) 692, þar sem margar heimildir eru tilfærðar.

**Hvaða kirkjulegu stjórnarskipulagi var söfnuðurinn háður?**

Þetta þrýstir til íhugunar um kirkjulega stjórnarskipan kirkjufélags þessa og safnaðanna, sem heyra því til. Grundvöllur að kirkjulegu skipulagi þess eru grundvallarlög safnaðarfélagsins og kirkjufélagsins, sem þegar hafa verið tilfærð. Af þeim er það ljóst, að söfnuði þessum og kirkjufélagi var ekki stjórnað samkvæmt sambandsstjórnar-skipulagi (federated form of government), heldur fremur samkvæmt því, sem vanalega er nefnt safnaðarstjórnarskipulag, þar sem söfnuðirnir létu ekki sjálfstjórn sína af hendi til kirkjufélagsins, svo það félag átti að eins það ráðgjafarvald yfir þeim, sem ákveðið er af grundvallarlögum kirkjufélagsins. Um líka niðurstöðu um stjórnarskipulag lúterskrar kirkju, sjá Schradi v. Dornfeld, 52 Minn. 465, 55 N. W. 49; Fadness v. Braunborg, 73 Wis. 257, 41 N. W. 84; Duessel v. Prock 78 Conn. 343, 62 Atl. 152, 3 L. R. A, (N. S.) 854.

Það eru til tvær aðaltegundir kirkjulegs stjórnarskipulags; öðru má nákvæmlega líkja við stjórn Bandaríkjanna, þar sem einingarnar, er svara til ríkja vorra, söfnuðirnir, eru bundnir sambandsstjórn og

hafa einungis lítið vald sjálfir, eiga heimild til úrgöngu, ekkert sjálfstæði, og er stjórnað af röð hærri stjórnarráða, með löggjafarvald, framkvæmdarvald og dómsvald, þar sem söfnuðurinn sem eining er ómerkileg stærð, og þar sem félagsheildin myndar kirkjuna. Sem góð dæmi má nefna kirkjulegt skipulag hinnar miklu katólsku kirkju, biskupakirkju metódista og presbýtéra kirkjunnar. Hin önnur tegund kirkjustjórnar er að eins bandalag eða allsherjar félagsskapur sjálfstæðra safnaða, og er hver fyrir sig að meira og minna leyti sjálfrátt félag og að meira eða minna leyti lauslega samantengdir, þótt þeir eigi eitt eða fleiri stjórnar- og ráðgjafarþing, sem einnig geta, þegar svo er ástatt, verið löggjafarvald safnaðanna, er bandalagið mynda. Kirkjudeildir kongregazíónalista, baptista og lútersku kirkjunnar eru dæmi upp á þessa tegund kirkjustjórnar. Í hinum fyrra flokki er stjórnarvaldinu og valdsumboðinu úthlutað að ofan; hið gagnstæða á sér stað í hinum síðara flokki, þar sem valdið er geymt söfnuðunum, nema að svo miklu leyti, sem það er látið af hendi við allsherjar löggjafarfélagið. Þegar farið er yfir lögin og fordæmi notuð, verður að sjálfsögðu að gera greinarmun eftir því, hverjum flokki skipulag þess kirkjufélags heyrir til, sem um er að ræða. Úrskurður allsherjar kirkjuþings presbýtérakirkjunnar, eða héraðsþings, ríkisþings eða þjóðþings biskupakirkju metódista er ekki endilega hliðstæður þessum kirkjufélags-úrskurði, sem gjörður er, þar sem bandalags-kirkjustjórnarskipulaginu er fylgt. Sjá athugagrein við Mack. v. Kime 24 L. R. A. (N. S.) 692. Nú er að rannsaka staðreyndir og ástæður, er samþykt kirkjufélagsins var gjörð, og að ákveða afleiðingar hennar.

**Yfirlýsing kirkjufélagsins og dómur þess.**

**Í tuttugu ár hafði samlyndi ríkt í söfnuði þessum,** þangað til árið 1909. Kirkjuþing var haldið það ár og voru erindrekar þessa og annara safnaða á því þingi. Yfirlýsing, sem kend er við Friðjón Friðriksson, kom þar fram. Um nokkurn tíma fyrir 1909 höfðu tvö kirkjuleg málgögn eða blöð komið út, Breiðablik og Sameiningin, og í dálkum blaða þessara hafði ágreiningsumræðum um kenninguna um plenary-innblástur verið helgað allmikið rúm. Síðarnefnt blað fylgdi þeirri kenningu fram, en hið fyrnefnda var henni andstætt. Ritstjórar þeirra voru leiðtogar og atkvæðamenn, og það er sömuleiðis ljóst, að vandamál þetta, sem á þenna hátt var lagt fram, hafði valdið víðtækum ágreinings-umræðum í kirkjufélaginu. Þetta náði hámarki sínu í kirkjufélaginu á þingi þess 1909, vegna samþyktar svo nefndrar yfirlýsingar Friðjóns Friðrikssonar, þar sem þriðji liður hennar, eins og hann skilst nú í ljósi viðburðanna, er skrásetning þess, að kirkjufélagið bindur sig við plenary-innblástur biblíunnar. — Þessi Þingvallasöfnuður gjörði þegar ráðstafanir til að segja presti sínum upp þjónustu, þar sem hann var fylgismaður plenary-innblásturs-kenningarinnar. Hann sat samt sem áður kyr. Þessi minni hluta flokkur sakaraðilja kom nú fram í söfnuðinum, og 21. maí 1910 samþykti hann að taka ekki framar þátt í safnaðarfundum með meiri hlutanum, sakborningum. Næsta dag hélt meiri hlutinn fund, þar sem samþykt var í einu hljóði, að söfnuðurinn skyldi engan erindreka senda á næstkomanda kirkjuþing. Í stað þess gjörðu þeir ákvarðanir um, að breyta safnaðarlögum sínum í undirbúningsskyni til úrsagnar úr kirkjufélaginu, og var sú breyting samþykt á safnaðarfundi, sem haldinn var 5. júní 1910, sam-

fara yfirlýsingu, samþyktri í einu hljóði, um að söfnuðurinn segði sig úr kirkjufélaginu; sömuleiðis var yfirlýsing samþykt, sem hélt fram samvizkufrelsinu, er kirkjufélagið 1909 hafði fyrirdæmt. Skrifara var falið að tilkynna forseta kirkjufélagsins þessa úrsögn. Þetta var gjört með bréfi 6. júní og var eftirrit af yfirlýsingunni lagt með. Tilkynningu þessari veitti forseti kirkjufélagsins viðtöku, en í stað þess að viðurkenna hana, samkvæmt 8. grein grundvallarlaga kirkjufélagsins, svaraði hann með bréfi, að hann „gerði engan úrskurð í þessu efni, en legði þetta fyrir kirkjuþing til meðferðar og úrslita. Þetta læt eg yður vita, svo að hlutaðeigendum gefist kostur á að skýra málið fyrir kirkjuþingi, ef þeir æskja þess." Meiri hluta flokkurinn gerði enga samþykt út af tilkynningu þessari, en skoðaði úrsögn sína framkvæmda og safnaðarfélag sitt eigi lengur meðlim kirkjufélagsins. Presturinn, sem var minni hlutanum fylgjandi, var sér samt sem áður út um rituð mótmæli, dagsett 10. júní, sem undirrituð voru af 42 fráhrigðinga-meðlimum. Í þeim „gerir minnihlutinn kröfu til að vera hinn eini og rétti Þingvalla-söfnuður", og það kirkjuþingið „að rannsaka mál vort og skera úr um, hvort vér höfum rétt fyrir oss í þessu efni." Þeir sendu sakaraðilja Sigurbjörn Guðmundsson eins og erindreka sinn með þau á kirkjuþing, er saman kom 17. júní. Með yfirlýsingu 21. júní var nefnd kirkjuþingsmanna skipuð til að íhuga mál þetta og síðan var álit nefndarinnar samþykt. Yfirlýsing þessi var þess efnis, að meiri hlutinn hefði brotið eigin safnaðarlög sín og kirkjufélagsins, og þar sem þeir vildu ekki lengur standa í kirkjufélaginu og þar sem þeir hefðu vikið presti sínum frá, sökum þess þeir hafi trúarskoðanir ólíkar hans, sé það rétt að taka til greina kröfu minni hlutans og að minni hlutinn sé viðurkendur hinn rétti Þingvalla-söfnuður, og erindreka þeirra veitt sæti sem erindreka frá nefndum söfnuði.

Það er við það kannast, að samþykt kirkjufélagsins var gerð einungis fyrir umsókn minni hlutans og án nokkurrar opinberrar tilkynningar til meira hlutans um, að áminst umsókn hafi verið lögð fram, eða hún yrði tekin fyrir. Eina tilkynningin, er söfnuður sakborninga hafði fengið um, hvað fram kynni að fara á kirkjuþingi, var sú, sem fólst í bréfi forsetans, að úrsögnin yrði lögð fyrir kirkjuþing. Réttur safnaðarins til úrsagnar með meiri hluta yfirlýsingu þeirra, er fast halda við trú hans, er af öllum viðurkendur. Úrsögn safnaðarins sleit hann úr tengslum við kirkjufélagið, *án þess að samþykki þess félags væri nauðsynlegt.* 34 Cyc. 1141; Vargo v. Vajo 76 N. J. Eq. 161, 73 Atl. 644; Duessel v. Proch, 78 Conn. 343, 62 Atl. 152, 3 L. R. A. (N, S,) 854; Schradi v. Dornfield, 52 Minn. 465, 55 N. W. 49; Fadness v. Braunborg 73 Wis. 257, 41 N. W. 84. Heckmann v. Mees. 16 Ohio 583; Bartholomew v. Lutheran Cangr. 35 Ohio St. 567; Lawson v. Kolbenson 61 Ill. 405; Pulis v. Iserman, 71 N. J. Law. 408, 58 Atl. 554. Og svo dæmdi hinn lærði undirréttardómari. Því er samt sem áður haldið fram, 1) að kirkjufélagið hafi fortakslaust verið dómari um eigið valdsumboð sitt, til að skera úr umsókn minni hlutans og 2) að sökum þess að meiri hlutinn hafi vikið frá trúnni, hafi hann ekki verið neinn hluti hins rétta safnaðar, og að kirkjufélagið hafi haft valdsumboð til að lýsa yfir því, og þar sem það hafði slíkt valdsumboð, hafi úrskurður þess verið endilegur. Að því er fráfall frá trúnni snertir, á það við, sem síðar er sagt í dómskjali þessu, þar sem sá dómur er feldur, að engin sannanagögn

sé fyrir hendi, er hægt sé að styðja þá kæru með í reyndinni, þegar ákveðið hefir verið, að úrskurður kirkjufélags þessa sé ógildur. Grundvallarlög kirkjufélagsins ákveða valdsumboð þess og eru samningurinn, sem þessi og aðrir söfnuðir mynduðu bandalagið með. Ætlunarverk þess er ráðgjafarlegs eðlis, og að kirkjufélagið sjálft hefir skýrt það svo, sést af yfirlýsingu þess, þar sem samband safnaðanna við félag þetta er tekið til meðferðar.

Var dómur kirkjufélagsins lögmætur?

Í grundvallarlögum kirkjufélagsins eru ákvæði 8. og 11. greinar, sem vald þess til að skera úr í sams konar málum er komið undir, á þá leið, að ágreiningsmál „skulu þó borin þar upp til endilegs úrskurðar, *ef hlutaðeigendur æskja*", samkvæmt 11 gerin. Þar lesum vér: „Kirkjufélagið hefir á ársþingum sínum æðsta úrskurðarvald í öllum kirkjulegum ágreiningsmálum, sem upp kunna að koma á millum safnaða þess eður innan þeirra." Með úrskurði sínum dæmdi kirkjufélagið í þessu máli að óspurðum öðrum málsparti (ex parte), án tilkynningar og nokkurum vikum eftir að söfnuður þessi hafði sagt sig úr kirkjufélaginu. Þar sem stjórnarskipulag kirkjunnar er safnaðabandalag, ræður meiri hluti um framhald sömu félagsheildar, og á meðan meiri hlutinn heldur fast við grundvöll trúarinnar, er hann löglegur veruleiki, — söfnuðurinn. Ef kirkjufélagið gat dæmt um trúvillu-sekt þeirra, vikum eftir að þeir höfðu sagt sig úr því og það án tilkynningar, þá gat það fundið þá sanna að sök og gert eins og það gerði. En engin heimild virðist styðja rétt þeirra til að breyta svo. Þar sem mál um valdsumboð til úrskurðar liggur réttilega fyrir slíkum dómstóli, er úrskurður hans um, að hann hafi valdsumboð, eins afgerandi eins og úrskurður hans um málavöxtu. Og hefði þessi söfnuður verið háður sambands-stjórnarskipulagi og sakborningar ekki getað gengið úr kirkjufélaginu, þá hefði samþykt þess getað verið gild. Ef svo hefði verið ástatt, hefði rétturinn getað neitað að dæma í málinu og neytt málsaðilja til að flytja mál sitt fyrir kirkjulegum dómstóli sínum. En hér var svo ástatt, að söfnuður sakborninga hefir sagt sig úr og hefir engan slíkan dómstól. Hann hefir líka rétt til að standa einn, eins og óháð félag, og getur þess vegna heimtað, að dómstólar landsins skeri úr máli þessu, að svo miklu leyti og einungis að svo miklu leyti, sem eignaréttinn snertir. Ath. Mack. v. Kinne, 24 L. R. A. (N. S.) 692. Ef þetta er hugsunarfræðilega rakið til enda, ef þessir sakborningar eru bundnir af þessari samþykt kirkjufélagsins, getur meiri hluti þessa ráðgjafafélags, með því að virða vettugi eigin grundvallarlög sín og safnaða sinna, og með þessari einföldu aðferð, að lýsa yfir því um hvern söfnuð, er hann segir sig úr (með löglegri meiri hluta samþykt), að hann sé sekur um trúvillu, eða hafi brotið grundvallarlög sín, og með því að viðurkenna minni hlutann, hversu lítill sem hann er, algerlega gert að engu úrsagnarrétt safnaðanna, og þrýst söfnuðinum með slíkri samþykt inn undir kirkjulegt sambands-stjórnarskipulag. Að svo miklu leyti, sem þessi grundvallarlög eru nokkurum nema sérfræðingum skiljanleg, verður rétturinn að útskýra þau eins og hvert annað skjal og takmarka þannig vald kirkjufélagsins. Yfirlýsing þess félags, að öðrum málsparti óspurðum (ex parte), er ekki afgerandi og enginn úrskurður; ef hann væri gildur, væri hann mál, sem þegar er dæmt (res adjudicata) eftir málavöxtum.

En er unt að veita yfirlýsingu þessa félags viðtöku sem sönnunargagni gegn andmælum, sem gerð hafa verið? Hinn lærði undirréttardómari leit svo á, að hún væri ekki úrskurður, en tók við henni „sem mjög sannfæranda sönnunargagni, er benti í áttina til að sanna, að krafa sakaraðilja sé réttmæt.“ Sé hún nokkurt sem helzt sönnunargagn, ber að taka hana eins og hún er. Hún er annaðhvort óleyfilegt sönnunargagn, eða afgerandi að öðrum kosti. Engar heimildir styðja skilning undirréttardómarans, né þann, sem haldið er fram af sakaraðiljum. Þvert á móti eru margar heimildir, sem álíta samþykt kirkjufélagsins ógilda, komandi frá félagi án valdsumboðs og óleyfilega í nokkurum tilgangi. Bartolomew v. Luth. Cong. 35 Ohio St. 567; Lawson v. Kolbenson, 61 Ill. 405; Pulis v. Iserman, 71 N. J. Law, 408, 58 Atl. 554. Sakaraðiljar vitna hins vegar til: Pounder v. Ashe, 44 Neb. 672, 63 N. W. 48, sem heimild um, að kirkjufélag með sambands-stjórnarskipulagi geti eftir rannsókn gert prest eins safnaðar síns rækan samkvæmt allsherjar kirkjulögum. Sú samþykt var gerð á ársþingi héraðsráðstefnu kirkjufélagsins, og var prestinum, sem sakaður var um brot, varðanda kirkjuaga, „tilkynt um hvenær próf færi fram, og mætti hann fyrir réttinum eða rannsóknarnefndinni á þeim tíma, er ákveðinn var til vitnaleiðslu, og átti hann þátt í því, sem fram fór, las það, er í framburðarskjölunum er sagt að verið hafi andmæli gegn samþyktinni, sem þá var gerð, hlýddi á nokkurn part af framburðinum og fór svo. Nefndin dæmdi hann sekan“, og var það samþykt reglulega og staðfest af héraðsþinginu. Ashe áfrýjaði úrskurði þessum, er gerði hann rækan frá prestsembætti. Engrar skýringar þarf til að sýna, að úrskurður þessi var í þessu fólginn, en ekki heimild, er stutt getur þessa einhliða (ex parte) samþykt kirkjufélagsins (ísl.) Bonacum v. Harrington, 65 Neb. 831, 91 N. W. 886, sem til er vitnað, er úrskurður, er samþykti burtrekstur katólks prests úr þeirri kirkju. Goff v. Greer, 88 Ind. 122, 45 Am. Rep. 449 er líka vitnað til af sakaraðiljum. Þetta var úrskurður öldungaráðs presbýtéra-kirkjunnar, þar sem „áfrýjendur höfðu hvað eftir annað lagt fram ritaða skýrslu, er dró yfir þá dóm þann, sem hér er um að ræða.“ Lögmönnum hefir láðst að gera greinarmun kirkjulegs stjórnskipulags í tilvitnunum til slíkra heimilda. Hið sama á við um Watson v. Farris 45 Mo. 183, sem er heimild í fyrstu röð um að dómur Allsherjar kirkjuþings presbýtéra-kirkjunnar sé afgerandi, en hún á sömuleiðis alls ekki hér við. Og nokkur ummæli, er fram hafa komið í málinu: Smith v. Pedigo, 145 Ind. 361, 33 N. E. 777, 44 N. E. 363, 19 L. R. A. 433, 33 L. R. A. 838, gæti virzt við fljótlegan yfirlestur að styðja móttöku þessarar kirkjufélags-yfirlýsingar sem sönnunargagns, en það, sem þar er tekið fram, er algerlega utanveltu og ónauðsynlegt fyrir úrskurðinn. Og rannsókn sýnir, að úrskurðurinn var bygður á þeirri staðreynd, að báðir málsaðiljar höfðu lagt ágreiningsmál sitt undir úrskurð þess kirkjulega dómstóls, er frumlegt valdsumboð hafði, og síðar var honum áfrýjað, og aftur áttu báðir hlut að máli. Flokkurinn, sem undir varð, leitaðist þá við að hafna báðum úrskurðum kirkjulegu dómstólanna. Skýring sú, sem áfrýjendur reiða sig á, gerir það samt sem áður vafasamt, jafnvel þegar svona er ástatt, hvort jafnvel þessi tvöfaldi dómur er afgerandi, þar sem skipulag kirkjunnar er safnaða-bandalag eins og þarna. En málsaðiljar voru álitnir bundnir eins og þeir hefði lagt mál sitt undir gjörðardóm. Mál þetta má fremur

skoða sem heimild gegn gildi samþyktar kirkjufélagsins, að svo miklu leyti sem hún er véfengd, í stað hins gagnstæða. Bouldin v. Alexander, 15 Wall. 131, 21 L. Ed. 69, sem líka er vitnað til, er úrskurður, er ekki einu sinni snertir það atriði, hvort önnur eins yfirlýsing og kirkjufélagsins sé leyfilegt sönnunargagn eða ekki. Þar var leitast við að svifta safnaðarfulltrúana völdum með umsvifalausri og ógildri samþykt, sem gerð var af einberum minni hluta safnaðarins. Það spurnaratriði kom þá upp, hvort safnaðarfulltrúarnir hefði sagt sig úr söfnuði sínum og gert sjálfa sig að fráskilnaðarmönnum. Dómurinn ákveður, að það hafi þeir ekki gert, en heyri söfnuðinum enn til, og tekur fram, að sú staðreynd, að þeir lögðu mál sitt fyrir hærra stjórnarvald baptistakirkjunnar, til að fá vernd gegn gjörræðislegu atferli minni hlutans, sé nokkur sönnun þess, að þeir skoðuðu sjálfa sig standandi í þeim baptista-söfnuði, sem hér er um að ræða. Hvorki var reitt sig á, né heldur gildur tekinn nokkur úrskurður hins hærra kirkjulega valds. Talað er að eins um þá staðreynd, að þeir á þenna hátt báðu um vernd, og að í sambandi við þá beiðni voru viðurkendir, eins og atriði í samræmi við breytni þeirra og bendandi í áttina til, að engin fráskilnaður hafi átt sér stað, — deiluefnið, sem fyrir réttinum lá.

Framlögð kirkjufélags-yfirlýsing er greinileg hlutdrægni-yfirlýsing, þar sem það er viðurkent, að kirkjufélaginu eru afdrif máls þessa mikið áhugamál; framburður forseta þess sýnir, að mælt hefir verið með samskotum í söfnuðum kirkjufélagsins til að hjálpa til greiðslu málskostnaðar sakaraðilja. Yfirlýsingin var óleyfilegt sönnunargagn í öllu tilliti.

Nú er næst að athuga vitnaframburðinn um, hvort hin sérstaka kenning um plenary-innblástur, til aðgreiningar frá sérhverri annari kenningu um biblíu-innblástur, hafi verið einn þáttur í grundvallar-trú safnaðar þessa, um það leyti hann var myndaður árið 1889, hvort heldur fólginn í grundvallarlögunum, eða ráð fyrir honum gert sem kenningu lúterskrar kirkju á Íslandi.

**Séra Kristinn K. Ólafsson.**

Séra Kristinn Ólafsson, fyrsti sérfræðingur sakaraðilja, ber á þessa leið: „Með bókstafs-innblæstri skilst mér vera átt við fyrirlestrar-skýringuna, að biblían hafi verið lesin fyrir af guði, svo að mennirnir, sem færðu biblíuna í letur, voru eins og verkfæri, eins og penni í mannshendi. Kirkjufélagið og söfnuðurinn eru ekki bundin við þá skýringu í játningum sínum eða kenningum. Kirkjufélagið hefir ekki þá skoðan. Plenary-innblástur biblíunnar er eftir mínum skilningi í því fólginn, að guðs heilagi andi hafi svo leiðbeint og stjórnað heilögum mönnum við að færa biblíuna í letur, að við höfum sanna og rétta frásögn .... Erindrekarnir á kirkjuþingi og prestarnir, sem atkvæði greiddu með yfirlýsingu Friðjóns Friðrikssonar gerðu játningu fyrir sjálfa sig og líka fyrir kirkjufélagið. Yfirlýsing Friðjóns Friðrikssonar var eftir eðli sínu ítrekan trúarjátningar. Hann mætti nota sem trúarjátning einstaks manns eða játning kirkjufélagsins á skoðan sinni .... *Í grundvallarlögum kirkjufélagsins og trúarjátningunum er engin sérstök yfirlýsing, er samþykki nokkura sérstaka innblásturs-skýringu. Það er einungis játning um guðs innblásið orð.* Kirkjufélagið hefir skjalfest að það trúi biblíunni eins og fram er tekið í játningum þess. Í þessu landi eru fleiri en tuttugu deildir eða flokkar lúterskrar

kirkju, er kalla sig lúterskar og hafa Ágsborgarjátningu og biblíuna að trúargrundvelli." Um kirkjuna á Íslandi segir vitnið: „Sameiningin, málgagn kirkjufélagsins hefir borið biskupi Íslands trúvillu á brýn, eitthvað í þá áttina .... Kirkjan á Íslandi er lútersk, að nafninu til að minsta kosti, og er ríkiskirkja. Sameiningin hélt líka fram þeirri skoðan, að kirkjulegt málgagn Íslands flytti nýja guðfræði. Það er stefna kirkjunnar á Íslandi þann dag í dag. Sakborningar í máli þessu eru vafalaust í samræmi við margar skoðanir biskupsins á Íslandi. Eg skoða þá ekki góða lúterstrúarmenn. Eg álít ekki biskupinn góðan lúterstrúarmann. Með þeim skoðunum, er sakborningar hafa, eru þeir ekki góðir lúterstrúarmenn eftir nokkurum sönnum lúterskum mælikvarða. Þeir eru eins góðir lúterstrúarmenn og biskup kirkjunnar á Íslandi, þessir tveir kennarar, sem nefndir voru. Það, sem markar lúterska kirkju ákveðið lúterska, er *játning kirkjunnar, og hvergi í Ágsborgarjátningu né nokkurri annari játningu lúterskrar kirkju, er nokkur sérstök innblásturs-kenning framsett. Öll lútersk játning er á því bygð, að hverjum lúterstrúarmanni sé heimilt að skýra biblíuna eins og honum þóknast.* .... Lúters stefna var, að hann hefði rétt til, án aðstoðar nokkurs manns annars, að fara í biblíuna og skýra kenningu hennar eftir henni, og hann heimilaði þann rétt hverjum einstakling .... *Kirkjan á Íslandi og kirkjufélagið hafa sömu trúarjátninguna,* og kirkjufélagið var upphaflega myndað, til þess að kenna í þessari álfu lúterska kenningu *samkvæmt játningum kirkjunnar á Íslandi.* Og kirkjan á Íslandi, eða að minsta kosti mikill fjöldi meðlima hennar, að biskupi meðtöldum, hafa tekið þá stefnu, að trúarvitund einstaklingsins mætti einhverju ráða um að velja og hafna sumum ritningarköflum. Þeir skilja það svo, að játningarnar sé einungis það, sem höfundum játninganna skildist biblían kenna, og staðhæfa, að kirkjan eins og hver önnur félagsheild hljóti að vaxa og þroskast, og ef einstaklingurinn, í ljósi rannsókna nútímans, hafi komist að þeirri niðurstöðu, að sum kenningaratriði trúarjátninganna brjóti bág við biblíuna, ætti hann að fylgja biblíunni og ekki trúarjátningunni, og sé hann samt góður lúterstrúarmaður. Eg hefi enga ástæðu til að ætla, að sakborningar í máli þessu hafi stigið einu feti framar en biskup kirkjunnar á Íslandi, forstöðumaður prestaskólans og hinn annar kennari (þ. e. Haraldur próf. Níelsson). *Eg hefi ávalt viðurkent að samkvæmt kenningum kirkjunnar á Íslandi, eins og þær eru fluttar af biskupi, eru sakborningar góðir lúterstrúarmenn* .... Sá maður, sem myndaði kirkjufélagið, séra Jón Bjarnason, fékk guðfræðimentan sína í kirkjunni á Íslandi. Þegar kirkjufélagið íslenzka myndaðist, var það myndað með séra Jóni sem forseta." Vitnið bar það líka, að 1910 hefði kirkjufélagið boðið þeim, er úr því hefðu gengið, að ganga inn í það aftur með tilteknum skilyrðum. Kirkjufélagið hefir látið skjalfesta *síðan 1909, að það aðhyllist ekki bókstafs-innblástur.* Sá skilningur hafði verið lagður í samþykt kirkjufélagsins frá 1909, að það hefði játað bókstafs-innblástur.

**Séra Björn B. Jónsson í Pembína.**

**Næsti sérfræðingur, sem ber vitni fyrir sakar**aðilja, séra Björn B. Jónsson, vitnaði um þetta efni á þessa leið: „Hefi verið forseti kirkjufélagsins síðan í júní 1908, eftirmaður séra Jóns Bjarnasonar. Kirkjufélagið íslenzka stendur ekki í neinu sambandi við kirkjuna á Íslandi, var myndað 1885; standa í því nokkurir ísl. lút.

söfnuðir, þrjátíu og fimm eða fjörutíu söfnuðir heyra því nú til. Kirkjufélagið heldur sér ákveðið við plenary-innblástur heilagrar ritningar sem algerlega sannrar í öllum smáatriðum og fyllilega innblásinnar í öllum efnum .... Kirkjufélagið hefir lýst yfir því, að það haldi fast við fullan innblástur biblíunnar .... Eg er samþykkur þeirri skilgreiningu, er séra Kristinn Ólafsson hefir gefið á kenningunni um plenary-innblástur. *Kirkjufélagið hefir hvergi með nokkuru móti látið skjalfesta, að það játi nokkura sérstaka tegund innblásturs biblíunnar. Það hefir ekki gert það með neinum grundvallarlögum né í nokkurri trúarjátningu sinni,* en það var skilningur kirkjufélagsins. Eg veit ekki af neinni yfirlýsingu á undan yfirlýsingu Friðjóns Friðrikssonar 1909, þar sem þetta var tekið fram. Mér skilst sú yfirlýsing merkja, að kirkjufélagið hafni rétti einstaklingsins til að hefja trúarhugmyndir sínar upp yfir heilaga ritningu. Hver sem hafnar nokkurum kafla ritningarinnar, gerir sig með því útlaga lúterskrar kristni .... Það er engin kirkjufélagssamþykt í þá átt, að hver sem neiti að játa sérhvern kafla biblíunnar, verði trúvillingur frá lúterskri trú ....“

Við framanritaðan vitnisburð og við grundvallarlög safnaðarins og kirkjufélagsins, gjörðabók kirkjuþingsins og yfirlýsinguna, sem viðurkendi minni hlutann sem Þingvalla-söfnuð, létu sakaraðiljar málsókn sinni lokið. Báru þá sakborningar fram tillögu um, að málinu væri vísað frá, sakir þess, „að sakaraðiljum hafi algerlega mishepnast að sýna nokkura glögga og gagngera trúarbreytingu eða fráhvarf frá trúarjátningunum af hálfu sakborninga eftir grundvallarlögum safnaðarins og kirkjufélagsins, eða eftir nokkurri opinberri yfirlýsingu eða skjali frá öðrum hvorum þessara aðilja.“ Og það er augljóst, að tillaga þessi var réttmæt og hefði átt að ná fram að ganga. Henni var samt sem áður synjað og sakborningar lögðu fram sannanagögn sín. Það er eftirtektarvert, að alt til þessa sézt ekkert orð hvorki í kjæruskjalinu né í framburðinum um þá staðhæfingu, sem nú kemur fram og dæmist rétt að vera af undirréttinum, þ. e. að grundvallarlög þessi *geri ráð fyrir og hafi verið samþykt með ráð fyrir gerðri trú á plenary-innblástur biblíunnar.* Sakborningar höfðu litla vitnaleiðslu, framburð einungis tveggja vitna, sem nær að eins yfir 5 blaðsíður hinnar prentuðu skýrslu, af hundruðum saman af blaðsíðum með sannanagögnum, er á endanum voru framlögð. Báðir málsaðiljar létu við þetta sitja, og báru þá sakborningar aftur fram tillögu sína um, að málinu sé vísað frá; var því aftur neitað. Málinu var þá frestað frá því í marz og þangað til í október, en á því tímabili var úrskurður gefinn sakborningum í vil, en var síðan úr gildi numinn, og málið tekið fyrir á ný, til þess að koma fram frekari vitnaleiðslu í Grand Forks; hið fyrra réttarhald fór fram í Pembina.

**Séra Björn í Grand Forks.**

Síra Björn var þá kallaður fram í annað sinn og gagnspurður. Framburður hans er svo: „Það er ein tegund innblásturs, sem nefndur er ósjálfráður (mechanical) innblástur biblíunnar.“ Hann var spurður: Er slík kenning (kenningin um ósjálfráðan innblástur biblíunnar) viðurkend af lúterskri kirkju? og svar hans var svo: „Ekki eins og eg skil ósjálfráðan innblástur. Ósjálfráður innblástur er sú innblásturs-skýring, er heldur því fram, að hinir heilögu höfundar hafi glatað persónuleik sínum og sjálfsvitund, orðið eins og eintóm verk-

færi í guðs hendi, svo að þeir voru eins og penni í hendi höfundar, en persónuvitund þeirra átti engan þátt í því, er þeir rituðu. *Þessi skýring er ekki sú viðtekna skýring eða kenning um innblástur í lút. kirkjunni.* Sp.: Þér hafið þegar skýrt fyrir réttinum kenninguna um plenary-innblástur, held eg; og það er kenningin, sem kirkjufélagið heldur fram? Því svarar vitnið þessu: „*Kirkjufélagið hefir aldrei viðtekið neitt guðfræðilegt innblástursheiti opinberlega í játningu sinni.* Heitin plenary-, bókstafs- og andakrafts-innblástur eru einnig notuð, ef eg má taka það fam, *í ólíkum merkingum af ýmsum kennurum*, og eg held það sé skilgreining innblásturs-kenningarinnar fremur en nafnið, sem henni er gefið, sem vér kirkjufélagsmenn leggjum áherzlu á .... Maður, sem hafnar nokkurum kafla ritningarinnar myndi ekki álitinn lúterskur.“ Þegar hann var frumspurður, vitnar hann svo: „Eg veit ekki um nokkura lút. kirkju, sem heldur fram kenningunni um ósjálfráðan innblástur eins og eg skilgreini hann hér á vitnapallinum. Hún hefir aldrei verið játuð af ísl. kirkjufélaginu í Ameríku eða af nokkurum söfnuði í því kirkjufélagi, svo eg viti. Eg get sagt fullri vissu, að enginn ísl. lút. söfnuður í Ameríku hefir játað slíka kenningu, og eg þekki enga lút. kirkju, sem hefir almennu játningarnar, Ágsborgarjátningu og Fræði Lúters, er nokkuru sinni hefir játað kenninguna um innblástur ritningarinnar að nokkuru leyti (partial). Slík kenning hefir aldrei verið viðurkend af ísl. kirkjufél. Kanónísku bækurnar féllu eins og arfur lút. kirkju í hendur. „Um eitt bil játaði lút. Missouri-sýnódan kenninguna um ósjálfráðan innblástur, en virðist vera að breytast.“ Skoðanir Missouri-sýnódunnar eru merkilegar, sökum sögulegra áhrifa þeirra, þar sem þetta var fyrsta lút. sýnódan í Vestur-Ameríku, þó hún þýzk sé, sem hefir guðfræðiskóla. Lögmenn sakborninga leggja mikla áherzlu á þá staðhæfingu sína, að af því hið lút. kirkjufélag Ísl. í Ameríku hafði engan guðfræðiskóla, komu margir hinna nýrri presta frá Missouri-sýnódunni og General Council, ungir menn í stað hinna gömlu, sem drukkið höfðu í sig ófrjálslyndari skoðanir í sambandi við kenninguna um innblástur ritningarinnar, en nokkuru sinni hafi átt sér stað í móðurkirkjunni á Íslandi. Og að fyrir þessa sök hafi kirkjufél. smám saman vikið frá trú feðra sinna og stofnenda, í stað þess að nokkur frávikning hafi verið gerð af Þingvallasöfnuði frá þessari upphaflegu trú.

Sakborningar komu þá fram með vitnisburð í sambandi við trúvillukæruna í þá átt, að — til þess að nota framburð prestsins Robertson, — „það að einstaklingurinn noti hugsanafrelsið sé samrýmanlegt kenningunni um plenary-innblástur biblíunnar,“ „ef vér álítum, að sú tegund innblásturs merki fullkominn og fullnægjandi innblástur ritningarinnar.“ Dr. Halfyard vitnar: „Sem guðfræðingur sé eg ekki, að yfirlýsing um að einhver játar guðs orð, eins og það er opinberað í heilagri ritningu, sem hina æðstu reglu, rekist á hina fyrri yfirlýsingu um rétt hugsanafrelsisins til að skýra biblíuna.“

**Friðrik Bergmann.** Séra Friðrik Bergmann, prestvígður til hinnar íslenzku lút. kirkju 1886 og ávalt síðan í stöðugri þjónustu þeirrar kirkju sem prestur, að frátöldum tveim árum við annað starf, og í þessu kirkjufélagi, vitnar, að hann hafi verið forvígismaður þess hluta kirkjufél., er hliðstæðar skoðanir

hafði skoðunum sakborninga, og að hann hafi verið á kirkjuþingi 1909 og andæft yfirlýsingu Friðjóns Friðrikssonar. Vitnisburður hans er langur og gengur í þá átt, að lút. kirkjan á Íslandi hafi aldrei bundist kenningunni um plenary-innblástur biblíunnar. Hann segir, að gert sé ráð fyrir innblæstri biblíunnar, en „að það sé alt annað, en að halda því fram, að innblásturinn feli líka í sér hugmyndina um *óskeikulleik eða villuleysi.* — Hann segir: „Eg myndi segja, að maður, sem hafnaði innblæstri ritningarinnar væri ekki trúhneigður maður. Innblástur ritningarinnar er ekki unt að skilgreina. Eg þekki engan, sem hefir getað skilreint hann. Sjálfur hefi eg aldrei haft neina sérstaka innblásturs-skýringu. Eg trúi innblæstri biblíunnar, eg trúi því, að hún sé innblásin, að svo miklu leyti, sem um trúarefni er að ræða. Nokkurir hlutar biblíunnar hafa engin trúarefni meðferðis og eg sé enga ástæðu til að segja, að þessir hlutar sé innblásnir. Þeir eru eins og hverir aðrir gamlir annálar og eg verð þar engis innblásturs var. En það er innblástur, sem gengur í gegnum allar bækur biblíunnar, að svo miklu leyti sem biblían boðar trú, — er sjálfur andardráttur trúarinnar. Eg trúi því ekki t. d., að ættartölur Kroníkubókanna sé innblásnar. Eg skal ekki segja, að þær sé með öllu ritaðar án innblásturs eða hjálpar heil. anda. En eg finn enga ástæðu til að setja þær í nokkurt samband við innblásturhugmyndina. Það, sem eg á við, er þetta, að ef mér reynast ættartölur þessar sjálfum sér ósamkvæmar og óábyggilegar, þá trúi eg þeim enga vitund frekar fyrir það, að þær standa í biblíunni en hverri sem helzt bók annari. Það er þetta, sem eg á við. Eg efast ekki um biblíuna í heild sinni. Mest öll biblían, eins og eg tók fram, hefir sjálfan andardrátt trúarinnar í sér fólginn, og það er mér hin mikla sönnun innblástursins. Hver maður, sem biblíuna les, hlýtur að mynda sér einhverja skoðan. *En það er ekki unt að draga takmarkalínu, þar sem innblástur byrjar og þar sem hann hættir. Það er ein ástæðan til þess, að ekki er hægt að skilgreina innblásturinn.* Hve nær sem eitthvað í biblíunni bergmálar í samvizku yðar sem sannleikur, getið þér verið þess fullvís, að þar er innblástur. Eg dæmi um innblásturinn eftir bergmálinu, sem orðið finnur í samvizku minni.“ Útdráttur þessi skýrir staðhæfingar sakborninga viðvíkjandi kenningum þeirra um innblásturinn, þar sem kannast er við, að þeir sé í samræmi við skoðanir þessa guðfræðings. Það er eftirtektarvert, að þessi guðfræðingur álítur, að í gamla testamentinu sé það Móse-lögmál, sem „beri einna sterkastan vott um guðleg sannindi“. Við þetta létu sakborningar sitja, og sakaraðiljar lögðu þá fyrst fram sannanagögn sín, að því innbl. snerti.

**Prófessor Ness.**

**Sakaraðiljar koma fram með framburð pró**fessor Ness, sérfræðings frá norsku Sameinuðu kirkjunni. Um innblásturinn hefir sérfræðingurinn þetta að segja: „Að svo miklu leyti, sem eg veit, hefir lút. kirkjan ekki nokkurs staðar *opinberlega játað neina sérstaka tegund innblásturs biblíunnar.* Eg held, að þessi tilvitnan í New International Encyclopaedia 2. bindi, bls. 586 komi sannleikanum býsna nærri (þar sem fram er tekið, „að lút. kirkjan sé einstakt félag að því leyti, að ekkert af játningarritum þess skipar fyrir um ritsafn [kanon] heilagrar ritningar eða skilgreini innblásturinn“). Eg finn að ritningin talar um innblástur. Eg á við það, sem tekið er fram í 2. Tím. 3,16: „Öll ritning, sem inn-

blásin er af guði". Það er þögull skilningur í mínu kirkjufélagi, að játningar kirkjunnar sé lagabönd. Eg veit ekki um neina opinbera yfirlýsingu í þá átt. *Það hallast að p l e n a r y-skýringunni.*" Vitninu var leyft að láta í ljós skoðan sína sem sérfræðings um, hvort samþykt með yfirlýsingu um hugsanafrelsið, eins og sú sem gerð var af söfnuði þessum sama daginn og hann sagði sig úr kirkjufélaginu, væri frávikning „frá trú einnar og sérhverrar lút. kirkjudeildar, er hefði þessi játningarrit", og staðhæfði, að það væri frávikning frá trúnni. Óhlutdræg ályktan af öllum framburði hans er eins og hann tekur fram: „Lúterska kirkjan hefir ekki bundist neinni biblíu-innblásturs-tegund.

**Fossmark prestur.** **Séra Fossmark, útskrifaður frá guðfræðiskóla** Missouri-sýnódunnar í St. Louis, vitnaði fyrir hönd **sakaraðilja á þessa leið: „Í mörg ár hefir norska** lút. kirkjan játað bókstafs-innblásturs-skýringuna"; og skilgreinir vitnið þá tegund innblásturs svo: „að guð hafi ekki einungis innblásið hugsanirnar, sem biblían hefir inni að halda, en hann hafi einnig leiðbeint þeim mönnum, er hann notaði sem verkfæri til að rita hinar ýmsu bækur, svo mikið, *að hann hafi hjálpað þeim til að gera rétt orðaval,* svo að sérhver hluti hennar er af kirkjudeild vorri álitinn að vera guðs orð; að guðs orð sé ekki einungis að finna í biblíunni, heldur að biblían sem heild sé guðs orð", og að kirkjufélag hans sé svo kölluðu samvizkufrelsi andstætt. Að söfnuður, sem samþykti yfirlýsingu, gjörða af meiri hluta 5. júní 1910, myndi ekki fá inngöngu í norsku lút. kirkjuna, og að hún yrði álitin frávikning frá trúnni, eftir því sem vitnið myndi skýra merkingu 1. liðs 2. greinar grundvallarlaga Þingvalla-safnaðar, sem vitnið bar að hann skildi svo, „að biblían sé sem heild innblásið guðs orð öll saman". Vitnið tók samt sem áður fram: „Mikill munur er þann dag í dag á mínu kirkjufélagi og kirkjunni í Noregi, að því, er skýringu nokkurra frumatriða lúterstrúar snertir. Á hverjum hundrað árum breytist kristindómurinn. Ásigkomulag kirkjunnar í Noregi er þann dag í dag feikilega grátlegt. Mér skilst, að kirkjan í Noregi sé í nokkurn veginn sama grátlega ástandi og kirkjan á *Íslandi*, og sömu raunalegu sannindin eiga heima um kirkjuna á Þýzkalandi. Þar þeysir *húmbugg*-ið úr garði hvert skifti. Svo heldur það yfir til Noregs, svo til Danmerkur og að síðustu til Íslands, hér um bil 25 árum síðar. Stefna biskupakirkju metódista í Bandaríkjum er ekki og hefir aldrei verið sú sama og stefna kirkjufél. míns með tilliti til innblásturskenningarinnar. Allar endurbættu kirkjudeildirnar hafa skynsemina fyrir leiðtoga sinn. Þær fallast á það, sem þeim þykir skynsamlegt og hafna því sem þeim líkar ekki. Biskupakirkja metódista í Bandaríkjunum kvelst af sama h ú m b u g g-inu og lút. kirkjan á Þýzkalandi í þessu efni. Það má fara enn lengra og jafnvel segja, að þeir sé fullfleygir únítarar. Margir þeirra hafna guðdómi Krists. Í þessu efni vil eg ekki segja neitt um presbýtera-kirkju lands þessa. Eg veit, að hún fylgir Kalvínstrúnni bezt þeirra allra. Þetta h ú m b u g g er nokkuð, sem hefir tekið sig upp aftur og aftur, eitt skifti hverja öld. Það er ekkert nýtt." Þetta vitni lætur ekki í ljós neina skoðan um, hvort þetta h ú m b u g g hefir átt sér stað í kirkjunni á Íslandi 1889, eða hvort það gæti verið frumtrúarkenning Þingvalla-safnaðar, þegar hann var myndaður, í stað kenningarinnar um p l e n a r y-innblástur.

Séra Kristinn í Grand Forks.

Vitnið, séra Kristinn K. Ólafsson, var aftur kallaður fram og bar í raun og veru hið sama og prófessor Ness, en bætti við: „Það er ekkert sérstakt í játningunni um innblástur, sökum þess að menn greindi ekkert á um innblásturs-kenninguna, þegar játningarnar voru samdar og af þeirri ástæðu *er hún álitin sjálfsögð eða ráð fyrir henni gert*, og eru þau líkindi bygð á skilningi þeirra, sem hlut áttu *að játningunni sögulega*". Öll þessi vitni bera um mismunandi afstöðu Lúters gagnvart ritningunni. En það er ekkert í framburði séra Kristins, er hann nú gaf, sem reki sig á framburð hans mörgum mánuðum áður, sem er einn hluti aðal-málsins, að „samkvæmt grundvallarlögum kirkjufél. og trúarjátningum sé engin ákveðin yfirlýsing um neina sérstaka innblásturs-skýringu. Það er einungis játning guðs innblásna orðs." Og þessu vitni, þó fram væri kallað á eftir allri vitnaleiðslu sakborninga og væri fullkunnugt því, sem á reið að sanna að þessir sakborningar, sem hann kallar „frábrigðinga og ekki framar lúterstrúarmenn" hafi vikið frá trúnni, láðist að bera um úrslita-atriðið og með framburðinum að gefa ákveðið sönnunargagn fyrir staðreyndum er nauðsynleg voru til að draga ályktanir af um slíka fráviknìngu frá trúnni.

Walper prestur.

Walper, prestur þýzku lút. Missouri-sýnódunnar, var því næst kallaður fram og bar hann um trú kirkjudeildar sinnar á *bókstafs-innblásturs-kenninguna*. „Eg get ekki sagt, að lút kirkjan um allan heim sé í samræmi í kenningarefnum við stefnu Lúters, eins og hún var á seinni árum. Kirkjufélag vort er í samræmi við þá stefnu. Vér höfum sömu játningarritin í minni kirkjudeild og söfnuður sá, er hér ræðir um. Prestarnir í minni kirkjudeild eru skuldbundnir til að kenna samkvæmt játningunum. *Játningarritin segja ekkert með ljósum orðum um innblásturskenninguna*. Lúterska kirkjan skýrir þenna skort á sérstökum ákvæðum þessara skjala í sambandi við innblástur biblíunnar svo, að það hafi alment verið viðurkent um það leyti, er játningar þessar voru samdar, að öll biblían væri innblásið guðs orð, bygt á þeim ráðfyrirgerða skilningi, að með spámönnunum hafi gamla testamentinu verið lokið, að nýja testamentið sé rit postula Krists. Eg skil 2. Tím. 3,16 sem segir: „Öll ritningin er innblásin af guði", merki, að öll ritningin sé innblásin af guði, — bókstafs-innblástur. Það er stefna kirkjufélags míns. Að svo miklu leyti sem eg veit, er sama stefnan tekin af lút. kirkjunni yfirleitt í landi þessu." Þegar hann var gagnspurður, bar vitnið, að hann gerði „engan greinarmun milli bókstafs og p l e n a r y-innblásturs". „Það merkir, að hvert orð í biblíunni sé bókstaflega satt .... Að svo miklu leyti sem niðurstaða heimspekilegra og vísindalegra rannsókna nútímans eru á móti biblíunni á svæði jarðfræði, fornleifafræði, mannkynssögu, landafræði, líffræði og stjörnufræði, útskúfa eg henni. Að mínum dómi hlýtur hver maður, sem trúir bókstafs eða p l e n a r y-innblásturskenningu biblíunnar, að útskúfa henni." Þessi vitnisburður, sem fram var lagður í þeim tilgangi að sanna, að kenningin um p l e n a r y-innblástur hafi verið ráðgerð trú lút. kirkju á Íslandi og þessa sérstaka safnaðar, er langar leiðir frá að koma með þá sönnun, er til var ætlast. Það má vera, að lút. kirkjan í Ameríku taki yfirleitt þá stefnu, sem hér er tekin fram, en það er engin sönnun þess, að móðurkirkjan, sem

nefnd er í grundvallarlögum þessa sérstaka safnaðar, fylgi þeirri stefnu, né sönnun fyrir stefnu safnaðarins í þessu efni, nema vér gjörum það, sem vitnið vildi ekki gjöra, og tökum framburð hans sem eigandi við sérstök atriði, þar sem hann talar alment. Hefði vitni þetta haft vitneskju um, að kirkjan á Íslandi og þessi sérstaki söfnuður hefði samþykt grundvallarlög sín, án þess gert væri ráð fyrir trú á plenary- eða bókstafs-innblástur, gæti hann sennilega borið nákvæmlega eins og hann hefir gert, þó kannast sé við sannindi alls þess, er hann talaði.

**Glenn prestur.**

Vitnið Glenn ber fyrir sakaraðilja á eftir allri vitnaleiðslu sakborninga. Hann er meðlimur Sameinuðu norsku lút. kirkjunnar, og segir: „Eg veit ekki til að kirkjudeild vor hafi nokkuru sinni gert endilega yfirlýsingu um nokkura innblásturs-skýringu, en sú skýring, sem alment er nefnd plenary, en sumir kalla bókstafs-innblástur, ekki ósjálfráðan innblástur, er sú skýring, sem alment er fallist á. .... Að svo miklu leyti sem eg veit, er engin skýring á innblæstrinum gefin í játningarritum þessum (hér er átt við játning kirkjufél. hans). Eg myndi segja, að kirkjan skoðar innblásturinn sjálfsagðan." Hann dregur þá ályktan af skýringu sinni á grundvallarlögum Þingvalla-safnaðar, að þegar yfirlýsingin um hugsanafrelsið var samþykt, hafi verið vikið frá trú safnaðarins, þótt hann játi: — „Eg held ekki að þau (grundvallarlög safnaðarins) tali um innblástur," — að ályktanir hans sé dregnar af ályktunum lút. kirkjunnar. En aftur vantar sönnunina um upphaflega trú móðurkirkjunnar og þessa sérstaka safnaðar.

Sigurbjörn Guðmundsson, sakaraðilji, bar þá enn, að séra Friðrik Bergmann, sérfræðingur sakborninga, hafi verið fyrsti prestur Þingvalla-safnaðar og haldið áfram að vera prestur hans í tólf—þrettán ár, og að hann hafi kent „að biblían sé guðs innblásið orð". Vitnið reynir ekki til að tala um efnið með nokkurri nákvæmni.

**Séra Steingrímur Þorláksson.**

Séra Steingrímur Þorláksson var kallaður fram til að bera um trú séra Jóns Bjarnasonar 1889, og staðhæfir: „Eg get ekki sagt um, hver innblásturs-skýring hans hafi verið eða sé, en eg get tekið fram, að hann trúði guðs orði eins og það er opinberað í biblíunni, hinu sanna guðs orði í heild sinni. Eg á við það, að hann játaði biblíuna og það alla fyllilega innblásna sem guðs orð. Eg hefi fylgt sömu stefnu, og það er stefna, sem hann hefir fylgt ávalt síðan eg hefi haft kynni af honum. Eg veit ekki til að kirkjufélagið hafi nokkura aðra stefnu .... Ástæðan til þess, að ekkert er sagt um innblástur í játningunum er sú, að þær eru bygðar á biblíugrundvelli, játuðu að heilög biblía væri æðsta úrskurðarvald, og játningarnar studdust við heilaga ritningu og gerðu ráð fyrir að svo væri. Það er gert ráð fyrir, að öll ritning sé innblásið guðs orð. Þetta er bygt á vitnisburði ritningarinnar sjálfrar og drottins vors sjálfs. Eg á við staðinn 2. Tím., sem hér hefir verið tilfærður. Mér skilst að hann merki að öll ritning í ritsafni gamla testamentisins sé innblásin. Orðtækið guðs orð er samnefni við ritning og merkir kanónísku bækurnar. Eg skal taka fram, að orðtækið: ‚biblían er guðs orð' og þetta: ‚guðs orð eins og það er opinberað í hinum kanónísku bókum ritningarinnar' merkir hið sama. Mér hefir skilist það vera játað svo og skilið í kirkju vorri. Eg hefi verið prestur ísl. lút. safnaðar í landi þessu síðan eg var vígður 1887. Eg skildi það fullkom-

lega svo, að söfnuðurnir, sem eg hefi þjónað á ýmsum tímum í landi þessu, hafi verið skuldbundnir til að laga sig eftir játninga- eða kenningamælikvarða kirkjunnar á Íslandi, eins og tekið er fram í játningunum, samþyktum af íslenzku kirkjunni, eigi síður en af söfnuðum, sem eg hefi þjónað í kirkjufélaginu, er eg heyri til." Vitnið lét þá skoðan í ljós, að þegar yfirlýsingin frá 5. júní var samþykt, hafi söfnuðurinn ekki getað breytt í samræmi við trúarkenningar lút. kirkju, er sömu játningarrit hafi og Þingvallasöfnuður. Við gagnspurning bar vitnið, að kirkjufél. „hafi verið myndað til að kenna þann lút. kristindóm, sem þá var kendur á Íslandi, og samkvæmt játningunum og heil. ritningu. .... Fólk frá Íslandi vissi vitaskuld, hvernig játningarrit þessi voru skýrð í kirkjunni á Íslandi .... Að það var sami kristindómur sem kendur var. Mér er ekki kunnugt um neitt ósamræmi nú sem stendur milli kirkjufél. ísl. lút. og norsku sýnódunnar. Eg veit, að séra Jón Bjarnason hélt því fram áður kirkjufél. vort var myndað, að gagngerður mismunur ætti sér stað í aðalkenningaratriðum milli kirkjunnar á Íslandi og norsku sýnódunnar, og mismunurinn var í því fólginn, að norska sýnódan væri ekki eins frjálslynd í kenningarefnum og kirkjan á Íslandi, að hans áliti, að norska sýnódan væri of rétt-trúuð. Séra Jón Bjarnason var mjög frjálslyndur í kenningarefnum, þegar hann kom fyrst til þessa lands. Breyting hefir fram komið síðan á þessum fyrstu tímum á stefnu séra Jóns í þá átt að verða andlegri, trúrri við guðs orð og við játningar lút. kirkjunnar, frá mínu sjónarmiði. Eg held, að í þessari deilu við bróður minn hafi hann haldið því fram, að hann væri sjálfur réttur fulltrúi stefnu kirkjunnar á Íslandi og að bróðir minn væri fulltrúi norsku sýnódunnar. Eg get ekki sagt, hvort orðið hefir veruleg breyting á kirkjunni á Íslandi í innblásturs-kenningunni síðan 1906, en eg get sagt þetta, að frjálslyndið hefir verið að vaxa meira og meira á Íslandi, eftir framkomu lút. manna á Íslandi að dæma, biskupsins og kennaranna við háskólann." Þegar hann var frumspurður öðru sinni, er framburður hans svo: „Eftir því sem eg hefi litið á, er nú mismunur í kirkjunni á Íslandi, að því er innblásturskenninguna snertir, og stefnu hennar í því efni fyrir 25 árum; frjálslyndið hefir aukist. Eg vil halda því fram, að mikil breyting hafi átt sér stað í þessu efni, einkum síðustu 10 eða 15 árin.

**Séra Björn Jónsson.**

**Séra Björn Jónsson var þá aftur kallaður fram** af sakaraðiljum í þriðja sinn, og ber hann, að 1885 hafi séra Jón Bjarnason, eftir því sem vitninu skildist, **„haldið mjög stranglega við fullan** innblástur allrar biblíunnar"; ber vitnið að efni til hið sama og séra Steingrímur, „að innblástursgugmynd séra Friðriks Bergmanns, eins og hún kom fram í framburði hans, er að mínum skilningi ólík hinni viðurkendu innblásturs-kenningu, eða innblæstri, eins og eg hefi heyrt gerða grein fyrir honum af nokkurum guðfræðingum lút. kirkju. Yfirlýsingin af hálfu einstaklingsins, að hann haldi fram og trúi hugsanafrelsi í trúarefnum, er ekki trúvilla. Ef maður, sem notar þann rétt, hafnar t. d. einni af kanóniskum bókum biblíunnar, víkur hann frá hinum viðurkendu kröfum. — — Margar blaðsíður með greinar úr Breiðablikum eftir séra Friðrik liggja fyrir réttinum til sönnunar, er benda til efasemdar um mikið af kraftaverkasögunum, sem biblían hefir meðferðis.

**Nauðsynleg hugvekja.**

**Líka liggur fyrir rétti ritgerð með fyrirsögn:** „Nauðsynleg hugvekja", gefin út af Jóni Bjarnasyni 1879, 50 prentaðar bls. Miklu af ritgerð þessari er varið til að verja frjálslyndið í kenningum hans, gegn þeirri kæru, að hann sé að útbreiða ‚nýgjörfings-villudóm' í kenningunni. Hann fer hörðum orðum um guðfræðiskóla Missouri-sýnódunnar í St. Louis og staðhæfir: „Missouri-sýnódan er hin lang-ófrjálslyndasta lút. kirkjudeild, sem enn hefir komið fram í mannkynssögunni. Sé í einhverju andæft á móti guðfræði þessa kirkjufélags, þá er eins og komið sé við sjálfan augastein norsku sýnódunnar," og norsku sýnódunni er skipað í sama flokk af hinum velæruverðuga höfundi. Báðum er kent um „kredduslátt". Undir eins og hinn lút. páfi Walther í St. Louis talar, heyrist bergmálið jafnskjótt í hverju holti og hæð, þar sem norskir sýnóduprestar búa, og eins ef þögn verður í kreddusmiðju Missouri-sýnódunnar, verður líka þögn í norsku sýnódunni." Og margar svo nefndar „smíðaðar kreddur" eru gerðar að umtalsefni. Í henni stendur þetta: „Um innblástur ritningarinnar kennir nú t. a. m. ekki einn einasti guðfræðingur lút. kirkjunnar á þessum tímum sama sem Missouri-sýnódan hefir „slegið föstu", og þetta eina atriði er nóg til að gera hina lút. guðfræðinga utan Missouri-sýnódunnar og þeirra sýnódna, sem henni hafa gengið á hönd, að trúvillingum" eftir mælikvarða Missouri-sýnódunnar. „Hið lakasta við norsku sýnóduna er nú ef til vill ekki það, að hún hefir tekið eftir Missourisýnódunni svo marga bogna og óheilsusamlega lærdóma og framfylgir þeim með þvílíkum ofsa og áfergju, heldur það, að hún ber það ávalt fram blákalt, að hún sé einmitt að gróðursetja hér í Ameríku óbreyttan lærdóm móðurkirkjunnar norsku og það endaþótt hún hafi fengið svo mörg mótmæli frá hinum merkustu guðfræðingum bæði meðal presta og háskólakennara í Noregi. .... Það er meira en óheppilegt, að Íslendingar skyldi leiðast inn í norsku sýnóduna, áður en þeir þektu trúarstefnu hennar að neinu og eins og áður en þeir kyntust lút. kirkjufélögum þessa lands. En til þess að sá hluti Íslendinga, sem er hugsandi og skynsamur, þurfi ekki framvegis í blindni að leiðast inn í kirkjufélag þetta, hefi eg ritað hugvekju þessa. Eg álít það beina skyldu mína, að sýna mönnum fram á, út í hvað þeir ganga, sem kasta sér í arma norsku sýnódunnar." Þetta er mikilsvert til að sýna, um hvaða farveg hugmyndir séra Jóns Bjarnasonar runnu 6 árum áður en kirkjufélagið var myndað 1885, og hvort kirkjufélagið í raun og veru hafi með hann sem forseta samþykt kenningar norsku sýnódunnar, sem séra Jón Bjarnason fyrirdæmdi. Þetta gefur í stuttu máli aðalefni sannanagagnanna, sem ná yfir 400 prentaðar blaðsíður.

**Framburður sérfræðinganna krufinn.**

**Það er sannað svo ekki verður um deilt, jafnvel** þó framburður sérfræðinganna sé tekinn gildur, að ekkert samræmi á sér stað um innblásturskenninguna meðal lút. kirknanna í Ameríku, sem **svipuð grundvallarlög hafa og játningar; sömu**leiðis, að samkvæmt grundvallarlögum og játningarritum þessa safnaðar og móðurkirkjunnar er ekki unt að segja, að nokkur sérstök innblásturs-kenning hafi verið samþykt af þeim. Og allir sérfræðingarnir, nema þeir sem eru frá Missouri-sýnódunni viðurkenna samvizkufrelsið, en eru að eins ósáttir um, hve langt má fara í að beita því við skýr-

ingu ritningarinnar. Allir sérfræðingarnir játa, að hvorugt af þessum grundvallarlaga ákvæðum bendi sérstaklega til eða fela í sér yfirlýsingu, sem haldi fram nokkurri sérstakri innblásturs-skýringu. Gripið er til ráðfyrirgerðs skilnings í því sambandi. Og er sanna skal fyrir hverju ráð hafi verið gert í því sambandi og byggja á því trúvillu-kæru, verður sá þröskuldur í vegi sakaraðiljum, að eigin sérfræðingar þeirra halda ekki fram sömu skýringu á innblæstrinum. Hafa verður hugfast, að ekki er nóg, að einhver viðurkend biblíu-innblásturs-kenning sé gerð að forsendu. Greinarmunur er á milli kenninganna um fullan eða nægilegan innblástur, bókstafs-innblástur, ósjálfráðan innblástur, andakraftsinnblástur og p l e n a r y-innblástur. Sömuleiðis, innblástur ritningarinnar „í heild sinni“ er ónóg til að ná því marki, er útheimtist til þess sannað sé, að þessi grundvallarlög hafi gert ráð fyrir p l e n a r y-innblæstri, en ekki bókstafs-innblæstri, ósjálfráðum innblæstri, andakraftsinnblæstri, útgeislunar-innblæstri, innblæstri *að nokkuru leyti* og persónuinnblæstri. Það er fróðlegt að brjóta framburð sérfræðinganna til mergjar. Séra Björn Jónsson, forseti kirkjufél., hafnar bæði *bókstafs*-innblæstri og *ósjálfráðum* innblæstri, og hittir naglann á höfuðið, þegar hann vitnar (eins og Robertson líka gerði), að heitin, sem eiga að skilgreina ólíkar innblásturs-skýringar og orðið innblástur sé viðhaft í „ólíkri merkingu af ýmsum kennurum“, og að það sé skilgreining innblásturs-kenningarinnar fremur en nafnið, sem henni er gefið, sem um er vert. Sömuleiðis kemur séra Friðrik Bergmann af hálfu sakborninga saman við sakaraðilja um, „að gert sé ráð fyrir innblæstri ritningarinnar,“ en bætir við: „En það er alt annað en að halda því fram, að innblásturinn feli í sér hugmyndina um óskeikulleik eða villuleysi“ og staðhæfir, að hver sá er hafni „innblæstri biblíunnar, sé ótrúhneigður maður“. Þessum úthrópaða erki-trúvilling kemur þannig saman við forseta kirkjufélagsins um *að ritningin sé innblásin*. Innblástur í sambandi við biblíuna er að nokkuru leyti óákveðið orðtæki. Það er einungis þegar því er haldið fram, að einhver sérstök tegund, stig, háttur eða aðferð hafi verið megin-atriði í upprunalegri trú safnaðarins, eins og hér er haldið fram um p l e n a r y-innblástur, að nauðsynlegt er að viðhafa nákvæmni í vali orðsins. Sérfræðingarnir staðfesta einungis þessa niðurstöðu; þegar framburður þeirra er vandlega íhugaður. Þeir bera það hvað eftir annað, að lút. söfnuðir, sem höfðu sömu grundvallarlög og játningar og þessi söfnuður, myndi álíta sakborninga seka um trúvillu gagnvart lút. trú, sakir yfirlýsingarinnar frá 5. júní. Samt sem áður, þegar sá sérfræðingur er spurður um hans sérstöku innblásturs-skýringu, er nauðsynlega hlýtur að vera mælistikan, sem hann notar til að skera úr um slíkt trúvillu-atriði, þá er engin samkvæmni í mælikvarðanum, — skilningi þess sérfræðings, sem þá er um að ræða. Þegar þess er krafist, að gerð sé grein fyrir, út frá hvaða sérstakri tegund innblásturs gengið sé og það verður ljóst, að þær brjóta bág hver við aðra, verða um leið ályktanir sérfræðinganna um það, hvort það, sem um er að ræða, sé trúvilla, engis verðar og sönnunin fer út um þúfur. Rannsakið þá sérstöku trú hvers þessara velæruverðugu sérfræðinga um innblásturinn, mælikvarðann, sem hann notar til að skera úr um trúvilluna. Takið líka eftir hinum ólíku lútersku kirkjudeildum og kirkjufélögum, er fyrir munn fulltrúa tala um þetta efni og allar eru kallaðar lúterskar. Tveir að eins, séra Kristinn Ólafsson og

séra Steingrímur Þorláksson, fyrir utan séra Björn Jónsson, eru frá þessu íslenzka kirkjufélagi. Prófessor Ness, frá norsku lút. Sameinuðu kirkjunni, er séra Kristni og séra Steingrími sammála að því leyti, að hann vill ekki segja, að hann trúi p l e n a r y-innblæstri. Séra Kristinn og séra Steingrímur láta sér nægja að staðhæfa, að biblían „í heild sinni" sé innblásin, — *almennur talsháttur* einungis, þegar tekið er tillit til framburðar þeirra, að engin sérstök innblásturs-tegund sé tekin fram í grundvallarlögum safnaðarins, né kirkjufélagsins, né móðurkirkjunnar á Íslandi. Prófessor Ness vill ekki fara nær því að láta í ljós skoðanir sínar á innblæstrinum en það, að eigið kirkjufélag hans (hin Sameinaða norska lút. kirkja) „*hallist að* p l e n a r y-innblásturs-skýringunni". Hann áræðir ekki að staðhæfa, hvort það beint aðhyllist þá skýringu, eða standi þar sem það stóð fyrir 20 árum gagnvart p l e n a r y-innblæstri. Fossmark prestur lætur sömu kirkjudeild, þá norsku lút., hafa bundist *bókstafs*-innblæstri, og átti með því við, samkvæmt framburði sínum, að guð hafi valið sjálf orðin, sem viðhöfð eru, gegn um alla biblíuna; — skýring, sem í raun og veru er eins eintrjáningsleg og ósjálfráður innblástur, en samkvæmt henni reit guðdómurinn biblíuna með hendi mannsins spjaldanna á milli. Walper, prestur frá þýzk lút. kirkjudeildinni og Missouri-sýnódunni, staðhæfir líka eins og Fossmark, er fékk skoðanir sínar frá þýzka prestaskólanum í Missouri, að kirkjudeild hans hafi að grundvelli fastheldni við bókstafs-innblástur. Bæði þessi vitni viðurkenna, að grundvallarlögin og trúarjátningarnar hafi ekkert orð um þetta atriði, en fylla skarðið með 2. Tím. 3,16, sem viðurkent er að eigi að eins við gamla testamentið. Og hér er rétt að taka fram, að mismunurinn á trú þeirra prófessor Ness og séra Kristins, er báðir hafna bókstafs og ósjálfráðum innblæstri og eru prestar í sömu kirkjudeild og Fossmark, sem staðhæfir, að bókstafs-innblástur sé kenning þeirrar sönnu kirkjudeildar, er ljóst dæmi, um leið og það sannar staðhæfingu sakborninga, að Missouri-sýnódan og General Council hafi þrengt hinar upprunalegu frjálslyndu trúarskoðanir norsku og íslenzku kirkjudeildanna lútersku, þar sem þau hafa komist í samband við þær, með því að búa undir prestskap hin ungu prestaefni, íslenzk og norsk. Með þessu hafa sérfræðingarnir sjálfir einmitt með stöðu sinni til innblásturs-kenningarinnar, óvart sannað að sögulega eru líkur til, að kirkjufél. ísl. lút. hafi smám saman orðið ófrjálslyndara fyrir framangreind áhrif, en það var, þegar er það var stofnað. Ef hægt er að segja, að nokkuð sé sannað, verður að álíta að það sé þetta. Glenn, prestur Sameinuðu lút. kirkjunnar, útskúfar ósjálfráðum innblæstri, en lætur kirkjudeild sína vera samþykka bæði p l e n a r y-innblæstri og bókstafs-innblæstri. Eigin framburður hans er annars gott dæmi þess, að jafnvel í hópi guðfræðinga er sannleikurinn sá, eins og vitni sakaraðilja sjálfra, séra Björn, staðhæfði, að þessi heiti eru viðhöfð í „ólíkum merkingum af ýmsum kennurum", það er að segja prestum. Af öllu þessu verður það óhjákvæmileg niðurstaða, að þegar framburðurinn er nákvæmlega krufinn, er hann allur í samræmi við þá ályktan, sem undanfærislaust hlýtur að vera gerð, að engin sérstök eða nákvæm innblásturs-skýring sé fram sett í grundvallarlögum, hvorki safnaðarins né kirkjufélagsins, né játningum kirkjunnar á Íslandi, sem allar samþykkja og hafa ávalt gert ráð fyrir full-

nægjandi (adequate) innblæstri allrar biblíunnar.*) Þegar sjö sérfræðingar eru kallaðir fram til að sanna, að p l e n a r y-innblástur biblíunnar hafi verið meginkenning lúterstrúar og þessa safnaðar óbeinlínis, sýna eins ljóst og þeir hafa gert skort á samræmi meðal lút. kirkjufélaga, tilheyrandi jafnvel sömu kirkjudeild, þá er alls eigi unt að álykta, að kirkjufélgið íslenzka lút. trúi nokkurri sérstakri ráðfyrirgerðri kenningu um p l e n a r y-innblástur; Og þar sem þetta eru sannindi í nálægri framtíð, er eigi unt að álykta, að það hafi verið á annan veg fyrir tuttugu árum. P l e n a r y-innblástur hefir verið efni í guðfræðilegar ágreinings-umræður síðan á dögum Lúters. 5. bindi Encyclopaedia Britannica (útg. 1911) bls. 348 b. undir C a r l s t a d t. Vér tilfærum þetta: „Árið 1520 hélt hann (Carlstadt) samt sem áður fram kenningunni um *bókstafs-innblástur og gerði árás á Lúter fyrir að hafna Jakobsbréfi.*" Sbr. Nelsons Encyclopaedia 6. bindi, bls. 451. Og þegar vafaspurningin um fráhvarf nú á dögum frá þeirri trú kirkjufélagsins ísl. lút., sem það nú staðhæfir, er skoðuð frá sjónarmiði sérfræðingsins og í sambandi við hans sérstöku innblásturs-kenningu, verður ályktan hans um, að sakborningar hafi horfið frá trúnni, engis virði sem sönnun þeirrar staðhæfingar. Að maður, sem trúir sjálfráðum innblæstri, dæmir söfnuð þenna trúvilling frá lúterski trú, merkir með öðrum orðum eigi annað, að hann myndi dæma alla íslenzku kirkjuna seka um trúvillu, samkvæmt skilningi sínum á innblásturskenningunni. Einn sérfræðingurinn hikaði sér í reyndinni ekki við að staðhæfa, að þetta væri svo, og gerir allar mótmælendakirkjurnar, nema ef til vill kirkjudeild presbýtéra, í raun og veru að únítörum. Hver sérfræðingur fellir dóm samkvæmt sinni sérstöku hugmynd um innblásturinn, unz sá, sem ólöguleg-astar hugmyndir hefir um sérstaka tegund innblásturs í biblíunni, eftir því sem grein hefir verið gerð fyrir í framburðinum, veigrar sér ekki við að staðhæfa, að sakborningar sé trúvillingar, en játar þó í sömu andránni, að þeir sé það ekki frekar en biskup lút. kirkjunnar á Íslandi, höfuð íslenzku þjóðkirkjunnar.

Þar sem dómurum er leyfilegt að leita heimilda í því efni sem um er að ræða, þykir eiga vel við að benda á nokkurar ályktanir af málsgögnunum, sem gerðar eru frá sögulegu sjónarmiði. Það er vel kunnugt, að þjóðkirkjan á Íslandi eins og ýmsum Norðurálfulöndum er lúterskrar trúar. Það er sögulega satt, að játningarrit ríkiskirkju eru vanalega tekin í breiðri og oft af ásettu ráði í óákveðinni merkingu, nema að því er meginatriði trúarinnar snertir. Þetta er til þess gert, að öllum, er játa meginatriði trúarinnar, en hafa ólíkar skoðanir og standa á ólíkum rétt-trúnaðar stigum, verði samt sem áður unt að vera í einni og sömu ríkiskirkju. Þetta er vel tekið fram í Encyclopaedia Britannica (útg. 1911) 17. bindi bls. 141—2, undir orðinu L u t h e r a n s, þar sem rætt er um ríkiskirkjur þeirrar trúar í Norðurálfu. Vér tilfærum: „Mismunurinn á helgisiðum og skipulagi, meginreglurnar, sem liggja til grundvallar öllum þeim ýmsu kirkjulegu félagseindum, þ. e. að sameina tvær ólíkar játningar undir sameiginlegri stjórn, og möguleikinn, sem af því flýtur, að breytt sé frá einni játningu til annarar, hefir alt saman stutt að því að losa ríkiskirkjurnar við *alla eintrjáningslega skýringu á guðfræðisetningum þeirra.* Frjálslynd og íhaldssöm guðfræði (skyn-

---

* Þ. e. í sáluhjálparefnum.

semi-trú og rétt-trúnaður) eiga heima í söfnuðunum hlið við hlið, og þar sem hinir síðarnefndu halda sér dauðahaldi við guðfræði 16. aldar, dirfast hinir fyr nefndu að vekja efasemdir um sannindi svo almennrar og einfaldrar játningar sem postullegu játningarinnar." Þetta skýrir vel sögulega, að það var ákveðinn tilgangur með að forðast nokkur ákvæði um nokkura sérstaka biblíu-innblásturs-kenningu í rituðum aðal-játningum lút. kirkjunnar á Íslandi. Sérhver ágizkan, eins og sú, sem sakaraðiljar halda fram, um að nefnd kirkja hafi gert ráð fyrir plenary-innblæstri sem megin-atriði, er að líkindum gagnstæð hinu sanna, frá sögulegu sjónarmiði, einkum þegar þess er minst, að þetta atriði um plenary-innblástur var ágreiningsmál á Lúters tímum. Vitnið Walper hafði rétt fyrir sér í því, að sú kenning er engin nýjung. Vér tilfærum og erum samþykkir og álítum eiga hér við í sambandi við grundvallarlög og játningar Þingvalla-safnaðar og ísl. lút. kirkjufélagsins ummæli dómsins í málinu Bear v. Heasly, 98 Mich. 279, bls. 307, 57 N. W. 270, bls. 280 (24 L. R. A. 615): „Játningin var samþykt, ekki einungis vegna þess, sem fram var tekið, heldur líka vegna hins, sem slept var" Dómurinn, sem véfengdur var, þegar málinu var áfrýjað, er algerleg aóstuddur af nokkurum leyfilegum sannanagögnum. Dóminn, sem áfrýjað var, er skipað að ónýta og vísa málinu frá (í undirrétti).

## **Fisk dómari** (samþykkur):

 Eg er að öllu leyti samþykkur framanrituðum skoðunum Goss dómara, en álít eiga vel við, að taka hér stuttlega fram eigin skoðanir mínar. Það sem hér er um að ræða er aðallega útskýring á lögum Þingvallasafnaðar, sem eru samningurinn milli málsaðilja þessara, er segir fyrir um, ákveður og takmarkar réttindi þeirra hvors um sig. Var það tilgangur samningsaðilja þessara, að samþykkja kenninguna um plenary-innblástur biblíunnar og gerðu þeir það með vilja og vitund? Mér virðist augljóst af réttarskýrslu þessari, að svara verði þeirri spurningu með nei, og að dómur hins lærða undirréttardómara í gagnstæða átt finni engan stuðning í málsgögnunum.

Enginn heldur því fram, að grundvallarlög þessi eða samningur áskilji með berum orðum kenninguna um plenary-innblástur, því í skjali þessu er ekki minsta átylla til slíkrar staðhæfingar; en því er haldið fram, eftir því sem mér skilst, að „gert hafi verið ráð fyrir" kenningu þessari, eða með öðrum orðum, að hún hafi verið af þeim leidd eða í þeim fólgin. Eftir skilningi mínum á slíku skjali, er samt sem áður engin heimild til að lesa þar á milli lína þvílíkt hulið eða afleitt skilorð, eða ráð fyrir gerða trúarkenningu, því að það er, eða hlýtur, að mínu áliti, að vera viðurkent, að til þessa tíma hafði ísl. kirkjan lút. eigi samþykt neina ákveðna kenningu eða játningu um þetta efni. Á hinn bóginn er það greinilega sannað, að hin svo nefnda móðurkirkja á Íslandi játaði og aðhyltist enga slíka kenningu í játningarritum sínum, eða á nokkurn annan hátt. Eg er því til þess knúður að gera þá ályktan, að ef aðiljar samnings þessa hefði haft í hyggju svo gagngera stefnubreytingu frá kenningu móðurkirkjunnar, þá hefði þeir vafalaust bundið það svo skýlausum orðum, að eigi væri unt að misskilja. Þetta er ekki nema sennilegt. Þeir álitu samt sem áður eigi nauðsynlegt að setja inn í safnaðarlögin nokkur skýr ákvæði um svo verulegt og mikilvægt

efni, jafnvel þó miklu smávægilegra atriði væri vandlega tekið fram. Sannleikurinn er sá, eftir því sem eg les og skil málsgögnin, að engin sérstök trúarkenning um innblástur biblíunnar kom þeim nokkuru sinni til hugar og var því síður tekin til íhugunar. Þeir að eins töldu sjálfsagt, að allir samþykti kenninguna um innblástur biblíunnar. Það var „gert ráð fyrir" með öðrum orðum, að biblían væri innblásin, en með hvaða sérstökum hætti hún var þannig innblásin, létu þeir sig þá ekki varða. Ef þeir hefði látið sig þetta varða, væri þá ekki sennilegt að ætla, að þeir hefði bundið þetta atriði skýrum ákvæðum? Það er augljóst, að nokkurum árum síðar, þegar það varð ágreiningsefni, hver trú safnaðarins væri viðvíkjandi kenningunni um bókstafs-innblástur, eða p l e n a r y-innblástur biblíunnar, varð mjög ákveðinn skoðanamunur, eigi að eins í þessum söfnuði, heldur einnig í kirkjufélaginu, og sundraði sá ágreiningur skyndilega báðum félögunum. Merkti þessi skoðanamunur endilega, að meðlimir annarshvors flokksins hefði horfið frá skoðunum sínum eins og þær áður voru? Bersýnilega ekki; og ef það er rétt, svarar þetta á mjög sannfæranda hátt staðhæfingunni um, að meðlimir Þingvalla-safnaðar hafi með samþykt grundvallarlaga sinna vísvitandi viðtekið innblásturskenningu, sem meirihlutinn svo rækilega og skyndilega hafnaði, eftir að þeir fyrst fengu vitneskju um hana. Þó einstaklingur geti snögglega breytt skoðunum sínum, jafnvel í svo mikilvægu efni og trúarbrögðum, brýtur það bág við alla reynslu, að meiri hluti í stórum söfnuði geri það. Ef meiri hlutinn breytti ekki skoðunum sínum, hafði hann þessar skoðanir, þegar söfnuðurinn var myndaður, og það er þess vegna torvelt að trúa því, að hann hafi vísvitandi undirskrifað og samþykt innblásturs-skýringu gagnstæða skoðunum sínum. Það er enn fremur næsta óeðlilegt og ólíklegt, að stofnendur safnaðar þessa, er svo nýlega höfðu fluzt af ættjörð sinni, Íslandi, og gerðu það ekki sakir nokkurs ágreinings um trúarskoðanir, færi vísvitandi að hverfa frá skoðunum, er gildandi voru og kendar í móðurkirkjunni. Við grandgæfilega íhugun málsgagnanna hefir sú skoðan þrýst sér inn hjá mér, að engin sannanagögn liggi fyrir, er sýni, að þegar Þingvallasöfnuður var myndaður, hafi nokkur ákveðin og alment viðurkend kenning eða trú átt sér stað af hálfu ísl. lút. kirkjunnar, hvorki á Íslandi né í Ameríku viðvíkjandi hinum mismunandi skýringum á innblæstri biblíunnar. Það var einungis talið sjálfsagt, eða ráð fyrir því gert með öðrum orðum, að biblían sé innblásið guðs orð. Ekkert annað en þetta var talið sjálfsagt eða gert ráð fyrir. Hvernig getur þá nokkur haldið því skynsamlega fram, að þessir aðiljar nokkuru sinni hafi haft í huga og samþykt í samningi sínum kenninguna um p l e n a r y-innblástur?

Mér er eigi unt að finna nokkurt lögmætt sönnunargagn í réttarskýrslunni, sem heimilar þann dóm, að sakborningar hafi horfið frá trú safnaðarins. Að sönnu báru nokkur vitni sakaraðilja, eins og prófessor Ness og prestarnir Fossmark og Walper, fram þær rakalausu ályktanir, að samþykt yfirlýsingarinnar frá 5. júní hafi verið fráhvarf frá þeirri trú safnaðarins, sem framsett er í 2. grein safnaðarlaganna. Slíkur framburður á ekki skilið, að honum sé nokkur gaumur gefinn því hann er með öllu ólögmætur. Það er ætlunarverk réttarins, en ekki vitna þessara að draga ályktanir af staðreyndunum. Vitni þessi hafa bersýnilega seilst inn á verksvið réttarins. Þeir hefði jöfnum rétti

getað látið þá skoðan í ljós, að sakaraðiljum beri að vinna mál þetta. Það hefði átt að binda þá við að bera um staðreyndir, og láta réttinum eftir að draga af þeim eigin ályktanir sínar.

Þar sem eg skoða réttarskýrsluna í þessu ljósi, er eg til þess knúður að vera ósamþykkur dómi og ályktunum hins lærða undirréttardómara.

Því dæmist rétt að vera:

*1. Að úrsögn safnaðarins úr kirkjufélaginu hafi verið fullgild samkvæmt stjórnarskipan lúterskrar kirkju um vald safnaðanna, um leið og yfirlýsingin var samþykt og tilkynning um hana var gefin forseta, og að gjörðir kirkjuþingsins á eftir fóru fram, án þess það hefði valdsumboð yfir söfnuði sakborninga, og að dómur þess að að öðrum málsparti óspurðum (ex parte) var ógildur, að því er söfnuð sakborninga snertir, er það ekkert valdsumboð hafði yfir.*

*2. Yfirlýsingin og gjörðabókin voru óleyfileg sannanagögn í nokkuru skyni, þar sem þeim hafði verið andmælt.*

*3. Að engin fullgild sannanagögn sé, til að styðja þá staðhæfingu sakaraðilja, að gert hafi verið ráð fyrir kenningunni um p l e n a r y-innblástur biblíunnar og hún játuð aðaltrúarsetning íslenzkrar lúterskrar kirkju um það leyti, sem söfnuðurinn var myndaður, eða gert hafi verið ráð fyrir henni í gundvallarlögum safnaðar þessa og játningarritum hans.*

*4. Því er ekki haldið fram, að höfundar frumhandrita biblíunnar hafi ekki verið nægilega innblásnir, eða að ritningin sé ekki nægilega (adequately) innblásin. En kenningin um p l e n a r y-innblástur biblíunnar gerir ráð fyrir algerðu villuleysi og óskeikulleik í öllum efnum (að þýðingum fráskildum) og innibindur staðreyndir og kenningu, jafnvel þó brotið sé bág við mannkynssögu og náttúruvísindi. Það eru margar kenningar um innblástur ritningarinnar, eins og: innblástur að nokkuru leyti, persónu-innblástur, andakraftsinnblástur, fullnægjandi innblástur, fullkominn (p l e n a r y) innblástur, bókstafs-innblástur og ósjálfráður innblástur. Það dæmist, að sannanagögnin heimila ekki þá ályktan, að þessi söfnuður hafi játað p l e n a r y-innblástur eins og eitt af aðal-trúaratriðum sínum.*

*5. Að ályktanir og dómur, sem áfrýjað hefir verið, sé ógilt og skipað svo fyrir, að dómur sé bókaður (í undirrétti), að málinu sé vísað frá.*

---

## LEIÐRÉTTINGAR.

Á bls. 15 (neðanmáls): Modern posetiv les: Moderne posetive.
- — 29, 4. l. a. o.: Abaeland, les: Abaelard.
- — 51, 12. l. a. o.: er, les: eru.
- — 55, 11. l. a. o.: fimmbókarritið, les: fimmbókaritið.
- — 58, 8. l. a. n.: göfgi, les: gjöf.
- — 69, 4. l. a. o.: felsandi, les: frelsandi.
- — 78. Þar sem hér er í 4. l. a. o. talað um „*sálminn* „Ó, guð Jehóva, Júpiter" og þess getið neðanmáls, að sá sálmur „sé þó ekki tekinn upp í Aldamótabókina, en sé prentaður í Ljóðmælum hans" (þ. e. M. St.), — þá er þetta ekki alls kostar rétt. M. St. hefir engan sálm ort er svo byrjar, þótt víða sé hermt í bókum. En orðin, sem þetta mishermi hefir spunnist út af, eru ein hending í fyrsta erindi „Daglegrar bænar" eftir Pope, sem M. St. hefir þýtt. En erindið hljóðar svo: „Alfaðir hvern um aldir allar | áttir himins og jarðar her, | viltir, helgir, vísir á kalla | *vor guð! Jehóva, Júpíter,* | alls voldug orsök æ lofuð, | órannsakanleg, drottinn guð!" Þetta kvæði eftir Pope er fyrst prentað í „*Vinagleði*", bls. 322—24 en seinna fremst í Ljóðmælum M. St.
- — 96, 1. l. a. o.: hefi, les: hefir.
- — 96, 2. l. a. o.: mannsins, les: mannkynsins.
- — 114, 18. l. a. o.: bæði í, les: bæði.
- — 121, 14. l. a. o.: sjálfan mig, les: sjálfan sig.